So kallde Saul þad foolk / sem fanst hia hønum / hier um̃ sex hundrud men̄.
16 Og Saul og Jonatan han̄s son / og þad foolk / sem fanst hia þm̃ / voru i Gibea BenJamin / en̄ Philisteарner høfdu sett sijnar herbuder i Michmas.
17 Og þar utdroo eirn fordiarfare af Philisteaн̄a herbudum med þria flocka / sa eine flockur snere sier til þess vegar Ophra / til þess lands Sual.
18 Og sa eine flock: snere sier a þan̄ veg BethHoron / og sa eine flockur snere sier a þan̄ skilnadar-veg / sem ligg ur til Zeboim dals i eydemørken̄e.
19 Og þar var eingen̄ smidur funden̄ i øllu Israels lande / þvi Philistearner þeinktu / ad Ebresker skylldu * ecke giøra sverd eda spioot. * Dom. 5/ 8.
20 Þar fyrer mꜳtte allur Israel fara ofan̄ til Philisteaн̄a / ad hver kin̄e skierpa sitt ploog-jarn / og sin̄ pꜳl-staf / og sijna øxe / og sijna (var-)reku.
21 Og þ' var þiøl vegna varrekan̄a / og vegna pꜳl-stafan̄a / og vegna trieforkan̄a / og vegna axan̄a / og til ad hvessa eirn brodd.
22 Og þad skiede a strijds deigenum / ad þar vard ecke funded sverd eda spioot i nockurs af foolksens hende / sem var med Saul og med Jonatan / en̄ þar fanst (alleinasta) fyrer Saul og Jonatan han̄s son.
23 Og Philisteaн̄a her droo ut fram̃ fyrer Michmas.

## XIV. Capitule.

### Jonatans Kallmen̄ska.

Og þad bar til a einum deige / ad Jonatas Sauls son / sagde til sveinsens / sem bar han̄s vopn / kom / og vid vilium ganga yfer til Philisteaн̄a hers / sem er þarna yfer fra / og han̄ gaf sijnum fødur þad ecke til vitundar.
2 En̄ Saul var hia þvi ytsta af Gibea / under granata-trienu / sem var i Migron / og þad foolk / sem var hia hønum / var hier um̃ sex hundrud man̄s.
3 Og Ahia Achitops son / Icabods brooder / * Phinehes son / Eli sonar / var Drottens prestur i Silo / sem bar lijf-kyrtelen̄ / Og foolked visse ecke / ad Jonatan var burt geingen̄. * c. 4/21.
4 Og þar i millum / sem þeir skylldu ganga yferum / hvar Jonatan kieptest ad komast yferum / giegnt Philisteaн̄a herbudum / var ein̄ tinda klettur a þessa sijdu (gangsens /) og eirn tinda klettur a hina sijdu (gangsens /) og þess eina nafn var Bozes / og þess an̄ars nafn Sene.
5 Sa eine tindur stood nordan̄ til giegnt Michmas / og sa an̄ar sun̄an̄ til / giegnt Geba.
6 Og Jonatan sagde til sveinsens / sem bar han̄s vopn: kom / og vid vilium ganga yfer til þessara / þeirra her buda / sem hafa forhud / kan̄ skie / Drotten̄ utrietti nockud fyrer ockur / Þvi þad er * Drottne ecke þungt / ad hiꜳlpa fyrer marga / eda fꜳa.
* Dom. 7/ 7. 2. Kron. 14/ 11.
7 Han̄s vopn-bere svarade hønum: giør allt þad / sem er i þijnu hiarta / far þangad / sia / eg er med þier epter þijnu hiarta.
8 Og Jonatan sagde: sia / vid gaungum yfer til man̄an̄a / og lꜳtum ockur sia fyrer þeim.
9 Ef þeir * seigia so til ockar: standed / þangad til vid komum til yckar / so vilium vid standa a ockar stad / og ecke ganga upp til þeirra. * 1. Mos. 24/ 14.
10 En̄ ef þeir seigia so: komed upp til vor / so vilium vid stijga upp / þvi Drotten̄ hefur giefed þa i ockar hønd / og þetta (skal vera) ockur teikned.
11 Þegar þeir voru bꜳder openberader fyrer Philisteaн̄a herbudum / þa søgdu Philistearner: sia / Ebresker eru ut geingner af holun̄ / sem þeir føldu sig i.
12 Og þeir men̄ i herbudunum svørudu Jonatan / og han̄s vopn-bera / og søgdu: komed upp til vor / so vilium vier kien̄a ydur þad / þa sagde Jonatan til sijns vopn-bera: stijg upp epter mier / þvi Drotten̄ hefur giefed þa i

Jsraels hønd.

13 Og Jonatan klifrade upp med sijn-um høndum og med sijnum footum/og hans vopn-bere epter hønum / Pa * fiellu þeir fyrer Jonatan z hns vopn-bera/sem sloo i hel epter hønum.

* 3. Mos. 26. 7/ 8.

14 Og þad fyrsta slag/ sem Jonatan og hans vopn-bere giørdu/var hier um tuttugu men/ (þvi-)nær a eins hálfs akurs ( rume/) sem eitt par (yxna ku-ne) plægia.

15 Og þar kom ein hrædsla i herbud-ernar a mørkene/og a medal alls foolk-sens/ So sa standande flockur/og for-diarfaren urdu og so ottaslegner/ Jaa/ landed skalf / þvi þad var ein skielfing af Gude.

16 Pegar Sauls vakdarar i Gibea Ben Jamin saau / og sia/ flockuren dreifd-est/og foor burt / ad þeir hrundu hvør ier ødrum.

17 Pa sagde Saul til foolksens/sem var hia hønum: teljed og sjaed til/hv-ør þar er geingen fra oss/Og þeir tøl du / og sia / þa var Jonatan og hans vopn-bere ecke (þar.)

18 Pa sagde Saul til Ahia: fær Guds ørk hijngad/þvi * Guds ørk var þar a þeim deige hia Jsraels børnum.

* C. 4/ 3.

19 Og þad skiede / þegar Saul en nu talade vid presten/ ad þad bulldur/sem var i Philisteana herbudum / voor meir/ og vard stoort/þa sagde Saul til prestsens: tak þijna hønd burt.

20 Og Saul var reistur / og allt þad foolk/sem var hia hønum/ og þeir ko-mu til strijdsens / og sia / * þess eina sverd var i moote þess annars / og þar var eitt harla stoort bulldur.

* Dom. 7/ 22. 2. Kron. 20/ 22/ 23.

21 Og þeir Ebresku / sem høfdu vered med Philisteunum fyrrum / sem voru uppfarner med þeim i herbudernar um kring / þeir gaafu og so sig til Jsrael/ sem voru med Saul og Jonatan.

22 Og aller Jsraels men / sem høfdu faled sig a Ephraims fialle/þegar þe-ir heyrdu/ad Philistearner flijdu/hiell-du þeir og fastlega epter þm i strijdenu.

23 So frelsade Drottenn Jsrael a þe-im deige/Og strijded varade allt til Be-th Aven.

24 Og Jsraels men urdu þreitter a þeim sama deige/þvi Saul særde foolk ed/ og sagde: bølvadur vere hvør mad-ur/ sem etur nockud inn til kvøllds / ad eg kunne hefna mijn a mijnum fiandmønn um/Þar fyrer smackade þad giørvallt foolk ecker t ætelegt.

25 Og þad giørvallt land kom i skoog enn/og þar var hunang a mørkenne.

26 Og þegar foolked kom inn i skoog-ienn/sia/ þa flaut hunanged/ og eing-enn liet sijna hønd koma til sijns muns/ þviad foolked ottadest fyrer þeim eyd.

27 Enn Jonatan hafde ecke heyrt þad/ þegar hans fader liet særa foolked/ og riettе þad ytsta af stafnum ut / sem hann hafde i sinne hende / og dyfde hon-um i eina hunangs koku/og snere sine hende til sijns muns/ z hns augu saau.

28 Pa svarade eirn madur af foolke-nu / og sagde : þinn fader særde vissu-lega foolked/ og sagde: bølvadur vere hvør madur / sem etur nockud i dag / þar fyrer vanmegnast foolked.

29 Pa sagde Jonatan: minn fader hef ur hrellt landed/ sjaed nu/ ad mijn au-gu eru orden klaar / af þvi eg smackade lijted af þessu hunange.

30 Jaa Gud giæfe þad/ad foolked hef-de eted i dag af þeirra fiandmanna her-fange/sem þeir fundu / þvi nu kinne slaged ecke verda stærra i moote Phili-steunum.

31 Og þeir sloou Philisteana a þeim deige fra Michmas allt til Ajalon/Og foolked vard miøg vanmegna.

32 Og foolked rudde herfangenu um / og þeir tooku saude og yxne/og kaalfa/ og slaatrudu a Jørdunne/ og foolked aat * med bloode. * 3. Mos. 3/ 17.

33 Pa kunngiørdu þeir Saul þad / og

 søgdu

søgdu: sia/ foolked syndgar fyrer Drottne/ ad þeir eta med bloode / Og hañ sagde: þier hafed illa giørt / vellted nu einum stoorum steine til mijn.

34 Og Saul sagde (eñ framar:) dreifed ydur a medal foolksens/ og seiged þeim: færed hvør siñ uxa / og hvør sitt lamb til mijn/ og slatred þeim hier/ og eted/ og syndged ecke i moote Drottne / ad eta med bloode/ Þa færde allt foolked hvør siñ uxa med siñe hende þar til um nootena/ og þeir slatrudu (þm) þar.

35 Þa bigde Saul Drottne eitt altare/ Þad var þad (fyrsta) altare/ hañ byriade ad biggia Drottne.

36 Og Saul sagde: lætum oss fara ofañ epter Philisteunum i noott/ og ræna þa allt þar til þad verdur lioos dag ur/ ad vier lætum ecke eirn mañ af þeim verda epter / og þeir søgdu: giør allt þad/ þier gott synest/ Eñ presturen sagde: lætum oss hallda oss hijngad til Guds.

37 Og Saul spurde Gud: skal eg fara ofañ epter Philisteunum? villtu giefa þa i Israels hønd? eñ hañ svarade hønum ecke a þeim deige.

38 Þa sagde Saul: ganged hijngad aller flockarner af foolkenu/ og merked og siaed/ a hvøriñ þesse synd er i dag.

39 Þvi (so sañarlega sem) Drotteñ lifer/ sa þar frelsar Israel / þar sem hun (jafnvel) være a Jonatan mijnum syne/ þa skal hañ vissulega deya / Og eingeñ svarade hønũ af øllu foolkenu.

40 Og hañ sagde til alls Israel: þier skulud vera a eina sijdu / eñ eg og Jonatan miñ son / vilium vera a eina sijdu / Og foolked sagde til Saul: giør hvad þier gott synest.

41 Og Saul sagde til Drottens Israels Guds: skicka hid rietta/ Og þar vard * hitt a Jonatan og Saul/ eñ foolked gieck (frij) ut. * Jos. 7/ 16.

42 Þa sagde Saul: hluted i millum mijn og i millum Jonatans mijns sonar/ þa (vard þar) hitt a Jonatan.

43 Og Saul sagde til Jonatan: seig mier/ hvad hefur þu giørt? og Jonatan sagde hønum þad / og sagde: eg smackade vissulega med þvi ylsta af þeim staf/ sem er i miñe hende/ eitt lijted hunang/ sia eg/ skal eg deya?

44 Þa sagde Saul: * Gud giøre vid mig so og eñ so / þu matt vissulega deya/ Jonatan. * 1. Kong. 19/ 2.

45 Eñ foolked sagde til Saul: skyllde Jonatan deya / sem hefur giørt þetta * stoora hiaalpræde i Israel? þad vere langt fra/ so (sañarlega sem) Drotteñ lifer/ skal þar ecke falla (eitt) af hañs høfud-hære a Jørdena/ þvi hñ hefur giørt þad a þessũ deige fyrer Gud/ So frijade foolked Jonatan / ad hañ ecke doo. * c. 11/ 13.

46 Þa foor Saul upp fra Philisteunum/ og Philistearner fooru til þeirra stadar.

47 Og Saul iñtook rijked yfer Israel/ og strijdde i moot øllum sijnum fiandmøñum um kring/ i moote Moabitunum/ og i moote Ammons børnum/ og i moote Edomitunum/ og i moote konungunum af Zoba/ og i moote Philisteunum/ og hvort sem hañ snere sier burt/ tapade hañ strapp.

48 Og hañ safnade einum her / og sloo Amalekitana/ og frelsade Israel af þeirra hende sem þa rantu.

49 Og Sauls * syner voru Jonatan og Jsui / og Malchisua / og hañs tveggia dætra nøpn voru/ þeirrar frumgietnu nafn Merob / og þeirrar yngre nafn Michol. * 1. Kron. 9/ 33.

50 Og Sauls hustruar nafn var Ahinoam/ Ahimaas dootter/ og * hañs strijds hofudsmañs nafn var Abner / Ners son/ Sauls fødur broodurs. * c. 17/ 55. C. 26/ 5.

51 Og Kis var Sauls fader / og Ner Abners fader / var Abiels son.

52 Og strijded var stoort i moote Philisteunum / alla Sauls daga/ og (hvar) Saul sa nockurn sterkañ mañ / eda nockurn strijdsmañ/ þa took hañ hañ til sijn.

## XV. Capitule.

### Sauls Ohlijdne i giegn Gude.

Og Samuel sagde til Saul: * Drottenñ sende mig/ til ad smyr ia þig til konungs yfer hañs foolk/ yfer Jsrael/ so heyr nu Drottenñs orda raust. * c. 10/ 1.

2 So sagde sa Drottenñ Zebaoth: eg hefe yfervegad þad/ sem * Amalek giørde vid Jsrael/ hvørnenñ hañ sette sig i moote hønum a vegenum/ þegar hañ foor upp af Ægyptalande. * 2. Mos. 17/ 8. 4. Mos. 24/ 20. 5. Mos. 25/ 17.

3 Far nu/ og þu skallt sla * Amalek/ og þier skulud fordiarfa allt þad hañ hefur/ og þu skallt ecke hlijfa hønum/ helldur sla i hel/ bæde mañ og kvinnu/ bæde børn/ og siugande (børn/) bæde uxa og lømb/ bæde ulfvallda og asna. * 1. Mos. 17/ 14.

4 Og Saul safnade foolkenu/ og talde þa i Telaim/ tvø hundrud þusunder foot-gaunguliids/ z tiju þusund meñ af Juda.

5 Þegar Saul kom til Amaleks stadar/ giørde hañ eitt launsætur hia lækenum.

6 Og Saul sagde til Kenitans: gack burt/ víkiu/ far nidur fra Amalek/ ad eg skule ecke leggia þig i eyde med hønum/ þvi þu/ þu giørder myskunseme vid øll Jsraels børn/ þegar þau fooru upp af Ægyptalande/ so foor Kenitenñ fra Amalek.

7 Þa sloo Saul Amalekitana fra Hevila/ þar til mañ kiemur til Zur/ sem liggur yfer fra Ægyptalande.

8 Og hañ fangade Agag/ þeirra Amalekita konung/ lifande/ og eidelagde allt foolked/ med bitru sverde.

9 Eñ Saul og foolked þirmde Agag/ og hvørtu gott var af saudunum/ og uxunum/ og þvi feita/ og af lømbunum/ og af øllu þvi sem gott var/ og þeir villdu ecke fordiarfa þad/ eñ alla þa hlute/ sem voru forachtanleger og odugleger/ þa fordiørfudu þeir.

10 Þa skiede Drottenñs ord til Samuel/ segiande:

11 Mig angrar/ ad eg giørde Saul til konungs/ þvi hañ hefur snued sier til baka fra mier/ og ecke fullkomnad mijn ord/ og Samuel vard reidur/ og hroopade (þo) til Drottenñs/ þa giørvalla noott.

12 Sijdañ stood Samuel árla upp/ ad mæta Saul um morguneñ/ og þad vard Samuel til vitundar giefed/ ad mañ sagde: Saul er komeñ til Carmel/ og sia/ hañ hefur uppreist sier eitt teikn/ og er reistur um kring/ og fareñ yfer/ og komeñ ofañ til Gilgal.

13 Og Samuel kom til Saul/ og Saul sagde til hañs: blessadur vertu fyrer Drottne/ eg hefe fullkomnad Drottenñs ord.

14 Eñ Samuel svarade: hvad er þetta fyrer eitt jarm af saudunum i mijnum eyrum/ og bauled af nautunum sem eg heyre?

15 Þa sagde Saul: þeir hafa fært þau fra þeim Amalekitum/ þvi foolked þirmde þvi besta af saudunum og uxunum/ fyrer Drottenñs þijns Guds offurs saker/ og þad yfer var/ høfum vier eydelagt.

16 Þa sagde Samuel til Saul: bijttu (vid/) so vil eg kunngiøra þier/ hvad Drottenñ hefur talad til mijn i noott. Og hañ sagde til hañs: seig fram.

17 Og Samuel sagde: er þad ecke so/ * þegar þu varst litell i þijnum augum/ (þa vardst) þu Jsraels kynkvijsla høfud/ og Drottenñ smurde þig til eins konungs yfer Jsrael. * c. 9/ 21.

18 Og Drottenñ sende þig a vegeñ/ og sagde: far af stad/ og bølva þeim syndurum/ þeim Amalekitum/ og strijd i mootte þeim/ þar til þu fær eydelagt þa.

19 Og hvar fyrer hlijdder þu ecke Drottenñs raust? helldur snerer þier til rans/ og giørder illa fyrer Drottenñs augum.

20 Þa sagde Saul til Samuel: eg hlijdde þo Drottenñs raust/ og foor þañ veg/ hvørt Drottenñ sende mig/ og færde Agag/ þeirra Amalekita konung hijngad/ og fordiarfade Amalekitana.

21 Og foolked took af herfanngenu/ saude og uxa/ þ. ypparsta af þvi bølvada/ til ad offra til Drottenñs þijns Guds i Gilgal.

22 Eñ Samuel sagde: meinar þu/ ad Drottenñ hafe list til offurs og brennefoorna/

na/ sem til ad * hlÿda Drotten̄s raust? sia / ad hlÿda / er betra en̄ offur/ og ad giefa gaum ad / en̄ feiten̄ af hrutunum.
* Os. 6/ 6. Matth. 9/ 13. C. 12/ 7.

23 Þvi ohlÿdne er ein̄ galldurs glæpur/ og ad yfertroda / er afguda dÿrkan / og afguda þioonusta/ af þvi þu hefur burt kastad Drotten̄s bÿfalning/ þa hefur * han̄ og burt kastad þier /ad vera ecke kon ungur. * c. 8/ 1.

24 Þa sagde Saul til Samuel: eg synd gade/ad eg hefe yfertroded Drotten̄s bÿ falning/ og þÿn ord: þvi eg ottadest fyr er foolkenu / og hlÿdde þeirra raust.

25 Og kiære / burt-tak nu mÿna synd / og snu vid med mier / og eg vil tilbidia fyrer Drottne.

26 Þa sagde Samuel til Saul: eg vil ecke snua vid med þier /þvi þu hefur burt kastad Drotten̄s orde/ og Drotten̄ hefur burtkastad þier / ad vera ecke konungur yfer Jsrael.

27 Þegar Samuel snere sier vid ad gan ga/ greip han̄ um̄ han̄s kyrtelslaf / og þad vard rifed.

28 Þa sagde Samuel til han̄s : Drott- en̄ * reif i dag Jsraels konga rÿke fra þier/ og gaf þÿnum nauunga þad/sem er betre en̄ þu. * c. 28/ 17.

29 Og hier ad auke/ Jsraels Sigr * mun ecke liuga/ og þad mun ecke angra han̄/ þvi han̄ er ecke ein man̄eskia / ad han̄ (kun̄e nockud) ydra. * 4. Mos. 23/19.

30 Og han̄ sagde : eg hefe syndgad / en̄ kiære/heidra mig (þo) nu fyrer mÿns foolks olldungum / og fyrer Jsrael / og snu vid med mier/ ad eg kun̄e tilbidia fyr- er Drottne þÿnum Gude.

31 So snere Samuel vid epter Saul/og Saul tilbad fyrer Drottne.

32 Þa sagde Samuel: færed til mÿn A gag/þeirra Amalekita konung/og Agag gieck til hans med oflæte/ z Agag sagde: vissulega er daudans beiskleike burt viken̄

33 En̄ Samuel sagde: lÿka sem þitt sverd hefur rænt kvinurnar (þeirra born um/) so skal þÿn moodur rænast (hen̄ar bornum) medal kven̄an̄a / og Samuel liet sundur hoggva Agag fyrer Drotten̄s augsÿn i Gilgal.

34 Sÿdan̄ gieck Samuel til Rama / og Saul foor upp til sÿns huss/i Gibea- Saul.

35 Og Samuel sa ecke Saul meir in̄ til sÿns dauda dags/ þvi Samuel syrgde fyrer Saul/ og þad ydrade Drotten̄/ ad han̄ hafde giort Saul til konungs yfer Jsrael.

## XVI. Capitule.

### David verdur smurdur til Konungs.

Og Drotten̄ sagde til Samuel: hvorsu leinge villtu syrgia vegna Saul / * hvorium eg hefe burtkastad / ad han̄ skule ecke vera konungur yfer Jsrael? fyll þitt horn med oleum / og gack burt / eg vil senda þig til Jsai þess Bethlehemita / þvi eg hefe sied mier fyrer ** einum konunge a medal han̄s sona. * c. 15/23.
** Þ. G. 13/ 22.

2 En̄ Samuel sagde: hvornen̄ skyllda eg ganga þangad? Saul munde þo spyr ia þad/ og sla mig i hel/ Þa sagde Dro tten̄ : tak eirn kvÿgu-kalf af fienaden- um med þier / og seig : eg er komen̄ ad offra til Drotten̄s.

3 Og þu skallt biooda Jsai til offursens/ og eg/ eg vil lata þig vita hvad þu ska- llt giora/Og þu skallt smyria mier þan̄/ sem eg seige þier.

4 Og Samuel giorde þo/ sem Drotten̄ sagde/og kom til Bethlehem/ Þa komu þeir elldstu i stadnu̅ skielfder i moote hon- um/ og sogdu: er þ fridur/ ad þu kiemur?

5 Og han̄ sagde : fridur/Eg er komen̄ ad offra til Drotten̄s / helged ydur / og komed med mier til offursens / Og han̄ helgade Jsai og han̄s syne/og baud þe- im til offursens.

6 Og þad skiede/ þa þeir komu/ þa sa han̄ * Eliab/ z þeinkte: vÿst er han̄ sa smurde fyrer Drottne. * c. 17/ 13.

7 Og Drotten̄ sagde til Samuel: sÿt ecke * til han̄s alits/ edur til han̄s per- soonu hædar/ þvi eg hefe burtskufad hon̄ um/ þvi ecke þad / sem ein man̄eskia kan̄

sia/ þui mañeskiurnar kuña ad sia fyrer augunũ/ eñ * * Drottẽ lytur til Hiartans
* P. G. 10/34. etc. * * Ps. 7/10. etc.

8 Pa kallade Isai a * Abinadab / og liet hañ ganga fram fyrer Samuel / og hañ sagde: þeñañ hefur Drottẽ ecke helldur utvaled. * c. 17 / 13.

9 Þar epter liet Isai Samma ganga fram / og hañ sagde: Drottẽ hefur ecke helldur utvaled þeñañ.

10 So liet Isai siø sina syne ganga fram fyrer Samuel/ eñ Samuel sagde til Isai: Drottẽ hefur aungvañ utvaled a medal þessara.

11 Framveiges sagde Samuel til Isai: eru sveinarner hier aller samañ? og hañ sagde: sa * yngste er eñ nu epter / og sia/ hañ vaktar saudena: þa sagde Samuel til Isai: send burt og sæktu hañ/ þui vier setiunstum ecke nidur firr eñ hñ kiem ut hingad. * c. 17 / 14.

12 Pa sende hañ burt / og liet sækia hñ/ og hañ var * raud-lettur / med fogrum augum/ og vel vaxeñ / Þa sagde Drottẽ: stattu upp/smyr hañ/ þui hañ er sa.
* C. 17/42.

13 So took Samuel oliu horned / og * smurde hañ midt a medal hañs brædra / og Drottens Ande vard kroptugr yfer David fra þeim sama deige/og framveiges/ Þar epter took Samuel sig upp/ og gieck til Rama. * 2. Sam. 7/8. Ps. 78/71. Ps. 89/21. P G. 13/ 22.

14 Og Drottens Ande veik fra Saul/og eirn illur ande fra Drottne giørde hañ harla oroolegañ.

15 Pa sogdu Sauls þienarar til hañs: sia nu / eirn illur Guds ande giører þig oroolegañ.

16 Vor herra seige nu/ad þijner þienarar sem standa frame fyrer þier / uppleite eirn mañ/ sem kañ leika a horpu/og þad mun skie / nær sa ille Guds ande er yfer þier/ ad hañ leikur med siñe hende/ ad þad kiñe ad verda gott fyrer þig.

17 Pa sagde Saul til siña þienara: kiæru / vered mier ut uñ eirn mañ/ sem kañ vel leika / og leided (hañ) til mijn.

18 Pa svarade eirn af sveinunum / og sagde: sia / eg sa eiñ/ sem er Isai þess Bethlehemita sonur/ er kañ vel leika/ og hañ er ein vel vijg hetia/ og eirn stryds madur/ og forstañ i orde / og eñ frijdur madur /og Drottẽ er med honum.

19 Pa sende Saul bod til Isai/ og liet seigia: send til mijn David þiñ son/ sem er hia saudunum.

20 Pa took Isai eirn asna med braud/og eina fleskiu vijns / og eitt geit-kid / og sende þad fyrer Davids sijns sonar hond til Saul.

21 So kom David til Saul/og stood fyrer hañs augsyn / og hañ * elskade hañ miked/og hañ vard hañs vopnbere.
* C. 18. 1/ 2.

22 Þar epter sende Saul til Isai / og liet seigia: lat David vera hia mier/ þui hañ hefur funded nad fyrer mijnũ augũ.

23 Og þad skiede / nær Guds ande var yfer Saul / þa took David horpuna/ og liek med siñe hende/ad Saul vard endurlifgadur / Og þad vard gott fyrer honum / og sa ille ande veik fra honum.

## XVII. Capitule.

### Þess Risa Goliats Grimd og Daude.

Og Philistearner hofdu safnad þeirra her til strijds / og komu til samans i Socho/ sem er i Juda / og þeir settu sijnar herbuder i millum Socho og i millum Aseka/ hia endanum af Damim.

2 Og Saul og Israels meñ safnudust / og settu sijnar herbuder i Eykedalnũ/og biuggu sig til strijds i moot Philisteunũ.

3 Og Philistearner stoodu uppa fiallenu/ a hina sijdu/og Israelitarner stoodu uppa fialleuu a þessa sijdu / og dalureñ var i millum þeirra.

4 Pa utgieck eirn rise af Philisteaña herbudum / hañs nafn var Goliath af Gat / hañ var sex alna og eirnrar þver handar haar.

5 Og þar var eirn kopar-hialmur a hañs hofde/og hñ var klæddur eirnre hrijnga bryniu/ z bryniuñar vigt var fim þusund sekla kopars.

6 Og hafde einar bryn-hosur af kopar a hañs

a hañs beinum/og (þar hieck) eirn kop-
ar ſkiolldur i millum hañs herda.
7 Og hañs ſpioots ſkapt var ſem eirn vef
tar rifur / og bladed a hañs ſpioote var
ſexhundrud ſeklar iarns/og ſkiallds-ſveirn
ꝼoor undañ honum.
8 Og hañ ſtod og hropade til Iſraels
(ſtrÿds)fylkinga/ z ſagde til þeirra : hvar
ꝼyrer droou þier ut/ad bua ydur til ſtrÿds?
er eg ecke eirn Philiſteare/og þier Sau-
ls þienarar ? utvelied ydur eirn mañ / ad
hañ kome ofañ til mÿn.
9 Kuñe hañ ad ſtrÿda i moote mier / og
ſlaa mig/ſo vilium vier vera ydar þienar-
ar/ og eꝼ eg (kañ faa magt) yꝼer honum/
og ſlaa hañ/þa ſkulu þier vera vorer þien-
arar / og þiona oſſ.
10 Fram̃veiges ſagde ſa Philiſteare: eg/
eg heꝼe hædt Iſraels (her-) fylkingar i
dag/ (ſeigiande :) gieꝼed mier eirn mañ/
ad vid kuñum beriaſt til ſamans.
11 Þegar Saul og allur Iſrael heyrde
þeſſe þeſſ Philiſtearans ord/ þa urdu þe
ir ſkielꝼder og ottuduſt miøg.
12 Og David var þeſſ mañs ſon/ þeſſ *
Ephratitans af Bethlehem i Iuda/ hvo-
rs naꝼn var Iſai / og hañ atte atta ſo-
nu / og madureñ var i Sauls tÿd komeñ
til alldurs a medal mañaña. * c. 16 /1.
13 Og þeir þrÿr elldſtu Iſai ſyner voru
utdregner/ þeir ꝼilgdu Saul i ſtrÿded/ og
hañs þriggia ſona nøꝼn/ ſem voru farn-
er til ſtrÿdſens/voru/ Eliab ſa frumgiet-
ne/og hañs añar (ſonur) Abinadab/ og
ſa þridie Samma.
14 Eñ David var ſa yngſte/og þeir þr-
ÿr elliſtu fooru epter Saul.
15 Og David gieck (burt/) og kom apt-
ur fra Saul / og vaktade ſÿns føдurs
ſaude i Bethlehem.
16 Og ſa Philiſteare gieck ꝼram̃ ad
morgne og kvøllde/ og baud ſig til i ꝼioru
tÿger daga.
17 Og Iſai ſagde til Davids ſÿns ſon-
ar : tak nu handa þÿnum brædrum þeſſa
epha aꝼ ſteiktu ( axe ) og þeſſe tÿu bra-
ud/ og hlaup til herſens til þiña brædra.
18 Eñ þeſſa tÿu ferſka oſta/ſkalltu bera
til høꝼudsmañſens yꝼer þeim þuſundun-
um / og vitia þiña brædra / hvort þad
geingur þeim vel / og tak eitt ſkÿrteine
fra þeim.
19 Og Saul og þeir / og aller Iſraels
meñ/ voru i Eykedalnum/ ſem ſtrÿddu i
moot Philiſteunum.
20 Þa ſtood David arla upp um̃ mor-
guneñ / og aꝼhente hirdernum ſaudena/
og bar þad/ og gieck / ſo ſem Iſai haf-
de boded honum / og hañ kom til vagn
borgareñar / þegar hereñ var utdregeñ
i ſtrÿds ꝼilkingarnar/ og þeir høꝼdu kall
ad ut til ſtrÿdſens.
21 Og Iſrael hafde herkÿad ſig / og
Philiſtearner/ſtrÿdſꝼilking moote ſtrÿds-
ꝼilkingu.
22 Þa ſkilde David epter þañ ꝼarang-
ur ſem hañ bar/hia honum/ ſem geimde
ꝼarangureñ / og hlioop burt til ſtrÿds-
filkingareñar / og kom/ og heilſade ſin-
um brædrum.
23 Og ſem hañ talade vid þa / ſiaa/
þa upp kom eirn riſe / hvørs naꝼn var
Goliath / ſaa Philiſteare aꝼ Gat / aꝼ
Philiſteaña her / og talade a ſomu leid
ſem fyrr / og David heirde þad.
24 Eñ hvør madur af Iſrael / nær
þeir ſaau mañeñ/ þa ꝼlÿdu þeir ꝼyrer hon
um / og ottuduſt miøg.
25 Og hvør madur aꝼ Iſrael ſagde :
hoꝼe þier ſied þeñañ mañ / ſem kiemur
upp? þvi hañ uppkiemur ad hæda Iſ-
rael / og þad ſkal ſkie / þañ mañ ſem
ſlær hañ/ vill kongureñ giøra miøg rÿk-
añ / og gieꝼa honum ſina doottur / og
vill giøra hañs føдurs hws ꝼrÿ i Iſrael.
26 Þa ſagde David til mañaña/ þeirra
ſem ſtoodu hia honum / ſeigiande: hvad
ſkal madur giøra þeim mañe/ ſem ſlær
þeñañ Philiſteara / og burt-tekur hæded
ꝼra Iſrael ? þvi hvør er þeſſe Philiſte-
are med forhud / ad hañ hædde þeſſ liꝼ-
anda Guds ſtrÿdsꝼylkingar ?
27 Þa ſagde ꝼoolked til hañs/epter ſø-
mu vÿſu/ ſeigiande : ſo ſkal þad ſkie þañ
mañ / ſem ſlær hañ.
28 Þegar hÿs elliſte brooder * Eliab heir
de ad

rde ad hañ talade vid meñena/ þa vard Eliab reidur vid David/ og sagde: hvar fyrer komstu ofañ? og hvorium hefur þu afhent þa saude i eidemorkuñe? eg/ eg þeckie þyna drambseme/ og þyns hiarta vonsku/ þvi þu ert ofañ komeñ/ til ad sia strijded. * c. 16/ 6.

29 Þa sagde David: hvad hefe eg nu giort? hefe eg ecke ad utrietta?

30 Og hañ snere sier fra honum til eins añars/ og sagde eins sem fyrr/ Þa svarade foolked honum sem fyrre.

31 Og þau ord urdu heyrd/ sem David sagde/ og þeir gafu þau til vitundar fyrer Saul/ og hañ liet sækia hañ.

32 Og David sagde til Saul: aungrar mañeskiu hiarta falle (i efaseme) fyrer hañs skulld/ þvi þiñ þienare skal ganga og strijda vid þeñañ Philisteara.

33 Og Saul sagde til Davids: þu giekur ecke geinged þangad i moot þessum Philisteara/ til ad beriast vid hañ/ þvi þu ert eirn sveiñ/ eñ hañ er eiñ strijdsmadur fra synum ungdoome.

34 Þa sagde David til Saul: þiñ þienare var syns fødurs hirder hia sauðunum/ og leooned kom og biørneñ/ og took eitt lamb af hiørdeñe.

35 Og eg rañ epter honum/ og sloo hañ/ og frelsade þad af hañs muñe/ og þegar hañ uppstood i moote mier/ þa greip eg i hañs kampa/ og sloo hañ/ og drap hañ.

36 Bæde leooned og biørneñ hefur þiñ þienare sleiged/ og þesse Philisteare med forhud skal verda sem eirn af þeim/ þvi hañ hefur hædt þess lifanda Guds herfylkingar.

37 Framar sagde David: Drottiñ/ sem frijade mig * fra leoonsins vallde/ og fra biarnarens vallde/ hñ mun frija mig fra þessa Philisteara vallde/ Þa sagde Saul til Davids: gack/ og Drottiñ mun vera med þier. * 2. Tim. 4/ 17.

38 Og Saul liet fœra David i syn klæde/ z sette eirn kopar hialm a hñs høfud/ og fieck honū eina harneskiu a sig.

39 Og David batt hñs sverd yfer um syn klæde/ og took til ad ganga/ þvi hñ hafde ecke reint þad. Þa sagde David til Saul: eg kañ ecke ad ganga i þeim/ þvi eg er ecke vanur (þar vid/) og David lagde þau af sier.

40 Og hañ took * siñ staf i syna hønd/ og valde sier fim sliettа steina ur læknum/ og stack þeim i hirders posañ sem hañ hafde/ og i tøskuna/ og hañ hafde syna slaungu i siñe hende/ og gieck fram til Philistearans. * 1. Kron. 12/ 23.

41 Og Philisteareñ gieck voodum/ og kom nær til Davids/ og madureñ skiallд sveinneñ undañ honum.

42 Þa Philisteareñ vard var vid/ og sa David/ þa forsmade hañ hañ/ þvi hañ var eirn sveiñ/ og * raudleitur/ og fridur synum. * c. 16/ 12.

43 Og Philisteareñ sagde til Davids: er * eg eiñ hundur/ ad þu kiemur til myn med støfum? og Philisteareñ bølvade David vid syna gude.
* 2. Sam. 3/ 8.

44 Og Philisteareñ sagde til Davids: kom til myn/ og eg vil * giefa fuglunum under Himnenum og dyrunum a mørkeñe þitt holld. * Ezech. 29/ 5.

45 Eñ David sagde til Philistearans: þu * kiemur til myn med sverd z med spioot/ og med skiølld/ eñ eg kiem til þyn i Drottens Zebaoths nafne/ sem er Israels herfylkinga Gud/ hvørn þu hefur hædt. * Ps. 20/ 8.

46 A þessum deige mun Drottiñ fa þig i myna hønd/ og eg skal sla þig/ og taka þitt høfud af þier/ og giefa Philisteaña hers kropp a þessum deige til fuglaña under Himnenum/ og til dyraña a Jørduñe/ ad allt landed skal vita/ ad þar sie Gud i Israel.

47 Og allur þesse søfnudur skal vita/ ad Drottiñ frelsar ecke fyrer sverd eda fyrer spioot/ þvi strijded er Drottens/ og hañ mun giefa ydur i vora hønd.

48 Og þad skiede/ þegar Philisteareñ stood upp z gieck/ og kom nær i moote David/ þa flijtte David sier/ og hlioop

hlioop i moote herfylkinguñe i moote Philisteanum.

49 Og David stack siñe hende i posañ/ z took eiñ stein þar ur/og slengde med slaunguñe / og sloo Philisteañ i hañs eñe/ad steiñeñ vard fastur i hañs eñe/ og hñ fiell a sijna asioonu til Jardar.

50 Og David vard sterkare eñ Philisteareñ/ med slaunguñe z med steineñu/ og sloo Philistearañ/og i hel sloo hañ/ þo David hefde ecke sverd i siñe hende.

51 Og David hlioop/og stood a Philisteanum / og took hañs sverd/ og droo þad af sijnum slijdrum / og sloo hañ i hel / og hioo af hañs høfud þar med. Þegar Philistearner sau ad þeirra hiñ sterke var daudur/þa flijdu þeir.

52 Þa tooku Israels og Juda meñ sig upp / og hroopudu/ og elltu Philisteana/ allt til þess madur kiemur til dalsens/ og allt til Ekrons porta/og Philistearner/sem urdu sarer/fiellu a veig enum til beggia portaña / og allt til Gat / og allt til Ekron.

53 Þar epter sneru Israels børn aptur fra þeim akafa epter Philisteunum/ og ræntu þeirra herbuder.

54 Eñ David took þess Philisteara høfud / og bar þad til Jerusalem/ og lagde hañs vopn i sitt tialld.

55 Þegar Saul sa David ganga i moot Philistearanum / sagde hañ til Abner strijds-høfudsmañsens: hvørs son er þesse sveiñ / Abner ? og Abner sagde: (so sañarlega sem) þijn sal lifer/ o kongur/eg veit þad ecke.

56 Og konungureñ sagde : spyr þu/ hvørs son þesse unge madur sie.

57 Og þegar David kom aptur / þa hañ hafde sleiged Philistearañ/þa took Abner hañ/ og leidde hañ iñ fyrer Saul / og hañ hafde Philistearans høfud i siñe hende.

58 Og Saul sagde til hañs : hvørs son ertu sveiñ ? og David sagde: eg er * Isai þess Bethlehemita/þijns þienara/ sonur. * c. 16/ 1.

## XVIII. Capitule.

David elskast af Jonatan / vijdfrægest af Kviñunum / verdur hatadur af Saul og gipkest Micol.

Og þad skiede/ sem hañ hafde ut-talad vid Saul / þa vard Jonatans sal sambundeñ vid Davids sal / z Jonatan elskade hañ sem sijna sal.

2 Og Saul took hañ a þeim deige / og liet hañ ecke koma aptur til sijns fødurs huuss.

3 Og * Jonatan og David / giørdu eitt samband/so hañ ** elskade hañ/ sem sijna sal. * c. 20/8/16. c. 23/18. 2. Sam. 21/ 7. ** 1. Sam. 19/ 1. etc.

4 Og Jonatan took kirtileñ af sier / sem hañ hafde yfer sier/og gaf David hañ/ og sijn klæde/ og þar til sitt sverd / og þar til siñ boga / og þar til sitt bellte.

5 Og David foor ut / hvert sem Saul hañ sende / hañ hielli sig viturlega/ og Saul sette hañ yfer strijdsmeñena/ og hañ var þægelegur fyrer alls foolksens augum / og so fyrer Sauls þienara augum.

6 Og þad bar til / þegar þeir komu/ sem David kom aptur/ fra þess Philisteara strijde / ad kviñurnar af øllum Israels stødum * voru utgeingnar/ med saung og danse moote konungenum Saul/ med trometum / med glede / og med gyum. * Dom. 11 / 34.

7 Og kviñurnar sungu mot hvør añare/ lieku og søgdu: Saul hefur sleiged sijna þusund / og * David sijnar tiju þusunder. * c. 21/ 11. c. 29/ 5.

8 Þa vard Saul afar-reidur/z þetta ord þocknadest hønum illa/og hañ sagde: þær gafu David tiju þusunder / og mier gafu þær þusund / og fram̃ veiges vill ríked verda hans.

9 Og Saul leit reiduglega til Davids / fra þeim deige og þar epter.

10 Og þad skiede a ødrum deigenum / ad sa * ille Guds ande vard sterkur

yfer Saul / og hañ spaade i huusenu/ Þa David liek a hørpuna m̄d siñe hende / sem hañ daglega var vanur / og Saul hafde eitt spioot i hendeñe.
* C. 19/9.

11 Og Saul skaut spiootenu/og þeinkte : eg vil stijnga David / (ad spiootid skal ganga) i veggeñ / eñ David snere sier tvisvarsiñum fraa hønum.

12 Og Saul * ottadest fyrer David/ þvi Drotteñ var med hønum / og var vikeñ fraa Saul. * Marc. 6/20.

13 Þa liet Saul hañ fraa sier/og giørde hañ til eins høfdinga yfer þusund/ og hañ foor ut og iñ fyrer foolkenu.

14 Og David hiellt sig * viturlega i øllum hañs ufrietfingum / og Drottiñ var med hønum. * 2. Kong 18/7.

15 Þegar Saul saa / ad hañ hiellt sig harla viturlega/ þa ottadest hañ fyrer hønum.

16 Eñ allur Israel og Juda hafde David kiæraň/ þvi hañ foor ut og iñ fyrer þeim.

17 Og Saul sagde til David: siaa/miña ellstu doottur Merob / hana vil eg giefa þier til hustrur / vertu ad eins hraustur fyrer mig/ og berst Drotteñs bardaga/þvi Saul þeinkte/ mijn hønd skal ecke vera a hønum/eñ Philisteaña hønd skal vera a hønum.

18 David sagde til Saul: hvør er eg? og hvad er mitt lijf/ (jaa) mijns fødurs ætt i Israel/ad eg skyllde verda konungsens maagur?

19 Og þad skiede/þegar tijme kom/ ad Merob Sauls dotter skyllde gifeast David/ þa var hun giefeñ Adriel þm̄ Meholathiter til hustrur.

20 Og Micol Sauls doottir hafde David kiæraň / hvad þeir gaafu Saul til vitundar/ og þad syndest gott fyrer hønum.

21 Og Saul sagde: eg vil giefa hønum hana / ad hun skule verda hønum til eirnrar snøru / og Philisteaña hønd skule vera yfer hønum. Og Saul sagde til Davd: þu skallt i dag med (þeire añare af)tveimur(mijnum dætrum) verda miñ maagur.

22 Og Saul baud sijnum þienurum : taled heimuglega vid David og seiged: siaa/konungenum þeknast þu/ og aller hañs þienarar hafa þig kiæraň / þvi verd nu konungsens maagur.

23 Og Sauls þienarar töludu sømu ord fyrer Davids eyrum / Og David sagde: þyker ydur/ad þad sie eirn lijtell hlutur / ad vera konungsens maagur / med þvi eg er eirn fatækur og lijtelmotlegur madur?

24 Og Sauls þienarar gaafu hønum þad til vitundar/og søgdu: soddañ ord talade David.

25 Þa sagde Saul : seiged so til Davids : konungureñ oskar eingrar morgun gaafu / utañ hundrad forhuder af Philisteunum/ad hefna sijn a kongsens fiandmøñum/þvi Saul þeinkte/ad hñ skyllde laata David falla i þeirra Philistea hend.

26 Þa søgdu hañs þienarar þesse ord til Davids/og David syndest/ad þetta efne være gott/ad hañ skyllde verda konungsens maagur/ eñ tijmeñ var ecke (eñ nu) ute.

27 Þa took David sig upp / og droo burt/ hañ og hañs meñ/ og sloo a med al Philisteaña tvø hundrud meñ / og David frambar þeirra forhuder / og þær uppfylltu konungenum (töluna/) ad hañ skyllde verda konungsens maagur. Þa gaf Saul hønum Micol sijna doottur til hustrur.

28 Og Saul saa z merkte / ad Drotteñ var med David / og Micol Sauls doottir hafde hañ kiæraň.

29 Þa ottadest Saul eñ framar fyrer David/og Saul var Davids fiandmad ur alla daga.

30 Og Philisteaña høfdingiar droou ut/ og þad skiede/ nær þeir droou ut / breitte David forsiaallegar eñ aller Sauls þienarar / og hañs nafn vard haatt prijsad.

## XIX. Capitule.

David flyr fra Saul og kiemur til Samuel.

Og Saul talade til Jonatan sijns sonar / og til allra siña þienara / ad þeir skyllde slaa David i hel/ eñ Jonatan Sauls son * hafde stoora þocknan til Davids. * c. 17/ 3. c. 20/ 17.

2 Og Jonatan æviſsade David þad / og sagde: miñ fader Saul sæker epter ad slaa þig i hel/ so kiære/vara þig nu a morgun/ og gack i filsne/og fel þig.

3 Og eg / eg vil ganga ut / og standa hia mijns fødurs hende a mørkeñe/ þar sem þu ert / og eg/ eg vil tala vid miñ fødur um̄ þig/ og sia hvad þad er / og kuñgiora þier þad.

4 So talade Jonatan gott um̄ David/ vid Saul siñ fødur/og sagde til hañs: konungureñ syndge ecke moote sijnum þienara/ moot David/ þvi hañ hefur ecke syndgad i moote þier/og þvi hañs verk eru þier miked nytsamleg.

5 Þvi hañ hefur sett sitt lijf i sijna hønd / og * sloo þañ Philisteara / og Drotteñ giørde øllum Israel eitt stoort hiaalpræde/þad hefur þu sied/og gladd est (þar af/)og hvar fyrer villtu synd ga i moote þvi saklausa bloode/ad slaa i hel David oforskulldad?

* 1. Sam. 17/ 50. etc.

6 Þa hlijdde Saul Jonatans raust / og Saul soor / ( so sañarlega sem ) * Drotteñ lifer/hañ skal ecke deydast.

* C. 14/ 45.

7 Og Jonatan kallade a David / og Jonatan gaf høñ̄ øll þesse ord til vitundar/og Jonatan leidde David til Sauls/og hañ var fyrer hønum sem fyr.

8 Og þar byriadest aptur ad verda strijd / og David droo ut / og strijdde a moot Philisteunum/ og sloo þa med einu stooru slage/ & þeir flijdu fyrer hm̄.

9 Og Drotteñs * illur ande var yfer Saul/ og hañ sat i sijnu huse/og hafde sitt spioot i siñe hende / og David liek med (siñe) hende. * c. 18 10.

10 Og Saul sookte epter ad stijnga David * med spiootenu/(ad þad skyllde ganga ) i veggeñ / eñ hañ veik undañ fyrer Saul / og hañ stack spiootenu i veggeñ/So flijde David/ og komst undañ þa noott. * c. 18/ 11.

11 Og * Saul sende bod til Davids huss/ ad geima hañ/og ad slaa hñ i hel um̄ morguneñ / eñ Micol hañs hustru kuñgiørde David þad / og sagde: þar sem þu ecke frelsar þijna saal i noott / þa verdur þu drepeñ a morgun.

* Ps. 59/ 1.

12 So liet Micol David nidur giegnum vindaugad/ og hañ komst burt/ og flijde/og komst undañ.

13 Og Micol took bijlæteñ og lagde i sængena / og lagde eitt geit-skiñ yfer høfuded þar a / og þakte þad med einu klæde.

14 Þa sende Saul bod / ad taka David / og hun sagde: hañ er siukur.

15 So sende Saul bod þangad ad skooda David/ & sagde: bered hñ upp til mijn i sængeñe/ ad mañ kuñe slaa hañ i hel.

16 Og sendebodarner komu / og siaa/ bijlæted laa i sængeñe/ og geit-skiñed vid høfuded þar a.

17 Þa sagde Saul til Micol: hvi sveikstu mig so/og utliest miñ fiandmañ/ad hañ komst undañ? og Micol sagde til Saul: hañ / hañ sagde til mijn: laat mig fara/ella eg skal slaa þig i hel.

18 Og David flijde / og komst undañ / og kom til Samuel i Rama/og gaf hønum allt þad til vitundar/sem Saul hafde giørt hønum/ og hañ/hañ og Samuel gieck burt / og þeir voru i Najoth.

19 Og þad vard Saul til vitundar giefed / ad þar sagdest / Sia/ David er i Najoth i Rama.

20 Þa sende Saul bod/ad þeir skylldu sækia David / Þ værier saa eirn hoop spaamaña/sm̄ spaadu/og Samuel stand ande (þar hia/) sem var skickadur yfer þa / og Guds Ande kom yfer Sauls sendeboda / og þeir spaadu og so.

21 Nær mañ gaf Saul þad til vitund ar /

ar / sende hañ øñur bod/ og þeir spaadu og so. Og Saul sende (eñ þa þad) þridia bod/ og þeir spaadu og so.

22 Sijdañ gieck hañ og sialfur til Rama/ og þa hañ kom til þess stoora bruñs/ sem er i Seku / spurde hañ ad/ og sagde: hvar er Samuel og David? og eirn sagde: sia/ i Najoth i Rama.

23 Þa gieck hañ burt þangad / til Najoth i Rama / og Guds Ande var og so yfer honum/ og hañ/ hañ gieck oodum / og spaade / þar til hañ kom iñ i Najoth i Rama.

24 Og hañ færde sig og so sialfur af sijnum klædum / og spaade sialfur og so fyrer Samuel / og nidurfiell nakeñ þañ sama giørvallañ dag / og þa giørvalla noott/ Þar fyrer seiger mañ: mun * Saul og so vera a medal spaamañaña?

* C. 10/ 11.

## XX. Capitule.

David talar vid Jonatan/ hvør aptur talar vid siñ Fødur vegna Davids.

Þa flijde David fra Najoth i Rama/ og kom og sagde til Jonatan: * hvad hefe eg giørt? hvad er miñ misgiørningur? og hvad er mijn synd i moote þijnum fødur/ ad hañ sæker epter mijnu lijfe?

* C. 17/ 29. C. 26/ 18.

2 Og hañ sagde til hañs: þad vere langt fra / þu skallt ecke deyia/ sia miñ fader giører ecke stoorañ giørning / eda lijteñ giørning / sem hañ ecke opeñberar fyrer mijnum eyrum / og hvi skyllde miñ fader dylia þeñañ giørning fyrer mier? þad er ecke (so.)

3 Þa soor David framveiges / z sagde: þiñ fader veit vel / ad eg hefe funded nææd fyrer þijnum augum/ þar fyrer þeinker hañ: Jonatan skal ecke vita þetta/ þad mætte hryggia hañ / Og sañarlega (so vijst sem) * Drottiñ lifer / og (so vijst sem) þijn saala lifer / (þar er ecke nema) hieruñ eitt footmaal i millum mijn og daudans. * c. 25/ 26.

4 Og Jonatan sagde til Davids: hvad þitt hiarta seiger / vil eg og giora þier.

5 Og David sagde til Jonatan: sia / þad er a morgun (nytt tungl /) sem eg skyllde þo sitia med kongenum til maaltijdar / So laat mig fara / ad ieg kuñe fela mig a mørkeñe / iñ til þess þridia dags ad kvølldi.

6 Ef þiñ fader lætur kostgiæfelega spyria epter mier / þa seig: David beiddest giarnañ af mier / ad hañ mætte fara flioótlega til Betlehem/ til sijns stadar/ þvi su giørvoll ætt hefur þar eitt arlegt offur.

7 Ef hañ seiger so: þad er gott / (so geingur þad) vel til fyrer þijnum þienara/ Eñ verde hañ fær-reidur/ (Þa) vitt þu/ ad þad vonda er aliktad hia honum.

8 So giør miskunsemd vid þiñ þienara/ þvi þu giørder * eitt samband vid þiñ þienara fyrer Drottne / Eñ sie þar nockur misgiørningur hia mier / þaa sla þu mig i hel/ og hvar fyrer villder þu færa mig til þijns fødurs? * c. 18 / 5. etc.

9 Þa sagde Jonatan: þad vere langt fraa mier / ad ef eg kyñe vijst vita / ad þad vonda være aliktad hiaa mijnum fødur / ad koma yfer þig / ad eg skyllde ecke gefa þier þad til vitundar.

10 Og David sagde til Jonatan: hvør skal gefa mier þad til vitundar / ef þiñ fader mun svara þier hardlega?

11 Þa sagde Jonatan til Davids: kom/ laatum oss ganga ut a mørkena/ Og þeir geingu bæder ut a mørkena.

12 Og Jonatan sagde til Davids: Drottiñ Israels Gud/ nær eg formerke af mijnum fødur / um þañ tijma a morgun / (eda) þañ þridia (dag /) og sia / þad geingur vel til fyrer David / og eg ecke þa sende til þijn/ og opeñbera þad fyrer þijnum eyrum.

13 Þa giøre Drottiñ Jonatan so / og eñ so / Eñ hafe miñ fader list til þess vonda i moote þier / þa vil eg opeñbera þad fyrer þijnum eyrum/ z laata þig fara/ ad þu skallt fara med fride/ og Drottiñ vere med þier so sem hañ hefur vered mz mijnum fødur.

14 Og giøre eg ecke þetta / ef eg life /

þa giør þu ecke Drottens myſkunſemd vid mig / ad eg ſkule ecke deyia.

15 En þu ſkallt ecke burttaka þyna miſkunſemd fra mynu huuſe æfenlega / z ei / nær Drotten uppræter Davids fiand men / ( ja) hvern man af jørdenne.

16 So * giørde Jonatan eitt ſamband vid Davids huus / ( og ſagde: ) Drotten ſkal utkrefia þad af Davids fiandmana hende. * c. 18/ 3. etc.

17 Og Jonatan ſoor David framveiges / ſo kiærann hafde hn hn / ad han * elſkade han ſo miøg / ſem han elſkade ſyna ſal.

* C. 19/ 1. etc.

18 Og Jonatan ſagde til hans: þad er a morgun (nytt) tungl / ſo verdur þyn ſaknad / þvi man ſaknar þyn þar / ſem þu ert vanur ( ad ) ſitia.

19 Og nær þu hefur vered a burtu i þria daga / ſkalltu fara fliootlega ofan / og koma til ſtadarens / þar ſem þu falder þig / a þeim deige ſem þetta var aðlykt tad / og ſet þig hia þeim ſteine Aſel.

20 So vil eg / eg ſkioota þeim fremur pylum til ſydu / lyka ſem eg villde ſkioota til eins hæfes.

21 Og ſia / eg vil ſenda ſveinenn / ( ſeigiande: ) gack / leita pyluna upp / Seige eg ( þa / ) vyſt til ſveinſens: ſia / pylurnar liggia a bak þier / og hingad ( betur / ) tak hana / Kom þa: þvi þar er fridur fyrer þig / og þar er eingenn vode a ferdum / ( ſo ſannarlega ſem ) Drotten lifer.

22 En ſeige eg ſo til ſveinſens: ſia / pylurnar liggia fyrer framan þig / og fram ( betur / ) þa far / þvi Drotten hefur læted þig fara.

23 Og ( ahrærande ) hvad þu og eg høfum talad / ſia / Drotten er i millum þyn og myn æfenlega.

24 Og David falde ſig a mørkenne / og þegar ſa (nye) manadz kom / ſette kongurenn ſig til bords ad eta.

25 Og þegar kongurenn hafde ſett ſig i þad ſæte / ſem han var vanur fyrr / hia veggnum / þa ſtood Jonatan upp / enn Abner ſette ſig hia Sauls ſydu / og Davids vard ſaknad ur hans ſtad.

26 Og Saul talade eckert a þeim ſama deige / þvi han þeinkte / honum er nockud tilfalled / ad han er ecke hreirn / ſannarlega han er ecke hreirn.

27 Og þad ſkiede a ødrum deigenum i þeim ødrum manade / þegar Davids vard ſaknad ur hans ſtad / þa ſagde Saul til Jonatan ſyns ſon^r^: hvi kom Jſai ſon ecke til maalltydar / hvorke i gær eda i dag.

28 Og Jonatan ſvarade Saul: David beiddeſt iþnlega af mier / ad han mætte ganga burt til Bethlehem:

29 Og ſagde: kiære / lat mig fara / þvi vor ætt hefur ad offra i ſtadnum / og minn brooder hefur ſialfur boded mier / og hafe eg nu funded nad fyrer þynum augum / þa lat mig fara þangad / ad ſia myna brædur / þar fyrer er han ecke komenn til kongſens bords.

30 Þa vard Saul reidur vid Jonatan / og ſagde til hans: þu argrar ( kvinnu ) þverbrotne ſon / veit eg ecke / ad þu hefur utvaled Jſai ſon til þinnar ſkammar / og til þinnar moodur blygdunar ſkammar?

31 Þvi alla þa daga Jſai ſon lifer a jørdunne / þa verdur hvorke þu ſtadfeſtur eda þitt ryke / þar fyrer ſend nu / og lat hafa han til myn / þvi han ſkal deidaſt.

32 Þa ſvarade Jonatan Saul ſynum fødur / og ſagde til hans: hvi ſkal han deidaſt? hvad hefur han giørt?

33 Þa * ſkaut Saul ſpiootenu ept^r^ honum / ad hn villde ſtinga hn ( i giegnum / ) Þa merkte Jonatn / ad hans fader hafde fullkomlega aliktad hia ſier / ad hn villde ſla David i hel. * c. 18/ 10.

34 So ſtood Jonatan reidur upp fra bordenu / og at et braud a þeim ødrum deige i þeim (nya) manade / þvi han var hriggur vegna Davids / af þvi hans fader hafde laſtad han.

35 Og þad ſkiede ad morgne / ad Jonatan gieck ut a mørkena umm þann tyma / ſem han hafde akvedad David / og eirn ſmaa ſveirn med honum.

36 Og han ſagde til ſins ſveins: hlaup / leita nu / kiære / þa pylu upp / ſem eg ſkyt af / Sveirnenn hlioop / og han ſkaut eirnre

eitnre pÿlu fram̃ yfer hañ.

37 Og þegar sveirneñ kom til þess stadar/ sem Jonatan skaut pÿluñe til / þa hroop ade Jonatan epter sveinenum/ og sagde: er ecke pÿlañ fyrer framañ þig/og leing ra burt?

38 Og Jonatan hroopade epter sveinenum: flÿt þier / far fliott / stattu ecke vid / þa safnade sveirn Jonatans pÿlunum upp / og kom til sÿns herra.

39 Og sveirneñ visse eckert/eñ Jonatan og David vissu (alleinasta) hver ordsökeñ var.

40 Þa fieck Jonatan sÿnum sveine sÿn vopn / og sagde til hañs: gack burt/ og ber þau iñ i stadeñ.

41 Þegar sveirneñ gieck þangad iñ / þa stood David upp ur þeim stad moot sudre/ og fiell a sitt andlit til iardar/og tilbad þri svar siñum / Og þeir kistu sa eine þañ añañ / og grietu sa eine þañ añañ / so ad David giörde eñ meir.

42 Þa sagde Jonatan til Davids: gack i fride / hvad vid bæder höfum svared i Drottens nafne / og sagdt: Drotteñ skal vera i millum þÿn/og i millum mÿn/ og i millum mÿns sædes / og þÿns sædes æfeñlega.

43 Og hañ stood upp og gieck burt/ eñ Jonatan kom iñ i stadeñ.

## XXI. Capitule.

David kiemur til Prestsens Achimelech / og konungsens Achis.

Og David kom i Nob til Achimelech prests / og Achimelech kom skielfdur i moot David / og sagde til hañs: hvi ertu alleina / og er ecke eirn madur med þier?

2 Og David sagde til Achimelch prestsens: konungureñ bÿfalade mier eitt eyrende/og sagde til mÿn/Lat aungvañ vita nockud um̃ þad eyrende/hvar fyrer eg hefe sendt þig ut/ og hvad eg bÿfalade þier / Eg hefe og so skickad sveinana til eins sierdeiles stadar.

3 Og nu/ hvad hefur þu under þiñe hende? gief(mier)fim̃ braud i mÿna hönd / eda hvad (þar) fiñst.

4 Og presturen svarade David / og sagde: eg hefe eckert almeñelegt braud under miñe hende / eñ þar er heilagt braud / hefdu ad eins sveinarner alleinasta halld ed sig fra kviñum.

5 Og David svarade prestenum /og sagde til hañs: ja vissulega / kviñur hafa vered meinadar oss i þria daga / þegar eg foor ut / og sveinaña kier eru heilög/ Og þad er epter eiñe venju almeñelegt (braud/ ) so ad i dag skal ( añad braud ) helgast i kierunum.

6 Þa gaf presturen hönum * þad heilaga(braud /)þvi þar var eckert (añad) braud/ utañ skodunar braudet/ sem madur upptook fra Drottne/ ad madur skyllde leggia varmt braud ( aptur ) a þeim deige/ nær madur took þad upp.

* Matth. 12/ 3. Luc. 6/ 3.

7 Eñ þar var eiñ madur af Sauls þienurum a þeim sama deige iñeluktur fyrer Drottne / og hañs nafn var * Doeg / eirn Edomite / Sa megtugaste a medal Sauls hyrdara. * c. 22/ 9. etc.

8 Og David sagde til Achimelech: er og ecke hier under þiñe hende/ eitt spioot edur sverd? þvi eg took ecke mitt sverd/ og mÿn vopn med mier / med þvi kongsens eyrende var fliootlegt.

9 Þa sagde presturen: þess Philisteara Goliats sverd/sem * þu sloost i Eykedalnum / sia / þad er sveipad i einu klæde bak vid lÿf-kyrteleñ/ ef þu villt hafa þad/ (so) tak þad / þvi hier er eckert añad/ eñ þad / og David sagde: þar er ecke þess lÿke / gief mier þad.

* C. 17. 50/ 51.

10 Og David took sig upp a þeim sama deige / og flÿde fra Saul / og kom til Achis/konungsens af * Gat.

* Ps. 56 / 1.

11 Og * Achis þienarar sögdu til hñs: er þesse ecke David/landsens konungur? sungu þær ecke um̃ hañ ( moot hver añare)i dansenum/ & sögdu: ** Saul hefur slegeð sÿna þusund/ og David sÿnar tÿu þusunder? * c. 29/ 5. ** c. 18/ 7.

12 Og David lagde þesse ord a sitt hiarta/ og ottadest sarlega fyrer Achis konungenum

ungenum af Gat.

13 Þar fyrer umbreitte hañ siñe rænu fyrer þeim/og liet sem hañ være vitstola i þeirra hondum/og teiknade a dyrnar a portenu / og liet sliña slefu reña nidur a sitt skiegg. * Ps. 34 / 1.

14 Þa sagde Achis til siña þienara siña/ þier siaed / ad madureñ er vitstola / þvi lietud þier hañ koma til miñ?

15 Hefur mig vantad galda/eñ þier liet ud þeñañ koma (hingad) ad æraft fyrer mier/skyllde þesse koma i mitt huus?

## XXII. Capitule.

David kiemur til Adullam/ Mizpe/ Hareth skoogar: Hvar David spir Doegs svikræde i giegn prestenum til Nob.

OG David gieck þar fra/og kom ſt undañ til eins * hellers Adullam / og sem hañs brædur og hñs fødurs giørvallt huus þad heyrdu / þa komu þeir þangad ofañ til hañs. * Ps. 57/ 1.

2 Og hver madur/ sem var i naud / og hver madur/sem vat i skulld/og hver madur/ sem var i hiarta'sorg / søfnudu sier til hañs/og hñ var høfdinge yfer þeim/ so þar voru hierumm fiogur hundrud meñ hia hønum.

3 Og David gieck þar fra til Moabs Mizpe/ og sagde til þeirra Mooabita konungs: kiære / lat miñ fødur og miña moodur ganga ut hia ydur/ þar til eg kañ vita hvad Gud vill giora vid mig.

4 Og hañ leidde þau fyrer þeirra Moabita konung/ og þau voru hia hønum/ allañ þañ tijma David var i festingune.

5 Þa sagde sa spamadur Gad til Davids: vertu ecke i festinguñe / (helldur) gack burt / og gief þig þadañ i * Juda land/Þa gieck David burt/og kom i Nareth skoog. * Ps. 63/ 1.

6 Og Saul heyrde / ad David og þeir meñ / sem hañ hafde hia sier / voru ordner þeckter/þegar Saul var i Gibea und er eyke'trienu / a þeirre hædeñe/ og hañ hafde sitt spioot i siñe hende/ og aller hañs þienarar stoodu hia hønum.

7 Þa sagde Saul til siña þienara/þeirra sem stoodu hia hønum: heyred þo þier Jemini born / mun og so Jsai sonur giefa ydur alla akra og viñgarda / (ja) setia ydur alla til høfdingia yfer þusund er / og høfdingia yfer hundrud?

8 Ad þier erud aller sambundner a moote mier/ og þar er eingeñ/sem openberade þad fyrer miñum eyrum/ad * miñ sonur hefur giort eitt samband vid Jsai son / Og þar er eingeñ af ydur/ sem þike þad illt ad vera fyrer miña skulld / og sem openbere þad fyrer miñum eyrum / þvi miñ son hefur uppreist miñ þienara i moote mier til ad sitia um mig/ sem a þessum deige. * c. 18/ 3.

9 Þa svarade * Doeg / sa Edomite/hñ sem var skickadur yfer Sauls þienara / og sagde: eg sa Jsai son koma til Nob/ til Achimelechs Ahitobs sonar.

* C. 21/ 7. Ps. 52/ 2.

10 Og hañ adspurde * Drottieñ fyrer hañ/ og gaf hønum vist/ Og þess Philisteara Goliats sverd gaf hañ hønum (og so.) * c. 21/ 9.

11 Þa sende kongureñ þangad/ ad kalla Achimelech Ahitobs son/presteñ/og hañs fødurs giørvallt hus / prestana sem voru i Nob / og þeir komu aller til kongsens.

12 Og Saul sagde: heyr þu / Ahitobs sonur/Og hañ sagde / sia / hier er eg / miñ herra.

13 Þa sagde Saul til hañs: þvi hafed þier sambunded ydur moote mier / þu og Jsai sonur? ad þu gafst hønum braud og sverd/og adspurder Gud fyrer hañ/ ad hañ reise sig upp i moote mier/ ad sitia epter mier/ sem a þessum deige?

14 Og Achimelech svarade kongenum/ og sagde: hver er og a medal allra þiña þienara/ sem David/ truꝛastur/og * kongsens mægur/ og sem geingur fram i þiñe hlydne/og er heidradur i þiñu huse?

* C. 18/ 27.

15 Hefe eg/ (þa ed fyrsta) byriad i dag ad spyria Gud fyrer hañ? þad vere langt fra mier/ kongureñ legge ecke siñum þienara soddañ til/ (eda) miñs fødurs

urs gioruollu huse/þvi þiñ þienare visse eckert af ollu þessu/* lijtelle edur stoorre hondlan. * c. 20/2. c. 25/36.

16 Þa sagde konungureñ: Achimelech/ þu skallt vissulega deya/ þu og þijns fod urs gioruallt hus.

17 Og konungureñ sagde til hofs-þienar aña/sem stoodu hia honum: snued ydur/ og slaed Drottens presta i hel/þvi þeir ra hond er ogso med David/ og þegar þeir vissu/ad hñ flijde/þa openberudu þr þad ecke fyrer mijnum eyrum/ Eñ konge sens þienarar villdu ecke utrietta þeirra hond/ad falla yfer Drottens presta.

18 Þa sagde konungureñ til Doeg: snu þu þier/ og yfersall prestana/ Og Doeg sa Edomite snere sier/ og hañ yferfiell prestana/ og i hel sloo a þeim deige fim og attatijgi meñ/ sem baru lijnlijfs kyrtleñ.

19 Hañ sloo og * Nob prestaña stad/ med bitru sverde/ bæde mañ og kuiñu/ born og briooslmylkinga/og uxa og asna/ og fienad/ med bitru sverde. * c. 21/ 1.

20 Eñ þar komst undañ eirn af Achimelechs, Ahitobs sonar sonum/ og hañs nafn var AbJathar/og flijde epter David.

21 Og AbJathar kuñgiorde David/ad Saul hefde i hel sleiged Drottens presta.

22 Þa sagde David til AbJathar: eg visse (þad) a þeim sama deige/ þegar Doeg sa Edomite var þar/ad hñ munde vijst giefa Saul þad til vitundar/eg/ eg gaf ordsok til allra þijns fodurs huss sælna.

23 Vertu hia mier/ ottast eckert/ þvi hvor sem stundar epter mijnu lijfe/skal (og) stunda epter þijnu lijfe/ þvi þu skallt verda vardveittur hia mier.

## XXIII. Capitule.

Saul ofsæker David/ eñ hlijtur ad fara heim aptur med oframkvæmt Erynde.

Og þeir gæfu David til vitund ar/ seigiande: sia/þeir Philistear strijda i * Keila/ og þeir ræna hlodurnar. * Jos. 15/44

2 Þa spurde David Drotteñ ad/ og sagde: skal eg fara og sla þessa Philistearaꝛ og Drotteñ sagde til Davids: gack/ og þu skallt sla Philisteana/ og frelsa Keila.

3 Eñ þeir meñ/sem voru hia David/ sogdu til hañs: sia/ vier ottunst hier i Juda/og vilium þo fara til Keila til Philisteaña herfylkinga?

4 Þa spurde David Drotteñ aptur/og Drotteñ svarade honum/ og sagde: statt upp/ fardu ofañ til Keila/þvi eg gief Philisteana i þijna hond.

5 So ferdadest David og hñs meñ til Keila/og strijdde i moot Philisteunum/ og rak þeirra fienad burt/og * sloo þa med einu stooru slage/So frelsade David iñbyggiarana i Keila. * c. 19/ 8.

6 Og þad skiede/ þañ tijd/sem AbJathar/Achimelechs son/ * flijde til Davids i Keila/ad lijf-kyrtelleñ kom ofañ med honum. * c. 22/ 20.

7 Þa var þad Saul til vitundar giefed/ ad David var komeñ til Keila/ og Saul sagde: Gud hefur giefed hañ i mijna hond/ ad hañ er iñeluktur/ til ad koma i eiñ stad/ (sem er vardveittur) med portum og staungum.

8 Þa liet Saul kalla allt foolked til strijds/ ad fara ofañ til Keila/ til ad leggiast um David og hañs meñ.

9 Sem David fornam/ad Saul (heimuglega) þeinkte þad vonda um hañ/ þa sagde hañ til þess prests AbJathar: * taktu hijngad lijf-kyrteleñ. * C. 30/ 7.

10 Og David sagde: Drotteñ Israels Gud/ þiñ þienare hefur vijst heyrt/ad Saul sæker epter/ad koma til Keila/ad fordiarfa stadeñ fyrer mijna skulld.

11 Munu borgararner af Keila eiga ad framselia mig i hñs hond? mun Saul eiga ad koma ofañ/so sm þiñ þienare hefur heyrt? Drotteñ Israels Gud/ kiære/ kuñgior þijnu þienara þad. Og Drotteñ sagde: hañ mun koma ofañ.

12 Þa sagde David: munu borgararner af Keila eiga ad framselia mig og

mÿna meñ i Sauls hønd ? og Drottēn sagde: Þeir munu framselia þig.
13 Þa took David sig upp og hāns meñ hier um sex hundrud meñ/ og fooru ut af Keila/ og ferdudust þangad um/ hvørt þeir kuñu um ad fara/ Og þad var Saul til vitundar giefed / ad David var komeñ ur Keila / þa yfergaf hañ ad fara ut.
14 Og David var i eydemørkeñe i festingunum/ og var a fiallenu i þeirre eydemørk Siph/ og Saul sookte epter hønum alla daga / eñ Gud gaf hañ ecke i hañs hønd.
15 Þegar David sa/ ad Saul var utfareñ til ad sækia epter hañs lÿfe / þa var David i þeirre eydemørk Siph i skoogienum.
16 Þa giørde Jonatan Sauls son sig tilbueñ / og gieck þangad i skoogeñ til Davids/ og styrkte hañs hønd i Gude:
17 Og sagde til hañs : ottastu ecke / þvi mÿns fødurs Sauls hønd skal ecke fiña þig/ eñ þu/ þu munt verda kong ur yfer Jsrael/ og eg/ eg vil vera sa añar hia þier/ og Saul miñ fader * veit þad ogso vel. * c. 20. 30/ 31. c. 24/ 21.
18 So * giørdu þeir bæder eitt samband fyrer Drottens augsyn/ og David var i skoogenum/ eñ Jonatan gieck til sÿns huuss. * c. 18/ 3. etc.
19 Þa fooru þeir * Sephitar upp til Saul/ til Gibea/ og søgdu: hefur ecke David faled sig hia oss i festingunum i skoogenum/ a Hachila hæd/ sem liggur hia þeirre hægre hende hia Jesimon? * C. 26/ 1. etc.
20 So kom nu vÿst o konungur ofañ/ epter allre þiñe hiartans gyrnd / til ad koma ofañ/ so ber þad oss/ ad framselia hañ i kongsens hønd.
21 Þa sagde Saul : * blessader vere þier af Drottne/ ad þier myskuned ydur yfer mig. * c. 15/ 13.
22 Fared nu/ tilbued alla (hlute) eñ nu/ vited / og sied hañs stad / hvar hañs footur er / hvør þar hefur sied hañ þar/ þvi mañ hefur sagt til mÿn: hañ/ hñ mun giøra þad myked kynduglega.
23 Þar fyrer siaed og þecked alla þa heimuglegu stade/ sem hañ þar styngur sier i/ og komed til mÿn aptur/ nær þier erud visser (þar um/) so vil eg fara med ydur/ og þad skal skie/ sie hañ i landenu / þa vil eg nioosna um hañ a medal allra Juda þusunda.
24 Þa tooku þeir sig upp / og geingu til Siph undañ Saul / Eñ David og hañs meñ voru i Maons eidemørk a mørkeñe / vid þa hægre sÿdu hia Jesimon.
25 Og Saul foor ( þangad) og hañs meñ ad leita/ Og þad var David giefed til vitundar / so foor hañ ofañ fra klettenum/ og var i Maons eydemørk/ Sem Saul þad heyrde / offsookte hañ David i Maons eydemørk.
26 Og Saul gieck a þa einu sÿdu hia fiallenu/ og David og hañs meñ a þa adra sÿdu hia fiallenu/ Og þegar David hradade sier / ad flÿa ꝧ Saul / þa umkringdu Saul og hañs meñ/ David og hañs meñ/ ad grÿpa þa.
27 Eñ þar kom eiñ sendebode til Saul/ og sagde: vertu snar / og kom / þvi Philistearner eru iñfallner i landed.
28 Þa liet Saul af ad offsækia David/ og foor i moot Philisteunum/ þar fyrer kallar mañ þañ sama stad Sela Hammahlekoth.

## XXIV. Capitule.

Saul añad Siñ offsæker David / eñ hlÿtur ad medkieña/ ad David launade hønum goodu fyrer illt.

Og David for upp þadañ fra/ og var i þeim festingum En Gedi.
2 Og þad skiede/ þegar Saul kom aptur fra Philisteunum / þa kuñgiørdu þeir hønum/ og søgdu: sia/ David er i EnGedi føstu stødum.
3 Þa took Saul * þriu þusund meñ/ utvalda af øllum Jsrael/ og foor burt til ad uppleita David og hañs meñ a steingeitaña klettum. * c. 26/2.
4 Og þegar hañ kom til fiarbirgiaña

a

a veigenum / þa var þar eirn heller / hvar Saul gieck iñ ad hilia sÿna fak-ur / og David og hañs meñ voru vid hlidena i hellrenum.

5 Þa sogdu Davids meñ til hañs: sia/ (þesse er) sa dagur/ sem Drotteñ hefur sagt þier af/ sia/eg gief þiñ fiandmañ i þÿna hond/ad þu skuler giora vid hañ/ so sem þier gott sÿnest / Og David stood upp / og skar eitt laf af kyrtlenum / sem Saul hafde a sier i leyndum. * c.26/8.

6 Og þad skiede/ þar epter/ þa sloo Davids hiarta hañ / fyrer þad/ hañ hafde skored lafed af / sem heyrde Saul til.

7 Og hañ sagde til siña mañа: Drotteñ lꜳte þad vera lꜳngt fra mier / ad eg skyllde giora þañ giorning vid miñ herra/ Drottens smurda/ad * leggia mÿna hond a hañ/þvi hañ er Drottens smurdur. * 2. Sam. 1/14. etc.

8 Og David aftrade sÿnum moñum med ordum / og liet þa ecke setia sig upp i moot Saul. Og Saul stood upp ut hellernum / og gieck a veigeñ.

9 Eñ David stood upp þar epter / og gieck ut af hellernum/ og kallade epter Saul/ og sagde: miñ herra konungur / þa leit Saul til baka / og David beigde sitt andlit til Jardar / og tilbad.

10 Og David sagde til Saul: hvi hlÿd-er þu þeirra maña ordum / sem seigia: sia/David sæker epter þiñe olucku.

11 Sia / þÿn augu hafa sied a þessum deige/ ad Drotteñ hefur giefed þig i dag i mÿna hond i hellernum/og mañ sagde/ ad eg skyllde sla þig i hel/ eñ (mitt auga) þyrmde þier/þvi eg sagde: eg vil ecke legg-ia mÿna hond a miñ herra / þvi hañ er Drottens smurdur.

12 Og miñ fader/sia/sia þo þad laf af þÿnum kyrtle i miñe hende / ad eg villde ecke sla þig i hel / þegar eg skar þetta laf af þÿnum kyrtle / þecktu og sꜳdu / ad þar er ecke illt eda yfertrodsla i miñe hende /Eg hefe og ecke syndgad i moote þier / og þu jagar epter miñe sꜳl / ad fꜳnga hana.

13 Drotteñ mun dæma i millum mÿn/og i millum þÿn / og Drotteñ mun hefna mÿn a þier.

14 Eñ mÿn hond skal ecke vera a þier/ sem gamall (mans) ordskvidur hioodar/ af ogudlegum mun ganga ogudlegleike / eñ mÿn hond skal ecke vera a þier

15 Epter hvorium hefur þu utreist/ Israels konungur? hvorium jagar þu epter? epter einum daudum hunde/epter eirnre * floo. * c. 26/ 20.

16 Og Drotteñ vere doomare / og dæme i millum mÿn og þÿn/og lÿte (þar til/) og * utriette mÿna sok/ og frelse mig fra þiñe hende. * Ps. 17/2.

17 Og þad skiede/þegar David hafde endad ad tala þesse ord til Saul / þa sagde Saul: er þetta (ecke) þÿn raust/ miñ son David? og Saul upphoof sÿna raust/ og grret:

18 Og sagde til Davids: þu ert riett-ferdugre eñ eg/ þvi þu hefur launad mier godu/eñ eg/eg hefe launad þier illu.

19 Og þu hefur giefed til vitundar i dag / ad þu hefur giort vel vid mig / þvi Drotteñ hafde innelukt mig i þÿna hond/ og þu sloost mig ecke i hel.

20 Ef eirn madur fyñe ad siña siñ fiandmañ/ skyllde hañ (þa) senda hañ a eirn goodañ veg? eñ Drotteñ mun launa þier goodu fyrer þeñañ dag/sem þu hefur giordt mier.

21 Og sia nu / * eg veit ad þu skallt vissulega verda konungur / og Israels rÿke stendur i þiñe hende. * c. 23/ 17.

22 So sver mier nu vid Drotteñ / ad þu vilier ecke uppræta mitt sæde epter mig/og ecke afmꜳ mitt nafn af mÿns fodurs huuse.

23 Þa soor David Saul/og Saul foor til sÿns huuss/ Eñ David og hañs fooik/ geingu upp i festinguna.

## XXV. Capitule.

Samuels Daude. Nabals Rijkdoomur z Daaruskapur. Abigails Skynsemd

Da * Samuel deyde / og allur Israel safnade sier samañ/og syrgdu yfer honum/og groofu hañ

hañ i hañs huuse i Rama: Og David took sig upp/ og foor ofañ til eydemerk ureñar Paran. * c. 28/ 3.

2 Og þar var eirn madur i Maon/og hafde sijna høndlan i Carmel / og sa same madur var miøg megtugur / og ætte þriu þusund sauda / og tvø þusund geyta / Og þad bar til / ad hañ klipte sijna saude i Carmel.

3 Og mañsens nafn var Nabal / og hañs hustruar nafn Abigail/Og kviñañ var allforstandug/ og fríd sijnum/ eñ madureñ var hardur og illur i sijnu athæfe/ og hañ var eirn Calebite.

4 Þegar David heyrde i eydemørkeñe/ ad Nabal klipte sijna saude:

5 Þa utsende David tiju sveina / og David sagde til sveinaña: ganged burt upp til Carmel/ og nær þier komed til Nabals/ þa heilsed hønū miña vegna.

6 Og seiged so: til luckw/ fridur vere med þier/ og fridur med þijnu huuse / og fridur med øllu þvi þu hefur.

7 Eg hefe nu heyrt/ad þu hafer þa/ sem klippa/Nu/þeir hyrdarar/ sm̄ þu hefur/ hafa vered med oss /vier høfum ecke fyrerlited þa/og þa vantade eckert alla daga / þegar þeir voru i Carmel.

8 Spyr þijna sveina / og þeir munu seigia þier þad / lat sveinana fiña nad fyrer þijnum augum/þvi vier erum komner a eiñ goodañ dag / kiære / gief þijnum þienurum og þijnum syne David/ hvad * þu hefur fyrer hende.

* C. 10/ 7.

9 Þegar Davids sveinar komu(þangad) og høfdu talad til Nabals/ epter øllum þessum ordum Davids vegna / þa lietu þeir af.

10 Og Nabal svarade Davids þienurum / og sagde : hvør er David ? og hvør er Isai sonur ? þar eru nu um stunder marger þienarar / sem skilia sig hvør fra þeirra herrū.

11 Skyllde eg taka mitt braud/ og mitt vatn/ og mitt slatrad (kiøt/) sem eg hefe slatrad handa þeim / sem klippa fyrer mig/ og giefa þeim møñum/sem eg ei þecke/ hvadañ þeir sieu.

12 Þa sneru Davids sveinar vid a þeirra veg / og viku til baka / og komu og kuñgiørdu hønum / epter øllum þessum ordum.

13 Þa sagde David til siña maña : hver binde sitt sverd (vid sig/ ) og hver batt sitt sverd(vid sig/)og David batt og so sitt sverd (um sig/ ) og þar fylgdu upp epter David hierum fiøgur hundrud meñ / eñ tvø hundrud voru hia fansenum.

14 Og eirn pilltur af sveinunum/gaf Abigail/ Nabals hustru/til vitundar/ og sagde: sia/ David sende bod af eydemørkeñe/ ad blessa vorn huussboonda / eñ hañ fussade vid þeim.

15 Þo þeir meñ hafe vered oss myked gooder/ og vier vorum ecke fyrerlitner/ og oss vantade eckert/so leinge sem vier høfum geinged um med þeim/ nær vier vorum i mørkeñe.

16 Þeir hafa vered eiñ muur fyrer oss bæde noott og dag / so leinge vier høfum vaktad saudena hia þeim.

17 So gack nu / og sia hvad þu villt giøra/ þvi þar er ein olucka asett yfer vorn huussboonda/og yfer allt hañs huus/Og hañ er eiñ illskufullur madur/so ad eingeñ kañ tala til hañs.

18 Þa flijtte Abigail sier/ og took tvø hundrud braud/ og tvær fløskur vijns/ og fim tilreidda saude / og fim mæler miøls / og hundrad ( klasa) rusin / og tvø hundrud ( sticke ) fijkna / og lagde þad a asnana.

19 Og sagde til siña sveina : ganged þangad undañ mier/sia/ eg kiem epter ydur / Þo sagde hun Nabal sijnum boonda þad ecke.

20 Og þad skiede/þegar hun reid a asnanum / og foor iñepter under fialled / sia/þa kom David og hañs meñ/ofañ i moote heñe/og hun mætte þeim.

21 Eñ David hafde sagt : nu vel/ eg hefe forgiefens * vardveitt/allt þad/ hañ atte i eydemørkeñe/ ad þar var eckert fargad af øllu þvi/sm̄ hñ atte/

og þañ

og hañ hefur launad mier illu fyrer gott. * C. 24/ 18.

22 Gud giøre Davids fiandmøñum so/og eñ so/ef eg skal læta epter verda af øllu þvi hañ hefur/tiñ til morguns þad verdur lioost ( nockurn / ) * sem þissar i veggeñ. * 1. Kong. 14/ 10.

23 Þegar Abigail sa David/þa flyꝛkte hun sier/og stie nidur af asnanum/ og* fiell nidur a sitt andlit fyrer Davids augsyn/og tilbad a Jordune.

* Ruth. 2/ 10.

24 Og fiell yfer hañs fætur/og sagde: æ miñ herra/ þesse misgiørningur skal vera miñ/og kiære/læt þyna þioo nustu kviñu tala fyrer þynum eyrum/ og heyr þiñar þioonustu-kviñu ord.

25 Miñ herra / kiære / setie ecke sitt hiarta i moote þessum illskufulla mañe / moot Nabal / þvi sem hañs nafn ( hlioodar ) so er hañ / Nabal er hañs nafn / og dæruskapur er hia hønum / eñ eg / þyn þioonustu-kviña sa ecke myns herra þienara / sem þu hafder utsendt.

26 Og nu/ miñ herra/( so sañarlega sem ) * Drotteñ lifer / og (so sañarlega sem) þyn sal lifer/þa hefur Drotteñ hamlad þier / ad þu skyllder ecke koma/(ad uthella)bloode/ og þyn hønd skyllde frelsa þig / So skulu nu þyner fiandmeñ vera / sem Nabal / og þeir sem leita myns herra olucku * C.20/3.

27 Og hier er nu * su blessan/sem þyn þioonustu-kviña færde til myns herra/ og læt hana giefast sveinunum/ sm fara med mynum herra. * 1. Mos. 33/11.

28 Kiære / fyrergief þiñe þioonustu-kviñu þessa yfertrodslu/ þvi Drotteñ mun vyst giøra mynum herra eitt stad fast huus/ þvi miñ herra hefur * hæd Drotteñs bardaga/og þar er eckert illt funded hia þier um þyna daga.

* C. 18/ 17.

29 Nær (nockur) mañeskia uppsetur sig ad ofsækia þig / og til ad sækia epter þiñe sælu / so mun myns herra sal vera inbundeñ i þeirra lifendu bindene /hia Drottne þynum Gude / Eñ þiña fiandmaña sal/ heñe mun hañ utkasta midt af eirnre sløngu.

30 Og þad mun skie/nær Drotteñ giører mynum herra epter øllu þvi gooda / sem hañ hefur talad um þig / og boded þier / ad þu skuler vera * eirn høfdinge yfer Israel: * 2. Sam. 5/ 2.

31 Þa mun þetta ecke vera þier til eins hneixles / ellegar myns herra hiarta til minnar æsteitingar / ad hañ hafe ut hellt bloode oforskulldad / ad miñ herra hafe frelsad sig sialfañ / og nær Drotteñ giører vel vid miñ herra/þa muntu þeinkia a þyna þionustukviñu.

32 Þa sagde David til Abigail : lofadur vere Drotteñ Israels Gud / sem sende þig a þessum deige moote mier.

33 Blessud vere þyn vitska/ z blessud siert þu/ sem hamlader mier a þessum deige/ fra þvi ad koma til bloods (uthellingar) z ad myn hønd skyllde hafa frelsad mig.

34 Og sañarlega(so vissulega sem)Drotteñ Israels Gud lifer / sem hyndrade mig/ ad eg giørde þier ecke vondt/ hefder þu ecke flytt þier og komed i moote mier/ þa hefde ecke Nabal hallded epter tiñ til morguns / nær þad verdur biart / einum sem þissar i veggeñ.

35 So took David af heñar hende þad/ sem hun færde til hañs/og sagde til heñar: far med fride upp til þyns huuss/ficar eg hlydde þiñe raust/ og mett þyna persoonu.

36 Og Abigail kom til Nabal / og sa/ þa hiellt hañ eitt giestabod i synu huuse/ sem eitt kongs giestabod/ og Nabals hiarta var gladt fyrer sig sialfañ / og hañ var miøg druckeñ/ eñ hun kunngiørde hønum ecke nockud * lited eda miked/ þar til þad var lioost um morguneñ.

* C. 20/ 2. C. 22/ 15.

37 Og þad skiede um morguneñ/þegar vyned rañ af Nabal/þa gaf hañs husfru hønum til vitundar / alla þessa hlute/ þa deyde hañs hiarta i hønum/og hañ/ hañ vard sem eirn steirn.

38 Og þad skiede hier um tyu døgum(þar epter /)

epter/) þa sloo Drottenn Nabal/ og hann deyde.

39 Sem David heyrde/ ad Nabal var daudur/ þa sagde hann: lofadur vere Drottenn/ sem hefnde minnar forsmænar hefnd a Nabal/ og vardveitte sinn þienara fra þvi vonda/ og Drottenn launade Nabal þad vonda/ yfer hans hofud. Og David sende þangad/ og liet tala vid Abigail/ ad taka hana sier til eiginrar hustrur.

40 Og þegar Davids þienarar komu til Abigail i Carmel/ þa toludu þeir vid hana/ og sogdu: David sende oss til þijn/ ad taka þig sier til eiginrar hustrur.

41 Og hun stood upp/ og tilbad a sijnu andlite til Jardar/ og sagde: sia/ hier er þijn þioonustu kvinna til eiginrar þioonustu kvinnu/ til ad þvo mijns herra þienara fætur.

42 Og Abigail hradade sier/ og took sig upp/ og reid a einum asna/ og hennar fimm stuulkur reistu med henne/ z hun foor epter Davids bode/ og vard hans hustru.

43 David took og Ahinoam af Jesreel/ og þær voru ogso bædar hans hustrur.

44 Og Saul gaf Micol sijna dootter/ Davids hustru/ til Palti Lais sonar/ sem var af Gallim.

## XXVI. Capitule.

Saul i þridja sinn ofsæker David/ enn hlijtur umm sijder ad blessa David.

Og þeir * Siphitar/ komu til Saul i Gibea/ og sogdu: hefur ecke David faled sig i Gibea Hachila giegnt eidemorkenne?
* C. 23/19. Ps. 54/2.

2 Þa took Saul sig upp/ og foor ofann til þeirrar eidemerkur Siph/ og þriu þusund menn/ utvalder af Israel med honum/ til ad leita epter David i þeirre eidemorku Siph.

3 Og Saul sette sijnar herbuder i Gibea Hachila/ sem liggur giegnt eidemorkenne hia veigenum/ enn David var i eidemorkenne. Og sem hann sa/ ad Saul kom epter honum i eidemorkena:

4 Þa sende David niosnara/ og fieck ad vita/ ad Saul var komenn fyrer vijst.

5 Og David took sig upp/ og kom til þess stadar/ þar sem Saul hafde herbudernar/ og David sa staden/ sem Saul la þar/ og * Abner Ners son/ hans strijds hofudsmadur/ þvi Saul la i vagnborgenne/ og foolked hafde sett sijnar herbuder kringum hann. * c. 14/50.

6 Þa svarade David/ og sagde til Achimelech þess Hethita/ og til Abisai Seruja sonar/ Joabs broodr/ seigiande: hver vill ganga ofann med mier til Saul i herbudernar? og Abisai svarade: eg/ eg vil ganga ofann med þier.

7 So kom David og Abisai til foolksens umm noottena/ og sia/ Saul la og svaf i vagnborgenne/ og hans spiot var sett i jordena hia hans hofdalage/ og Abner og foolked lau kringum hann:

8 Þa sagde Abisai til Davids: * Gud hefur i dag gefed þinn fiandmann i þijna hond/ ** so vil eg nu stijnga hann med spiootenu/ og i jordena einusinne/ ad eg skule ecke hafa þess annad sinn þorf.
* C. 24/5. ** 2. Sam. 16/9.

9 Enn David sagde til Abisai: fordiarfa hann ecke/ þvi hver vill leggia sijna hond a Drottens smurda/ og vera saklaus?

10 Frammveiges sagde David: so (sannarlega sem) Drottenn lifer/* slær Drottenn hann/ eda hans tijme kome/ ad hann skule deya/ eda draga nidur i strijd/ og falla. * Rom. 12/19.

11 So late Drottenn þad vera langt fra mier/ ad leggia mijna hond a Drottens smurda. Enn nu kiære/ tak spiooted/ sem er hia hans hofdalage/ og þann vatns bikar/ og latum oss ganga.

12 So took David spiooted og vatns bikaren/ fra Sauls hofdalage/ og þeir geingu burt/ og þar var eingenn/ sem sa þad/ og eingenn sem visse þad/ og eingenn/ sem uppvaknade/ þvi þeir svafu aller/ þvi þar var fallenn/ eitt diuupur svefn af Drottne a þa.

13 Þegar David var komenn olldunges yferum/ þa stood hann efst a fiallenu/ langt fra/ (so þar var) nogt ruum i millum þeirra.

14 Og David hroopade til fooltsens/ og til Abner Ners sonar/ og sagde: villtu ecke svara/ Abner? og Abner svarade og sagde: hvor ertu/ sem hroopar til konungsens?

15 Og David sagde til Abner: ertu ecke eirn madur? og hver er þin lÿke i Israel? og hvar fyrer hefur þu ecke vardveitt þin̄ herra konungen̄? þvi þar er komen̄ eirn af foolkenu (þangad in̄/) ad fordiarfa kongen̄/ þin̄ herra.

16 Þad er ecke eitt fallegt verk/ sem þu hefur giort/ so (san̄arlega sem) Drotten̄ lifer/ þier erud daudans born/ ad þier hafed ecke vardveitt ydar herra/ Drottens smurda/ og siaa nu/ hvar er kongsens spioot/ og sæ vatns bikar/ sem var hiaa hans hofdalage?

17 Þa þeckte Saul Davids raust/ og sagde: er þetta þÿn raust/ min̄ son David? og David sagde: þad er mÿn raust/ min̄ herra kongur.

18 Og sagde (en̄ framar:) hvar fyrer offsæker min̄ herra so sin̄ þienara? þvi * hvad hefe eg giort? og hvad vondt er i min̄e hende? * c. 17/ 29.

19 So heyre þo nu min̄ herra konungur sins þienara ord: hafe Drotten̄ uppvakt þig i moote mier/ þa læt upptendra fyrer honum mat-offur/ en̄ ef man̄eskiun̄ar born (giora þad/) þa vere þau bolvud fyrer Drottens augsÿn/ þvi þau hafa utreked mig i dag/ ad vera ecke vid Drottens erfd/ sin̄ þeir villdu seigia: gack burt/ þioona odrum gudum.

20 So læt ecke nu mitt blood uthellast a Jordena/ i moot Drottens auglite/ þvi Israels konungur er utdreigen̄/ til ad leita epter eine * floo/ so sem madur elltir eina riupu a fiollunum.

* C/ 24/ 15.

21 Þa sagde Saul: eg hefe sindgad/ kom aptur/ min̄ son David/ þvi eg vil ecke framar giora þier illt/ af þvi mitt lÿf var dyrmætt fyrer þÿnum augum a þessum deige/ siaa/ eg hefe giort dærlega/ og fared villt harla miog.

22 Þa svarade David/ og sagde: siaa/ (hier er) konungsens spioot/ og læt eirn af sveinunum koma yferum og sækia þ.

23 En̄ Drotten̄ betale hverium sÿna riett vÿse/ og sÿna tru/ þvi Drotten̄ hefur gefed þig i dag i (mÿna) hond/ en̄ eg villde ecke setia mÿna hond a Drottens smurda.

24 Og siaa/ lÿka sem þÿn sal var stoorlega virdt a þessum deige fyrer mÿnum augum/ so vere mÿn sal mykels vyrdt fyrer Drottens augum/ og han̄ frelse mig af allre angist.

25 Þa sagde Saul til David: blessadur vertu/ min̄ son David/ jaa þu skallt þad vÿst giora/ og vÿst ogso verka þad/ so gieck David sin̄ veg/ og Saul snere vid til sÿns stadar.

## XXVII. Capitule.

### David med sijnum bijr i Ziklag.

Og David huxade i sÿnu hiarta: eg verd yferfallen̄ einhvern dag fyrer Sauls hond/ eckert er mier betra/ en̄ ad eg alsendes flÿe til Philisteana lands/ ad Saul kun̄e aungva von hafa um̄ mig/ til ad leita epter mier framar meir/ i ollum Israels landamerkium/ so kan̄ eg flyia fra han̄s hende.

2 Þa took David sig upp/ og gieck yferum/ han̄ og sex hundrud men̄/ sem voru med honum/ til * Achis Maochs sonar/ konungsens i Gat. * c. 21/ 10. 1. Kong. 2/ 39.

3 Og David bio hia Achis i Gat/ han̄ og han̄s men̄/ hvor med sitt huus. David og han̄s * tvær hustrur/ Ahinoam su Jesreelitiska/ og Abigail Nabals hustru su Carmelitiska. * c. 25/ 40. C. 30/ 5.

4 Og þegar þad var Saul til vitundar gefed/ ad David var fluuen̄ til Gat/ þa took han̄ sier ecke framar meir fyrer ad sækia epter honum.

5 Og David sagde til Achis: þar sem eg hefe nu funded naad fyrer þÿnu augum/ so læt þa gefa mier ruum/ i einum af stodunum i landenu/ ad eg meige vera þar/ og hvad skal þin̄ þienare bua i þeim

konung-

konunglega stad hia þier?

6 Þa gaf Achis hønum * Ziklag a þeim sama deige / þar fyrer vard Ziklag Juda konunga allt til þessa dags.

* Jos. 15/ 12.

7 Og tijmen / sem David bioo i Philisteana lande / var (eitt) ar og fioorer mánuder.

8 So foor David upp / og hans men / og fiell ut moote þeim / Gessuritum / og Girsitum / og Amalekitum / þvi þesser biuggu i landenu fra gamallre tijd / þar sem þu kiemur til Sur/og allt til Egyptalands

9 Og David sloo landed/ og liet ecke lifa man eda kvinnu / og took saude og fie / og asna/ og kameldyr/ og klæde/og snere aptur / og kom til Achis.

10 Nær ed Achis sagde: hvort fielluð þier ut i dag? þa sagde David: i sudur/ þangad giegnt Juda /og i sudur þangad giegnt Jerahmeelitanum / og i sudur þangad giegnt Kenitanum.

11 Og David liet ecke man eda kvinnu lifa / ad færast til Gat / af þvi han þeinkte/ad þeir skilldu ecke kungiora (nockud ) i moote oss/ seigiande: so giorde David. Og þad var hans vysa/so leinge sem han bioo i Philisteana lande.

12 Þar fyrer truude Achis David/ og hugsade: han hefur alsendes giort sig illa þokkande fyrer sijnu foolke/ fyrer Israel / þar fyrer skal han vera minn þienare æfenlega.

XXVIII Capitule.

Saul i sinne stooru Angist spyr sig um vid eina Spaasagnar Kvinnu i Endor.

Og þad skiede a þeim sømu døgum / ad Philistearner søfnudu þeirra her til strijdsens / til ad strijda i moote Israel/þa sagde Achis til Davids: þu skallt vissulega vita / od þu skallt fara ut med mier i herbudernar/ þu og þijner men.

2 Þa sagde David til Achis: nu vel/þu skallt reyna/ hvad þinn þienare mun giora /og Achis sagde til Davids: þar fyrer vil eg setta þig til ad geima mitt høfud alla daga.

3 Og * Samuel var daudur/og allur Israel hafde syrgt han / og grafed han i Rama / og þad i sijnum stad / og Saul hafde burt reked gallðra foolked og spaasagnar mennena ur landenu. * c.25/1. etc.

4 Og þegar Philistearner søfnudust / og komu/og settu sijnar herbuuder i Sunem/þa safnade Saul øllum Israel/ og þeir settu sijnar herbuder i GilBoa.

5 Þegar Saul sa Philisteana herbuder/ þa ottadest han / og hans hiarta var harla efasamt.

6 Og Saul adspurde Drotten/en Drotten svarade honum aungvu/ hvorke fyrer drauma/ellegar fyrer * upplijsingar/ eda fyrer spamenn. * 2. Mos. 28/ 30.

7 Þa sagde Saul til sinna þienara: upp leited mier eina kvinnu/eina *spaa-konu / ad eg kunne ganga til hennar/ og adspyrta fyrer hana. Og hans þienarar søgdu til hans: sia / þar er ein kvinna/ ein spaakona i Endor. * P. S. 16/ 16.

8 So skipte Saul um sijn klæde/ z færde sig i ønnur klæde / og han gieck þangad/og tveir menn med hønum/og þeir komu til kvinnunnar um nootena/og han sagde: kiæra/spaa mier / þ spaadooms(anda/) og fra mier þan upp / sem eg seige þier.

9 Og kvinnan sagde til hans: sia / þu/ þu veitst/ hvad Saul hefur giort/hvorninn han hefur læted * uppræta galldra foolk /og spaasagnar menn ur landenu/og hvar fyrer villtu setta eina snøru fyrer mijna saal / til ad læta slaa mig i hel?

* 2. Mos. 22/ 18. etc/

10 Þa soor Saul henne vid Drotten / og sagde: (so sannarlega sem)Drotten lifer / skal þesse giorningur ecke reiknast þier til misgiornings :

11 Þa sagde kvinnan : hvern skal eg fa þier upp ? og han sagde: fa mier Samuel upp.

12 Þegar kvinnan sa Samuel/þa hroopade hun med stoorre raust/og kvinnan sagde til Sauls / seigiande : þvi hefur þu sviked mig? þvi þu ert Saul.

13 Þa sagde konungurenn til hennar: ottast ecke / þvi hvad sierst þu ? og kvinnan

sagde

sagde til Saul : eg sa Gud uppstijga af Jørdunne.

14 Og hañ sagde til hennar : hvørnenn var hañs æsijnd? og hun sagde : þar kom eirn gamall madur upp/ og hañ var klæddur einum (yfer-)kyrtle/ Þa merkte Saul/ ad þad var Samuel/ og hañ beigde sig med sijnu æsioonu til Jardar/ z tilbad.

15 Og Samuel sagde til Saul: hvi giørd er þu mier onæde/ ad þu lietst sækia mig upp? þa sagde Saul : eg er i stoorre æng ist/ þvi þeir Philistearner strijda i moote mier/og Gud er vikenn fra mier/ og svarar mier ecke framar/ hvørke fyrer spamenn/nie fyrer drauma/þar fyrer liet eg kalla a þig/ad þu vijsa mier/hvad eg skule giøra.

16 Þa sagde Samuel : hvørs villtu spyria af mier/ * med þvi Drottenn er vikenn fra þier/og er ordenn þinn ovinur?

* C. 16/ 14.

17 Þvi Drottenn hefur giørt sier / so sem hañ sagde fyrer mig / og Drottenn hefur * slited rijked ur þinne hende / og giefed David þijnum naunga þad.

* C. 15/ 28.

18 Af þvi þu ecke hlijdder Drottens raust/ og ecke fullkomnader hañs reide grimd i moote * Amalek/þar fyrer hefur Drottenn giørt þier þennan hlut a þessum deige. * C. 15. 18/ 19.

19 Þar til mun Drottenn gefa Jsrael med þier i Philisteanna hønd / og þu / og þijner syner (munu vera) med mier * a morgun / og Drottenn mun enn þa giefa Jsraels her i Philisteanna hønd.

* C. 31/ 6.

20 Þa fiell Saul hastarlega a Jørd/ so langur sem hañ var/og ottadest hardla miog fyrer Samuels ordum/ja/þar var eingenn kraptur i hønum/ þvi hañ hafde ecke eted braud þann allann dag og þa alla nootk.

21 Og kvinnann kom inn til Sauls/og sa/ ad hañ var miked skielfdur/og sagde til hans: sia/þijn þioonustu-kvinna hlijdde þinne raust/ og eg sette mijna sal i mijna hønd/og hlijdde þijnum ordum/ sem þu talader til mijn.

22 So hlijd ogso nu/ kiære/þinnar þioonustu-kvinnu raust / og eg vil setia einn munnbita af braude fyrer þig/ so et/og kom til kraptar (aptur/ ) ad þu kunner fara þinn veg.

23 Enn hañ neitade / og sagde : eg vil ecke eta/ Þa neyddu hañs þienarar og kvinnann ogso hañ/ ad hann hlijdde þeirra raust/og stood upp af Jørdunne/og setkte sig upp a sængena.

24 Og kvinnann atte einn feitann kalf i huusenu / þa flijtte hun sier/ og slatrade hønum/og took miøl/og hnodade/ og bakade þar af osijrdar ( køkur.)

25 Og hun bar þad framm fyrer Saul og fyrer hañs þienara/ og þeir atu / og stoodu upp / og geingu burt þa sømu nootk.

## XXIX. Capitule.

*Þad þocknadest ecke Kongs Achis Kend-Herrum / ad David skyllde fara med þeim i Strijded moote Saul.*

Og Philistearner høfdu safnad øllum þeirra her i * Aphek/ og Jsrael hafde sett sijnar herbuder vid þann brunn / sem er i Jesreel. * C. 4/ 1.

2 Og Philisteanna høfdingiar geingu þangad med hundrudum / og med þusundum/ enn David og hañs menn geingu a bak epter med Achis.

3 Þa søgdu Philisteanna høfdingiar : hvad eiga þesser Ebreskir? og Achis sagde til Philisteanna høfdingia : er ecke þetta David/Sauls/Jsraels konungsens/ þienare/ sem nu hefur vered hia mier ar og dag/ og eg hefe ecke funded nockud med hønum/sijdann hañ er frafallenn/ allt til þessa dags.

4 So urdu Philisteanna høfdingiar reider vid hann/ og Philisteanna høfdingiar søgdu til hañs: lat þann mann snua til baka/og snua aptur til sijns stadar/ þar sem þu hefur skickad hañ / og ad hañ ecke skule fara ofann med oss i strijded / ad hañ ecke verde vor mootstødumadur i strijdenu / þvi hvar med kynne

 þesse

þesse ad komast i vinskap vid sin herra / mun þad ecke med þessara manna høfdum? * 1. Kron. 13/ 19.
5 Mun þesse ecke vera David/ um hvørn * þær sungu ( moot hvør annare) i dansenum / seigiande: Saul sloo sijna þusund/ og David sijnar tiju þusunder. * c. 18/ 7. etc.
6 Þa kallade Achis a David/ og sagde til hans: (so sannarlega sem) Drottenn lifer/ þu ert rædvandur/ og þinn utgangur z þinn inngangur med mier i hernum þocknast mier / þvi eg hefe eckert illt funded hia þier/ fra þeim deige þu komst til mijn / allt til þessa dags / Enn þu þocknast ecke hofdingiunum.
7 So snu nu aptur og gack i fride/ ad þu ecke skuler styggia Philisteanna høfdingia.
8 Þa sagde David til Achis: hvad * hefe eg þa giørdt / eda hvad hefur þu funded med þijnum þienara/ fra þeirre tijd/ er eg hefe vered hia þier/ allt til þessa dags / ad eg ecke skule koma / og strijda i moote mijns herra konungsens fiandmønnum? * c. 20/ 1.
9 Og Achis svarade/ og sagde til Davids: eg veit / ad þu ert þocknanlegur fyrer mijnum augum/ sem eirn Guds eingell/ enn Philisteanna høfdingiar søgdu: lætt þu hann ecke fara upp med oss i strijded
10 So tak þig nu tijmanlega upp a morgun/ og þijns herra þienarar/ sem komu med þier/ og nær þier hafed tijmanlega teked ydur upp/ a morgun / og þad er biart fyrer ydur/ so fared burt.
11 So stood David ærla upp/ hann og hans menn/ ad fara burt umm morguninn/ ad koma til Philisteanna lands aptur / z Philistearner fooru upp mot Jesreel.

## XXX. Capitule.

David yfervinnur Amalekitana og þær stoort Herfang.

Og þad skiede/ þegar David og hans menn komu a þeim þridia deige til Ziklag/ ad Amalekitarner voru innfallner moot sudre/ og i moote Ziklag/ og høfdu slegid Ziklag/ og brendt hana med ellde.
2 Og høfdu burtflutt kvinnurnar/ sem voru þar i/ sma/ smæa og stoora/ (enn þeir høfdu) aungvann slegid i hel/ helldur burtflutt þa/ og voru farner þeirra veg.
3 Og David og hans menn komu til stadarens/ og siaa/ hann var brendur med ellde/ og þeirra hustrur/ og þeirra syner/ og þeirra dætur voru fangnar.
4 Þa upphoof David/ og þad foolk / sem var hia hønum / þeirra raust og grietu þar til so leinge þar var ecke krapftur i þeim til ad græta.
5 Og * Davids tvær hustrur voru fangnar/ Ahinoam su Jesreelitiska / og Abigail Nabals / þess Carmelita hustru. * c. 25/ 42. c. 27/ 3.
6 Og David var miøg hriggur / þvi foolked hafde sagt / ad þeir villdu * grijta hann / þvi þess giørvalla foolks sæler voru hriggvar / hvør vegna sinna sona / og vegna sinna dætra/ og David styrkte sig i Drottne sijnum Gude.
* 2. Mos. 17/ 4. 4 Mos. 14/ 10.
7 Og David sagde til AbJathar presti sens/ Achimelechs sonar: lætt þu mier nu lijf-kyrtelenn koma hijngad. Og þa AbJathar hafde bored lijf-kirtelenn til Davids/
8 Þa adspurde David Drottenn / og sagde: æ eg * ad ellta þetta strijds foolk? mun eg kunna næ þeim? og hann sagde til hans: ellt þu (þa/) þvi þu skallt vissulega næ (þeim/) og vissulega giøra frelsun. * 2. Sam. 5/ 19.
9 Þa foor * David burt / hann og sex hundrud menn/ sem voru hia hønum/ og þa þeir komu allt til þess lækiar Besor / þa urdu þar nockrer stalldrande epter. * 1. Mos. 14/ 14.
10 Enn David ellte þa/ hann og fiøgur hundrud menn / og tvø hundrud menn voru stalldrande epter / sem voru ofþreytter/ ad fara yfer umm Besors læk.
11 Og þeir fundu eirn Ægyptskann mann a morkenne /og þeir færdu hann til Davids/ og gaafu hønum braud / og hann neytte/

neytte/ og gafu hönū vatn ad drecka.
12 Þeir gafu honum og eitt stycke fijk na/ og tvo (klasa) rusin/ og hañ at/ og hañs ande kom til hañs aptur/ þvi hañ hafde ecke eted brauð / eda drucked vatn i þria daga og þriar nætur.
13 Og David sagde til hñs: hvørium heyrer þu til? og hvadañ ertu? og hañ sagde: eg er eirn Egyptskur sveirn/ eins Amalekita mañs sveirn/og miñ her ra yfergaf mig/ þvi eg hefe vered siukur i dag þria (daga.)
14 Vier/ vier vorum iñfallner suñañ fyrer Crethi/og giegnt þvi/sem er hia Juda / og sudur þadañ giegnt Caleb/ og vier brendum Ziklag med ellde.
15 Þa sagde David til hñs: villtu fæar mig ofañ til þessa flocks? og hñ sagde: sver mier vid Gud/ad þu vilier ecke sla mig i hel/edur ofurselia mig i mijns her ra hønd / þa vil eg færa þig ofañ til þessa flocks.
16 Og hñ færde þa ofañ/og sia/þeir høfdu dreift sier um̄ þa giørvalla Jørd/atu og drucku/og hielldu heilagt yf er øllu þvi stoora herfange / sem þeir høfdu teked af Philisteaña lande / og af Juda lande.
17 Og David sloo þa fra lijsingu og allt til kvøllds a þeim ødrum deige/ad eingeñ komst undañ/utañ fiogur hund rud meñ/ unger karlar/ sem ridu a ulfvølldum / og flijdu undañ.
18 So frelsade David allt þad / sem þeir Amalekitar høfdu teked / David frelsade og so sijnar tvær hustrur.
19 Og þar vantade aungvañ af þeim/ hvørke lijteñ eda stoorañ / hvørke syne eda dætur/ eda af herfangenu / eda af øllu þvi sm̄ þeir høfdu teked med sier: David færde þad allt samañ aptur.
20 Og David took alla saudena og stoorgripena / og þeir ræku þa undañ stoorgripunum/og søgdu: þetta er Davids herfang.
21 Þegar David kom til þeirra tvø hundrud maña/sem voru ordner of þreytter/ i þvi ad fylgia David epter/ og voru epter hia Besor læk / þa geingu þeir ut moote David/ z moote þvi foolke sem var hia hønum / og David gieck fram til foolksins / og heilsade þeim.
22 Þa svøruðu aller vonder og lausingia foolk/af þeim moñum/sem voru farner med David/og søgdu: med þvi þeir fooru ecke med oss/ þa skulum vier ecke giefa þeim af herfangenu/sm̄ vier høfum heimt/ eñ hvør take sijna hustru / og sijn børn/og gange burt.
23 Þa sagde David: þier skulud ecke so giøra/ mijner brædur/ vid þad/ sem Drotteñ hefur giefed oss / og verndad oss/og giefed þetta stríjds foolk i vorar hendur / sem voru komner moote oss.
24 Og hvør skyllde hlijda ydur þar i? þvi* lijka sem hañs hlutur er/ sm̄ þar droo ofañ i strijded/ so skal og hñs hlut ur vera/ sem var hia fansenum/ þeim skal skipta eins. * 4. Mos. 31/ 27. Jos. 22/ 8.
25 Og þad vard so/ fra þeim sama deige og þar epter/ þvi hñ gjorde þad til eirn rat venia/og til eins riettar i Israel/allt til þessa dags.
26 Og þegar David kom til Ziklag/ ut sende hñ til þeirra ellstu i Juda / til sina vina / af herfangenu / og sagde: sia/ þar hafed þier blessan af Drottens fiand maña herfange.
27 Sem var til þeirra i BethEl / og til þeirra i Ramoth moot sudre / og þeirra i Jathir.
28 Og til þeirra i Aroer / og þeirra i Siphmoth / og þeirra i Esthemoa.
29 Og til þeirra i Rachel / og þeirra i þess Jerahmeelita stødum / og þeirra i Kenita stødum.
30 Og til þeirra i Harma / og þeirra i Chor Asan / og þeirra i Atach.
31 Og þeirra i Hebron/og til allra stad aña / þar sem David hafde um̄ferdast / hañ og hañs meñ.

## XXXI. Capitule.

Sauls seinasta Strijd/Daude/ Bañ virding epter hñs Dauda / og Grepiron.

Og * Philistearner strýddu i mooте Jsrael/ og Jsraels men flýdu fyrer þeim Philisteum / og fiellu slegner a ** Gilboa fialle. *1. Kron. 11/1. **1. Sam. 28/4.

2 Og Philistearner eltu Saul og hans syne/og Philistearner slogu Jonatan/ og Abinadab og Malchisua / Sauls syne.

3 Og strýded vard þungt i moote Saul/ og men/ boga-skitturnar/ hæfdu hn̄ / og hann vard miked saar af skittunum.

4 Þa sagde Saul til síns vopn-bera: drag þitt sverd ut/og stícktu mig i hel þar med / ad þesser med forhud skule ecke koma og stínga mig i hel / og giora spott ad mier/ En hans vopnbere villde ecke/ þvi hn̄ ottadest miog/ þa took Saul sverded/ og fiell þar a.

5 Þegar hans vopnbere sa / ad Saul var daudur/ þa fiell hann/ hann og so a sitt sverd / og deyde med honum.

6 So deyde Saul/ og hn̄s þrýr syner / og hn̄s vopn-bere / og so aller hn̄s men asamt a þeim sama deige.

7 Og þegar Jsraels men / sem voru a hina sijdu dalsens / og a hina sijdu Jordanar / sau / ad Jsraels men voru burtflůner/ og ad Saul og hans syner voru dauder/ þa forlietu þeir stadena/og flýdu/ So komu Philistearner og biuggu i þm̄.

8 Og þad skiede a ødrum deige / þa Philistearner komu til ad afklæda þa slegnu/ad þeir fundu Saul og hn̄s þria syne fallna a Gilboa fialle.

9 Þa afhiuggu þeir hn̄s høfud/og tooku hn̄s vopn af honum / og sendu þau til Philisteanā lands um̄ kring / til ad kun̄giora þad i þeirra afguda huusum a medal foolksens.

10 Og þeir løgdu hn̄s vopn i Astharots huus / og heingdu hn̄s lýkama ut a muurenn i Bethsan.

11 Þegar þeir sem biuggu i Jabes i Gilead heyrdu þad/ sem Philistearner høfdu giort vid Saul:

12 Þa * tooku þeir sig upp/ hvør duglegur madur/og geingu þa alla noott/ og tooku Sauls lýkama/ og hans sona lýkame af muurnum i Bethsan / og komu til Jabes / og brendu þa þar.
*1. Kron. 11/12.

13 Og þeir tooku þeirra bein/ og groofu þau under eykenu i Jabes / og * fostudu sio daga.
*2. Sam. 1/12.

ENDER
a Samuelis fyrre Book.

# Su Annur Samuelis Book

## I. Capitule.

David barmar sier yfer Sauls og Jonatans Dauda.

Og þad skiede epter Sauls dauda/þegar David var komen̄ aftur fra þeirra Amalekita slage/og David hafde vered i Ziklag tvo daga.

2 Og þad skiede a þeim þridia deige / og sia / þar kom eirn madur fra herbudunum fra Saul/ og hans klæde voru rifen̄ / og Jørd a hans høfde / og þad skiede/þegar hann kom til Davids/ þa fiell hn̄ nidur a Jørdena og tilbad.

3 Og David sagde til hans: hvadan komst þu? og hann sagde til hans: eg kom̄st undan̄ af Jsraels her.

4 Og David sagde til hans: hvørnen geingur þad til? kiære/ seig mier þad. Og hann sagde: foolked flýde ur strýdenu/ og þar fiell ogso miked af foolkenu/ og deyde/sia þar med og Saul/og Jonatan hans sonur / eru dauder.

5 Og David sagde til þess unga mannsins/þess sem kun̄giørde hønū (þetta:) hvørnen veitst þu / ad Saul sie daudur/ og Jonatan hans son?

6 Þa sagde sa unge madur / sa sem kun̄giørde hønum þad: eg kom vijst ovorvarandes uppa * Gilboa fiall / og

sia/ Saul þrikke sier a sitt spiootſ og sia/ vagnar og reidmeñ sokktu epter hon um. * 1. Sam. 31/ 1.

7 Og hañ snere sier vid / og sa mig/ og kallade a mig/ og eg sagde: sia/ hi er er eg.

8 Og hañ sagde til myn : hvor ert þu ? og eg sagde til hañs : eg er eirn Amalekite.

9 Þa sagde hñ til myn: fardu nu uppa mig/og drepktu mig/þvi hrædsla hef ur hallded mier / þvi mitt lyf er eñ nu ølldungis i mier.

10 Og eg foor uppa hañ/og drap hñ/ þvi eg visse/ad hañ kuñe ecke lifa epter hañs fall/ og eg took koronuna/sem var a hañs høfde / og armbanded/sem var a hañs arme / og hefe bored þau hyngad til myns herra.

11 Þa hreif David i syn klæde/ og reif þau/og þar til aller meñerner/ sem voru hia hønum.

12 Og þeir syrgdu og grietu/ og * føstudu allt til kvollds / yfer Saul / og yfer Jonatan hñs syne/og yfer Drottens folke / og yfer Jsraels huuse / ad þeir voru fallner fyrer sverde. * 1. Sam. 31/13.

13 Og David sagde til þess unga mañs/ þess sem gaf hønum þad til vitundar : * Hvadañ ertu? og hañ sagde : eg er eins framanda Amalekita mañs sonur.
* 1. Sam. 30/ 13.

14 Og David sagde til hñs : hvi * ottadest þu ecke / ad utrietta þyna hønd/ til ad fordiarfa Drottens smurdan?
* 1. Sam. 24. 2. Ps. 105/ 15.

15 Og David kallade til eins af þeim ungu møñum/og sagde : hyngad fram * fall yfer hñ/ og hñ sloo hñ/ og hñ deyde. * 4/12.

16 Þa sagde David til hñs : þitt blood vere yfer þynu høfde/ þvi * þiñ muñur vitnade i moote þier/og sagde : eg/eg hefe slegeð Drottens smurda. * 1. Kron. 2/23.

17 Og David harmade þessum harmagræt yfer Saul og yfer Jonatan hañs syne.

18 Og baud/ad kieña Juda børnum boga fan / sia / þad er skrifad i þess rietlferdnga book.

19 O Jsraels Sigur / hañ er særdur a þynum hædum/ hvorneñ eru hetiurnar fallnar?

20 Giefed þad ecke til vitundar i Gat/ kunngiored þad ecke a gøtunum i Askalon/ ad Philisteana dætur skule ecke gledia sig/ad þeirra dætur/ * sem hafa forhud/ skule ecke kiæta sig. * 1. Sam. 17. 26/ 36

21 Þier fioll i Gilboa/ þar skal ecke dogg / ei helldur regn (koma) a ydur / eda (vera) akrar/af hvorium lyptingar offur (kome/) þvi þar er þeirra sterku skiølldur burtkastadur/ Sauls skiølldur/ (eins sem hañ hefde) ecke vered smurdur med oleo.

22 Jonatans boge veik sier ecke aptur a bak fra þeirra i helsleigeña bloode / fra þeirra sterku feite/ og Sauls sverd kom ecke toomt aptur.

23 Saul og Jonatan voru þeir elskulegu og lystelegu i þeirra lyfe / þeir voru og ecke adskylder i þeirra dauda/ þeir voru lietlfærare eñ erner / þeir voru sterkare eñ leon.

24 Þier Jsraels dætur/grated yfer Saul/ hañ sem klædde ydur dævænlega med skarlate/ hñ sem liet setia gyllinar klenodiur a ydar klæde.

25 Hvorneñ eru þeir sterku fallner mitt i striydenu ? Jonatan er sleigeñ a þynum hædum.

26 Þad gioret mier illt vegna þyn/miñ brooder Jonatan/þu varst mier harla æst udlegur/ þiñ kiærleike var mier furduleg re eñ kveñaña kiærleike.

27 Hvorneñ eru þeir sterku fallner / og striyds vopneñ føpud.

II. Capitule.

David verdur smurdur til Konungs yfer Juda. Jsboseth gioreſt Konungur yfer Jsrael/ og beggia Striyds Høfuds Meñ fara i Striyd/ hvor i moote ødrum.

Og þad skiede þar epter/ ad David spurde Drotteñ ad/og sagde : a * eg ad fara upp i eirn af Juda stødum ? og Drotteñ sagde

sagde til hañs: far upp. Og David sagde: hvert skal eg reisa upp? og hñ sagde: til Hebron. * 1. Sam. 30/ 8.

2 So foor David þangad upp/ og hñs * tvær hustrur/ Ahinoam/ su Jesreelitiska/ og Abigail Nabals/ þess Carmelita hustru. * 1. Sam. 25/ 42.

3 Þar ad auk færde David sijna meñ upp/ sem voru hia hönū/ hvorn med sijnu huuse/ og þeir bioggu i Hebrons stødum.

4 Og Juda meñ komu/ og smurdu þar David til konungs yfer Juda huus/ og gaafu David þad til vitundar/ og søgdu: * þeir meñ af Jabes i Gilead/ hafa grafed Saul. * 1. Sam. 31/ 12.

5 Þa sende David bod til þessra mañа af Jabes i Gilead/ og liet þeim segia: blessader vered þier af Drottne/ ad þier giordud þessa myskunsemd vid ydar herra/ vid Saul/ og þier groofud hñ.

6 Og nu/ Drotteñ giøre myskunsemd og truskap vid ydur/ og eg/ eg vil og so giora vid ydur þetta gooda/ af þvi þier giordud þeñañ hlut.

7 So vere nu ydar hendur styrkvar/ og vered hugdiarfer/ þvi ydar herra Saul er daudur/ so hefur og so Juda huus smurt mig til konungs yfer sig.

8 Eñ Abner Ners son/ sem var * hofudsmadur fyrer Sauls strijds foolke/ took Isboseth Sauls son/ og færde hñ yfer i herbudernar. * 1. Sam. 14/ 50.

9 Og giorde hñ ad konunge i Gilead/ og i Assuri/ og i Jesreel/ og yfer Ephraim/ og yfer BenJamin/ og yfer allañ Israel.

10 Og Isboseth Sauls son var fiørutijge ára gamall/ þegar hñ vard konungur yfer Israel/ og rijkte tvö ár/ þeir af Juda huuse alleinasta voru med David.

11 Og sa tijme/ sem David var konungur i Hebron yfer Juda huuse/ voru sio ár og sex mañuder.

12 Og Abner Ners son droo ut/ med Isboseth Sauls sonar þienurum/ fra Mahanaim til Gibeon.

13 Og Joab ZeruJa son og Davids þienarar droou og so ut/ og mættu hvorter ødrum hia Gibeons fiske-vatne til samans/ og løgdu sig/ þesser a þessa sijdu vid fiske-vatned/ og þeir adrer a þa adra sijdu vid fiske-vatned.

14 Og Abner sagde til Joab: lat sveinana nu giora sig reidubuna/ og leika fyrer oss/ og Joab sagde: lat þa giora sig reidubuna.

15 So tooku þeir sig upp/ og geingu yfer um epter tølu/ toolf fyrer BenJamin/ þad er fyrer Isboseth Sauls son/ og toolf af Davids þienurum.

16 Og sa eine greip þañ añañ i høfud ed/ og hvers sverd var i þess añars sijdu/ og þeir fiellu under eins/ og mañ kallade þañ stad Helkat Zurim sem er i Gibeon.

17 Og þar var a þeim sama deige eitt harla þungt strijd/ Eñ Abner og Israels meñ feingu høgg fyrer Davids þienurū.

18 Og þar * voru þrijr ZeruJa syner/ Joab og Abisai/ og Asael/ Eñ Asael var liettur a sijnum footum/ sem eitt af rádijrum/ sem þar eru a mørkeñe. * 1. Kron. 2/ 16.

19 Og Asael sokte epter Abner/ og veik ecke/ ad ganga til þeirrar hægre/ eda til þrar vinstre handar/ til baka fra Abner.

20 Þa snere Abner sier vid/ og sagde: ertu þesse Asael? og hañ sagde: eg er. Og Abner sagde til hñs:

21 Vijk burt til þeirrar hægre eda til þeirrar vinstre sijdu/ og høndla eiñ af þeim ungu moñum handa þier/ og tak þier hañs besta klæde/ Eñ Asael villde ecke vijkia til baka fra hønum.

22 Þa sagde Abner framveiges til Asael: vijk þier til baka fra mier/ hvi skylde eg sla þig til Jardar? og hvorneñ skyllde eg þora ad lypta mijnu andlite upp fyrer þijnum broodur Joab?

23 Eñ hañ villde ecke vijkia/ þa * stack Abner hañ med þvi aptasta af spiootenu/ vid þad fimta (rif-bein/) og spiooted gieck utum baked a hønum/ og hañ fiell þar/ og deide under hønum/ og þad skiede/ hver sa/ sem kom til þess stadar/ þar sem Asael var falleñ/ og daudur/ þeir stoodu vid. * c. 3/ 27.

þioonustu-kviña huxade : eg vil nu tala til konungsens/ kañskie konungureñ nææ ad giøra þ hñs þioonustu-kviña seiger.
16 Þvi konungureñ mun heyra þad/ ad frelsa siña þioonustu-kviñu af þeiꝛ mañs hende/ sem vill afmaa mig og miñ son undereins fra Guds arfe.
17 Og þyn þioonustu-kviña þeinkte: mijns herra konungsens ord skal nu vera mier til huggunar/ þvi sem eirn * Guds eingell/ so er miñ herra konungureñ / til ad heira þad gooda og þad vonda / og Drotteñ þiñ Gud vere med þier.
* C. 19/ 27.
18 Og konungureñ svarade og sagde til kviñuñar : dyl ecke nu fyrer mier / hvad sem eg vil spyrja þig ad/og kviñañ sagde : miñ herra konungur tale nu.
19 Og konungureñ sagde : er (ecke) Joabs hønd med þier i øllu þessu? og kviñañ svarade og sagde : (so vijst sem) þyn saal lifer / miñ herra konungur / þar er eingeñ / hvørke a þa hægre ellegar vinstre sijdu / i øllu þessu / sem miñ herra konungureñ sagde / þvi þiñ þienare Joab hañ baud mier þad / og hañ lagde øll þesse ord i þiñar þionustukviñu muñ.
20 Ad eg skyllde (so) fegra þessa søk / þañ giørning hefur þiñ þienare Joab giørt / eñ miñ herra er vijs / epter eins Guds eingels vijsdoome/ ad underskanda alla hlute / sem eru a Jørduñe.
21 Þa sagde konungureñ til Joabs: sia/ nu/ eg hefe giørt þeñañ hlut / so gack / og lææt sveineñ Absalom koma aptur.
22 Þa * fiell Joab a sitt andlit til Jardar / og tilbad / og blessade konungeñ / og Joab sagde: i dag merker þiñ þienare/ad eg hefe funded nææd fyrer þijnum augum / miñ herra konungur / ad konungureñ giører hvad hñs þienare seiger.
* C. 9/ 6.
23 So giørde Joab sig reidubueñ / og foor til * Gesur / og færde Absalom til Jerusalem. * c. 3/ 3. c. 13/ 37.
24 Eñ konungureñ sagde: lææt hañ ganga i sitt huus aptur / og ecke siaa mitt auglit/So kom Absalom til sijns huuss/ og sa ecke konungsens auglit.
25 Þar var ecke so frijdur eirn madur i øllum Jsrael/ sem Absalom/ so ad honū var hroosad miøg/þar var eingeñ vanse a honum / fra hañs yl og allt til hañs hvirfels.
26 Og nær hañ rakade sitt høfud / sem skiede/nær hvørt aar var umlided/ad hañ rakade þad / þvi þad var honum offþungt/ ad hañ vard þad af ad raka/ þa vog hañs høfud-haar tvø hundrud sekla / med konungsens vigt.
27 Og Absalom aatte þria sonu og eina dottur/og heñar nafn var Tamar/ hun/ hun var ein frijd kviña uppa aalit.
28 So var Absalom tvø heil aar i Jerusalem/ ad hñ ecke sa konungsens auglit.
29 Og Absalom sende epter Joab / ad senda hañ til konungsens / og hañ villde ecke koma til hañs / og hañ sende eñ nu añad siñ / þo villde hañ ecke koma.
30 Þa sagde hañ til siña sveina : siaed/ þañ part Joabs akurs hia mijnum/ hvar hañ hefur bigg a / ganged og legged elld þar i / Þa løgdu Absaloms sveinar elld i þañ part.
31 Þa stood Joab upp/og kom til Absaloms i huused/og sagde til hñs : þvi løgdu þijner sveinar elld i þañ part/ sem heyrer mier til? og Absalom sagde til Joabs :
32 Sia/ eg sende epter þier/ og liet seigia: kom hijngad/ad eg kyñe senda þig til konungsens / og lææta seiga : hvar fyrer er eg komeñ fra Gesur? þad var mier betra/ ad eg være þar eñ nu/ so lææt mig nu siaa konungsens auglit / sie þar og eirn misgiørningur hia mier / þa slaae hañ mig i hel.
33 Og Joab gieck iñ til konungsens / og gaf honum þad til vitundar/og hañ kallade a Absalom / og hañ kom iñ til konungsens / og hañ tilbad a sijnu andlite til Jardar fyrer konungenum / og konungureñ kyste Absalom.

## XV. Capitule.

David flijr fyrer sijnum Ogudlega Syne Absalom.

Og þad ſkiede þar epter/ ad Abſalom tilbioo ſier vagna og heſta/ og ꝼimtiju meñ/ ſem hlupu ꝼyr-er honum.

2 Og Abſalom ſtood ærla upp/ og gieck a veigeñ hia portenu/ og þad ſkiede/ nær nockur hafde eitt mal/ ad hañ ſkyllde koma ꝼyrer kongeñ til dooms/ þa kallade Abſalom a hañ/ og ſagde: aꝼ hvørium ſtad ert þu? og (nær) hañ ſagde: þiñ þienare er eirn aꝼ Iſraels ættum.

3 Þa ſagde Abſalom til hañs: ſia/ þijn malefne eru good og riett/ eñ þar er eingeñ (til ſkickadur) aꝼ konungenum/ ſem þig ſkule heyra.

4 Og Abſalom ſagde: Hvør ſetur mig til doomara i landenu/ ad hvør madur mæ-ge koma til myn/ ſem hefur þrætu og doom/ ad eg kuñe hialpa honum til riettar.

5 Og þad ſkiede/ nær nockur kom nærlægi/ og villde tilbidia hañ/ þa riette hañ ſijna hond ut/ og took vid honum/ og kyſte hañ.

6 Og Abſalom giørde a þañ hatt vid allañ Iſrael/ ſem etludu ad koma til dooms til konungſens/ og Abſalom ſtal Iſraels mañā hiarta.

7 Og þad ſkiede/ þegar ꝼiorutiger ar voru ute/ ſagde Abſalom til konungſens: Kiære/ lat mig ganga/ og fullkomna mitt heit/ ſem eg loꝼade Drottne i Hebron/ þvi þiñ þienare hiet einu heite/ þa eg bioo i Geſur i Syria/ og ſagde:

8 Þar ſem Drotteñ ꝼyrer oſſ færer mig aptur til Ieruſalem/ þa vil eg þioona Drottne.

9 Og konungureñ ſagde til hañs: ꝼar med ꝼride/ og hañ took ſig upp/ og gieck til Hebron.

10 Og Abſalom hafde ſendt niooſnara til allra Iſraels ætta/ og liet ſeigia: nær ſem þier heyred baſunuñar hliood/ þa ſkulud þier ſeigia: Abſalom er ordeñ kon-ungur i Hebron.

11 Þar geingu tvo hundrud meñ med Abſalom aꝼ Ieruſalem/ ſem voru kallader/ eñ geingu i þeirra einꝼelldne/ og viſſu eckert aꝼ efnenu.

12 Og Abſalom ſende til Achitophel/ þeſſ Gilonita/ Davids rads/ aꝼ hañs ſtad/ aꝼ Gilo/ þegar hañ offrade offrenu/ og ſambanded vard ſterkt/ og foolked hliop til/ og vard ꝼiølgad med Abſalom.

13 Þa kom ſa/ ſem kuñgiørde þad fyrer David/ og ſagde: hvørs mañs hiarta i Iſrael/ fylger Abſalom epter.

14 Þa ſagde David til allra ſiña þienara/ ſem voru hia honum i Ieruſalem: * ſtanded upp/ latum oſſ ꝼlija/ þvi vier munum ecke kuña undañ komaſt ꝼyrer Abſalom/ ꝼlijted ydur ad ꝼara/ ad hañ ſkule ecke hrada ſier/ og griJpa oſſ/ og færa eina olucku yfer oſſ/ og ſla ſtadeñ med bitru ſverde. * Pſ. 3/1.

15 Og konungſens þienarar ſøgdu til konungſens: hvad ſem miñ herra kon-ungureñ utvelur/ ſia/ (hier eru) þijn-er þienarar.

16 Og konungureñ gieck ut/ og allt hañs huus a fæte/ og konungureñ liet tiju kvinur/ (ſijnar) hia kviñur vera/ til ad geima huuſed.

17 Og konungureñ gieck ut/ og allt foolked footgangande/ og ſtoodu langt fra huuſenu.

18 Og aller hañs þienarar geingu hia honum/ þar med aller þeir * Crethi og aller þeir Plethi/ og aller þeir Gith-itar/ ſex hundrud mañs/ ſem voru kom-ner footgangande af Gat/ geingu fyr-er konungenum. * c. 8/18.

19 Og konungureñ ſagde til * Ithai Githita: hvi geingur þu ogſo med oſſ? ſnu aptur/ og vertu hia konungenum/ þvi þu ert framande/ og þu ſer ogſo til þijns ſtadar. * c. 18/2.

20 Þu komſt i giær/ og ſkyllde eg i dag lata þig ganga med oſſ? eñ eg vil ganga/ hvørt eg kañ ganga burt/ ſnu apt-ur/ og fær þijna brædur til baka/ med þier ſie myſkun og trufeſte.

21 Og Ithai ſvarade konungenum/ og ſagde: (ſo viſſulega ſem) Drotteñ lif-er/ og (ſo viſſulega ſem) miñ herra konungur lifer/ þa i hvøriu hellſt ſtad ſem miñ herra konungureñ er/ ſie þad

til

til daudans eda til lijffsens/þar skal og
þiñ þienare vera.

22 Og David sagde til Ithai: so kom/
og gack fram/So framgieck Ithai Gi
thite / og aller hañs meñ / og øll þau
Børn/ sem voru med hønum.

23 Og þad giørvallt land griet med
hærre raust/ og allt foolked gieck yfer-
um/og konungureñ gieck yfer * Kidro-
ns læk / og allt foolked gieck yferum a
veigeñ til eydemerkureñar. * Joh. 18/1.

24 Og sia / Zadok var ogso þar / og
aller þeir Levitar / sem voru hia høn-
um/sem bæru Guds sattmaals ørk/og
þeir settu Guds ørk nidur/ og AbJa
thar gieck upp/þar til allt foolked kom
aldeiles yferum ur stadnum.

25 Þa sagde konungureñ til Zadok:
ber þa Guds ørk i stadeñ aptur / fiñe
eg naad fyrer Drottens augum/þa sæk
er hñ mig aptur/og lætur mig sia ha-
na/og siñ bustad.

26 Eñ seige hañ so : eg hefe øngva
lyst til þijn / Sia/ hier er eg/ * hañ
giore vid mig/ sem hønum sijnest.
* C. 10/12.

27 Og konungureñ sagde til Zadok /
prestsens: ertu(ecke)siaandeñ? snu apt
ur til stadarens med fride/og Ahimaas
þiñ son/og Jonatan AbJathars son/
ydar tveir syner med ydur.

28 Siaed/eg vil bijda a mørkeñe i eide
mørkeñe / þangad til þar kiemur bod
fra ydur / ad giefa mier til vitundar.

29 So færde Zadok og AbJathar
Guds ørk aptur til Jerusalem / og vo-
ru þar.

30 Eñ David gieck uppa oliu fialled/
a medañ hañ gieck upp/ so griet hañ/
og hañs høfud var sveipad / og hañ
gieck berfættur / þar til allt foolked /
sem var hia hønum/hafde sveipad hv-
ør sitt høfud / og geingu oodum upp
og grietu.

31 Og þegar þad vard David til vit-
undar giefed/ad Achitophel være i sam
bande med Absalom/þa sagde David:
Drotteñ/gior nu Achitophels raad ad
dæruskap.

32 Og þad skiede/ad David kom upp
til toppsens / ad hañ villde tilbidia þar
fyrer Gude / og sia / þa mætte Husai
Archite hønum / med sundur rifnum
kyrtle/ og Jørd a hañs høfde.

33 Og David sagde til hañs: geinger
þu med mier / þa verdur þu mier til
þunga.

34 Eñ geinger þu til baka aptur i
stadeñ og segder til Absaloms: eg er
þiñ þienare / eg vil heira konung-
enum til/eg sem var þijns fødurs þien
are/ þañ tijd/vil nu vera þiñ þienare/
so giørder þu/ mier (til gooda/) Achi-
thophels raad ad aungvu.

35 Eru þar ecke med þier Zadok og
AbJathar / prestarner ? og þad tiñe
skie / ad allt þad ord / sem þu heyrer i
konungsens huuse/kyñer þu/kuñgiøra
Zadok og AbJathar prestunum.

36 Sia/þar eru hia þeim þeirra tve-
ir syner / Ahimaas fyrer Zadok / og
Jonatan fyrer AbJathar / fyrer þa
kuñed þier senda mier / sierhvert ord
þier heyred.

37 So kom Husai/ Davids * vinur i
stadeñ / og Absalom kom i Jerusalem.
* 1. Kron. 28/ 33.

## XVI. Capitule.

David verdur spottadur af Simei.
Absalom dryger Blood-Skøm i
Jerusalem.

OG David var geingeñ skamt
yfer fra toppenum/og sia/ *
Ziba/MephiBosets þienare/
mætte hønum med eitt par
sødladra asna/og a þeim voru tvø hun
drud braud/ og hundrad(klasar)rusin /
og hundrad eple / og ein flaska vins.
* C. 9/ 2.

2 Og konungureñ sagde til Ziba: hv-
ad villtu þar med(giøra?)og Ziba sag
de: asnarner skulu vera handa konung-
sens huuse / til ad rijda/ og brauded og
sumar-(avøxtureñ)handa sveinunum
ad eta/og vijned til ad drecka/ nær nock
ur verdur þreittur i eidemørkeñe.

3 Og

3 Og konungurenn sagde: hvar er þijns Herra son? og * Ziba sagde til konung sens: sia/ hn̄ var i Jerusalem/ þvi hn̄ sagde: i dag mun Israels huus giefa mer mijns fødurs rijke aptur.

* C. 9/ 27.

4 Og konungurenn sagde til Ziba: sia/ allt þad/ sem Mephi Boset a/ þad skal vera þitt/ og Ziba sagde: eg tilbid/ lat mig finna nád fyrer þijnum augum/ min̄ Herra konungur.

5 Og konungurenn David kom til Bahurim/ og sia/ þa gieck eirn madur þar ut fra/ af Sauls huuss ætt/ hvørs nafn var Simei/ Gera son/ sem utgieck oodum og * bølvade. * 1. Kong. 2/ 8. etc.

6 Og sloo til Davids med steinū/ ꝛ til allra kong Davids þienara/ þvi allt fol ked/ ꝛ aller þeir yppurstu/ voru hia hans hægre og hans vinstre sijdu.

7 Og Simei sagde so/ þegar hann * bølvade: hier ut/ hier ut/ þu (blood-gijruge) mann/ og þu lauslynde mann.

* 2. Mos. 22/ 28.

8 Drottenn hefur betalad þier alls Sauls huuss blood/ ad þu ert orden̄ konungur i hans stad/ nu hefur Drotten̄ giefed rijked i þijns sonar Absaloms hønd/ og sia/ þu ert i þinne oluccku/ þvi þu ert eirn blood-(gijrugur) madur.

9 Þa sagde Abisai ZeruJa son til konungsens: hvar fyrer skyllde þesse daude hundur bølva mijnum Herra kon- ungenum? kiære/ lattu mig ganga þang ad/ og eg vil taka høfuded af honum.

10 Enn konungurenn sagde: hvad hefe eg med ydur ad giøra/ þier ZeruJa børn? þvi lat hann bølva/ þvi Drottenn hefur sagt til hans: bølva David/ og hvør kann seigia: hvar fyrer giørder þu svo?

11 Og David sagde til Abisai og til allra hans þienara: sia/ min̄ sonur/ sem er komenn af mijnu lijfe/ sæker epter mijnu lijfe/ og skyllde ecke myklu framar nu Jemini sonur? lated hann (þvij- ga) og lated hann bølva/ þvi Drottenn hefur sagt þad til hans.

12 Þad kann skie/ ad Drottenn mune sia til minnar eymdar/ og Drottenn mune betala mier goodu fyrer hans bølvan a þessum deige.

13 So gieck David og hans menn a veig enum/ enn Simei gieck hia sijdunne a fiall enu/ jafnsijdes hia honum oodum fram/ og bølvade/ og grijtte med steinum mooti honum/ og joos med mollduñe.

14 Og konungurenn kom inn/ og allt folked sem voru þreytter/ med honum/ og endurnærdust þar.

15 Enn Absalom og allra Israels manna foolk/ komu i Jerusalem/ og Achitophel med honum.

16 Og þad skiede/ þegar Husai sa Archite/ * Davids vinur/ kom til Absalom/ þa sagde Husai til Absalom: konungurenn hlioote luccku/ konungurenn hlioote luccku. * C. 15/ 37.

17 Enn Absalom sagde til Husai: er þesse þijn myskunsemd vid þinn vin? þvi foorstu ecke med þijnum vin?

18 Og Husai sagde til Absalom: ecke (so/) helldur hvørn Drottenn utvelur/ og þetta foolk/ og aller Israels menn/ honum vil eg heyra til/ og vera hia hm̄.

19 Og þar næst/ hvørium skyllde eg/ eg þioona? skyllde eg ecke (þioona) fyrer hans syne? lijka sem eg þioonade fyrer þijnum fødur/ so vil eg vera ꝥ þier.

20 Þa sagde Absalom til Achitophels: radslaged þier/ hvad vier skulum giøra?

21 Og Achitophel sagde til Absaloms: gack inn til þijns fødurs hia-kvenna/ * sem hann liet hier/ ad geima huused/ so mun allur Israel heyra/ ad þu hafer giørt þig illa luktande fyrer þijnum fødur/ og allra þeirra hendur/ sem eru hia þier/ munu verda þess diarfare. * C. 12/ 16.

22 Þa reistu þeir Absalom tialld a þakenu/ og * Absalom gieck inn til sijns fødurs hia-kvenna/ fyrer alls Israels augum. * C. 12/ 11.

23 Og þad rad/ sem Achitophel riede

a þeim døgum/ var lijka sem madur hefde adspurt Gud um̃ nockud/ so var allt Achitophels ræd / bæde fyrer David / og fyrer Absalom.

XVII. Capitule.

Achitophels Ræd og Daude.

Og Achitophel sagde til Absaloms : eg vil nu utvelia toolf þusund meñ/ z bua mig/ og* ellta David i nott. *Ps. 71/11

2 Og eg vil yferfalla hañ / þa stund hañ er þreyttur og moodur / og skielfa hañ/ og allt foolked/ sem er hia hønum skal flija / Og eg vil slæ konungeñ fyrer sig alleina.

3 Og færa allt foolked aptur til þijn/ Nær hvør madur er þa komeñ til þijn aptur / sem þu leitar epter / so verdur allt foolked med fride.

4 Og þad ord sijndest Absalom riett/ og øllum þeim ellstu i Israel.

5 Þa sagde Absalom: kiære / kalla og so a * Husai/ þañ Archita/ og lætum oss heyra/ hvad hañ hefur ogso ad seigia. *c. 15/16.

6 Og þegar Husai kom til Absaloms / þa sagde Absalom til hañs/ seigiande: epter þessum hætte hefur Achitophel talad/ skulum vier giøra þad hañ heþur sagt/ edur ey? seig þu til.

7 Og Husai sagde til Absaloms : þad ræd er ecke gott / sem Achitophel heþur ræded i þetta siñ.

8 Og Husai sagde: þu þecker þiñ fødur og hañs foolk/ ad þeir eru sterker/ og þeir eru beisklundader/ sem eirn biørn/ (nær hañs huunar) rænast þra honum a mørkeñe/ þar til er og þiñ fader eirn strijdsmadur/ og mun ecke vera noottena ut hia foolkenu.

9 Sia nu/ hañ/ hañ kañ nu haþa skolted sier i eirn aþ hellrunum/ eda nockurn añañ stad / og þad kiñe skie / eþ þar þielle (nockur) aþ þessum i fyrstuñe/ ad nockrer kiñe þad heyra / og seigia: þar skiede eitt slag a medal þess foolks / sem pylgde Absalom epter.

10 So yrde sa ogso ølduñges felms fullur / sem er þo añars eirn goodur strijdsmadur/ sem heþur eitt hiarta / sem eins leons hiarta / þvi allur Israel veit / ad þiñ fader er sterkur /og vollduger strijdsmeñ / sem eru hia honum.

11 Eñ eg ræd þad/ ad þar fyrer vijst saþnest til þijn allur Israel / þra Dan og allt til Berseba / sem sandur þar er hia haþenu i margþiolda / og þijn persoona drage med i strijded.

12 So vilium vier koma til hañs/ i hvør sum helst aþ stodunum/ þar hañ þinst i/ og viliũ vier falla yþer hañ/ lijka ſ døgg eñ fellur a Jordena/ ad þar skule ecke verda lijþs jaþnvel eirn med honum/ eda med øllum þeim moñum sem eru hia honum.

13 Eñ saþne hañ sier i eirn stad/ þa skal allur Israel bera reipe um̃ þañ sama stad/ og vier vilium draga hañ nidur til lækiarens/ þar til ad þar ecke þiñist jaþnvel eiñ steiñ aþ (honum.)

14 Þa sagde Absalom og hvør madur i Israel : Husai þess Archita ræd eru betre eñ Achitophels ræd: eñ Drotteñ hagade þvi (so/) ad hañ skyllde til einkis giøra Achitophels þad gooda ræded / uppa þad/ ad Drotteñ þar med skyllde færa olucku yþer Absalom.

15 Og Husai sagde til Zadoks og til Abiathars prestaña; so og so riede Achitophel Absalom og þeim ellstu aþ Israel/ og so og so heþe eg / eg ræded.

16 So sended nu hradlega/ og læted David til vitundar giefa/ og seiged: vert ecke i noott a eydemerkureñar sliettlende/ helldur þar vissulega yferum̃/ ad konungureñ skule ecke uppsvelgiast/ z allt foolked/ sem er hia honum.

17 Og Jonatan og Ahimaas stoodu hia þeim bruñe * Rogel / og ein stulka gieck burt/ og sagde þeim þad/ og þeir/ þeir geingu þangad/ og søgdu konungenum David þad/ þvi þeir þordu ecke læta sig sia/ ad þeir kiæme i stadeñ. * 1. Kong. 1/9.

18 Eñ eirn pilltur sa þa/ og gaþ Absalom þad til vitundar/ og þeir geingu bæder hastarlega burt/ og komu i eins mañs huus

huus i Bahurim/ og han hafde eirn brun i sijnum garde/ og þeir stigu þar ofan.

19 Og kvinnan took og breidde eitt klæde yfer munnan a brunnenum/ og dreifde grionum þar a/ og þad vard ecke merkt.

20 Þegar Absaloms sveinar komu til kvinnunar i huused/ þa sogdu þeir: hvar er Ahimaas og Jonatan? og kvinnan sagde til þeirra: þeir geingu yfer um þad litla vatn/ og þeir leitudu/ og fundu eckert/ og geingu til Jerusalem aptur.

21 Og þad skiede/ epter þad þeir voru farner/ þa uppstigu þeir af brunnenum/ og geingu/ og gafu þad konunginum David til vitundar/ og sogdu til Davids: giøred ydur reidubuna/ og ganged hastarlega yfer vatned/ þvi so hefur Achitophel raaded i moote ydur.

22 Þa stood David upp/ og allt foolked/ sem var hia honum/ og geingu yfer um Jordan/ þar til þad vard lioos dagur/ þar til þar vantade ecke eirn/ sem vissulega var geingenn yfer um Jordan.

23 Og Achitophel sa/ ad hans raad vard ecke framgeingt fyrer sier/ þa sødlade han asnan/ og took sig upp/ og foor til sijns huuss/ til sijns stadar/ og raadstafade sijnu huuse/ og heingde sig/ og deyde/ og var grafenn i sijns fødurs grøf.

24 Og David kom til Mahanaim/ og Absalom foor yfer um Jordan/ han og aller Israels menn med honum.

25 Og Absalom hafde sett * Amasa i Joabs stad/ yfer herenn/ og Amasa var eins manns son/ hvors nafn var Jithra/ eirn Israelite/ sem gieck inn til Abigal/ Nahas doottur/ ZeruJa systur/ sem var Joabs mooder. * c. 19/13.

26 Og Israel og Absalom settu sijnar herbuder i Gileads lande.

27 Og þad skiede/ þegar David var komenn i Mahanaim/ þa færde Sobi Nahas son af Ammons barna Rabba/ og Machir Ammiels son af Lodebar/ og * Barsillai sa Gileadite af Roglim/ * 1. Kong. 2/7.

28 Sængur og munnlaugar/ og leirkier/ og hveite/ og bygg/ og miøl/ og steikt (ax/) og bauner/ og ertur/ og grioon/

29 Og hunang/ og smiør/ og saude/ og kuua osta/ til Davids/ og til foolksens/ sem var med honum/ til ad eta/ þvi þeir þeinktu/ foolked er hungrad/ og * þreitt/ og þyrst/ i eydimørkenne.

* C. 16/2.

## XVIII. Capitule.

### Absaloms hørmulegur Daude.

Og David talde foolked/ sem var hia honum/ og sette yfer þad høfudemenn yfer þusund/ og høfudemenn yfer hundrud.

2 Og David utsende foolked/ þann þridia part under Joab/ og þann þridia part under Abisai/ ZeruJa syne/ Joabs broodur/ og þann þridia part under * Ithai þeim Githita/ og konungurenn sagde til foolksens: eg/ eg vil og so vissulega fara ut med ydur. * c. 15/19.

3 Enn foolked sagde: þu skallt ecke fara ut/ þvi þo vier vissulega flyidum/ þa øktudu þeir oss einkes/ eda þo helft enn dæe/ þa øktudu þeir oss einkes/ þvi þu/ þu ert eins sem tiu þusunder af oss/ so er þad nu betra/ ad þu komer oss til hialpar af stadnum.

4 Og konungurenn sagde til þeirra: hvad ydur synest gott/ þad vil eg giøra/ So stood konungurenn hia portenu/ og allt foolked droo ut/ hundrudum saman og þusundum saman.

5 Og konungurenn baud Joab/ og Abisai/ og Ithai/ og sagde: * (fared) minna vegna hæglatlega med sveinenn med Absalom/ og allt foolked heyrde þad/ ad konungurenn baud øllum høfudsmønnunum um Absalom. * v. 12.

6 Og þa foolked kom ut a mørkena moote Israel/ þa hoofst strijded i Ephraims skoogie.

7 Og Israels foolk vard þar sleiged af Davids þienurum/ og þar skiede eitt stoort slag a þann sama deige/ (sem var) hier um tuttugu þusunder.

8 Og strijded dreifdest þar yfer allt landed/

ded / og skoogurenn forfærde fleira fool-ke/helldur enn sverded i helsloo/ a þeim sama deige.

9 Og Absalom kom framm moot Davids sveinum / og Absalom reid a einu muul/ og þegar muullenn kom under eina stoora þickva eyk / þa hieck hanns høfud vid eykena/ og hann hieck i millum Himens z Iardar/ enn muullenn/sem var under hønum/hlioop affram.

10 Þegar eitn madur þad sa / gaf hann Ioab þad til vitundar / og sagde: sia / eg sa Absalom hanga i einne eyk.

11 Og Ioab sagde til mannsens / sem gaf hønum þad til vitundar: og sia / sastu þad/og þvi slooftu hann ecke þar til Iardar? so kynne eg hafa giefed þier tiju silfur-(peninga) og eitt bellte.

12 Enn madurenn sagde til Ioabs : og þo þu hefder enn þa veiged þusund silf-ur-(peninga) i mijna hønd / þa villda eg ecke hafa lagt mijna hønd a konung sens son / þvi konungurenn baud þier / og Abisai og Ithai/ fyrer vorum eyrum / og sagde: * vared ydur / ad ecke nockur(skade)sveinenn Absalom. *v.5.

13 Ellegar þar sem eg hefde giørt nockud falskt/ uppa minnar sælar(hæska/ ) med þvi þar verdur eckert duled fyrer konungenum/ þa hefder þu / þu sialfur sett þig þar i moot.

14 Þa sagde Ioab/eg kann ecke so tefia hia þier/ So took hann þriu spioot i sijna hønd/ og stack þeim i Absaloms hiarta/medann hann enn þa lifde midt i eykenne.

15 Og tiju unger menn / sem baaru Ioabs vopn/gaafu sig umm kring/og sloou Absalom/ og dræpu hann.

16 Þa * blies Ioab i basununa/ og foolked kom aptur/fra þvi ad ellta Israel/ þvi Ioab fyrerbaud foolkenu þad.

* C. 2/ 28.

17 Og þeir tooku Absalom / og køstudu hønum ut i skoogenn i þa stooru grifiu/og løgdu eina harla stoora dijngiu griots a hann/ og allur Israel flijde/ hvør til sinna heimkinna.

18 Og Absalom hafde teked og uppreist sier einn stoolpa/ þa hann enn lifde / sem stendur i konungsens dal/ þvi hann sagde : eg a aungvann son / þar fyrer skal þesse vera mijns nafns minning/og hann kallade þann stoolpa epter sijnu nafne/og hann kallast Absaloms hønd/ inn til þessa dags.

19 Og Ahimaas Zadoks son sagde : kiære/lat mig hlaupa og boda konungenum / ad Drottenn hafde sett hønum rieltt af hanns ovina hende.

20 Enn Ioab sagde til hanns: þu flitur ecke good tijdende a þessum deige/ enn eitn annann dag skallt þu flitia tijdendenn / og þu skallt ecke flitia tijdendenn i dag/þviad konungsens sonur er daudur

21 Og Ioab sagde til Eusi: gack burt/ og seig til konungsens/þad sem þu hefur sied / Og Eusi laut fyrer Ioab/ og hlioop.

22 Enn Ahimaas / Zadoks son hiellt enn nu framm/og sagde til Ioabs: og hvad þar munde verda af/kiære/lat mig og so hlaupa epter Eusi/og Ioab sagde: hvi villt þu hlaupa/ minn son? þu hefur þo ecke ein good tijdende.

23 Og hvad þad skyllde vera / (sagde hann /) þa vil eg hlaupa/Og hann sagde til hanns: hlauptu/so hlioop Ahimaas þann slietta veg / og hlioop framm hia Eusi.

24 Og David sat i millum beggia portanna/og vaktarenn gieck uppa portsens þak hia murnum/ og lipte sijnum augum upp /og sa/og sia/einn madur/ sem hlioop fyrer sig alleina.

25 Þa hroopade vaktarenn / og sagde konungenum þad/ og konungurenn sagde: sie hann alleirn/þa eru þar ein good tijdende i hanns munne/og hann hlioop hartt og kom nær.

26 Þa sa vaktarenn einn annann mann hlaupande/og vaktarenn hroopade til portvørdsens/og sagde: sia/einn madur/sem hleipur þ sig alleina/z konungurenn sagde: þesse er ogso einn goodur sendebode.

27 Og vaktarenn sagde: eg sie þess fyrsta

ſta hlaup/ lyka ſem Ahimaas Zadoks ſonar hlaup/ og konungureñ ſagde: þad er eiñ goodur madur / og hañ ber ein good tyꝺende.

28 Og Ahimaas hroopade/ og ſagde til konungſens: fridur / og laut fyrer konungenum a ſitt andlit til Jardar/ og ſagde: bleſſadur vere Drotteñ þiñ Gud/ ſem hefur offurſellt þa meñ / ſem upplyptu ſyña hønd moote mynum herra konungenū.

29 Og konungureñ ſagde: geingur þad ſveinenum Abſalom vel? Ahimaas ſagde: eg ſa eina ſtoora kulldran/ þa Joab ſende konungſens þienara og þiñ þienara/ og eg veit ecke hvad þad var.

30 Og konungureñ ſagde: vyku vid/ og ſtattu hier/ og hañ veik vid/ og ſtood.

31 Og ſia/ þa kom Cuſi/ og Cuſi ſagde: þad bodaſt mynum herra konungenum / ad Drotteñ hefur giort þier riett i dag / af allra þeirra hende / ſem ſettu ſig upp i moote þier.

32 Og konungureñ ſagde til Cuſi: geingur þad ſveinenum Abſalom vel? og Cuſi ſagde: myns herra konungſens fiandmeñ/ og aller þeir / ſem ſettu ſig i moote þier til ills / verde ſem ſveirneñ.

33 Þa vard konungureñ hryggur/ og gieck uppa ſaleñ i portenu/ og griet/ og þegar hañ gieck/ ſagde hañ ſo: miñ ſon Abſalom/ miñ ſon/ miñ ſon Abſalom/ Gud giæfe eg / eg mætte deya fyrer þig Abſalom miñ ſon / miñ ſon.

## XIX. Capitule.

### David kiemur med Vegſemd aptur til ſyns Rykis.

Og þad vard Joab til vitundar giefed/ ſia/ konungureñ * grætur og ſyrger epter Abſalom.
* C. 18/ 33.

2 Og ſa ſigur vard þañ ſama dag til kirnrar ſorgar a medal alls foolkſens/ þvi foolked heyrde a ſama deige/ ad þar ſagdeſt: konungureñ er hryggur epter ſiñ ſon.

3 Og foolked ſtalſt iñ a þeim ſama deige/ ad koma i ſtadeñ / lyka ſem eitt foolk ſtelſt iñ/ ſem er vanvirdt/ nær þad flyr ur ſtryde.

4 Og konungureñ ſveipade ſitt andlit/ og konungureñ hroopade med hærre rauſt: * miñ ſon Abſalom/ Abſalom miñ ſon/ miñ ſon. * c. 18/33.

5 Og Joab gieck iñ til konungſens i huuſed/ og ſagde: þu hefur i dag vanvirdt alla þyna þienara/ ſem i dag frelſudu þyna ſaal/ þiña ſona og þiña dætra ſaal/ og þiña huſtrua ſaal / og þiña hiaakveña ſaal.

6 Ad þu elſkar þa/ ſem hata þig/ og hatar þa/ ſem elſka þig/ þvi þu lætur þig merkia i dag/ ad þu ſkeiter ecke neitt um (þyna) høfdudsmeñ og ſveina/ þvi eg merke i dag/ ad ef Abſalom lifde/ og vier værum aller dauder i dag/ ad þad hefde þa likeſt þier riett.

7 Og nu ſtattu upp/ gack ut/ og tala vingiarnlega vid þyna þienara/ þvi eg ſver vid Drotteñ / ad ganger þu ecke ut/ þa verdur þar ecke eirn madur hia þier þeſſa noott / og þetta hid vonda verdur þier verra/ eñ allt þad illt/ ſem er komed yfer þig/ fra þynum ungdoome iñ til þeſſa.

8 Þa ſtood konungureñ upp / og ſat i portenu / og þar vard ſagt fyrer øllu foolkenu ſoleides: ſia/ konungureñ ſitur i portenu/ þa kom allt foolked fyrer konungeñ/ eñ * Iſrael var burtflueñ/ hvør til ſiña heimkyña. * c.18/17.

9 Og þad ſkiede/ ad allt foolk þrattade i øllum Iſraels kynkvyſlum/ og ſagde: konungureñ frelſade oſſ af vorra fiandmaña hende/ og hañ frelſte oſſ af Philiſteaña hende/ og hañ hlaut ad flyia ur landenu fyrer Abſalom.

10 So er Abſalom/ ſem vier høfdum ſmurt yfer oſſ/ daudur i ſtrydenu / og nu/ hvar fyrer erud þier (ſo) kyrrer ad ſækia konungeñ aptur?

11 Eñ konungureñ David ſende til Zadok og til AbJathar preſtaña/ og liet ſeigia: taled vid þa elſtu i Juda / og ſeiged: hvar fyrer vilied þier vera þeir ſeinuſtu / til ad ſækia konungeñ aptur til ſyns huuſſ? þvi alls Iſraels ræda var

var komeñ fyrer konungeñ i hñs huus.

12 Þier erud mijner brædur/ mitt bein og mitt holld erud þier / og hvar fyrer vilied þier vera þeir seinustu til ad sækia konungeñ aptur?

13 Og seiged til * Amasa: ** ert þu ecke mijn bein og mitt holld? Gud giøre mier svo og eñ svo/ ef þu skallt ecke vera strijds·høfuds·madur hia mier alla daga/ i Joabs stad. * c. 17/25.
** 1. Kron. 2. 16/17.

14 Og hañ hneigde allra mañа hiørtu i Juda/ lijka sem eins mañs/ og þeir sendu burt til konungsens / ( seigiande : ) kom þu aptur og aller þijner þienarar.

15 So kom konungureñ aptur/ og þegar hañ kom allt til Jordan/ þa var Juda komeñ til Gilgal/ ad fara i moote konungenum / ad þeir skylldu færa konungeñ yfer Jordan.

16 Og * Simei Gera son/ Jemini sonar/ sem var af Bahurim/ flijtte sier/ og foor ofañ med Juda møñum moot konungenum David. * 1. Kong. 2/ 8. etc.

17 Og þusund meñ med hønum af BenJamin/ og sa sveirn * Ziba af Sauls huuse/ og hañs fimtan syner/ og hañs tuttugu svenar med hønum / og þeir komu til moots yfer Jordan/ fyrr eñ konungureñ. * c. 9. 2/ 10. c. 16/ 1.

18 Og feriañ foor yferum/ ad færa konungsens huus yferum med/ og ad giøra hvad hønum þocknadest/ og Simei/ Gera son/ fiell nidur fyrer konungsens augliti/ þegar hñ foor yfer Jordan.

19 Og sagde til konungsens: miñ herra/ reikna mier ecke til þeßañ misgiørning/ og minst ecke a/ ad þiñ þienare * giørde illa a þeim deige/ sem miñ herra konungureñ gieck af Jerusalem/ ad konungureñ skyllde leggia sier þ a hiarta. * c. 16/5.

20 Þvi þiñ þienare þecker/ ad eg/ eg hefe syndgad/ og sia/ eg er i dag sa fyrste/ sem er komeñ af øllu Josephs huuse/ ad fara ofañ mote mijnu herra konungenu.

21 Eñ Abisai ZeruJa son svarade/ og sagde: skyllde ecke Simei þar fyrer deydast/ þvi hñ bølvade Drottens smurda?

22 Þa sagde David: hvad hefe eg ad giøra med ydur/ þier ZeruJa børn/ ad þier vilied i dag verda mier ad satan? skyllde nockur madur i dag deydast i Israel? meinar þu/ ad eg ecke vite/ ad eg er ordeñ konungur i dag yfer Israel?

23 Og konungureñ sagde til Simei: þu skallt ecke deyia / og konungureñ soor hønum þad.

24 Og MephiBoseth/ * Sauls sonur/ kom ofañ i moote konungenum/ og hafde ecke hyrdt uñ sijna fætur edur ræktad sitt skegg / og ei þveiged sijn klæde fra þeim deige/ þegar konungureñ var burt geingeñ/ iñ til þeß dags/ þa hñ kom (aptur) med fride. * c. 9/6.

25 Og þad skiede/ þegar hñ kom fra Jerusalem/ ad mæta konungenum/ þa sagde konungureñ til hñs: þvi foorstu ecke med mier/ MephiBoseth?

26 Og hñ sagde: miñ herra konungur/ miñ sveiñ sveik mig/ þvi þiñ þienare þeinkte: eg vil sødla mier asnañ/ og rijda hoñum/ og fara til konungsens/ þvi þiñ þienare er halltur.

27 Þar ad auk * roogbar hñ þiñ þienara fyrer mijnum herra konungenum/ eñ miñ herra konungureñ er ** sem eirn Guds engell/ og gier hvad þier gott synest. * c. 16/3. ** c. 14/17.

28 Þvi allt mijns fødurs huus hefur ecke (añad) vered/ eñ daudans foolk fyrer mijnum herra konungenum/ so hefur þu sett þiñ þienara a medal þeirra / sem eta hia þijnu borde/ Hvada riett hefe eg fram meir / og ad hroopa framveiges til konungsens?

29 Og konungureñ sagde til hñs: hvad vilstu framar meir tala uñ þijna hage? eg hefe þad sagt: þu og * Ziba skulud skipta ekrunum. * c. 16/4.

30 Og MephiBoseth sagde til konungsens: hñ maa og so taka þad alltsamañ/ med þvi miñ herra konungureñ er komeñ med fride til sijns huuss.

31 Og Barsillai sa Gileadite kom ofañ fra Roglim/ og * foor med konungenum yfer

yꝼer Jordan til ad fylgia honum yꝼer Jordan. * 1. Kong. 2/7/ etc.

32 Og Barsillai var miog gamall/ ꝏttatiju ꝏra gamall/ og hn̄ * forsorgade kongen̄/ þa stund hn̄ var i Mahanaim/ þvi hn̄ var eirn miog megtugur madur. * C. 17/ 27.

33 Og konungurenn sagde til Barsillai: ꝼar þu yꝼerum̄ med mier / og eg vil ꝼorsorga þig hia mier i Jerusalem.

34 En̄ Barsillai sagde til konungsens: hvad er en̄ nu þad / sem eg hefe ad liꝼa/ ad eg skyllde ꝼara upp med konungenum til Jerusalem?

35 Eg er i dag ꝏttatiju ꝏra gamall / hvornen̄ skyllde eg þeckia hvad gott edur illt sie/ eda kin̄e þijnum þienara ad smaꝏkast / hvad eg et / edur hvad eg dreck / edur heira ꝼramar meir saungmanan̄a edur saungkvennan̄a raust? og hvar fyrer skyllde þin̄ þienare hier epter ꝼramar meir þiꝏ min̄ herra konungen̄?

36 Þin̄ þienare skal gꝏnga skamt yfer Jordan med konungenum / og hvar ꝼyrer vill konungurenn vissulega so uppꝏleggia mier þetta?

37 Kiære / lꝏt þin̄ þienara snua aptur/ ad eg meige deya i mijnum stad / hia mijns ꝼødurs og min̄ar moodur groꝼ / og sia / þar er þin̄ þienare Chimeam / han̄ skal ꝼara yꝼerum̄ med mijnum herra konungenum / og gior vid han̄ / hvad þier synest gott ad vera.

38 Og konungurenn sagde: Chimeam skal ꝼara yꝼerum̄ med mier/ og eg / eg vil giora vid han̄ hvad þier þocknast / og allt þad / sem þu beidest aꝼ mier / vil eg giora þier.

39 Og allt ꝼoolked ꝼoor yferum̄ Jordan/ og konungurenn ꝼoor yferum̄ / og konungurenn kyste Barsillai / og blessade han̄/ og han̄ snere til sins stadar aptur.

40 Og konungurenn ꝼoor yfer til Gilgal/ og Chimeam ꝼoor yꝼerum̄ med honum / og allt Juda foolk haꝼde fært konungen̄ yferum̄/ ꝛ helften̄ ogso aꝼ Israels ꝼolke.

41 Og sia / þa komu aller Israels men̄ til konungsens/ og sogdu til konungsens: hvar ꝼyrer haꝼa vorer brædur / Juda men̄ stoled þier / og fært konungen̄ og han̄s huus yꝼer Jordan / og alla Davids men̄ med honum?

42 Þa svorudu aller aꝼ Juda þeim aꝼ Israel: konungurenn * heyrer oss nær til / hvi erud þier þar ꝼyrer reider? mun um vier vijst haꝼa feinged næring aꝼ konungenum? mun han̄ vijst haꝼa giefed oss skenke? * v. 12.

43 Þa svarade hver madur af Israel / hvorium mꝏn̄e aꝼ Juda/ og sagde: eg hefe tiju sin̄um meira hiꝏ konungenum / þar til ogso hiꝏ David / eg helldur en̄ þu/ og hvi heꝼur þu foraktad mig? var ecke mitt ord þad fyrsta/ til ad sækia min̄ konung aptur? en̄ Juda man̄a ord voru hardare / en̄ Israels man̄a ord.

## XX. Capitule.

Sa Uppreistar Madur Seba ꝼær sijn riettu Laun. Davids hellstu Men̄ uppreiknast.

Og þar mætte eirn vondur madr/ hvors naꝼn var Seba/ Bicri son / eirn Jemini madur / og blies i basununa / og sagde: vier hoꝼum aungva hlutdeild i David/ ey helldur arf i Isai syne/ Hver (fliyte sier) til sins heimilis / o Israel.

2 Þa ꝼiell hver madur i Israel frꝏ David epter Seba Bicri syne/ en̄ Juda men̄ hielldu sier vid þeirra konung / ꝼra Jordan/ og allt til Jerusalem.

3 Þa David kom til sijns heimiles/ til Jerusalem / þa took konungurenn tiju kvin̄ur/ hiꝏkvin̄urnar/ s h̄ n̄ skylde epter/til ad geyma huused/ og liet þær burt/ til ad vardveitast/ og forsorgade þær/ og han̄ gieck ecke in̄ til þeirra/ Og þær voru inneluktar allt til þeirra dauda dags / i ecktu-stande.

4 Og konungurenn sagde til Amasa: kalla mier þa men̄ af Juda til samans a þan̄ þridia dag/ og stattu hier.

5 Og Amasa gieck burt ad kalla Juda saman̄/ ꝛ taꝼde fram̄ yꝼer þa ꝏsettu tijd/ sem han̄ sette honum ꝼyrer.

6 Þa sagde David til Abisai: nu mun

Seba

Seba Bicri son giora oss meira illt en Absalom / tak þu þyns Herra þienara / og elltu hann / ad hann ecke finne fasta stade fyrer sig / og undankomest fra vorum augum.

7 Þa fooru Joabs menn ut epter honum / og þeir Crethi og Plethi / og aller þeir hrauftu / og droogu ut af Jerusalem til ad ellta Seba / Bicri son.

8 Þegar þeir voru hia þeim stoora steine / sem var i Gibeon / þa kom Amasa undann þeim / Og Joab var uppgirdtur umm syn klæde / sem hann var klæddur med / og utann yfer eitt sverd-bellte / þad hieck yfer hans lendum i synu Sale / og þa hann gieck / þa datt þad ut.

9 Og Joab sagde til Amasa : er þar * fridur med þier / minn brooder ? og Joab took Amasa umm skiegged / med þeirre hægre hende / ad kyssa hann. * Ps. 28 / 3.

10 Og * Amasa varade sig ecke fyrer sverdenu / sem var i Joabs hende / og hann ** stack hann þar med vid þad fimta (rif bein /) og uthellte hans iñyflum a Jordena / og stack hann ecke meir / og hann deyde / Enn Joab og hans brooder Abisai ellttu Seba Bicri son.

* 1. Kong. 2 / 5. ** 2. Sam. 3 / 27.

11 Og þar stood eirn af Joabs sveinum hia honum / og sagde: hvør sem helldur med Joab / og hvør sem helldur med David / fylge epter Joab.

12 Og Amasa la velltur i bloode midt a þeim hæva veige / Þar eirn madur sa / ad allt foolked var standande / þa veik hann Amasa af veigenum a akuren / og kastade klædum yfer hann / med þvi hann sa / ad hvør sem kom til hans / stood vid.

13 Þegar hann var tekenn af þeim hæva veige / þa fylgde hvør madur epter Joab / til ad ellta Seba Bicri son.

14 Og hann foor i gegnum allar Israels ætter / allt til Abel og Bethmaaca / og alla Berim / og þeir safnadust / og komu og so epter honum.

15 Og þeir komu / og lagdust umm hann i Abel Bethmaaca / og hloodu eirn voll upp giegnt stadnum / og sa nade uppa muurenn / og allt foolked / sem var med Joab / stormade til ad nidur slaa muurenn.

16 Þa hroopade ein vijs kvinna ur stadnum : heyred / heyred / kiæru / seiged til Joabs / kom hingad / og eg vil tala til þyn.

17 Og þegar hann kom til hennar / þa sagde kvinnan : ertu Joab ? og hann sagde : eg em / Og hun sagde til hans: heyr þinnar þionustu-kvinnu tal / Og hann sagde : eg heyre.

18 Og hun sagde / seigiande : fyrrum sagde mann vijst / seigiande : þeir sem villa spyria / skulu vijst spyria i Abel / og so fullkomnudu þeir þad.

19 Eg er ein af þeim fridsamlegu og truufostu i Israel / þu stundar epter / ad i hel slaa eirn stad / og eina moodur i Israel ? hvar fyrer villt þu uppsvelgia Drottens arf ?

20 Og Joab svarade / og sagde : þad vere langt / þad vere langt fra mier / ad eg skyllde uppsvelgia / og ad eg skyllde fordiarfa. Þeirre adferd er ecke so hattad.

21 Enn eirn madur af Ephraims fialle / hvørs nafn er Seba / Bicri son / hefur upplypt sinne hende i moote konungenum / moot David / gefed (mier) hann alleina / og eg vil fara fra stadnum / Og kvinnan sagde til Joabs : sia / hans høfud skal (vissulega) kastast til þyn yfer muurenn.

22 Og kvinnan kom til alls foolksens med hennar vijsdoom / og þeir afhiuggu Seba Bicri sonar høfud / og kostudu þvi til Joabs / Þa * blies hann i basunuma / og þeir utdreifdust fra stadnum / hver til syns heimkynnes / og Joab kom aptur til Jerusalem / til konungsens.

* C. 2 / 28. C. 18 / 16.

23 Og Joab * var yfer øllum Israels her / Og Benaia / Jojada son var yfer Crethi og yfer Plethi. * c. 8 / 16.

24 Og Adoram var rentu-meistare / Og Josaphat Ahiluds son var secretere.

25 Og Seia var cantsellere / Og Zadok og AbJathar prestar.

26 Þar med var Jra sa Jairite Davids prestur.

XXI. Capitule.

I Davids Tijd var Hungur þriu Ar/ Verdur uñeñ Sigur yfer Philisteunum.

Og þar var hungur i Davids tijd þriu ar/ ar epter ar/ og David leitade Drottens andlites/ Og Drottenñ sagde: fyrer Sauls skulld / og fyrer bloodhussens skulld/ af þvi ad hañ i hel sloo þa Gibeonita.

2 Þa liet konungureñ kalla a þa Gibeonita / og sagde til þeirra / Og þeir Gibeonitar voru ecke af Israels børnum/ helldur epter ordner af Amoritunum/ og Israels børn høfdu svared þeim/ og Saul sookte epter ad sla þa i siñe vandlæting fyrer Israels og Juda børn.

3 Og David sagde til þeirra Gibeonita: hvad skal eg giora vid ydur? z hvar med skal eg þad forlijka/ ad þier vilidud blessa Drottens arf?

4 Og þeir Gibeonitar søgdu til hañs: þad er oss ecke um silfur eda gull (ad fast) vid Saul og vid hañs huus/ og þad er oss ecke (þar um ad fast) ad i hel sla nockurn af Israel/ og hañ sagde: hvad þier seiged/ vil eg giora ydur.

5 Og þeir søgdu til konungsens: (vidþyskiande) þeim mañe/ sem fordiarfade oss / og sem tillagde þad moote oss / ad vier skylldum eideleggiast/ ad vera ecke iñañ alls Israels landamerkes.

6 Mañ giefe oss sio meñ af hañs børnum/ad vier kuñum * heingia þa fyrer Drottne i Sauls Gibea/Drottens utvalda / Og konungureñ sagde: eg / eg vil giefa (ydur þa.) *4. Mos. 25/4.

7 Eñ konungureñ þyrmde MephiBoset Jonatans syne/Sauls sonar/fyrer Drottens * eids skulld/ sem var i millum þeirra/þad er i millum Davids og i millum Jonatan/ Sauls sonar.

* 1. Sam. 18/3. etc.

8 Og konungureñ took þa tvo * Rizpæ Aia dootturs syne/sem hun hafde fædt Saul / Armoni og MephiBoset / og Micols Sauls dottur(systur)fim syne/sem hun hafde fædt * * Adriel/Barsillai þess Mahalothita syne.

* C. 3/7. ** 1. Sam. 18/19.

9 Og gaf þa i Gibeonitaña hønd/og þeir heingdu þa a fiallenu fyrer Drottne. So fiellu þesser sio asomt / og þeir deydduft øndvert a kornskurdardøgunum / þegar bigg-skieraň hoofst.

10 Þa took Rizpa Aia dotter eiñ seck/ og breidde sier hñ a biarged/þegar kornskurdureñ hoofst / so leinge þar draup vatn af Himnenum yfer þa/og hun liet ecke Himensens fugla hvijla a þeim um dageñ / og ei helldur merkureñar dijr a nootteñe.

11 Og þad vard David til vitundar giefed/þad sem Rizpa/Aia dotter/Sauls hiaa-kvina giørde.

12 Og David giekk/og took Sauls bein/ og hañs sonar Jonatans bein/fra borgmøñunum i Jabes i Gilead / sem * þeir høfdu stoled af Bethsans stræte/ þar sem Philistearner heingdu þa / a þeirre tijd/sem Philistearner sloou Saul a Gilboa. * 1. Sam 31/12.

13 Og hañ færde Sauls bein og Jonatans hñs sonar bein upp þadañ/ og þeir søfnudu þeirra beinum/ sem voru heingder.

14 Og þeir groofu Sauls bein/og hañs sonar Jonatans/ i BenJamins lande/ i Zela / i Kis hañs føđurs grøf / og giørdu allt / sem konungureñ hafde bijfalad/* So vard Gud þar epter fridstilltur fyrer landed * C. 24/25.

15 Og þar vard aptur eitt strijd af Philisteunum i moote Israel/ og David droo ofañ / og hañs þienarar med hønum / og strijddu i moot Philisteunum/ og David vard þreyttur.

16 Og JisbiBeroh / sem var eirn af Rapha børnum/ og hañs spioots þyngd var þriu hundrud vigter kopars/ og hñ var gyrdtur med einu nyu(sverde/) þesse hugde ad sla David.

17 Eñ Abisai ZeruJa son hialpade hønum / og sloo Philistearañ/ og drap hañ/

hañ/ Þa sooru Davids meñ honum / og søgdu: Þu skallt ecke þaðan meir draga ut med oss i stryded/ ad þu skuler ecke uts slockva Israels lioos.

18 Og þad skiede þar epter / ad þar var eñ nu stryd i Gob vid Philisteana/ þa * sloo Sibechai sa Nusathite Saph / sem var af Rapha bornum. *1. Kron. 21/4. C. 28/11.

19 Og stryded var eñ nu i Gob vid Philisteana / og Elhanan Jaere Orgims Bethlehemita son/ sloo Goliats þess Githita broodur/ og hañs spiots skapt var sem rifur a einum vef.

20 Og þar var eñ nu eitt stryd i Gat / Og þar var * eirn hár madur/sem hafde sex fyngur a (hvørre) sijne hende/ og sex tær a ( hvorium ) sijnum fæte / þad eru fioorar og tuttugu ad tolu / og hañ / hañ var og so fæddur af Rapha.
*1. Kron. 21/6.

21 Og þegar hañ hædde Israel / þa sloo Jonatan Simea Davids broodurs son hañ.

22 Þesser fioorer voru fædder Rapha i Gat/og fiellu fyrer Davids hond/og fyrer hañs þienara hond.

XXII. Capitule.

Dauid packar Drottne fyrer Frelsе af Fære og Olucku.

Og David talade ordeñ i þessum saung fyrer Drottne / a þeirre tijd/ Drotteñ hafde frelsad hañ af allra hañs fiandmaña hende/ og af Sauls hende/og sagde:

2 *Drotteñ er mitt biarg/ og mitt slot/ og miñ hialpare fyrer mig. *Ps. 18/3. etc.

3 Gud mitt biarg/ eg vil vona a hañ / miñ skiolldur/ og mitt hialpræðes horn/ mitt slot og mitt athvarf/ miñ frelsare/ fra ofbellde hefur þu frelsad mig.

4 Eg vil akalla Drotteñ / sem lofast ad lofast / so verd eg frelstur fra mijnum fiandmoñum.

5 Þvi daudans bilgiur hofdu griped mig/ Belials læker skielfdu mig.

6 Helvijtes eymder umspentu mig/daudans snorur tooku i moote mier.

7 Nær * mier var angradt/ þa akallade eg Drotteñ / og hroopade til mijns Guds/og hañ heyrde mijna raust af sijnu mustere / og mitt hroop med sijnum eyrum. * Ps. 25/17.

8 Og * Jordeñ bifadest og hristest / Himensens grundvollur hristest og bifadest/þvi hañ var reidur. * Ps. 18/8.

9 Þar gieck reikur upp af hañs nøsum/ og elldur af hañs munne * mun fordiera/ þar vard kol kveikt af honum.
* 2. Mos. 24/17.

10 Og hañ beigde Himnana/og foor ofan/og þar var dimma under hañs footum.

11 Og hañ reid a cherub/ og flaug / og vard sien yfer vindarens vængium.

12 Og hañ sette dimmu * til tiallda kryng um sig/ svart votn / loptsens sky.
* Ps. 50/3.

13 Af skineñu fyrer honum urdu gloande kol upptendrud.

14 Drotteñ þrumade af Himnenum/ og sa hædste utgaf sijna raust.

15 Og hañ skaut pijlum/ og tvistrade þeim/þar kom elldingeñ/og hañ hrædde þa.

16 Þa sauſt hafsens straumar/ veralldareñar grundveller openberudust vegna Drotteñs straffunar/ fyrer hañs nasa anda blæstur.

17 Hañ sende af hædeñe/hañ sokte mig.

18 Droo mig af þeim morgu votnum / frijade mig fra mijnum sterku fiandmøñum /*fra þeim/sem mig hotudu/þvi þeir voru mier ofsterker. *Ps. 69/15.

19 Þeir tooku mig med avijñinge i minne morgangs tijd/eñ Drotteñ var mitt traust.

20 Og hañ færde mig ut a rumed/frijade mig/ þvi hañ hafde lijst til mijn.

21 Drotteñ bytalade mier epter * minne riettvijse/gaf mier aptur epter minna handa hreinleik. * Job. 22/30.

22 Þvi eg hefe vardveitt Drotteñs vegu/ og hefe ecke ogudlega snued mier fra mijnum Gude.

23 Þvi aller hañs doomar eru fyrer mier/og hañs skickaner/ þar fra vil eg ecke vijkia.

24 Eñ eg var fullkomeñ fyrer honū/og vaktade mig fyrer mijnum misgiorning.

25 Og Drottenn hefur launad mier epter minne riettvijse/ og epter mijnum hreinleik fyrer hans augum.

26 Hia þeim frooma muntu vera froomur / hia þeim sterka / sem er fullkomenn/ muntu vera fullkomenn.

27 Hia einum hreinum/ muntu vera hreinn / og hia einum þverbrotnum/ muntu audsyna þig þverbrotenn.

28 Og þu munt * frelsa þad auma foolk/ og þijn augu eru yfer þeim hæpu / þu munt audmijkia þa. * Ordsk. 29/23.

29 Þui þu Drottenn ert minn lampe / og Drottenn mun upplijsa mitt myrkur.

30 Þui fyrer þig kann eg od hlaupa i giegnum eirn her/ fyrer minn Gud kann eg ad stockva yfer eirn muur.

31 Hann er Gud / hans vegur er fullkomenn / Drottens maal er reint/ hann er ollum þeim eirn skiolldur / sem reida sig uppa hann.

32 Þui * hvor er Gud/ fyrer utan Drottenn? og hvar er eitt biarg fyrer utann vorn Gud? * Es. 43/11.

33 Gud er mijns maattar styrkur / og frijar þann fullkomna a sijnum veige.

34 Hann giører mijna fætur upprietta lijka sem hindanna / og mun læta mig standa uppa mijnum hædum.

35 Hann * lærer mijnar hendur til strijds / og eirn kopar-boge er brotenn med mijnum ørmum. * Ps. 144/1

36 Og þu gafst mier þijns hiælpræd es skiolld / og med þinne hoogværd muntu giøra mig megtugann.

37 Þu giørder mijn footspor vijd under mier / og mijner øklar skeikudu ecke.

38 Eg ellte mijna fiandmenn / og eidelagde þa/ og snere ecke aptur/ fyrr enn eg hafde forkært þeim.

39 Og eg hefe forkært þeim/ og i giegnum skoted þa/ og þeir munu ecke uppstanda/ og þr fiellu under mijna fætur.

40 Og þu hefur herkijad mig med magt til strijdsens / þu munt beigia þa / sem uppstanda i moote mier/ under mig.

41 Og þu hefur giefed mier mijna fiandmenn a flootta/ ja þa / sem mig hata/ og eg eidelagde þa.

42 Þeir skau sig umm/ enn þar var enginn frelsare/ Til Drottens/ enn hann svarade þeim ecke.

43 Og eg hefe giørt þa smaa / sem Jardarennar dupt / sem saur a gøtu / þinte eg þa/ og breidde þa.

44 Og þu * frijader mig fra mijns foolks kijfe / geimder mig til heidingianna høfuds / eitt foolk / sem eg ecke þeckte/ þeir hafa þioonad mier. * Ps. 18/44.

45 Framanda børn munu smiadra fyrer mier / under eins þeirra eyru heyrdu (umm mig/ ) hlijddu þau mier.

46 Þau framande børn vanmegnudust / og umbreittu sier / sem þau være innelukt.

47 Drottenn lifer / og lofad vere mitt biarg/ og Gud/ mijns hiælprædes hella mun upphefiast.

48 Gud er sa/ sem giefur mier hefndernar/ og sem nidurkastar foolkenu under mig.

49 Og sem fører mig ut fra mijnum fiandmønnum / og þu munt upphefia mig fra þeim/ sem setia sig upp i moote mier/ þu munt frelsa mig fra einum ofrijkes manne. * Þar fyrer vil eg vidurkienna þig / Drottenn / a medal heidingianna / og syngia þijnu nafne. * Rom. 15/9.

50 Sem vottar sijnum konunge stoor hiælpræd / og giører myskunsime vid sinn smurda / vid David og vid hans sæde æfennlega.

## XXIII. Capitule.

Davids seinustu Ord fyrer sinn Dauda/ og hans volldugra Manna Athafner.

Og þesse eru þau sijdustu Davids ord: David Isai son sagde/ og þad sagde sa madur/ sem er uppsettur hætt / Jakobs Guds smurdur / og listelegur i Israels psalmum.

2 Drottens * Ande talade fyrer mig/ og hans maal var a minne tungu. * Matth. 22/43.

3 Israels Gud sagde / til mijn talade Israels

Israels biarg/ Sa sem drottnar a med al mañesktaña/(mun vera)riettferdugur/ j ra eirn drottnare i Guds otta.

4 Og hañ (mun vera)sem morgunlioos/nær sooleñ vill uppreña/um̃ morguneñ/ nær þar eru ecke sky / og grased (vex) af Jørduñe / af skine/af regne.

5 Og eñ þoott mitt huus sie ecke so med Gude / samt hefur hañ (þo) sett mier eirn eilijfañ sattmaala / tilskickad i allañ maata og vardveitt / þvi hañ mun vera allt mitt hiaalpræde / og øll epterlaangan / þo hañ ecke villde laata uppvaxa (nockud.)

6 Eñ Belial / þeir eru aller samañ sem utkastader þistlar/ þvi þeir kuña ecke takast med hendeñe.

7 Og hvør/sem hrærer vid þeim/ skal vera vel utbueñ med jarne og spiootstaungum/og þeir skyllu vissulega breñast med ellde a heimelenu.

8 Þesse * eru þeirra volldugra nøfn / (sem þioonudu) David: Joseb Basebet Tachmonite / sa ypparste a medal þeirra þriggia/Þesse var Adino sa Eznite/ sem (sette sig) i moote aatta hundrudum/ sem hañ særde einu siñe.

* 1. Kron. 12/10.

9 Og epter hañ var Eleasar * Dodo son/ Ahohi sonar/ a medal þeirra þriggia sterku/med David/þañ tijd þeir smaanudu Philisteana/voru þeir safnader til strijds / og Israels meñ fooru upp. * 1. Kron. 12/ 12. c. 28/ 4.

10 Hañ / hañ stood upp/ og sloo uppa Philisteana / þar til ad hañs hønd vard þreitt /og hñs hønd lafde vid sverded/ og Drotteñ giørde eitt stoort hiaalpræde a þeim sama deige / so ad foolked snere vid epter hønum/ ecke nema til ad ræna.

11 Og epter hañ var Samma Age Ararita son/Þegar Philistearner voru safnader i hoop / þa var þar eirn partur lands fullur med vickur / Og foolked flyde fyrer Philisteunum:

12 Og hñ stødvade sig midt a þeim parte/ og frijade þad/ og sloo Philisteana / og Drotteñ giørde eitt stoort hiaalpræde.

13 Og þeir þrijr af þeim þriaatiju yppurstu geingu ofañ/og komu um̃ kornskurd eñ til Davids/ til Adullam Hellers / og Philisteaña flockur hafde sett sijnar herbuder i Rephaims dal.

14 Og David var þa i þestingune / og Philisteaña herbuder voru þa i Bethlehem.

15 Og * David fieck lysting/ og sagde: hvør vill giefa mier vatn ad drecka af þeim bruñe i Bethlehem / sem er i portenu? * 1. Kron. 12/17. etc.

16 Þa þrængdu þeir þrijr sterku sier iñ i Philisteaña herbuder/ og jusu vatn upp af bruñenum i Bethlehem/ sem er i portenu/ og baaru og færdu þad til Davids / og hñ villde ecke drecka þar af/ eñ liet ut ausa þvi fyrer Drotteñ.

17 Og sagde: Drotteñ laate þad vera laangt fra mier/ ad eg skyllde þetta giøra/ er þad ei þeirra maña blood/sem geingu(þangad) med þeirra lijfs haska? og hñ villde ecke drecka þad/ þetta giørdu þeir þrijr sterku.

18 Og * Abisai Joabs brooder/ ZeruJa son/ hñ var og ypparstur a medal þriggia / og hañ upplypte sijnu spioote yfer þriu hundrud/ sem hañ særde/ og hñ var nafn kuñugur a medal þeirra þriggia.

* C. 21/17. 1. Kron. 12/ 20.

19 Var hñ ecke herlegre eñ þeir þrijr? og var þeirra høfdinge/ Eñ hañ komst ecke i vid þa (adra) þria.

20 Og * Benaia Jojada son/ var eins volldugs mañs son/merkelegur i verkum/ af * * Kabzeel/hñ sloo tvo sterka/(sem) leon af Moabitunum / og hñ gieck ofañ og sloo leoned midt i einum bruñe/ þegar snioor var a. * 1. Kron. 12/20.

* * Jos. 15/ 21. Neh. 11/ 25.

21 Og hañ sloo eirn Egyptskañ mañ / sem var hrædelegur/og sa Egyptske hafde eitt spioot i siñe hende/ eñ hañ gieck ofañ til hañs med eirn staf/og rijkte spiootenu af Egyptarans hende/og sloo hañ i hel med sijnu spioote:

22 Þad giørde Benaia Jojada son / og hañ var * nafn kuñugur a medal þeirra þriggia sterku. * 1. Kron. 12/ 24.

23 Netlegre eñ þeir þrïatiu / eñ komst ecke i vid þa þriu / z David giørde hañ ad sijnu næsta rade.
24 * Asael Joabs brooder/var a medal þeirra þriatiu : Elhanon Dodo son af Bethlehem. * 1. Kron. 12/ 26.
25 Samma sa Narodite : Elika sa Narodite.
26 * Nelez sa Paltite : Jra Jkes þess Tekoita sonur. * 1. Kron. 28/10.
27 Abieser sa Anethotite : Mebunai sa Nusathite.
28 Zalmon sa Ahohite : * Maharai sa Nethophatite. * 1. Kron. 12/ 30.
29 Heleb Baena son sa Nethophatite : Jthai Ribai son/af BenJamins barna Gibea.
30 Benaia * Pirathonite : Jddai af Gaas lækium. * 1. Kron. 12 / 31.
31 Abialbon sa Arbathite : Asmaveth sa Barhumite.
32 Elijahba sa Saalbonite : Jasens Jonatans børn.
33 Samma sa Ararite : Ahiam Sarar son sa Ararite.
34 Eliphelet Ahasbai son Maechathi sonar : Eliam * Achitophels son sa Gilonite. * c. 15 / 12.
35 Hezrai sa Carmelite : Paerai sa Arbite.
36 Jigal Natans son af Zoba : Bani sa Gadite.
37 Zelek sa Ammonite : Naharai sa Berothite/Joabs ZeruJa sonar vopnabere
38 Jra sa Jethrite : Garab sa Jethrite.
39 Uria sa * Hethite/ alles sio og þriatiu. * c. 11/ 3.

## XXIV. Capitule.

Davids Hofmoodur i þvi ad telia Foolked straffast med Drepsott.

Og * Drottens reide vard eñ fra mar grim̃ i moote Jsrael / og hañ uppvakte David a medal þeirra / ad hañ sagde : gack / tel Jsrael og Juda. * 1. Kron. 22/ 2.
2 Og konungureñ sagde til Joab/strijds hofudsmañsens / sem var hia hønum : kiære / gack i krijng i allar Jsraels ætter/ fra Dan og allt til BerSeba / og telied foolked / ad eg kuñe vita foolksens tolu.
3 Og Joab sagde til konungsens : og Drotteñ þiñ Gud fiølge þetta foolk / so sem þad er nu / hundradsiñum / og Gud giæfe mijns herra konungsens augu mætti sia þad/Eñ miñ herra konungureñ/ hvar fyrer hefur hañ lyst til þessa giørnings?
4. Eñ konungsens ord feingu magt yfer Joab z yfer hofudsmoñunum ꝭ hernum. So droo Joab ut og hofudsmeñerner fyrer hernum / fra konungenum / ad telia foolked Jsrael.
5 Og þeir geingu yfer Jordan/og settu sijnar herbuder i Aroer / a þa hægre sidu hia stadnum / sem ( liggur ) midt i Gads læk / og til Jaeser.
6 Og komu til Gilead/ og til þess nedra i landenu hia Hadsi / og komu til DanJaan / og um̃ krijng til Zidon.
7 Og komu til þeirrar fostu Tyro / og til allra þeirra Hevita og þeirra Cananita stada / og komu suñañ i Juda / allt til BerSeba.
8 Og fooru um̃ kring allt landed / og komu / þegar niju mänuder og tiju dagar voru ute / til Jerusalem.
9 Og Joab fieck konungenum suñuna a folkenu / sem taled var / og þar voru i Jsrael ætta hundrud þusunder strijdsmaña/sem hvør utdroo sverd/ Og Juda meñ fim̃ hundrud þusunder maña.
10 Þa vard Davids hiarta angrædt / epter þad hañ hafde taled foolked / og David sagde til Drottens : * eg hefe þunglega syndgad/ad eg þad hefe giørt/ og nu Drotteñ / kiære / tak burt þijns þienara misgiørning / þvi eg giørde alldarlega. * 1. Kron. 22/ 8.
11 Og þegar David stood upp um̃ morguneñ / þa skiede Drottens ord til Gad spamansens/Davids siaanda/og sagde :
12 Gack / og seig til Davids : so sagde Drotteñ : eg set þier þreñslags fyrer/ utvel þier eitt af þeim / sem eg skule giøra þier.
13 Og Gad kom til Davids/og gaf hønum

um þad til vitundar/ z sagde til hans : * a þar ad koma þier siø ara hungur i þitt land? eda ad þu skallt flya þriu manude fyrer þijnum mootstandara/ og hann skule opsækia þig? eda ad þar skal vera þriu daga drepsott i þijnu lande? vit nu /og sia / hvada ord eg skal seigia til hans aptur / sem mig sende. * Jer. 29/ 17.

14 Og David sagde til Gad : mier er miked þraungt um / lat oss nu falla i Drottens hond / þvi hans myskunseme er stoor/ og eg vil ecke falla i manneskiunnar hond.

15 So liet Drottenn drepsott koma i Israel / fra morgnenum og allt til þeirrar a settu tijdar / so þar doou af foolkenu fra Dan og inn til BerSeba / siøtiju þusunder manna.

16 Og þegar eingellenn utrietti sijna hond yfer Jerusalem / til ad fordiarfa hana/ þa angrade þad Drottenn yfer þvi vonda / og sagde til eingelsens/ þess sem fordiarfade foolked: þad er noog/ halltu nu þinne hende af / Og Drottens eingell var þa hia Aravna/ þess Jebusita hlødu.

17 Og David hafde sagt til Drottens / þegar hann sa eingelenn/ sem sloo foolked/ seigiande: sia/ eg/ eg hefe syndgad/ og eg hefe giort hann misgiørnig/ enn þesser saud er hvad hafa þeir giort? kiære/ lat þijna hond vera a mier / og a mijns fødurs huuse.

18 Og Gad kom til Davids a þeim sama deige/ og sagde til hns: gack upp/ upp reis Drottne eitt altare i Aravna þess Jebusita hlødu.

19 So gieck David upp/ lijka sem Gad hafde sagt/ epter þvi sem Drottenn hafde bijfalad.

20 Og Aravna sa sig um/ og sa konungenn/ og hans þienara koma yfer til sijn / og Aravna gieck ut/ og * beigde sitt andlit fyrer konungenum til Jardar.

* C. 8/ 28.

21 Og Aravna sagde: hvi kiemur minn herra konungurenn til sijns þienara? og David sagde: til ad kaupa þa hlødu af þier / til ad biggia Drottne eitt altare / ad þesse plaga skule aflátta fra foolkenu.

22 Og Aravna sagde til Davids : minn herra konungurenn take / og offre þvi honum gott synest/ sia/ þar er eitt uxe til brenneoffursens/ og sledarner/ og uxans reidskap ur til vidarens.

23 Sa konungur Aravna gaf konungenum allt þad/ z Aravna sagde til konungsens : Drottenn þinn Gud hafe þocknan til þijn.

24 Enn konungurenn sagde til Aravna: ecke (so/) helldur vil eg vissulega kaupa þad af þier fyrer peninga / þvi eg vil ecke offra offre fyrer eckert til Drottens mijns Guds. So keipte David hløduna og uxann/ fyrer fimmtiju sekla silfurs?

25 Og David bigde Drottne þar eitt altare / og offrade brenneoffre/ og þackaroffre/ Og * Drottenn vard þridþægdur fyrer landed/ og plagunne linte fra Israel.

* C. 21/14.

ENDER
a annare Samuelis Book.

# Su Fyrre Konganna Book

## I. Capitule.

Salomon verdur Smurdur til Konungs yfer Israel.

Og konungurenn David var gamall/ var vel vid alldur / og þeir þøktu hann med klædum/ og hann vard (þo) ecke heitur.

2 Þa søgdu hans þienarar til hans : latum þa uppleita handa mijnum herra konungenum eina stulku / eina jomfru/ sem kunne standa fyrer konungsens augsijn / og rækia hann/ og liggia i þijnum arme / og minn herra konungurenn kunne verda varmur.

3 Og þeir uppleitudu eina fryda stulku / innan alls Israels landamerkes / og fundu Abisag þa Sunamitisku/ og færdu hana

til konungsens.

4 Og stulkañ var miked væn / og rækte konungeñ og þioonade hønum / eñ konungureñ kende heñar ecke.

5 Og * Adonia Hagiths son / uppsette sig / og sagde: eg / eg vil vera konungur / Og hañ tilreidde sier vagna og reidmeñ / og fimtíu meñ / sem hlupu fyrer hønum. * 2. Sam. 3/ 4.

6 Og hañs fader villde ecke hryggia hñ i sinne tijd / ad hñ hefde mætt hafa sagt: hvi gioerer þu soo? og hañ var og so eirn miked friður madur / og hun hafde fædt hañ * epter Absalom. * 2. Sam. 3/3/4.

7 Og hñ atte sitt tal vid Joab ZeruJa son / og vid presteñ AbJathar / og þeir hiálpudu Adonia.

8 Eñ Zadok presturiñ / og Benaia / Jojada son / og Natan spaamadur / og Simei og Rei / og þeir sterku / sem David hafde / vooru ecke med Adonia.

9 Og Adonia offrade saudum / og nautum / og feitum (alenadte) hia Soheleth steine / sem liggur hia * Rogels uppsprettu / og baud øllum sijnum brædrum / konungsens sonum / og øllum Juda mønnum / konungsens þienurum (þar til.)

* 2 Sam. 17/ 17.

10 Eñ * Natan spaamañe / og Benaia / og þeim sterku / og Salomon sijnum brooður / baud hañ ecke. * v. 26.

11 Þa sagde Natan til Bathseba / Salomons mooður / seigiande: hefur þu ecke heyrt / ad Adonia Hagiths son er ordeñ konungur / og vor herra David veit þar eckert af?

12 So kom nu / eg vil ráda þier nu eitt rad / ad þu skuler frelsa þijna sál / og þijns sonar Salomons sál.

13 Gack / og kom iñ til konungsens Davids / og seig til hañs: þu miñ herra konungur / hefur þu ecke svared þiñe þioonustukviñu / og sagt: þiñ sonur Salomon skal vera konungur epter mig / og hañ skal sitia a mijnum stoole? og þvi er þa Adonia ordeñ konungur?

14 Sia / þa stund þu þar talar vid konungeñ / þa vil og eg / eg koma epter þier / og fullkomna þitt tal.

15 Og Bathseba gieck iñ til konungsens i herberged / og konungureñ var nu og gamall / og Abisag su Sunamitiska þioonade konungenum.

16 Og Bathseba laut og hneigde sig fyrer konungenum. Þa sagde konungureñ: hvad brestur þig?

17 Og hun sagde til hañs: miñ herra / þu / þu hefur svared þiñe þioonustukviñu vid Drotteñ þiñ Gud / ad þiñ sonur Salomon skal verda konungur epter mig / og hñ skal sitia a mijnu stoole.

18 Eñ nu sia / Adonia er ordeñ konungur / og nu / miñ herra konungur / þu veitst þad ecke.

19 Og hañ * hefur offrad uxum / og feitum (alenadte) og mørgum saudum / og kallade þar til alla konungsens syne / og AbJathar presteñ / og Joab stryds høfudsmañeñ / Eñ hañ baud ecke þijnum þienara Salomon. * v. 9/ 10.

20 Eñ þu miñ herra ert konungur / alls Israels augu sia uppa þig / ad þu skuler giefa þeim til vitundar / hvør hellst þar skule sitia a mijns herra konungsens stoole epter hañ.

21 Añars skiedur þad / nær miñ herra konungureñ hefur med sijnum fedrum / ad eg / eg og miñ sonur Salomon verdum syndarar.

22 Og sia / þa stund hun talade vid konungeñ / þa kom og Natan spaamadur.

23 Og þeir gáfu konungenum þad til vitundar / og søgdu: sia / þar er spaamadureñ Natan / og þegar hañ kom fyrer konungeñ / þa laut hañ fyrer konungenum / a sitt andlit til Jardar.

24 Og Natan sagde: miñ herra konungur / hefur þu / þu sagt: Adonia skal vera konungur epter mig / og hañ skal sitia a mijnum stoole?

25 Þvi hañ gieck ofañ i dag / og offrade uxum / og feitum (alenadte) og mørgum saudum / og baud øllum konungsens sonum / og høfudsmønnunum fyrer hernum / og AbJathar prestenum /

og

og sia/ þeir eta og drecka fyrer hønu̅/
og seigia: konungenu̅ Adonia til lucku.
26 En̅ mier / eg sem er þin̅ þienare /
og Zadok prestenum / og Benaia Joja-
da syne/ og Salomon þijnum þienara/
baud han̅ ecke.
27 Er þad ord skied af mijnum herra
konungenum? og þu liest þin̅ þienara
þad ecke vita/ hvør þar skal sitia a mij
ns herra konungsens stoole epter han̅?
28 Og kong David svarade/og sagde:
kalled Bathseba til mijn / og hun kom
fyrer konungen̅/og stood ꝥ konungenu̅.
29 Þa soor konungurenn̅/og sagde: (so
san̅arlega sem̅) Drottenn̅ lifer/sem̅ hefur
leyst mijna sal af allre neyd:
30 Eins sem eg hefe svared þier / vid
Drottenn̅ Jsraels Gud/og sagt/ad Sa
lomon þin̅ sonur skule vera konungur
epter mig/ og han̅ skule sitia a mijnum
stoole i min̅ stad/so vil eg giøra a þess
um deige.
31 Þa beigde Bathseba andliked til
Jardar / og laut fyrer konungenum/og
sagde : min̅ herra konungurenn̅ David
sæe lucku æfenlega.
32 Og konungurenn̅ David sagde: kall
ed mier Zadok prest / og Natan spæ-
man̅/og Benaia Jojada son. Og þeg-
ar þeir komu in̅ fyrer konungen̅ /
33 Þa sagde konungurenn̅ til þrra: tak
ed med ydur/ydar herra þienara/og lat
ed min̅ son Salomon rijda a min̅e mul-
øsnu / og færed han̅ ofan̅ til Gihon.
34 Og Zadok prestur/ og Natan spæ
madur skal þar smyria han̅ til kon-
ungs yfer Jsrael/ og þier skulud blæsa
i basunur / og seigia : * konungurenn̅
Salomon sæe lucku. * v. 39.
35 Og fared upp epter hønum/so skal
han̅ koma/ og sitia a mijnum stool/ og
han̅ skal vera konungur i min̅ stad/Þvi
eg hefe skickad han̅/til ad vera eirn hø
fdingia yfer Jsrael og yfer Juda.
36 Þa svarade Benaia Jojada son
konungenum/og sagde: amen/ so seige
Drottenn̅ mijns herra konungsens Gud.
37 So sem Drottenn̅ hefur vered med
mijnu̅ herra konungenu̅/ so vere hn̅ med
Salomon/og giøre han̅s stool stærre/en̅
mijns herra konungsens Davids stool.
38 Þa gieck Zadok prestur og Natan
spæmadur / og Benaia Jojada son/og
þeir Crethi og Plethi/ ofan̅/ og settu
Salomon a konungsens Davids muul-
øsnu / og færdu han̅ til Gihon.
39 Og Zadok prestur took oliu-horned
ur tialldbudenn̅e / og smurde Salomon /
og þeir bliesu i bæsununa/ z allt folked
sagde: konungurenn̅ Salomon sæe lucku
40 Og allt foolked foor upp epter hø
num / og foolked blies med pijpum / og
voru miked glader / ad Jørdenn̅ skalf af
þeirra hæreiste.
41 Og Adonia heyrde þad/og aller þe
ir in̅bodnu/sem voru hia hønu̅/ og þeir
høfdu loked maalltijdenn̅e/ Og Joab heyr
de bæsunun̅ar hliood/ og sagde: hvar
fyrer skier þetta hæreiste i stadnum /
sem er uppe?
42 Þegar han̅ en̅ nu talade/ sia / þa
kom Jonatan * AbJathars prests
son/ Og Adonia sagde: kom / þvi þu
ert eirn volldugur madur / og ber good
tijdende. * 2. Sam. 15/27.
43 Og Jonatan svarade/ og sagde til
Adonia: sæ/vor herra/konungurenn̅ Da
vid/hefur giørt Salomon til konungs/
44 Og konungurenn̅ sende Zadok prest/
og Natan spæman̅/ og Benaia Joja-
da son / og þa Crethi / og þa Plethi /
med hønum/og þeir settu hn̅ a konung
sens mul-øsnu.
45 Og Zadok prestur og Natan spæ-
madur smurdu han̅ til konungs i Gi-
hon/ og fooru þar fra upp med glede /
ad stadurenn̅ er uppvægdur (þar af / )
Þad er ꝥ hæreiste/sem̅ þier hafed heirt.
46 Þar til med situr Salomon a þm̅
konunglega stoole.
47 Og konungsens þienarar komu ad
blessa vorn herra/ konungen̅ David/ og
søgdu : þin̅ Gud giøre Salomon eitt
betra nafn en̅ þitt nafn/og giøre hn̅s
stool

stool stærre/eñ þiñ stool/Og konungur eñ tilbad i sængeñe.

48 Jtem konungureñ sagde eirneñ so: lofadur vere Drottiñ Jsraels Gud/sem hefur giefed i dag þañ/sem situr a mijnum stoole/ hvad mijn augu sia.

49 Þa urdu aller skielfder / og stoodu upp/sem voru iñbodner hia Adonia/og gieck hvør siñ veg.

50 Og Adonia ottadest fyrer Salomon/og stood upp/og gieck burt/og hiellt um altaresens horn.

51 Og þad vard Salomon sagt / sem sagdest: sia/ Adonia ottast fyrer konungenum Salomon/og sia/hañ * hellur um altaresens horn/og seiger: konungureñ Salomon skal sveria mier i dag/ ad hañ vilie ecke sla siñ þienara i hel med sverde. * c. 2/ 28.

52 Og Salomon sagde: vilie hañ vera froomur/ þa skal þar ecke falla eitt af hñs hære a Jordena/eñ verde þar funded vondt med hønũ/þa skal hañ deya.

53 Og konungureñ Salomon sende burt / og þeir sooktu hañ ofañ fra altarenu/ og hañ kom/ og nidurfiell fyrer konungenum Salomon/og Salomon sagde til hañs: gack til þijns huss.

## II. Capitule.

Salomon epter sijns Fødurs Dauda helldur Doom i Jsrael.

Og þegar Davids tijme stood til / ad hañ skyllde deya / þa baud hañ sijnum syne Salomon/ og sagde:

2 Eg geing a allrar Jardareñar veg/ so vertu styrkur / og vertu mañlegur:

3 Og tak vara a þvi/er Drottiñ þiñ Gud vill hafa teked vara a/ad ganga a hañs vegum/ad hallda hañs skickaner og hañs bod og hañs riett / og hañs vitnesburde / eins sem skrifad er i * Mose løgmaale/ ad þu kuñer vera forstandigur i øllu þvi þu giører/ og øllu þvi þu snyr þier til. * 5. Mos. 17/ 16.etc. Jos. 1/ 7. C. 23/ 6.

4 Vppa þad Drottiñ skule stadfesta sitt ord/ sem hañ talade yfer mier / og sagde: sie þad so / ad þijn børn vardveite þeirra vegu / ad * ganga trulega fyrer mier i þeirra giørvøllu hiarta / og i þeirra giørvallre saal / seigiande: þa skal þig ecke vanta eirn mañ a Jsraels stoole. * 1. Mos. 17/ 1.

5 Og þu/ þu veitst og so/ hvad Joab ZeruJa son giørde vid mig/ hvad hañ giørde vid þa tvo strijds høfudsmeñ i Jsrael/ vid * Abner Ners son / og vid ** Amasa Jethers son/sem hañ slod i hel/ og uthellte strijds bloode/ þegar þad var fridur / og kom strijds bloode a sitt bellte/ sem var um hañs lendar/ og a hañs skoo/ sem voru a hañs footum. * 2. Sam. 3/27. ** 2. Sam. 20/10

6 Giørdu epter þijnum vijsdoome/ad þu ecke læter hañs grau hær niderfara til grafareñar med fride.

7 Eñ þu skallt giøra myskunsemd vid Barsillai þess Gileadita syne/ og þeir skulu vera a medal þeirra/sem eta yfer þijnu borde/þvi * þeir hielldu sig so til mijn / þegar eg flude fyrer Absalom þijnum broodur. * 2. Sam. 17/ 27. C. 19. 31/ 32.

8 Og sia / þu hefur hia þier Simei Gera son/Jemini sonar af Bahurim/ * sem bølvade mier miøg skamarlega/a þeim deige / þegar eg gieck til Mahanaim / Og hañ / hañ kom ofañ mooti mier hia Jordan/og ** eg soor honum vid Drottiñ / og sagde: eg vil ecke sla þig i hel med sverde. * 2. Sam. 16. 5. C. 19/ 16. ** 2. Sam. 19/ 23.

9 Eñ nu þu skallt ecke læta hñ vera saklausañ / Þvi þu ert eirn vijs madur/og veitst/ hvad þu skallt giøra hønum/ ad þu læter hañs grau hær nidur fara med bloode til grafareñar.

10 So la David med sijnum fedrum/ og var greftradur i Davids stad.

11 Og * sa tijme/sem David var konungur yfer Jsrael/ er fioritijger ar / Hañ var konungur i Hebron i sio ar / og var konungur i Jerusalem þriu og þriatiju ar. * 2. Sam. 5/ 4. 1. Kron. 29. 26/ 27.

12 Og Salomon sat a sijns fødurs Davids stoole/ z hsis rijke vard miøg stadfest.

13 Og Adonia Hagits son / kom iñ til Bathseba Salomons moodur/og hun sagde : kiemur þu med fride? hañ sagde : med fride.

14 Þa sagde hañ : eg hefe ad tala vid þig/ og hun sagde : seig fram̃.

15 Og hañ sagde : þu/ þu veist/ad * rijked var mitt/og allur Jsrael hafde snued þeirra asioonum til mijn/ad eg skyllde vera konungur / eñ (nu) er rijked umsnued/ og orded mijns broodurs / þvi þad er orded hsis af Drottne. * c. 1/ 5.

16 Og nu bid eg eirnrar boonar af þier/ ad þu viller ecke utskufa mijnu auglite. Og hun sagde til hañs : seigdu til.

17 Þa sagde hañ : kiæra/ tala vid kong Salomon / þvi hañ utskufar ecke þijnu auglite / ad hañ vilie giefa mier * Abisag þa Sunemitisku til hustrur. * c. 1/ 3.

18 Og Bathseba sagde : gott/eg/eg vil tala fyrer þig til konungsens.

19 Og Bathseba kom til kong Salomon / ad tala vid hañ fyrer Adonia / og konungureñ stood upp moote heñe/og laut fyrer heñe/og sat a sijnum stoole/og mañ sette eirn stool handa konungsens moodur/ og hun sat hia hañs hægre sijdu.

20 Og hun sagde : eg bid eirnrar lijtellrar boonar af þier/þu viller ecke utskufa mijnu auglite. Konungureñ sagde til heñar : bid mijn mooder / þvi eg vil ecke utskufa þijnu auglite.

21 Og hun sagde : lat Abisag þa Sunemitisku giefast þijnum broodur Adonia til hustrur.

22 Þa svarade konungureñ Salomon / og sagde til siñar moodur : og hvar fyrer bidur þu um̃ Abisag þa Sunemitisku handa Adonia? bid og um̃ rijked handa honum/þvi hañ er miñ brooder/elldre eñ eg/ og hañ hefur * Abiathar prest og Joab Zeruja son (med sier.) * c. 1/ 7.

23 Og konungureñ Salomon soor vid Drotteñ/ og sagde : Gud giore mier so/og eñ svo/ Adonia skal hafa talad þad ord * moot sijnu lijfe. * 2. Sam. 1. 16.

24 Og nu (so sañarlega sem) Drotteñ lifer / sem mig hefur stadfest/ og lated mig sitia a mijns fødurs Davids stoole/ og sem hefur giort mier eitt huus/ so sem hañ sagde/þa skal Adonia deydast i dag.

25 Og konungureñ Salomon sende fyrer Benaia Jojada son / og hañ fiell iñ a hañ/ og hañ deyde.

26 Og konungureñ sagde til AbJathar prests : gack til þijns akurs i * Anathot/þvi þu ert daudans madur/eñ eg vil ecke sla þig i hel a þessum deige / þvi þu barst Drottens Drottens ørk fyrer David mijns fødurs augsijn/ og af þvi þu leidst mootgang i øllum mijns fødurs mootgange. * Jer. 1/ 1.

27 So utrak Salomon AbJathar/ad hañ være ecke Drottens prestur/ad hañ skyllde fylla * Drottens ord / sem hañ hafde talad yfer Eli huse i Silo.

* 1. Sam. 2. 31/ 32.

28 Þegar þetta rikte kom fyrer Joab/ þvi Joab hafde snued sier epter Adonia/ og ecke snued sier epter Absalom / þa flude Joab til Drottens tialldbudar / og * greip um̃ altares horneñ.

* c. 1/ 51.

29 Og þad vard konungenum Salomon til vitundar giefed/ ad Joab være flueñ til Drottens tialldbudar/og sia/ (hañ stæde) hia altarenu / þa sende Salomon Benaia Jojada son þangad/ og sagde : gack / fall iñ a hañ.

30 Og þegar Benaia kom til Drottens tialldbudar / þa sagde hañ til hañs : svo seiger konungureñ : gack ut. Og hañ sagde : ney / þvi hier vil eg deya : og Benaia talade soddañ til konungsens aptur/og sagde : so hefur Joab talad/ og svo svarad mier.

31 Þa sagde konungureñ til hañs : giør svo sem hañ sagde/ og fall iñ a hañ/ og greptra hañ/ ad þu skuler snua þvi saklausa bloode/ sem Joab hefur uthellt/ fra mier og fra mijns fødurs huuse.

32 Og Drotteñ mun lata hañs blood koma aptur a hañs høfud/ad hañ fiell iñ a tvo meñ / riettferdugre og betre eñ hañ/

hañ/og drap þa med sverde/og miñ fad er David visse þad ecke/sem var * Abner Ners son/ strijdshøfudsmañ yfer Israel/og ** Amasa Jethers son/ strijdshøfudsmañ yfer Juda.
* 2. Sam. 3/ 27. ** 2. Sam. 20/ 10.
33 Ad þeirra * blood skule koma aptur a Joabs høfud/og a hañs fædes høfud æfenlega/ eñ David og hañs fæde/ og hañs huus/og hañs stooll/skule hafa frid af Drottne æfenlega.
* 1. Mos. 9/ 6.
34 Og Benaia Jojada son gieck upp/ og fiell iñ a hñ/og drap hñ/og hñ var grepttradur i sijnu huuse i eidemørkeñe.
35 Og konungureñ sette * Benaia Jojada son i hañs stad/ yfer hereñ/ og konungureñ sette Zadok prest i AbJathars stad. * c. 4/ 4.
36 Og konungureñ sende/ og liet kalla Simei/ og sagde til hañs: bigg þier eitt huus i Jerusalem/ og bu þar/ og gack ecke þar ut af/hijngad edur þangad
37 Og þad skal skie/ a hvørium deige þu geingur ut/ og geingur yfer Kidrons læk/þa vittu vijst/ad þu skalt vissulega deya/ þitt blood skal vera a þijnu høfde.
38 Og Simei sagde til konungsins: Þad er gott ord/eins sem miñ herra konungureñ hefur talad/so skal þiñ þienare giøra/ So bioo Simei i Jerusalem eirn læingañ tijma.
39 Og þad skiede/þegar þriu aar voru ute/ ad tveir af Simei sveinum fludu til Achis/Maecha sonar/ sem var kongur i Gat/ og þeir gaafu Simei til vitundar/seigiande: siaa/þijner sveinar eru i Gat.
40 So took Simei sig upp/og sødlade siñ asna/ og foor burt til Gat til Achis/og uppleitade sijna sveina/ og Simei kom/ og færde sijna sveina fra Gat.
41 Og þad vard sagt fyrer Salomon/ ad Simei være fareñ fra Jerusalem til Gat/ og være komeñ aptur.
42 Og konungureñ sende/og liet kalla Simei/ og sagde til hañs: hefe eg ecke svared þier vid Drottiñ/og vitnad fyrer þier/ og sagt: a hvørium deige þu færer ut/ og geingur hijngad edur þang ad/ ad þu skyllder fyrer vijst vita/ ad þu skyllder vissulega deya/ og þu sagder til mijn: eg hefe heyrt/ þad er eitt gott ord.
43 Og þvi hefur þu þa ecke hallded Drottiñs eid ꝛ þad bod/s eg baud þier?
44 Og konungureñ sagde til Simei: þu/þu veitst alla þa vondsku/sem þijnu hiarta er vitanlegt/ sem þu giørder * mijnum fødur David/ og Drottiñ hefur læted þijna vondsku koma aptur a þitt høfud. * 2. Sam. 16/ 5. etc.
45 Og konungureñ Salomon er blessadur/ og Davids stooll skal vera staðfestur fyrer Drottiñs augsijn æfenlega
46 So baud konungureñ Benaia/Jojada syne/ og hañ gieck ut/ og fiell iñ a hañ/og hañ deyde/og rijked vard stadfest fyrer Salomons hønd.

## III. Capitule.

### Salomons Egtaskapur/ Bæn og Doomur.

Og Salomon mægdest vid Pharao/ konungeñ af Egyptalande/og took Pharaonis dottur/ og færde hana i Davids stad/ þar til hañ hafde fullkomnad/ ad biggia sitt hus/og Drottiñs hus/og Jerusalems muur umhverfes.
2 Alleinasta foolked offrade a hædunum/þvi þar var ecke (eñ þa) bigt eitt hus handa Drottiñs nafne/allt til þeirra sømu daga.
3 Eñ Salomon elskade Drottiñ/ og gieck epter Davids sijns fødurs skickunum/ alleinasta ad hañ offrade/ og gaf reikelse a hædunum.
4 Og konungureñ gieck til Gibeon/til ad offra þar/þvi þad var ein af þeim stooru hædum/og Salomon offrade þu sund breñeoffrum a þvi sama altare.
5 Og * Drottiñ openberadest fyrer Salomon/i Gibeon/um nootena i draume/ og Gud sagde: bid þu/hvad eg skule

le giefa þier. ✱ c. 9/ 2. ekc.

6 Og Salomon sagde: þu/þu giørd-er stoora myskunseme vid þiñ þienara David/ miñ fødur/ lyka sem hañ gieck fyrer þier i sañleika og riettlæte / og med einu riettferdugu hiarta fyrer þi-er / og þu hefur hallded vid hañ þessa stooru myskunseme / og giefed hønum ✱ eirn son/ sem situr a hañs stoole/sē a þessum deige. ✱ c. 1/ 48.

7 Og nu/ Drottenñ miñ Gud/ þu/ þu hefur giørt þiñ þienara ad konunge i myns fødurs Davids stad / so er eg ei-rn lytell ynglingur/ og veit ecke ad gan ga ut eda iñ.

8 Og þiñ þienare er a medal þyns foolks / sem þu hefur utvaled/ sem er so stort eitt foolk / er ecke kañ teliast/ edur reiknast/fyrer margfiølda saker.

9 So ✱ gief þynum þienara eitt hlyd ed hiarta/ ad hañ kuñe dæma þitt foo lk/ og med skinseme greina i mille goods og ills / þvi hver kañ (añars) dæma þtta þitt megtuga folk? ✱2.Kron.1/10

10 Og þad ord þocknadest Drottne/ ad Salomon bad um̄ soddañ hlut.

11 Og Gud sagde til hañs: med þvi þu bidur um̄ þeñañ hlut / og oskar þier ecke eins længs lyfs/og beidest þier ecke rykdooms/bidur z ecke um̄ þiña fiand-mañа sæl/ helldur bidur um̄ skynseme/ til ad heyra doom.

12 Sia/ (so) hefe eg giørt epter þynu orde/ sia / eg hefe giefed þier eitt vyst og skynsamt hiarta/so ad þiñ lyke hef-ur ecke vered fyrer þig / ei helldur skal uppkoma / sem þu epter þig.

13 Eg hefe og giefed þier þar med/ ✱ þad sem þu ecke hefur beded um̄/ (sem er) bæde rykdoom og vegsemd / so ad (mañ skal seigia: ) þar hafe ecke ver-ed nockur/sem þu/a medal konungaña/ a øllum þynū døgum. ✱2. Kron.1/12.

14 Og ef þu geingur a mynum veg-um / so ad þu hallder mynar skickaner og myn bod / so sem David þiñ fader hefur geinged/ þa vil eg giefa þier eitt langt lyf.

15 Og Salomon vaknade / og sia/ þa var þad eirn draumur / og hañ kom til Jerusalem / og stood fyrer Drottenñs sattmæls ørk/og offrade breñe-offrū/ z giørde þackar-offur / og giørde øllum synum þienurum eitt giestabod.

16 Þa komu tvær kvinñur/(sem voru) skiækiur til konungsens/og stoodu fyr-er hønum.

17 Og su eina kviña sagde : ach miñ herra/eg og þesse kviña biuggum i einu huse / og eg fædde hia heñe i husenu.

18 Og þad skiede a þeim þridia deige/ epter þad eg hafde fædt/ þa fædde og so þesse kviña / og vid vorum til sam-ans/ þar var eingeñ framande hia ock-ur i husenu/utañ vid bædar i husenu.

19 Og þessarar kviñu son deyde um̄ nootena / þvi hun lꜳ uppa hønum.

20 Og hun stood upp midt um̄ noott-ena/ og took miñ son fra mier / þegar þyn þioonustu-kviña svaf /og hun lag de hañ a siñ arm/og lagde siñ dauda son a miñ arm.

21 Og eg stood upp um̄ morguneñ/ ad giefa mynum syne ad siuga/og sia/þa var hañ daudur/eñ um̄ morguneñ hug da eg ad hønum / og sia / þad var ecke miñ sonur / sem eg hafde fædt.

22 Og hin øñur kviñañ sagde : þad er ecke(so/)þvi miñ son er sa lifande / og þiñ son er sa daude/og þesse sagde: þad er ecke (so/) helldur/þiñ son er sa daude/og miñ son er sa lifande/og þær tøludu (so) fyrer konungenum.

23 Þa sagde konungureñ: þesse seiger/ þesse miñ son er sa lifande/og þiñ son er sa daude/og þesse seiger: þad er ecke (so/) helldur þiñ son er sa daude / og miñ son er sa lifande.

24 Og konungureñ sagde: sæked mier eitt sverd / og þeir bᴂru sverded fyrer konungeñ.

25 Þa sagde konungureñ: skifted þvi lifande barne i tvent / og fæед þessare halfparteñ/og hiñe añare halfparteñ.

26 Þa sagde kviñañ / hvørrar sonur sa lifande var/til konungsens/þvi heñ

ar

er * hiarta-lag brañ yfer heñar syne/ og sagde : ach miñ herra / giefed heñe þad lifande barn / og slaaed þad vyst ecke i hel / Eñ þesse sagde : þad skal hvorke vera mitt eda þitt/ skipted þvi.
* Es. 44/ 15.

27 Og konungureñ svarade / og sagde: giefed þessare þad lifande barn/ og slaaed þad vyst ecke i hel/ hun er mooder ad þvi.

28 Og allur Israel heyrde doomeñ/ sm̃ konungureñ hafde dæmt / og þeir ottudust fyrer konungenum/ þvi þeir sau/ ad Guds vysdoomur var i hønum/ til ad hallda doom.

## IV. Capitule.

Salomons Embættesmeñ/ Vegsemd og Vysdoomur.

Og kong Salomon var konungur yfer øllum Israel.

2 Og þesser voru hn̄s høfdingiar : AsarJa * Zadok prestsens sonur. * C. 2/ 35.

3 Elihoreph og Ahia/ Sisa syner/ skrifarar: Josaphat Ahiluds son / secretere.

4 Og Benaia Jojada son var yfer hernum / og Zadok og AbJathar voru prestar.

5 Og AsarJa Natans son var yfer embættes moñunum/ og Sabud Natans/ prests son/ var konungsens vinur.

6 Og Ahisar var hofmeistare/ * Adoniram Abda son vʳ renthumeistare. * C. 5/ 14

7 Og Salomon hafde toolf embættesmeñ yfer øllum Israel/ og þeir forsorgudu konungeñ og hn̄s huus/ hvør skyllde forsorga eirn mænud um̃ aared.

8 Og þesse voru þeirra nøfn: Hurs son a Ephraims fialle.

9 Dekers son i Machas og i Saalbim/ og BethSemes/ og Elon/ BethHanan

10 Hesedssoni Aruboth / hañ hafde Socho/ og allt Hepher land.

11 * AbiNadabs son / (hafde) alla þa eigu Dor/ hañ ætte Taphat Salomone dootter/ fyrer hustru. * 1. Sam. 16/8.

12 Baena Ahiluds son (hafde) Thaenoch og Megiddo/ og alla BethSean/ sem er hia Zarthan/ under Jesreel/ fra BethSean iñ til AbelMehola / allt til hinumeigeñ Jakmeam.

13 Gebers son i RamothGilead / hañ (hafde og) * Jairs þorp / Manasse sonar/ hvad sem var i Gilead/ hñ (hafde og) Argobs eign/ sem er i Basan/ sextiu stoora murada stade / og med kopar-staungum. * 1. Kron. 2/ 23.

14 Ahinadab Jddo son i Mahanaim.

15 Ahimaas i Naphthali / hñ/ hñ took z Basmath Salomons dottur til hustrur.

16 Baena Husai son/ i Asser z i Aloth.

17 Josaphath Paruah son i Jsaschar.

18 Simei Ela son i BenJamin.

19 Geber Uri son i Gileads lande / og i Sihons Amorita konungs lande/ og Ogs konungsens af Basan / og hañ var eirn embættes madur i landenu.

20 Juda og Jsrael voru marger/ * sem sandur þar er hia hafenu/ i margfioldaþeir aatu og druncku/ og voru glader.
* C. 3/ 8. 1. Mos. 13/ 16 etc. 4. Mos. 23. 10.

21 Og Salomon var eirn herra * yfer øllum rykiunum/ fra flioodenu i Philistea landa lande/ og allt til Egypti landamerkia/ þeir færdu (hønum) skeink/ og þioonudu Salomon alla hañs lyfdaga.
* Syr. 47/ 17.

22 Og Salomons braud til hvørs dags var þriatyu mæle-kiorolld (goods) miøls/ og sextyu mæle-kiorolld (afiars) miøls

23 Tyu alder uxar/ og tuttugu hag-geingner uxar/ og hundrad sauder/ fyrer utañ hyrte og rædyr / og ur-uxa / og alda capuna.

24 Þvi hañ stioornade i ollu þvi hinumegeñ flioodsens/ fra Tipsah/ og allt til Aza/ yfer øllum konungum hinumeigeñ flioodsens/ og hafde frid allt um̃ kring a allar sydur.

25 Og Juda og Jsrael bygggu * ohult/ hvør under synu vyn-trie / og under synu fyktu-trie/ fra Dan og allt til Berseba/ alla Salomons daga. * 3. Mos. 26/ 5

26 Salomon hafde og plaats handa * fiorutyu þusund hestum til sina vagna / z toolf þusund reidmeñ. * 2. Kron. 9/ 25.



27. Og

27 Og þeſſer embættes meñ forſorgudu kong Salomon/ og hvørn þañ/ ſem kom til kongs Salomons bords/ hvør i ſijnum mænude/ þeir lietu eckert vanta.

28 Og þeir færdu bigg og hælm handa heſtunum/ og handa fararſkiootunum/ til þiſ ſtadar/ ſem hñ ſkyllde vera i/ hvør epter ſiñe bijfalning.

29 Og Gud gaß Salomon * vijsdoom / og miøg mikla ſpeke/ og eitt ijdugt hiarta/ ſem ſandur þar er hia ſiooar ſtrondu.

* Syr. 47/ 20.

30 Og Salomons vijsdoomr var ſtærre/ eñ allra barna vijsdoomur aß auſtre / og helldur eñ allra Ægyptſkra vijsdoomur.

31 Og hñ var vijſare eñ allar mañeſkiur/ eñ Ethan Eſrahite/ og Eman/ og Chalchol ⁊ Darda/ Mahols ſyner/ ⁊ var naßn kuñugur hia øllū heidingiū umhverßes.

32 Og hñ talade þriu þuſund ordskvidu/ og hñs vijſur voru þuſund og fim.

33 Og hñ talade um̄ trien/ fra cedrus/ ſem er i Libanon / og allt til iſops / ſem utvex i veggnum/ og talade um̄ dijrē/ og um̄ fuglana/ ⁊ um̄ ormana/ ⁊ um̄ fiſkana

34 Og þar komu aß øllu foolke/ * til ad heyra Salomons vijsdoom/ fra øllum kongungum a Jørdunñe/ ſem høfdu heyrt um̄ hañs vijsdoom. * C. 10. 1/ 6.

## V. Capitule.

### Salomon fær fra Konungenum i Tyro Ervides Foolk.

Og Hiram / konungureñ i Tyro/ ſende ſijna þienara til Salomon/ þvi hañ hafde heyrt / ad þeir hefdu ſmurt * hañ til konungs i hañs fødurs ſtad / þvi Hiram elſkade David alla ſijna daga.

* C. 1/ 39.

2 Þar epter * ſende Salomon til Hiram/ og liet ſeigia: * 2. Kron. 2/ 3.

3 Þu þeckter miñ fødur David/ ad hñ ecke kuñe biggia Drottens ſijns Guds nafne eitt hus/ fyrer ſtrijdſens ſkulld / ( vegna þeirra / ) ſem høfdu umſpeñt hañ/ allt þar til Drotteñ gaf þa under hañs foota yliar.

4 Eñ nu hefur Drotteñ miñ Gud / giefed mier roo allt um̄ kring / hier er eingeñ mooſtandare/ ⁊ ei vond hindran

5 Og ſia/ eg hefe i ſiñe/ ad biggia Drottens mijns Guds nafne eitt hus/ ſo ſem * Drotteñ talade til mijns fødurs Davids/ ⁊ ſagde: Þiñ ſon/ ſm̄ eg mun ſetia i þiñ ſtad/ a þiñ ſtool/ hañ ſkal biggia mijnu nafne huſed. * 2. Sam. 7/ 13. etc

6 So bijfala nu þu / ad mañ hoggve mier cedrus (trie) af Libanon/ og mijner þienarar ſkulu vera med þijnum þienurum/ og eg vil giefa þier þiña þienara laun/ epter øllu þvi/ ſem þu ſeiger/ þvi þu veitſt/ ad hier er eingeñ hia oſſ/ ſem kañ ad høggva trie/ ſem þeir Zidoniar.

7 Og þad ſkiede/ þegar Hiram heyrde Salomons ord/ þa vard hañ allgladur/ og ſagde: * lofadur vere Drotteñ i dag/ ſem hefr giefed David eirn vijsañ ſon/ yfer þetta mikla foolk. * 2. Kron. 2/ 12

8 Og Hiram ſende til Salomon / og liet ſeigia: eg hefe heyrt þad / ſem þu ſender til mijn um̄/ eg/ eg vil giøra allañ þiñ vilia um̄ cedrus-trien / og um̄ grene-trien.

9 Mijner þienarar ſkulu færa þau ofañ af Libanon til hafſens / og eg vil laata leggia þau i flota a hafed / allt til þeſſ ſtadar/ ſem þu lætur giefa mier til vitundar/ og eg vil þar laata ſkilia þau ad/ og þu/ þu ſkallt laata ſækia (þau/) eñ þu ſkallt giøra miñ vilia/ ad giefa mijnu foolke koſt.

10 So gaf Hiram Salomon cedrus-trie/ ⁊ grene trie/ epter allre hñs beidne.

11 Og Salomon gaf Hiram tuttugu þuſund cor hveites/ til hañs huuſſ fædſlu / og tuttugu cor ſkieked oleum/ So gaf Salomon Hiram hvørt aar.

12 Og Drotteñ * gaf Salomon vijsdoom/ ſem hañ hafde * * ſagt hønum/ og þar var fridur i millum Hiram og i millum Salomon/ og þeir bader giørdu eitt ſamband. * C. 4/29. * * C. 3/12.

13 Og kong Salomon giørde eitt mañtal aß øllum Iſrael / og þad mañtal / var þrijatiju þuſund meñ.

14 Og

14 Og hann sende þa til Libanon / tiju þusund hvorn manud/so þeir skiptust umm/ eirn manud voru þeir a Libanon / og tvo manude voru þeir heima / og * Adoniram var yfer þvi mannfale. * c. 4/ 6.

15 Og Salomon hafde siotju þusunder sem baru byrder / og attatju þusunder/ sem timbrudu a fiallenu.

16 Fyrer utann Salomons ypparsta tilsioonar menn/ sem voru yfer erfidenu/ þriu þusund og þriu hundrud / sem stiornudu yfer folkenu/ er giordu verked.

17 Og konungurenn baud / og þeir upp brutu stoora steina / kostulega steina / ut hoggna steina/ til huussens grundvallar.

18 Og Salomons biggingarmenn / og Hirams biggingarmenn / og þeir Giblitar hiuggu ut/ og tilhiuggu trien og steinana / til ad biggia huused.

## VI. Capitule.

### Nær / og hvad leinge Salomons Mustere var bigdt.

Og þad skiede a þvi fiogur hundradasta og attatugasta are / epter þad Israels born voru utgeingenn af Egyptalande/ a þvi fiorda are / i þeim manade Sif / Þad er/ sa annar manadur/ epter þad Salomon vard konungur yfer Israel/ * ad hann bigde Drottne eitt huus.

* 2. Kron. 3/ 1.

2 Og þad huus / sem kong Salomon bigde Drottne/ þad var sextiju alna langt / og tuttugu breitt/ og þriatiju alna hatt.

3 Og þar var * eitt forhuus framann mustereis huusenu/ þad var tuttugu alna langt / epter huussens breidd / tiju alna breitt framm af huusenu. * 2. Kron. 3/4.

4 Og hann giorde glugga a huusenu / (utann til) vijda / (innann til) þreingre.

5 Og hann bigde eirn ummgang kringumm huussens vegg(upp)til huussens veggia/ (bæde) kringumm mustered og choren / og giorde utbrot (þar) umm kring.

6 Sa nedste gangur var fimm alna vijdur/ og sa i mided var sex alna vijdur/ og sa þridie hann var sio alna vijdur / þvi hann giorde bil utann umm kring Hused / ad þar skylde ecki koma vid veggena a huusenu.

7 Og huused / þegar þad var bigt / þa var þad bigt af steinum / sem voru fard er (þangad/)tilbuner/so ad hvorke hamar eda oxe/ ei helldur nockurt smijdatool af jarne/var heyrt i huusenu / þar þad bigdest.

8 Dyrnar ad þvi midia utbrote voru a þa hægre sijdu a huusenu / og mann gieck i giegnum vindeltroppuna/uppa midgangenn/og af midgangenum uppa hann þridia.

9 og so bigde hann huused / og fullkomnade þad/og hann þiliade huused med slam og fiolum i rod / af cedrus.

10 Og hann bigde gaung uppa þvi ollu huuse/fimm alna hæ/ og sette samann huused med cedrus triam.

11 Og Drottens ord skiede til Salomon / og sagde:

12 Þetta er huused / sem þu bigger / ef þu geingur i mijnum skickunum/ og giorer epter mijnum riettindum / og helldur oll mijn bod / til ad ganga þar i / * so vil eg stadfesta mitt ord vid þig/ sem eg talade til Davids þijns fodurs. * 2. Sam. 7/13. etc

13 Og eg * vil buua midt a medal Israels barna/og ecke yfergiefa mitt fook Israel. * 2. Mos. 29/ 45.

14 So * bigde Salomon huused/og fullkomnade þad. * P. G. 7/ 47.

15 Og hann bigde veggena a huusenu innann til / af cedrus fiolum / fra goolfenu a huusenu/allt til skilnadar veggianna/ hann þiliade þad ad innann med trie / og lagde golfed i huusenu med greneþialvid.

16 Og hann bigde vid hlidarnar a husenu/ tuttugu alner med bialkum af cedrus/fra golfenu/allt til(þess efsta)a veggiunum/ og bigde sier choren þar fyrer innann / til þess heilagasta.

17 Og huused var fiorutiju alna (langt/) þad er mustered framman.

18 Og huused var innann til cedrus/ þar voru render knappar og utskorenn bloomstur/þad var alltsaman cedrus / þar sast ecke eirn steirn.

19 Og hann liet tilbuua choren innann vert i huus-

i huuſenu/ad mañ ſkyllde þar ſetia Drott ens ſattmaals ørk.

20 Og choreñ fram̃ ad var tuttugu alna langur/ ꝛ tuttugu alna breidur/ ꝛ tuttugu alna hær / og hñ um̃ſloo hñ med klæra gulle/og þiliade altared med cedrus(trie).

21 Og Salomon klædde huuſed iñañ til med ſkyra gulle/og giorde gillene kied-iur fyrer framañ choreñ / og um̃ſloo hañ med gulle.

22 Og þad giørvallt huus um̃ſloo hañ med gulle/ þar til hañ hafde fullkomnad þad giørvalla huus / og þad giørvalla altare / ſem var fyrer framañ choreñ / um̃ſloo hañ med gulle.

23 Hañ giørde og i chornum/ tvo ✱ che-rubim af oliu-trie / tiju alna hæa.

✱ 2. Moſ. 25/ 18. C. 37/ 7.

24 Þeſſ eina cherubs vængur var fim̃ alna (langur/) og þeſſ añars cherubs vængur/var fim̃ alna(langur/)ſo ad þar voru tiju alner fra þim̃ eina hñs vangs enda / og til þeſſ añars hñs vængs enda.

25 Og ſa añar cherub var tiju alna / og bææder þeir cherubim høfdu eina mæl-ing og eirn hæll.

26 So ad ſa eine chierub var tiju alna hær/ og lijka ſo ſa añar cherub.

27 Og hañ ſette þa cherubim iñañ til i huuſenu/ꝛ cherubim utbreiddu vængena/ ſo ad þeſſ eina vængur / ſnerte vid þañ (eina) vegg/og þeſſ eina cherubs vængur ſnerte vid þañ añañ vegg / Eñ þeirra vænger midt i huuſenu ſnertu (eirn) væn-gur hiñ añañ.

28 Og hañ um̃ſloo cherubim med gulle.

29 Og alla huuſſens vegge um̃ kring / liet hañ utſkiera med opnum utſkornum cherubim og pælm-vidum/og ut ſpruung-num bloomſtrum / iñañ til ꝛ utañ til.

30 Og hañ lagde goolfed i huuſenu/ med gulle/ iñarlega og utarlega.

31 Og hañ giorde dyr a iñgangenum i choreñ af oliu-trie / dyra um̃bunad med fim̃ ſtrendum ſtoolpum.

32 Og tvennar dyrnar voru af oliu-trie/ og liet utſkiera þar a utſkorna cherubim/ og pælma-vidu/ og ut ſprungeñ bloomſtur/og um̃ſlod þær med gull/ og hñ utbre-idde gull yfer cherubim ꝛ yfer pælmana.

33 Og ſo giørde hañ a muſterrſens iñ-gange ferſtrenda ſtoolpa af oliu-trie.

34 Og tvær hurder af grene-trie / ſu eina hurd hafde tvo tappa/ ad hlaupa a um̃ kring / og ſu ønur hurd tvo hiør ad hlaupa a um̃ kring.

35 Og hañ utſkar cherubim og pælma/ og utſprungeñ bloomſtur / og um̃ſloo þad med gulle/ slett yfer þvi/ ſ var utgrafed.

36 Og hañ bigde eirn forgard iñañ til/ mꝫ þremur rodum uthøggveña(ſteina/) ꝛ eirnre rod uthøggveña cedrus-(ſtoolpa.)

37 A þvi ✱ fiorda are var grundvøllur lagdr til Drottens huuſſ/ i Sif mænade.

✱ C. 6/ 1.

38 Og a þvi ellefta are i þeim mænade Bul/ þad er ſa ættunde mænadur / vard huuſed bued/med øllum ſijnum bunade/og øllu ſijnu tilheyrande/ og hñ bigde uppa þad i ſio ar.

## VII. Capitule.

### Nockud um̃ Salomons og Drott-ens Huus.

Eñ Salomon ✱ bigde ſitt huus i þrettan ar/og fullkomnade ſitt giørvallt huus. ✱ C. 9/ 10.

2 Og hañ bigde Libanons ſkoogar huus/hundrad ælner var þad læn-gt/og fim̃tiju ælner breidt/ ꝛ þriatiju æl-na hatt / a fiodrum rodum cedrus ſtool-pa / og þar voru uthøggner cedrus (bit-ar) a ſtoolpunum.

3 Og ꝥ var þaked med cedrus ofañ til/ yfer bitunum/ ſem lau a ſtoolpunum / et voru fim̃ og fiørutiju / (ꝫ) fim̃tæn i hvørre rød.

4 Og þar voru þriaar rader glugga/ og gluggur moote glugga þriſvarſiñum:

5 Og aller karmar og ſtafer voru fer-kantader ad ſiꝫ i giegnum / og þar var gluggur giegnt glugga þriſvarſiñum.

6 Og hñ giørde eitt forhuus med ſtoolp um/fim̃tiju ælna var þad langt/og þria tiju ælna breidt / og forhuuſed var fyrer framañ þa/og ſtoolparner og bitarner fyr er framañ þa.

7 Hann giørde og eitt forhuus til stoolsens/ ad hn̄ villde hallda doom þar i/ eitt doom-huus / og golfed var lagt med cedrus/fra (þm̄ eina) enda/ allt til þss annars.
8 Og (hia) hanns huuse / hvar i hann bioo/ var eirn annar borgar gardur / innan fyrer forhuusenu/ hann var giørdur epter þeim sama hætte / hann giørde og so eitt huus handa Pharaonis doottur/ * sem Salomon hafde teked (til hustrur/) eins sem þetta forhuus. * c. 3/ 1.
9 Øll þesse voru af kostulegum steinū/ epter þeim mæta / sem mann høggur (stein epter/) søgudum med søg utann og innann/ og fra grundvellenum allt til sillnanna/ og ad utannverdu/ allt til þess stoora gards.
10 Enn grundvellerner voru af kostulegum steinum/ af stoorum steinum/ af steine tiju ælna / og steine ætta ælna.
11 Og þar uppa kostuleger steinar/ epter þeim mæta/ sem mann høggur (stein epter) og cedrus.
12 Enn sa stoore gardur/ hafde um̄ kring þriar rader uthøggvenna (steina/) z eina rød af uthøggnū cedrus stoolpū/ og sa gardur upp til Drottens huuss innann til / og þad forhus hia husenu.
13 Og kong Salomon sende/ og liet sækia Hiram af Tyro.
14 Eirnrar eckiu son/ hn̄ var af Naphthali ætt/ og hanns fader var eirn madur af Tyro/ eirn * kopar smidur/ ** og var fullur af vijsdoome/ og forstande og kunnattu/ til ad giøra allra handa verk af kopar/ og hann kom til kong Salomon/ og giørde allt hanns verk.
* 1. Mos. 4/ 22. ** 2. Mos. 31. 3/ 4.
15 Og hann tilbio * tvo kopar-stoolpa/ þann eina stoolpa ætian alna hæann/ og eirn þrædur tolf alna/ gieck um̄ kring þann annann stoolpa. * 2. Kong. 25/ 17. etc
16 Og hann giørde tvær kronur/ til ad setia ofann a stoolpanna høfud/ af steyptum kopar/ su eina krona var fim̄ alna hæ / og hin ønnur krona var fim̄ alna hæ.
17 Þar var net / eins sem mann giører net/ sem ad voru sm̄ reipe i hlеkkia-verke a kronunum / sem voru yfer stoolpanna þvi efsta / siø a þeirre einu kronu/ og siø a þeirre annare kronu.
18 Og hann giørde stoolpana/ og tvær rader þar um̄ kring/ yfer þvi eina netе / til ad þekia kronurnar / sem voru efst a granata-eplunum / og so giørde hann a þeirre annare kronu.
19 Og kronurnar/ sem voru yfer stoolpanna þvi efsta/ voru liliu-verk i forhusenu/ fiøgra alna.
20 Og kronurnar a þeim tveimur stoolpum sem voru og so þar ofann a/ hier um̄ midt a þeim sem eru yfer netenu/ og granata-eplenn voru tvø hundrud i rødum um̄ kring/ yfer þeirre annare kronu.
21 Og hn̄ reiste stoolpana upp fyrer must eresens forhuuse/ Og hn̄ sette þann hægra stoolpa/ og kallade hn̄s nafn Jachin/ og sette þann vinstra stoolpa / og kallade hn̄s nafn Boas.
22 Og þar var ofann a stoolpunum liliu verk/ og (so) var þad verked vid stoolpana fullkomnad.
23 Og hn̄ giørde eitt steypt haf/ sm̄ var tiju alna fra þeim eina barme til þess annars barms allt um̄ kring/ og fim̄ alna var þad hætt/ og ein snura þriatiju alna laung took um̄ þad allt um̄ kring.
24 Og þar voru knappar under barmenum þar a um̄hverfes/ sem geingu allt um̄ kring / tiju a hvørre alen / sem geingu allt um̄ kring hafed/ þar voru tvær rader knappa / sem voru steiptar / þegar þad var steipt.
25 Þad stood a tolf uxum/ þremur var snued moot nordre/ og þrijr/ sm̄ sneru moot vestre/ og þrijr/ sem sneru moot sudre/ og þrijr/ sem sneru moot austre/ og hafed a þeim ad ofann/ og aller þeirra bak-hlutar voru innunder.
26 Og þyckten þar a var eirnrar handar breidd / og barmuren þar a giørdur sem barmur a einum bikar / og eins sem eitt liliu-bloomstur / þad skyllde taka tvø þusund bath.
27 Hann giørde og so þa tiju kopar stoo

17 Þesser voru aller reiknader til ætta i * Jothams Juda konungs tijd / og i Jeroboams Jsraels konungs tijd.
* 2. Kong. 15/ 7/32.

18 Rubens børn / og Gadditans / og Manasses half ættkvijsl / sem voru strijdsmeñ / eñ sem færdu skiølldu og sverd / z speñtu boga / og voru alvaner i strijde / voru fioorar og fiorutijgu þusunder og siø hundrud og sextijgu / sem droou ut i hereñ.

19 Og þeir droou i strijd mooke þeim Hagarenū / z moot Jetur / og Naphes / og Nodab.

20 Þo þeim ẏrde hialpad i moote þim / og Hagareni urdu giefner i þeirra hend ur / og allt þad / sem var med þeim / Þvi þeir hroopudu til Guds i strijdenu / og hañ bænheyrde þa / * þvi þeir treystu uppa hañ. * Ps. 71/ 1.

21 Og þeir færdu þeirra kvikfienad fangeñ / þeirra ulfallda fim̄ þusunder / og tvo hundrud og fim̄ þusunder fiaar / z tvær þusunder asna / og hundrad þu sunder mañeskia salna.

22 Þvi þar fiellu marger særder / þvi strijded var af Gude / z þr biuggu i þrra stad / til þess þeir voru i burt færder.

23 Og Manasse halfrar ættkvijslar børn biuggu i landenu / fra Basan allt til Baal Hermon og Senir / og Her mons fialls / þeir voru marger.

24 Og þesser voru høfudeñ fyrer þeir ra fedra huse / Bæde Epher og Jesei / og Eliel / og Asriel / og Jeremia / og Ho davia / og Jahdiel / vollduger strijds meñ / nafnkuñuger meñ / høfud fyrer þeirra fedra huse.

25 (Eñ) þegar þeir yfertrádu i giegn þeirra fedra Gude / og drygdu hoor med þioodaña gudum i landenu / sem Gud hafde eydelagt fyrer þeim:

26 Þa uppvakte Jsraels Gud * Phu ls anda / konungsens af Assyria / og Tilgath Pilnesers anda / konungsens af Assyria / og hañ burtfærde Rube nitañ og Gadditañ / og þa halfu Ma nasse ætt / og færde þa til Halah / og Habor / og Ara / og til þess fliooks Go san allt til þssa dags. * 2 Kong. 15/29

## VI. Capitule.

Levi Barna / Kaaths / Gersons / Me rari Bustader a meal Jsraels Kynkvijsla.

Levi * børn voru Gerson / Ka ath / og Merari.
* 2. Mos. 6/ 15. etc.

2 Eñ Kaaths børn voru Am ram / Jezear og Hebron og Ussiel.

3 Og * Amrams børn voru Aaron og Mose / og Maria. Og * * Aarons bø rn voru Nadab og Abihu / Eleasar og Jthamar. * 2. Mos. 2/ 1. etc.
* * 2. Mos. 6/ 23

4 Eleasar ablade Phinehes / Phine hes ablade Abisua.

5 Og Abisua ablade Buki / Og Buki ablade Ussi.

6 Og Ussi ablade Serahia / Og Se rahia ablade Meraioths.

7 Meraioth ablade Amaria / Og Ama ria ablade Ahitub.

8 Og Ahitub * ablade Zadoks / Og Za dok ablade Ahimaaz. * 2 Sam 8/ 17.

9 Og Ahimaaz ablade Asaria / Og Asaria ablade Johanans.

10 Og Johanan ablade * Asaria / ha ñs sem var prestur i þessu huse / sem Salomon bigde i Jerusalem.
* 2. Kron. 26/ 17.

11 Og Asaria ablade Amaria / Og Amaria ablade Ahitubs.

12 Og Ahitub ablade Sadoks / Og Sa dok ablade Sallums.

13 Og Sallum ablade * Hilkia / Og Hilkia ablade Asaria. * 2. Kong. 22/ 4.

14 Og Asaria ablade Seraia / Og Seraia ablade Jozadaks.

15 Og Jozadak kom burt / þegar * Dro tteñ liet Juda og Jerusalem burt færa fyrer Nabuchodonosor. * 2. Kong. 25/ 11

16 (So eru nu) * Levi børn (þesse:) Gerson / Kaath z Merari.
* 1. Mos. 46/ 11.

17 Og * Gersons barna nøfneru þsse: Libni og Simei. * 2. Mos. 6/ 17.

18 Enn Kaaths børn/ Amram/ og Jezehar / og Hebron og Ussiel.
19 Merari børn / Maheli og Musi / Og þessar eru Levitanna ætter a medal þeirra fedra.
20 Til Gersons (heyra) Libni hanns son/ Jahath hanns son/ Sima hns son.
21 Joah hns son/ Iddo hns son/ Serah hns son/ Jeathrai hanns son.
22 Kaaths børn voru / Amminadab hns son/ Korah hns son/ Assir hns son
23 Elkana hns son/ og AbiAsaph hanns son / og Assir hanns son.
24 Thabath hns son/ Uriel hns son/ Ussia hanns son/ og Saul hanns son.
25 Og Elkana børn voru Amasai og Ahimoth.
26 Elkana/ Elkana børn/ Zophai hanns son/ og Nahath hanns son.
27 Eliab hanns son/ Jeroham hanns son / Elkana hanns son.
28 Og Samuels børn voru/ sa frumgietne Vasni og Abbija.
29 Merari børn/ Maheli Libni hanns son/ Simei hanns son/ Ussa hanns son.
30 Simea hns son / Hagia hns son/ Asaia hanns son.
31 Og þesser eru þeir/ sem David sette til ad syngia i Drottens huse / sidann ørkenn hvijldest.
32 Og þeir þioonudu fyrer Samkundu tiallds tialldbudenne med saung/ þar til Salomon biggde Drottens hus i Jerusalem / og þeir stoodu epter þeirra skickan i þeirra embætte.
33 Og þesser eru þeir/ sm (þar) stoodu med þeirra bornum/ Af þess Kaathita børnum var * Enian sa saungvare / Joels son/ Samuels sonar.
* 2. Kron. 15/ 17.
34 Elkana sonar/ Jerohams sonar/ Eliels sonar/ Thoah sonar/
35 Suphs sonar/ Elkana sonar/ Mahaths sonar/ Amasai sonar/
36 Elkana sonar/ Joels sonar/ Asaria sonar/ Zephania sonar/
37 Thahaths sonar / Assirs sonar / Abiasaphs sonar / Kora sonar/
38 Jezehars sonar/ Kaaths sonar/ Levi sonar/ Israels sonar.
39 Og hns brooder * Assaph stod hia hanns hægre sijdu : Asaph var Berechia son/ Simeia sonar. * c. 15/ 19.
40 Michaels sonar/ Baeseia sonar / Malchija sonar/
41 Ethni sonar / Serah sonar/ Adaia sonar/
42 Ethans sonar/ Sima sonar / Simei sonar/
43 Johaths sonar / Gersons sonar / Levi sonar.
44 Og Merari børn / þeirra brædur vid þa vinstre sijdu/ (sem var) * Ethan/ Kisi son/ Abdi sonar/ Malluchs sonar/ * 2. Kron. 16/ 17.
45 Hasabia sonar/ Amasia sonar/ Hilkia sonar/
46 Amzi sonar / Bani sonar / Samers sonar/
47 Maheli sonar/ Musi sonar/ Merari sonar/ Levi sonar.
48 Og þeirra brædur Levitarner voru giefner til allrahanda embætta i Guds tialldbudar huse.
49 Og Aaron og hanns syner uppkendudu a brenneoffurs altarenu/ og a reykelses altarenu/ til allra handa verks i þvi helgasta / og til ad giora forlijkun yfer Israel/ epter ollu þvi/ sem Mose Guds þienare hafde befalad.
50 Og þesse eru Aarons børn : Eleasar hanns son / Phinehes hanns son / Abisua hanns son/
51 Buki hanns son / Vssi hanns son / Serahia hanns son/
52 Meraioth hanns son/ Amaria hanns son/ Ahitub hanns son/
53 Zadok hns son/ * Ahimaaz hns son
* 2. Sam. 15/ 27.
54 Og þesser voru þeirra bustader i þeirra høllum / i þeirra takmørkum / fyrer * Aarons børn/ þ Kaathitanns ætt/ þvi hluturenn fiell þeim til.
* Jos. 21. 10.
55 Og þeir gaafu þeim Hebron i Juda lande/ og hennar * forstade/ allt i kryngum

um hana. * 4. Mos. 35. 2/3.
56 Og stadarens * merk/ og hus landz þorp gaafu þeir Caleb Jephunne syne. * Jos. 21/ 11. etc.
57 So gaafu þeir til Aarons barna * þa frijstade i Hebron / og Libna / og þeirra forstade: * Jos. 21/ 13.
58 Og Jather/og Esthemoa/og heñar forstade/og Hilen / og heñar forstade/ Debir og heñar forstade.
59 Asan og heñar forstade/ og Bethsemes og heñar forstade.
60 Og af BenJamins ætt Geba og heñar forstade/ Alemeth og heñar forstade / og Anathot og heñar forstade/ Aller þeirra stader voru þrettan stader i þeirra ættum.
61 Eñ Kaaths bornum/sem voru epter ordeñ / (til fiell) af kynkuijslareñar ætt / af þeirre halfre Manasse halfre ætt/epter hlutfallenu tiju stader.
62 Og Gersons bornum i þeirra ættum / af Jsaschars ætt / og af Assers ætt/og af Naphthali ætt/og af Manasse ætt i Basan / þrettan stader.
63 Merari bornu i þrra ættu af Rubens ætt/ z af Gads ætt/ z af Sebulons ætt / epter hlutfallenu tolf stader.
64 So gaafu Jsraels born Levitunum stadena og þeirra forstade.
65 Og þeir gaafu epter hlutfalle/af Juda barna ætt/og af Simeons barna ætt/og af BenJamins barna ætt/ þessa stade/sem þeir nefndu a nafn.
66 Og(þeir sem voru umfram)af Kaaths barna ættu/ þr feingu þrra endemarka stade / af Ephraims ættkuijsl.
67 Þui þeir gaafu þeim þa * frijstade Sichem/ og heñar forstade/ a Ephraims fialle/og Geser/z heñar forstade. * Jos. 21/ 21.
68 Og Jakmeam og heñar forstade / og BethHoron og heñar forstade.
69 Og Ajalon og heñar forstade / og GatRimon og heñar forstade.
70 Og af þeirre halfu Manasse ætt/ Aner og heñar forstade/ og Bileam og heñar forstade/ fyrer þa epterordnu af Kaaths barna ætt.
71 Gersons bornu(gaafu þeir)af þeirre halfre Manasse kynkuijslar ætt Golan i Basan og heñar forstade / og Astaroth og heñar forstade.
72 Og af Jsaschars ætt/Kedes z heñar forstade/ Dabrath og heñar forstade.
73 Og Ramoth og heñar forstade/ og Anem og heñar forstade.
74 Og af * Assers ætt / Masal og heñar forstade/ og Abdon og heñar forstade. * Jos. 21/ 30.
75 Og Hukok og heñar forstade / og Rehob og heñar forstade.
76 Og af Naphthali ætt Kedes i Galilea og heñar forstade/og Hammon og heñar forstade/ og Kiriathaim og heñar forstade.
77 Þeim odrum Merari bornum (gaafu þeir)af Sebulons ætt / Rimono og heñ ar forstade / Thabor og heñar forstade.
78 Og hinumegeñ Jordanar / giegnt Jericho/ austañ hia Jordan/ af Rubens ætt/ Bezer i eydemorkeñe/ og heñar forstade /Jahza og heñar forstade.
79 Og Kedemoth og heñar forstade/ og Mephaath og heñar forstade.
80 Og af Gads ætt/ Ramoth i Gilead og heñar forstade/og Mahanaim og heñ ar forstade.
81 Og Hesbon og heñar forstade / og Jaeser og heñar forstade.

## VII. Capitule.

Jsaschars/ BenJamins / Naphthali etc. Afkoæme.

Jsaschars * born voru Thola/og Pua/Jasub og Simron/fiorer. * 1. Mos. 46/ 13.
2 Og Thola born voru Usi/ og Rephaja / og Jeriel/ og Jahemai/og Jebsam og Samuel / hofudeñ i þeirra fedra huse/af Thola /vollduger i þeirra ættu/Talañ a þm i Davids tijd voru tuo og tuttugu þusunder/og sex hundrud.
3 Og Usi born var Jesraia/Og Jesraia born voru Michael og Obadia/og Joel/ og Jesia / þesser fim voru aller hofudsmeñ.

4 Og med þeim a medal þeirra ætta i þeirra Fedra huse / voru sex og þriatiju þusunder stridz Folks til stridz / Þui þeir attu margar hustrur og born.
5 Og þeirra brædur aff ollum Jsaschars ættum/ volduger/ voru siø og attatiju þusunder/ nær þeir voru aller reiknader.
6 BenJamins * (born) voru Bela og Becher / og Jediael / þrijr.
* 1. Mos. 46/ 21. etc.
7 Og Bela born voru Ezbon og Ussi / og Ussiel / og Jerimoth/og Iri/þeir hoffudsmeñ i Fedrañа huse / volduger. Og þeir voru reiknader i ætt-registrinu/ tveir z tuttugu þusunder z fiorer og þriatiju.
8 Og Bechers born voru Semira og Joas/og Elieser/ Elioenai/ og Omri / og Jeremoth/og Abia/og Anathoth/og Alameth/þesser voru aller Bechers born
9 Og þeir voru reiknader i ætt-registrenu / i þeirra ættum/ hoffudsmeñ i þeirra Fedra huse / volduger/ tuttugu þusunder og tvo hundrud.
10 Jediaels born voru Bilan / Og Bilans born voru Jeus og BenJamin / og Ehud/og Enaena/og Sethan/og Tharsis og Ahisahar.
11 Þesser voru aller Jediaels born/þeirra Fedra hoffudsmeñ / volduger / seytian þusund og tvo hundrud / sem utdroou i Hereñ til stridz.
12 Og Suppim og Huppim voru Jrs born / Husim voru Ahers born.
13 Naphthali born voru Jahziel / og Guni/ og Jezer og Sallum / Bila born.
* 1. Mos. 46/ 24.
14 Manasse born voru Esriel/ sem (Gileads hustru) fædde/(Þo) hiñs med hustru Aramita fædde Machir Gileads fodur.
15 Machir took til hustrur Huppim og Suppim / hvorra systur nafn var Maecha. Og hiñs þess añars (sonar) nafn var Zelaphehad / og Zelaphehad / * atte dætur. * 4. Mos. 27/ 1.
16 Og Maecha Machirs hustru fædde eirn son/ og kallade hiñs nafn Peres/og hiñs broodur nafn Sares/ og hiñs syner voru Ulam og Rakem.
17 Og Ulams syner Bedan/ Þesse eru Gileads born/Machirs sonar/ Manasse sonar.
18 Og hañs syster Molechet fædde Jshud/ og * Abieser/ og Mahela.
* Jos. 17/ 2.
19 Og Semida atte (þesse) born/ Ahian/ z Sichem/ og Likhi/ og Aniam.
20 Og Ephraims born voru Suthelah/og Bered hiñs son/og Tahath hiñs son/z Eleada hiñs son. *4. Mos. 26/35
21 Og Tahath hiñs son/og Sabod hañs son/og Suthela hiñs son/ og Eser og Elead/Og þr iñbiggiarar i Gat/ sem voru fædder i landenu slogu þa i hel/þui þeir voru farner offañ ad taka þeirra Fenad.
22 Þar fyrer syrgde Ephraim þeirra Fader leinge / og hañs brædur komu ad hugsvala honum.
23 Sijdañ gieck hañ iñ til siñar hustrur/ og hun vard frioofsom / og fædde eirn son/og hañ kallade hiñs nafn Bria/ þui hun hafde vered i mangist i hiñs huse.
24 Hañs dootter var Sera/og hun bigde Bethoron þa nedre og þa efre / Og Usen Seera.
25 Og Repha var hiñs son/og Reseph/ og Thelah var hiñs son / og Thahan var hañs son/
26 Laedan hiñs son/ Ammihud hiñs son/ Elisama hañs son/
27 Non hañs son / * Josua hañs son.
* 4. Mos. 13/ 9.
28 Og þeirra eigendoomur og þeirra bustader voru Bethel og hennar tilheyrande/og Naeran moot austre/og Geser moot vestre/og hennar tilheyrande/ og Sechem og hennar tilheyrande / allt til Asa og hennar tilheyrande.
29 Og fra Manasse bornum/Beth Sean og hennar tilheyrande/Thaenach/ og hennar tilheyrande/Megiddo og hennar tilheyrande/ Dor / og hennar tilheyrande/ i þessum biuggu Josephs born / sem var Jsraels sonur.
30 * Assers born voru Jemna / og Jesua/og Jesui/ og Bria/og Serah þeirra syster: * 1. Mos. 46/ 17.
31 Og Bria born voru Heber og Malchiel/ Hañ er Birsaviths fader.

32 Og

32 Og Heber ablade Japhlets og Somers/og Hothams/ z Sua þeirra systur.
33 Japhlets born voru Pasach/ og Bimeal/ og Asvath / (Þesse voru) Japhlets born.
34 Og Somers born voru Ahi / og Rahga/ Jehuba og Aram.
35 Og Helems hñs broodurs born voru Zopha /og Gemna/ og Seles og Amal.
36 Zopha born voru Suah / og Harnepher/ og Sual/ og Beri/og Jemra/
37 Bezer/og Od/og Samma/og Silsa/ og Jethran/og Beera.
38 Jehers born voru Jephunne/og Phispa / og Ara.
39 Og Ulla born voru Arah/ og Haniel/ og Rizia.
40 Aller þesser voru Assers born / utvaleñ hofud i þeirra ßedra huse / volldug heßud yßer hoßdingiunum. Og þeir reiknaduzt i ætt-registrenu til herfens i strijded / þeirra tala var sex og tuttugu þusund meñ.

## VIII. Capitule.

### BenJamins / og fierdeilis Sauls Aßkvæme.

BenJamin * ablade Bela sijns ßrumgietens/ Asbals þess aňars/ og Ahrah þess þridia/
* 1. Mos. 46/ 21. etc.
2 Noha þess ßioorda/ z Rapha þess ßimta
3 Og Bela atte þesse born / Addar/og Gera/ og Abihud/
4 Og Abisua/ z Naeman/og Ahoah/
5 Og Gera / z Sephuphan/ z Huram.
6 Þesser eru Ehuds born/ Þesser voru fedraña hoßud a medal borgaraña i Gibea/ z hñ ßærde þa burt til Manahath.
7 Og Naeman / og Ahia/og Gera/ þa færde hñ burt/ z ablade Ussa z Ahihud.
8 Og Seharaim ablade i Moabs lande / þegar hñ hafde læted þa ßara (fra sier/ aß) Husim og Baera/ sijnū hustrū.
9 Og hñ ablade aß Hodes sine hustru / Jobabs/ z Zibia / z Mesa/ z Malchams
10 Og Jeuz / og Sachja / og Mirma / Þesser voru hñs born/ fedraña hoßud.
11 Og aß Husim ablade hañ Ahitobs og Elpaals.
12 Elpaals born voru Eber/ og Misoam og Samed / Þesse bygde Ono og Lod / og þeirra tilheyrande.
13 Og Bria og Sama / voru þeir yppurstu ßedur a medal borgaraña i Ajalon/ Þesser burtræku þa / sem biuggu i Gat.
14 Og Ahio Sasak/ og Jeremot/
15 Og Sebadia/og Arad/ og Ader/
16 Og Michael / og Jespa og Joha / Brias born.
17 Og Sebadia/ og Mesullam/ og Hiski/ og Heber/
18 Og Jesmerai/og Jeslia/ og Jobab/ Elpaals born.
19 Og Jachim/ z Sichri/ og Sabdi/
20 Og Elioenai/ og Zilthai/ og Eliel/
21 Og Adaja/ og Braja/og Simrath/ Simei born.
22 Og Jespan/ og Eber/ og Eliel/
23 Og Abdon / og Sichri/ og Hanan/
24 Og Hanania/ z Elam/ z Anthothia/
25 Og Jephdeja/og Pniel Saaks born.
26 Og Samserai/ z Seharia/ z Athalia
27 Og Jaeresia / og Elia / og Sichri / Jerohams born.
28 Þesser voru fedraña foringiar aß þeirra ættum / sā ypparster / þesser biuggu i Jerusalem.
29 Og i Gibeon bioo Gibeons fader / og hañs hustrur nafn var Maecha.
30 Og hañs frumgieteñ son var Abdon/ þar epter Zur/ þar epter Kis/ og Baal / og Nadab/
31 Og Gedor/og Ahio og Secher.
32 Og Mikloth ablade Semea/ z þesser biuggu og so þvert yßer fra þeirra brædrū i Jerusalem, med þrra brædrū.
33 Og Ner * ablade Kis/og Kis ablade Sauls/og Saul ablade Jonatans/ og Malchisua og Abinadabs og Esbaals. * 1. Sam. 14/ 51.
34 Og Jonatans son var Meribaal / Og Meribaal ablade Micha.
35 Og Michas born voru Pithon/og Melech/og Thaerea/ og Ahas.
36 Og Ahas ablade Joadda/ og Joadda ablade Alemeths og Asmaveths og Simri/og Simri ablade Moza.

37 Og Moza aflade Binea / Rapha var hans son / Eleasa hans son/ Azel hans son.
38 Og Azel atte sex syne/ og pesse voru peirra nøfn/ Esrikam / Bochru og Jesmael/ og Searia/ og Abadia og Hanan/ aller pesser voru Azels syner.
39 Og hans brooдurs Eseks børn voru Ulam hans frumgieten/ Jeus sa annar / og Elipelet sa pridie.
40 Og Ulams børn voru vollдug/ sem ✻ spentu boga/ og sem attu mørg børn og barna børn/ hundrad og fimtiu/ Aller pesser eru af BenJamins børnum. ✻ Dom. 20/ 16.

IX. Capitule.

Peir hellstu Innbiggiarar i Jerusalem og Gibeon.

Og sa giørvalle Israel var færdur i ætt-registur/ og sia/ peir eru skrifader i Israels kononga book / Og peir af Juda voru pa ✻ burt færder til Babel fyrer peirra misgiørninga saker.
✻ 2. Kong. 24. 15/ 16.
2 Og peir sem biuggu par fyrrum / sem (sijdann) voru i peirra eigendoome/ i peirra stødum/ voru Israel/ prestarner/ Levitarner/ og peir Nethinim.
3 Enn par biuggu (nockrer) i Jerusalem/ af Juda børnum / og af BenJamins børnum/ og af Ephraims og Manasse børnum. ✻ Neh. 11/ 4.
4 (Sem var) Uthai Amihuds son / Amri sonar/ Imri sonar/ Bani sonar/ af Perez Juda sonar børnum.
5 Og af Silonitanum Asaia sa frumgietne/ og hans syner.
6 Og af Sera børnum/ Jeuel og hns brædur/ sex hundrud og nijutijger.
7 Og af BenJamins børnum Sallu Mesullams son/ Odavia sonar/ Assenua sonar.
8 Og Jebnea Jehorams son / og Ela Ussi son / Michri sonar / og Mesullam/ Sephatia son/ Revels sonar/ Jebnea sonar.
9 Og peirra brædur i peirra ættum/ niju hundrud og fimtiu og sex. Aller pesser menn voru fedranna foringiar i peirra fedra huse.
10 Enn af prestunum / Jedaja/ og Jojarib/ og Jachin.
11 Asaria ✻ Hilkia son / Mesullams sonar/ Zadoks sonar/ Merajoths sonar/ Ahitubs sonar/ eirn høfdinge i Guds huse. ✻ c. 6/ 13.
12 Og Adaia Jerohams son/ Pashurs sonar / Malchia sonar. Og Maesai Adiels son / Jahsera sonar / Mesullams sonar/ Mesillemeths sonar/ Immers sonar.
13 Par med peirra brædur / peir ypparstu i peirra fedra huse / pusund og siø hundrud og sextiu/ vollдuger i pioonustunnar utrietting i Guds huse.
14 Enn af Levitunum / Semaja Hasubs son/ Asrikams son"/ Hasabia sonar af Merari børnum.
15 Og Bakbakar/ Heres og Galal/ og Mathania Micha son/ Sichri sonar/ Asaphs sonar.
16 Og Obadia Semaia son / Galals sonar/ Jeduthuns sonar. Og Berechia Asa son/ Elkana sonar/ sa sem bioo i peirra Nethophatita lands porpum.
17 Enn Sallum og Akub/ og Talmon/ og Ahiman og peirra brædur voru port vaktarar/ Sallum var sa ypparste.
18 Og hier til dags voru pesser portvaktarar a medal Levi sona flocks / hia kongsens porte moot austre.
19 Og Sallum/ Kore son/ Abiasaphs sonar/ Kora sonar/ og hans brædur af hans fødurs huse/ peir Korhitar/ voru yfer embættes høndlunenne/ ad taka vara a tialldbudarennar (dyra-) prøskulldum/ Eins sem peirra fedur i Drottens herbudum / ad taka vara a inngangenum.
20 Phinehes / Eleasars son / var einn høfdinge yfer peim/ af pvi ✻ Drottenn fyrrum var med hm. ✻ 4. Mos. 25/ 7.
21 Sacharia Mesellemia son var port-vaktare fyrer samkundunnar tialldbudar dyrum.

22 Aller þesser voru utvalder til por- tt vaktara hia (dyra) prøskulldunum / tvø hundrud og tolf / þeir voru færder til ætt-registurs med þeirra lands-þor- pum / David og Samuel sa Sicande hafde stadfest þa i þeirra þioonustu.
23 Og þeir og þeirra børn tooku va- ra a Drottens huss porte / sem var Tialldbudarennar hus / ad geima þad.
24 Somu portvaktarar voru (til skick- ader) moot þeim fioorum vindum / moot austre / vestre / nordre og sudre.
25 Og þeirra brædur voru i þeirra lands þorpum / ad koma (hier inn) þann siounda dag / (ad vera) hia þeim pra tijd til tijdar.
26 Þvi þeim fioorum var truad til ad vera þeir yppurstu yfer port-vokturun- um / þeir voru Levitar / og voru yfer her- bergiunum / og yfer fiarsioodnum i Guds huuse.
27 Og þeir voru a nottunne allt i kringum Guds huus / þvi þeim bar ad hallda vakt- ena / og þeir høfdu lykelenn (ad uppluka med) hvern morgun.
28 Og (sumer) af þeim voru yfer buu nadenum til embættesens / þvi þeir baru þa inn epter tølu / og baru þa ut epter tolu.
29 Og (sumer) af þeim voru tilskickad er yfer bunadena / ja yfer alla þa hei- løgu buunade / Og yfer mioled / og vijned / og oliuna / og reikelsed / og (dyrmætar) urter.
30 Enn (nockrum) af prestanna børnum / sem tilbiuggu reikelse af urtunum.
31 Og Mathithia af Levitunum / hver ed var Sallums / Koritha frumgeteinn / var truad til þess / sem tilreiddest i pønnunni.
32 Og af þess Kaathita børnum af þe irra brædrum (voru nockrer setter) *yfer skodunar-braudenn / ad tilreida þau hvern sabbat. * 3. Mos. 24 / 5.
33 (Af) þessum eru saungvararner / þeir yppurstu a medal Levitanna fedra / þesser i (þeirra) herbergium / Þvi dag og nott høfdu þeir ad utrietta i verkenu.
34 Þesser eru þeir yppurstu fedur a med al Levitanna i þeirra ætt / ja þeir yppur- stu / þesser biuggu i Jerusalem.
35 Enn i Gibeon biuggu AbiGibeon Jejel / og hans kuinnu nafn var Maecha.
36 Og hans frumgetenn son var Abdon / þar epter Zur og Kis / og Baal / og Ner / og Nadab /
37 Og Gedor / og Ahio / og Sacharia / og Mikloth.
38 Og Mikloth aflade Simeams / Þe- ir biuggu og so giegnt þeirra brædrum i Jerusalem med þeirra brædrum.
39 Og * Ner aflade Kis / og Kis afl ade Sauls / og Saul aflade Jonatans / og Malchisua / og Aminadabs / og Es baals. * c. 8 / 33.
40 Og Meribaal var Jonatans son / og Meribaal aflade Micha.
41 Og Micha børn voru Pithon / og Melech / og Taherea.
42 Og Ahas aflade Jaera / og Jaera aflade Alemeths / og * Asmaveths / og Simri / Og Simri aflade Moza. * c. 12 / 3
43 Og Moza aflade Bina / og Rapha- ja var hans son / Eleasa var hans son / Azel var hans son.
44 Og Azel atte sex syne / og þeirra nøfn voru þesse / Asrikam / Bochru / og Jesmael / og Searia / og Obadia / og Ha nan / þesser eru Azels børn.

## X. Capitule.

Kong Sauls Afgangur i þvi Striide moote Philisteunum.

Og * Philistearner strijddu i moote Israel / og þeir af Isra- el flijdu fyrer Philisteunum / og fiellu slegner a Gilboa fialle. * 1. Sam. 31 / 1.
2 Og Philistearner hielldu sig epter Sa ul og epter hans sonum / og Philistear- ner slogu Jonatan / og Aminadab / og Malchisua / Sauls syne.
3 Og striided vard hart moote Saul / og bogmennerner høfdu hann / og hann vard særdur af skyttunum.
4 Þa sagde Saul til sijns vopnbera : drag þitt sverd ut / og stijng mig i giegn þar med / ad þesser med forhud skule ecke ko ma / og breita skammarlega vid mig / Enn hans vopnbere villde ecke / þvi hann otta- adest miøg.

5 Þa took Saul sverded/og fiell þar a. Og þa hans vopnbere sa ad Saul var dauder/fiell hann/hann og so a sverded/z deide.

6 So deide Saul/og hans þrijr syner/ og allt hans huus/þeir deidu til samans.

7 Þegar aller Israels menn/sem voru i dalnum/ sau/ ad þeir flijdu/ og ad Saul og hans syner voru dauder/þa forlietu þeir þeirra stade/og flijdu/ og Philisteaꝛner komu/og biuggu i þeim.

8 Og þad skiede a odrum deigenum/ þa komu Philisteaꝛner/ad ræna þa slegnu/ og fundu Saul og hans syne falna a Gilboa fialle.

9 Og þeir ræntu hann/ og tooku hans hofud og hans vopn upp/og sendu þau i Philisteanna land umm kring/ad boda þad fyrer þeirra afgudum og folkenu.

10 Og þeir løgdu hans vopn i þeirra guds huus/ og negldu hans hofudskiel uppa Dagons huus.

11 Þegar aller þeir i Jabes i Gilead heyrdu allt þad/ sem Philisteaꝛner høf du giort Saul:

12 Þa tooku aller stridsmenn sig upp/ og * tooku Sauls lijkama/ og hans sona lijkame/og færdu þa til Jabes/og grooftu þeirra bein under eikenne i Jabes/og føstudu sio daga. * 1. Sam. 31/12/13. 2. Sam. 2/5.

13 So deide Saul i sijnum misgiørning/ sem hann hafde illa giort i moote Drottne/ * i moote Drottens orde/ sem hann ecke hiellt/ so og ** ad hann hafde adspurt spaakonuna/ ad leita hennar.
* 1. Sam. 15/11. ** 1. Sam. 28/8.

14 Og ecke leitade Drottens/ Þar fyrer liet hann sla hann i hel/ og snere rijkenu til Davids/ Isai sonar.

## XI. Capitule.

### Davids Smurning. etc.

Þa * safnadest allur Israel til Davids i Hebron/og sagde: sia/ vier erum þijn bein og þitt holld. * 2. Sam. 5/1.

2 Og þu færder Israel fordum ut og inn/ (ja) enn þa þegar Saul var konungur/ So hefur Drotten þinn Gud sagt þier: þu skallt fæda mitt foolk Israel/ og þu skallt vera eirn hofdinge yfer minu foolke Israel.

3 Og aller Israels elstu komu til konungsens i Hebron/ og David giørde eitt samband vid þa i Hebron fyrer Drottens augsijn/ og * þeir smurdu David til konungs yfer Israel/epter Drottens orde/ fyrer Samuels þioonustu.
* 1. Sam. 16/13.

4 Og David foor burt og allur Israel til Jerusalem/ þad er Jebus/Þvi Jebuskiten bioo þar i landenu.

5 Og borgaraꝛner af Jebus sogdu * til Davids: þu skallt ecke koma hier inn/ Enn David inntook Zions slot/ þad er Davids stadur. * 2. Sam. 5/6.

6 Og David sagde: hvør sem slær Jebusitann fyrst/skal vera eitt høfud z eirn foringe/ So uppstie fyrst Joab Zeruja son/ og vard høfuds madur.

7 Og David bioo a slotenu/ þar fyrer kallar mann þad Davids stad.

8 Og hann bigde staden fra Millo og aldeiles umm kring/Og Joab þirmde þ(v)i ødru af stadnum.

9 Og David foor fram/ og vard sterkur/z sa Drotten Zebaoth var med honum.

10 Og þesser eru * þeir yppurstu a medal Davids kappa/sem hielldu sig ærlega med honum i hans rijke/hia øllum Israel/ ad mann giørde hann ad konunge/epter Drottens orde/yfer Israel. * 2. Sam. 23/8.

11 Þesse er talann a Davids koppum: * Jesabeam Nachmoni son/ sa yppaste a medal þriatiju/hann upplyfte sijnu spioote moot þrem hundrudum/sem voru slegner/ einu sinne. * c. 27/2. 2. Sam. 23/8.

12 Og epter hann var * Eleasar/Dodo þess Ahohita son/ hann var a medal þrij þriggia kappa. * c. 27/4. 2. Sam. 23/9

13 Hann/hann var med David i Pasdamim/ þa Philisteaꝛner voru safnader þar til strijdsens/ og þar var eirn hluti akurs fullur med bigg/ og foolked flijde fyrer Philisteunum.

14 Og þeir geingu midt a þann hluta/ og frelsudu hann/og slogu Philisteana/og Drotten gaf eitt stoort hialpræde.

15 Og þrijr af þeim þriatiju yppurstu

Fooru

fooru ofan til Davids / hia stein(klett-enum) i Adullam heller / enn Philiste-anna herbuder lꜳu i Rephaims dal.

16 Og David var i festingunne / og Phili-steanna höfudsmadr var þann tijd i Beth-lehem.

17 Og David * fieck lysting / og sagde: hver vill gefa mier vatn ad drecka af þeim brunne i Bethlehem / sem er i port-enu? * 2. Sam. 23/15.

18 Þa brutust þeir þrijr i Philisteanna herbuder / og jusu vatned af brunnenum i Bethlehem / sem var i portenu / og sooktu þad / og bꜳru þad til Davids / og David vilde ecke drecka þad / helldur uthellte þvi fyrer Drottne.

19 Og sagde: Þad lꜳte minn Gud vera lꜳngt fra mier / ad giora þetta / skyllde eg drecka þessara manna blood i þeirra lijfs hꜳska? þvi þeir hafa bored þad hijngad med þeirra lijfs hꜳska / Og hann villde ecke drecka þad. Þetta giørdu þær þrimr hetiur.

20 Og Abisai Joabs brooder / hann var sa oppaste a medal þriggia / og hann upplypte sijnu spioote i moote þrem hundrudum / sem voru slegner / og var þrijsadur medal þeir-ra þriggia.

21 Af þeim þremur var hann virdtur yfer þa tvo / þar fyrer var hann þeirra foringe / enn komst ecke i vid þa (fyrstu) þrꜳ.

22 Benaja / Jojada son / eins volldugs manns son af stoorum verkum / af Kab-zeel / Hann / hann sloo tvo harla sterka Moa-bita / hann gieck og so ofann og sloo eitt leon midt i grøfenne / a snioo-kij manum.

23 Hann sloo og eirn Ægyptskann mann / eirn mann fimm alna hꜳann / og sa Ægypt-ske hafde eitt spioot i hende sem * eirn vefiar-rif / enn hann gieck ofann til hans med eirn staf / og took spiooted af þess Ægypt-ska hende / og sloo hann i hel med hans spioo-te. * 1. Sam. 17/7.

24 Þetta giørde Benaja / Jojada son / og var vegsamadur a medal þeirra þri-ggia kappa.

25 Sia / hann / hann var sa fræge af þeim þrꜳtiju / þo komst hann ecke i vid þa þrꜳ / og David sette hann til sijns (heimuglegs) rꜳds.

26 Stridz kapparner voru (þesser /) A-sael Joabs brooder / Elhanan Dodo son af Bethlehem.

27 Samoth sa Arodite / * Helez sa Pe-lonite. * c. 27/10.

28 Ira Ekes son / sa Tekite: Abieser sa Antothite.

29 Sibechai sa Husathite: Jlai sa Ahohite.

30 Maharai sa Netophatite: Heled Baena son sa Netophatite.

31 Jthai Ribai son / af * Gibea / Ben-Jamins barna: Benaja sa Piratho-nite. * Dom 19/14.

32 Hurai af Gaas læk: Abiel sa Ar-bathite.

33 Asmavet sa Baharumite: Eliah-ba sa Saalbonite.

34 (Af) Hasem þess Gisonita børn-um var Jonatan Sage son / sa Ararite

35 Ahiam Sachars son sa Ararite: Eliphal Urs son.

36 Hepher sa Macherathite: Ahia sa Pelonite.

37 Hezro sa Carmelite: Naerai As-bai son.

38 Joel Natans brooder: Mibehar sa Geri son.

39 Zelek sa Ammonite: * Naherai sa Berothite / Joabs / Zeruja sonar vopn bere. * 2. Sam. 23/37.

40 Jra sa Jethrite / Gareb sa Jethrite

41 * Uria sa Hethite: Sabad Ahelai son. * 2. Sam. 11/3.

42 Adina Sisa son sa Rubenite / þeir-ra Rubenita høfudsmadur / og þrꜳ-tiju voru yfer hønum.

43 Hanan Maecha son / og Josaphat sa Mithnite.

44 Usia sa Asthrathite: Sama og Ja-iel / Hotams þess Aroerita syner.

45 Jediael Simri son / og Joha hans brooder / sa Thizite.

46 Eliel sa Mahevite / og Jeribai og Josavia / Elnaams syner / og Jeth-ma sa Moabite.

47 Eliel og Obed / og Jaesiel af Me-zobaja.

zobaja.

## XII. Capitule.

Davids Kappar aß Sauls Ætt / Aß Gadditunũ/ Af BenJamin z Juda/etc

Desser eru þeir/sem komu til Davids i Ziklag/þegar hñ var eñ nu iñelukkur ꝥ Saul/Kis syne/Og þeir voru a medal hrra kappa / sem hiaalpudu til stríjdsens.
2 Herksjader * med boga / til hægre og vinstre handar / med steinum og pijlum a bogunum/Þeir voru af Sauls brædrum/af BenJamin. * c. 8/40.
3 Ahieser sa ypparste / og Joas Samaja/ þess Gibeathita børn/ og Jesiel og Pelet/ Asmavets børn/ z Baracha/ og Jehu sa Ankhothite.
4 Og Jesmaja sa Gibeonite / var volldugur a medal þriatiju / og (setkur)yfer þriatiju/ Og Jeremia og Jahisiel/og Johanan/ og Josabad sa Gederathite.
5 Elusai/og Jerimoth/og Bealia/og Samaria/z Saphatia sa Harophite.
6 Elkana/og Jesija og * Asareel/og Joeser/ z Jasabeam / þeir Korhitar. * C. 25/ 18.
7 Og Joela/ og Sabadia/ Jerohams børn af Gedor.
8 Og af Gadditanum/ skildu sig(nockrer) fra til Davids til festingareñar i eydemørkuñe/ sterkar hetiur / bardaga meñ til stríjds / sem baaru skiolld og hiaalm / og þeirra aasioonur voru sem leons aasioonur / og þeir voru fliooter sem raadijr a fiøllum.
9 Eser sa fyrste / Obadia sa añar / Eliab sa þridie.
10 Mismanna sa fioorde / Jeremia sa fimte.
11 Athai sa siøtte/ Eliel sa siøunde.
12 Johañan sa aattunde / Elsabad sa nijunde.
13 Jeremia sa tijunde / Machbañaja sa ellefte.
14 Þesser voru af Gads børnũ/høfud i hernũ/ Eirn sa minste(af þeim v^o)yfer hundrade/og sa stædste yfer þusund.
15 Þesser eru þeir/sm̃ geingu yfer Jordan i þeim fyrsta maanade/ þegar hun var full uppa alla sijna backa/ Og þr raaku a floolta alla i dølunũ mot austre og moot vestre.
16 Þar komu z af BenJamins z Juda børnũ til festingareñar/ til Davids
17 Og David gieck ut til þeirra / og svarade/og sagde til þeirra: ef þier komed med fride til mijn/ad hiaalpa mier/ þa skal mitt hiarta vera eins med ydur/eñ ef (þier komed) ad forraada mig til miña fiandmaña/eñ þo þar sie eing eñ raangsleitne hia mier / so siaae vorra fedra Gud ( þar til / ) og straffe þad.
18 Og Andeñ iklæddest Amasai þeim høfudsmañe a medal þriatiju/(og hñ sagde:) David/þijner erum vier/og vier hølldñ med þier/ þu Isai son/ Fridur/fridur vere med þier/ og fridur vere med þijnũ hialparmøñũ/þvi þiñ Gud hiaalpar þier. Þa took David þa/ og setti þa til høfudsmaña yfer hereñ.
19 Og af Manasse fiell til Davids / þegar hñ kom med Philisteunum moot Saul til stríjds/ eñ þo ꝥ hiaalpade þeim ecke/ þvi * Philisteaña høfdingiar lietu hañ fara (fra sier) med raade / og søgdu: ef hñ fellur til sijns herra Sauls/ þa mætte þad kosta oss vorn haals. * 1. Sam. 29/ 4.
20 Þegar hañ foor til Ziklag/þa fiell til hñs af Manasse Adna/ z Josabad/ og Jediael / og Michael/ og Josabad / og Elihu / og Zilthai / þeir yppurstu yfer þm̃ þusundũ/sm̃ voru i Manasse.
21 Og þeir hiaalpudu David i moote hernum / þvi þeir voru aller volldugar hetiur/og voru høfudsmeñ i stríjdenu.
22 Þvi þar komu daglega (nockrer)til Davids/ad hiaalpa hønũ/til þss ꝥ vard eirn stoor her / eins sm̃ eirn Guds her.
23 Og þesse er talañ a þeim yppurstu/ sem voru herksjader til bardaga / sem komu til Davids i Hebron/ad snua Sauls rijke til hñs/ epter Drottens orde.
24 Juda børn/sm̃ baaru skiolld og spioot / voru sex þusunder og aatta hundrud

rud herſk̄ader til ſtrijds.
25 Af Simeons bornum / volldugar hetiur til ſtrijds/ſiø þuſund z hundrad
26 Af Levi bornum / fiøgur þuſund og ſex hundrud.
27 Og Jojada var eirn høfdinge a med al þrra af Aaron/Og þar voru þriær þuſunder og ſiø hundrud med hønum.
28 Og * Zadok var eirn ſveirn / ein volldug hetia/ Og af hn̄s fødurs huſe voru tveir og tuttugu foringiar.
* 2. Sam. 15/ 24.
29 Og af BenJamins bornum/Sauls brædrum/ þriær þuſunder/ Þvi hier til tooku vara marger af þm̄ koſtgiæfelega a Sauls huſe.
30 Og af Ephraims bornum tuttugu þuſunder og atta hundrud ægiætar hetiur/vegleger men̄ i þrra fedra huſe.
31 Og af þrre hælfre Manaſſe ætt/ átian þuſunder/ ſm̄ voru nefnder a nafn/ad koma/ad giøra David til konungs
32 Og af Iſaſchars bornum/ſem voru forſiæler uppa tijmana/ad vita hvad Iſrael ſkyllde giøra/tvø hundrud hofudsmen̄/ z aller þrra brædur filgdu þrra orde.
33 Af Sebulon/ſem droou ut til ſtrijds/ hertk̄ader til bardaga/med allrahanda ſtrijds vopnum/fimmtiju þuſunder/ og ad ſetia ſig i fylking an ſvika.
34 Og af Naphthali þuſund hofudsmen̄ / og ſiø og þriatiju þuſunder med þeim / ſem bæru ſkiølld og ſpioot.
35 Og af Danitun̄/hertk̄ader til ſtrijds/atta z tuttugu þuſunder z ſex hundrud
36 Og af Aſſer/ſm̄ drou ut til ſtrijds/ad hertija ſig til bardaga/fiørutiju þuſunder.
37 Og af þm̄ þar fyrer handan Jordan/af Rubenitanum og Gadditanum/og þeirre hælfu Manaſſe ætt / med allrahanda ſtrijds vopnum til bardaga/ hundrad og tuttugu þuſunder.
38 Aller þeſſer ſtrijds men̄ til ad ſkicka hernum/komu af ollu hiarta til Hebron/ ad giøra David til kongs yfer allan̄ Iſrael/z aller þr adrer af Iſrael hofdu z ſo eitt hiarta/ad giøra David til kongs.
39 Og þeir voru þar hia David i þria daga/ átu og druncku / þvi þeirra brædur hofdu tilreidt fyrer þa.
40 Og þeir ſem voru næſt þeim allt til Iſaſchar/ z Sebulon z Naphthali/ færdu braud a øſnunum/og a ulfvolldunum/ og a mulunum / og a uxunum / koſt af miøle og fiſkum/og ruſinum/og vijne/ og oleo/ og uxum/ og ſaudum i margfiolda/ þvi þar var glede i Iſrael.

## XIII. Capitule.

### Drottens Ørk ætte ad ſetiaſt i Jeruſalem / En̄ nam Stadar i Obed Edoms Huſe.

Og * David hiellt eitt raad vid hofudsmen̄ena yfer þuſundum (z yfer hundrudū/) þ ollū hofdingiunū. * 2. Sam. 6/2.
2 Og David ſagde til alls Iſraels ſafnadar: ef þad þocknaſt ydur/ og þ er af Drottne vorum Gude/ ſo lætum oſſ ſenda alla vega til vorra brædra/ þeirra eptererordnu i ollu Iſraels lande/ og med þm̄ til preſtan̄a og Levitan̄a i ſtødunum/ þeirra forſtødum/ ad þeir verde saman̄ ſafnader til vor.
3 Og lætū oſſ ſækia vors Guds ørk aptur til vor/ þvi vier hirdtum eckert um̄ hana i Sauls tijd.
4 Þa ſagde ſa giørvallur ſøfnudur/ ad man̄ ſkyllde giøra ſvo/ þvi þad ord þocknadeſt ollu foolkenu.
5 * So ſafnade David øllum Iſrael fra Sihor Egypti/og allt til þeſſ man̄ kiemur til Hemath/ ad ſækia þa Guds ørk/ fra Kiriath Jearim. * c. 15/ 3.
6 Og David foor upp/og allur Iſrael til Baalath til Kiriath Jearim/ſm̄ er i Juda / ad ſækia Drottens Guds ørk þadan̄ fra/ * ſm̄ ſitur a þeim cherubim/ þar ſem nafned ækallaſt.
* 1. Sam. 4/ 4. 2. Kong. 19/ 15.
7 Og þeir færdu þa Guds ørk a einum nijum vagne af Abinadabs huſe/og Uſſa og hn̄s brooder leiddu med vagnen̄
8 Og David og allur Iſrael lieku fyrer Guds augſyn/af øllum mætte/bæde med ſaungvum og med hørpum/og med pſolturum / og med bumbum / og med cimbalis/

cimbalis / og med basunum.
9 Og þeg^r þr komu a Chidons sliettu/ þa utrieтte Uſſa ſijna hønd/ ad hallda ørkeñe/ þvi uxarner geingu ut a hlidena
10 Þa vard Drottens reide grøm yfer Uſſa/og ſloo hañ/ af þvi hañ utrietti ſijna hønd til arkareñar / og hañ deyde þar fyrer Guds augſijn.
11 Þa vard David angrꝼdur/ad Drottеñ reif eitt ſkard a Uſſa / og kallade þañ ſama ſtad Perez Uſſa allt til þeſſa dags.
12 Og * David ottadeſt um̃ ſig fyrer Gude a þeim ſama deige/og ſagde: hvorneñ ſkal eg færa þa Guds ørk til mijn? * 2. Sam. 6/ 9.
13 Þar fyrer liet David ecke færa ørkena til ſijn i Davids ſtad/helldur førde hana til ObedEdoms þſſ Githita huſſ
14 So var ſu Guds ørk hia ObedEdoms huſe / i hañs huſe i þria mañude / og Drotteñ bleſſade ObedEdoms hus/ og allt þad hañ hafde.

XIV. Capitule.

Nockud um̃ Davids Børn/og Strijd i mooте Philiſteunum.

Og * Hiram konungur i Tyro ſende bod til Davids/ z cedrus trie/og mur=meiſtara og timbur meñ / ad biggia hønū eitt hus. * 2. Sam. 5/ 11.
2 Og David merkte/ad Drotteñ hafde ſtadfeſt hañ til konungs yfer Iſrael/Þvi hañs rijke vard upphafed fyrer hañs foolks Iſraels ſkulld.
3 Og David took eñ nu huſtrur i Jeruſalem / Og David ablade eñ nu ſona og dætra.
4. Og þeſſe voru þeirra nøfn/ſem hønum urdu fædder* i Jeruſalem: Sammua og Sobab / Natan og Salomon. * 2. Sam. 5/ 14.
5 Og Jebehar/z Eliſua/z Eliphalet
6 Og Noga/ og Nepheg/og Japhia/
7 Og Eliſamma / og Bael Jada/ og Eliphalet.
8. Þegar * Philiſtearner heyrdu / ad David var ſmurdur til konungs yfer allañ Iſrael/þa fooru aller Philiſtear upp/ ad leita Davids/ Og David heyrde þad/og droo ut i moote þeim. * 2. Sam. 5/ 17.
9 Og Philiſtearner komu/ og utdreifdu ſier i Rephaims dal.
10 Þa ſpurde David Gud ad/ og ſagde: mun eg eiga ad draga upp i moote Philiſteunum/ og villtu giefa þa i mijna hønd? z Drotteñ ſagde til hñs: drag upp/ z eg vil giefa þa i þijna hønd.
11 Og þegar þeir droou upp giegnt * Baal Prazim/þa ſloo David þa þar/ Og David ſagde: Gud hefur adſkiled mijna fiendur fyrer mijna hønd / eins ſem vatned ſkilſt ad / þar fyrer kallade hañ þeſſ ſama ſtadar nafn Baal Prazim. * Eſ. 28 21. etc.
12 Og þr yfergafu þeirra gude þ^r/ z David baud þad / og þeir voru brender med ellde.
13 Og * Philiſtearner ſøпnudu ſier (aptr/) og utbreiddu ſig i dalnū. * 2. Sam. 5/22
14 Og David adſpurde Gud aptur/ og Gud ſagde til hñs: þu ſkallt ecke draga upp bak þeim / beigdu um̃ kring fra þeim / ad þu kuñer koma til þeirra / þvert yfer fra morbertrianum.
15 Og þ ſkal ſkie/ nær þu heyrer/ ad þ þijtur ofañ til i morberiatrianū/þa ſkalltu fara ut til ſtrijdſens/þvi Gud er utdreigeñ fyrer þier / ad ſla Philiſteaña her.
16 Og David giørde ſo / ſem Gud baud hønum / og þeir ſloou Philiſteaña her fra Gibeon og allt til Geſer.
17 Þa utgieck Davids nafn i øll lønd/ Og Drotteñ liet hañs otta koma yfer alla heidingia.

XV. Capitule.

Drottens Ørk færeſt af Levitunum fra ObedEdoms Huſe til Jeruſalem.

Og hañ tilbioo ſier hus i Davids ſtad/ z tilreidde eirn ſtad handa þeirre Guds ørk / z reiſte * eitt tialld handa heñe. * c. 16/ 1.
2 Þa ſagde David: eingeñ ſkal bera Guds ørk/utañ Levitarner/ þvi Drotteñ utvalde þa / til ad bera þa Guds ørk / og ad

ad þioona honum æpenlega.

3 Þar fyrer * safnade David øllum Jsrael til Jerusalem/ ad færa Drottens ørk upp til sijns stadar/ sem hann hafde bued þar til. * c. 13/ 5.

4 Og David safnade Aarons børnum/ og Levitunum.

5 Af Kaaths børnum var Uriel sa ypparste / og hans brædur voru hundrad og tuttugu.

6 Af Merari børnum var Asaia sa ypparste / og hans brædur voru tvø hundrud og tuttugu.

7 Af Gersons børnum var Joel sa ypparste / og hans brædur voru hundrad og þriatiju.

8 Af Elizaphans børnum var Samaia sa ypparste / og hans brædur voru tvø hundrud.

9 Af Hebrons børnum var Eliel sa ypparste/ og hans brædur voru attatiju

10 Af Ussiels børnum var Amminadab sa ypparste/ og hans brædur voru hundrad og tolf.

11 Og David * kallade a Zadok og Abiathar/ prestana/ og a Levitana/ a Uriel/ Asaia og Joel Semaia/ z Eliel/ og Amminadab. * 2. Sam. 15/ 29.

12 Og sagde til þeirra : þier erud fedrana foringiar a medal Levitana/ (so) helged ydur z ydar brædur/ z sæked Drottens Jsraels Guds ørk upp / þangad / sem eg hefe tilbued (stad) handa henne.

13 Þvi til forna/ þegar þier vorud ecke (til stadar/) giørde * Drottenn vor Gud/ eitt skard a oss/ af þvi vier ecke leitudum hans/ so sem þo skyllde/ hæfde. * c. 13/ 10.

14 So voru prestarner og Levitarner helgader/ ad uppbera Drottens Jsraels Guds ørk.

15 Og Levi børn upplijftu þeirre Guds ørk/ so sem * Mose hafde boded/ epter Drottens orde / a þeirra axler/ med steingunum yfer sig. * 2. Mos. 25/ 14. 4. Mos. 4/ 15.

16 Og David sagde til Levitana foringia/ ad tilskicka þeirra brædur/ sønguarana/ med saungverkfærum/ psaltarum og hørpum/ og cimbalis/ ad láta sig heyra/ ad þr sønge hátt hlioda med glede.

17 Þa settu Levitarner Eman / Joels son/ og af hans brædrum/ Asaph Berechiæ son/ og af Merari børnum þeirra brædur Ethan Kusaia son.

18 Og med þeim voru þeirra brædur i þann annan part/ Sacaria/ Ben/ og Jaesiel/ og Semiramoth og Jehiel/ og Unni/ Eliab/ og Benaia/ og Maeseia/ og Mathithia z Elipheleia/ z Mikneа/ z ObedEdom/ og Jeiel/ portvaktararner.

19 Og saungvararner/ Eman/ Asaph og Ethan / lietu sig heyra med koparcimbalis.

20 Og Sacaria/ og Asiel/ og Semiramoth/ og Jehiel / og Unni/ og Elieb/ og Maeseia/ og Benaia/ med psaltarum yfer Alamoth.

21 Og Mathithia/ og Elipheleia/ og Miknea/ og ObedEdom/ og Jeiel/ og Asasia / med hørpum yfer Asminith / til ad klijngia yfer þeim.

22 Og Chenania/ Levitana ypparste/ (sem voru setter til) ad bera/ under vijsade (þeim) ad bera/ þvi hann var skynsamur

23 Og Berecia og Elkana voru portvaktarar fyrer ørkenne.

24 Enn Sebania og Josaphat/ z Nethaneel / og Amasai / og Sacaria / og Benaja/ og Elieser/ prestarner/ bliesu akaft i basunur fyrer Guds ørk/ Og ObedEdom og Jeheia voru arkarennar port-vaktarar.

25 * So skiede þad/ ad David gieck og Jsraels ellster / og þeir yppurstu yfer þusundum/ burt/ til ad uppsækia Drottens sattmáls ørk af ObedEdoms huse med glede. * 2. Sam. 6/ 12.

26 Og þad skiede/ þegar Gud hialpade Levitunum / sem báru Drottens sattmáls ørk/ þa offrade mann sio uxum og sio hrutum.

27 Og David var klæddur med einum kostulegum lijn-kyrtle/ og aller Levitarner/ sem báru ørkena/ og søngvararner/ og Chenania/ meistare fyrer þeim/ sem báru og sungu / Og David hafde

eirn lijn-lijf-kyrkel yfer sier.

28 So færde allur Israel Drottens sattmaals ørk upp med fegnude/og med basunu hlioode/ og med tromettum/ og med cimbalis / so þeir lieku þad heyra med psølturum og hørpum.

29 Og þad skiede/þegar Drottens sattmaals ørk kom inn til Davids stadar/þa liet * Micol Sauls dootter sig sia ut um gluggann/ z þegar hun sa kong David stockva upp og leika/ þa forsmaade hun hann i sijnu hiarta. *2. Sam. 6, 16/21

XVI. Capitule.

Drottens Ork verdur sett i Tialldbudena til Jerusalem.

Og þeir innfærdu Guds ørk/og settu hana midt i tialldbudena/sem David hafde reist til hennar / og offrade brenne-offre og þackar-offrum fyrer Guds augsijn.

2 Og þegar David liet af ad offra brenne-offrenu/ z þackar-offrenu/þa * blessade hann foolked i Drottens nafne.

* 4. Mos. 6. 23/ 24. 1. Kong. 8/ 55.

3 Og utdeilde þ hvern mann i Israel / bæde menn og kvinnur / hvørium einum leif brauds / og einu sticke (kiøts/) og eirnre fløsku (vijns.)

4 Og hann tilsette nockra Levita/fyrer Drottens ørk til þienara/Og ad þr skylldu hugleida þ/ z ad þacka z ad lofa Drottenn Israels Gud/(sm voru:)

5 Asaph sa firste / og sa annar epter hann Sacaria: Jeil/og Semiramoth/og Jehiel / og Mathithia/ og Eliab / og Benaia / og Obed Edom/ og Jeiel med psalltara leik / og hørpum/ Og Asaph liet sig heyra med cimbalis.

6 Enn Benaja og Jehasiel/prestarner/ med tromettum / ydulega fyrer þeirre Guds sattmaals ørk.

7 A þeim sama deige þa skickade David fyrst (þennann psalm) til ad þacka Drottne/ fyrer Asaph og hns brædur.

8 Þacked * Drottne/ kalled a hns nafn / kunngiored hanns giørninga a medal þioodanna. * Ps. 105/ 1. Es. 12/ 4.

9 Sijnged honum/leiked fyrer honum/taled um alla hns undarlega (giørninga.)

10 Hroosed ydur af hanns heilaga nafne/þeirra hiørtu skulu glediast/ sem leita Drottens.

11 Leited Drottens og hanns magtar / leited hanns andlites alltijd.

12 Þeinked a hanns undarlega (giørninga/) sem hn hefur giørt/a hns (undarleg) teikn/og hanns munns dooma.

13 Israels hanns þienara sæde/Jakobs børn/hanns utvalder.

14 Hann er Drottenn vor Gud / hanns doomar eru i allre verølldenne.

15 Þeinked æfenlega a hns sattmaal/þ ord hn hefur befalad i þusund ætter.

16 Hvørt hann giørde * vid Abraham/ og hanns eyd vid Isaak. * Luc. 1/ 73.

17 Hvørn hann og setke Jakob til eirnrar skickunar / og Israel til eins eilijfs sattmaala.

18 Og sagde: eg vil giefa þier Canaans land/ ydar arfs hluta.

19 Þar þier vorud faer / (ia) lijtelfiørleger og framande þar inne.

20 Og þeir * fooru fra einu foolke til eins annars/ og af einu rijke til eins annars foolks. * 1. Mos. 12/ 1.

21 Hann liet aungvann mann ofþreingia þeim / og straffade kongana fyrer þeirra skullo / (seigiande:)

22 Hræred ecke vid mijnum smurdu/ og giøred mijnum spaamønnum eckert illt.

23 Sijnged * Drottne øll lønd/ kunngiøred dag fra deige hanns hiælpræde.

* Ps. 96/ 1.

24 Framteljed hanns vegsemd a medal heidingianna/hanns undarlega (giørninga) a medal allra þiooda.

25 Þvi Drottenn er stoor og miøg loflegur/ z hn er hrædelegur yfer alla gude

26 Þvi allra þiooda guder eru afguder/enn Drottenn giørde Himeninn.

27 Tign og vegsemd eru fyrer hønum/ styrkur og fognudur eru i hanns stad.

28 Færed * Drottne hijngad þi þiood anna ætter / færed Drottne hijngad dijrd og magt. * Ps. 29/ 1.

29 * Færed Drottens nafns dyrd hijngad/

ad/upplifted gæfu/og komed fyrer hans auglit/tilbidied fyrer Drottne i heilagre prijde. * Ps. 29/ 1.

30 Øll verølldenn otteſt fyrer hns aug lite/ og Jardrijked ſkal ſtadfeſtaſt/ad þ ecke hræreſt.

31 Himnarner ſkulu glediaſt/ og Jørd enn kiætaſt/ z þeir ſkulu ſegia a medal heidingiana: Drottenn rijker.

32 Hafed ſkal grenia / og hvad þad er fullt af/mørkenn fagna/og allt þad/ ſem þar er a.

33 Þa ſkulu trien i ſkoogenum fagna fyrer Drottens augſijn/þvi hann kiem ur/ad dæma Jørdena.

34 Þacked Drottne/ þvi hann er good-ur/þvi hns myſkunſeme varer æfenlega

35 Og ſeiged: frelſa oſſ Gud vor frelſ are/og ſafna oſſ/og utleys oſſ fra heid ingiunn ad þacka þijnu heilaga nafne / ad hrooſa oſſ i þinne lofgiørd.

36 Lofadur vere Drottenn Iſraels Gud/fra eilijfd til eilijfdar/og allt folk ed ſkal ſeigia amen / og lofa Drottenn.

37 So liet hann þar fyrer Drottens ſattmaals ørk Aſaph og hans brædur/ ad þioona þørkenne yduglega / til(hvørs) dags verks a ſijnum deige.

38 Enn Obed Edom og þeirra brædur atta og ſextiju / og Obed Edom Jeduthuns ſon / og Hoſa til portvaktara.

39 Og Zadok preſt/z hns brædur preſtana/ (liet hann) fyrer Drottens tiallbud/ a þa hæd / ſem var i Gibeon:

40 Ad þr ſkylldu yduglega giøra Drottne brenne-offur/a brenne-offurs altarenu/ morgun og kvølld/og epter øllu þvi/ſem er ſkrifad i Drottens løgmaale/ſem hn baud Iſrael.

41 Og med þeim Eman z Jeduthun/ og þa adra utvalda / ſem voru nefnder a nafn / til ad þacka Drottne / ad hans miſkunſeme vare æfenlega.

42 Og med þeim Eman z Jeduthun/ med trometum og cimbalis / ad læra þ heyra / og Guds ſaungs verkfærum / Enn Jeduthuns børn voru vid ported.

43 So foor allt folked burt / hvør til ſijns huſs / og David ſnere vid / ad bleſſa ſitt hus.

## XVII. Capitule

### David Øðlaſt Fyrerheit um Meſſiam.

DAd ſkiede * / þegar David bioo i ſijnu huuſe / þa ſagde David til Natans ſpamans: ſia/ eg bij i einu Cedrus huſe/ z Drottens ſattmaalsørk er under tiolldun. * 2. Sam. 7/ 2.

2 Þa ſagde Natan til Davids: allt þad/ ſem er i þijnu hiarta / þad giør / þvi Gud er med þier.

3 Og þad ſkiede a þeirre ſømu nott / þa ſkiede Guds ord til Natan/ og ſagde:

4 Gack / og þu ſkallt ſeigia til Davids mijns þienara: ſo ſagde Drottenn: þu/þu ſkallt ecke biggia mier eitt hus/ad bua i.

5 Þvi * eg hefe ecke bued i huſe / fra þeim deige/ ſem eg uppførde Iſrael/allt til þeſſa dags/helldur hefe vered i tiallde og tialldbud. * Eſ. 66/ 1.

6 I øllum (þeim ſtodum/) ſem eg hefe geinged i øllum Iſrael/ mun eg hafa tal ad nockud ord til nockurs doomara i Iſrael / hvørium eg baud/ ad fæda mitt folk/ og ſagt : hvi bigged þier mier ecke eitt cedrus-huus?

7 Nu þa/ ſo ſkalltu ſeigia til mijns þienara Davids: ſo ſagde ſa Drottenn Zebaoth: eg took þig fra fiarhuſenu bak ſaudana / ad vera einn høfdinge yfer mitt foolk Iſrael.

8 Og eg hefe vered med þier/ hvørt þu hefur geinged / og eg hefe upprætt alla þijna ovine fyrer þier/ og giørt þier eitt nafn / ſem þeirra ſtooru nafn / þar eru a Jørdunne.

9 Og eg hefe ſett mijnu foolke Iſrael eirn ſtad / og plantad þad / og þad ſkal buua a ſijnum ſtad / og ecke ruggaſt framar meir / og vondt foolk ſkal ecke meir under þrickia þad/ ſo ſem til forna.

10 Og fra þeirre tijd / þegar eg ſkipade domara yfer mitt folk Iſrael/og eg hefe nidurþrijkt øllum þijnum fiandmønnum / og

z kunngiórt þier/ ad Drottenn villde bigga þier eitt Huus.

11 Og þad skal ske/ nær * þijner dagar eru úte / ad þu geingur med þijnum Fed- rum / þa vil eg uppvekia þitt sæde epter þig/ s skal vera af þijnū sonū/ z eg vil stad festa hns ryke. * 2. Sam. 7/12/13. e. c.

12 Hañ/ hañ skal biggia mier eitt hus/ og eg vil stadfesta hañs stool eilijflega.

13 Eg/ eg vil vera honum einn Fader/ og hañ/ hañ skal vera mier eirn sonur / og eg vil ecke snua minne myskunseme fra honum / so sem eg snere henne fra hon- um/ sem var fyrer þig.

14 Eñ eg vil setia hañ i mitt hus / og i mitt ryke eylijflega / og hañs stooll mun vera stadfastur eilijflega.

15 Epter ollum þessum ordum/ og epter allre þessare syn / so talade Natan til Kong Davids.

16 Pa kom Konungurenn David / og sette sig fyrer Drottens augsyn / og sagde : hvør er eg / Drottenn Gud? og hvad er mitt hus / ad þu hefur lated mig koma allt hingad?

17 O Gud / þetta hefur eñ þookt þier litted/ þar fyrer hefur þu talad yfer þij- ns þienara huse langt fram/ og fyrer si- ed mier epter mañlegre vijsu med þessare upphefd / þu Drottenn Gud.

18 Hvad skal David meira (segia) til þijn/ ad giora þinn þienara veglegañ? þo þu kieñer þiñ þienara.

19 Drottenn / fyrer þijns þienara skulld/ og epter þijnu hiarta hefur þu giort all- añ þeñañ stoora Hlut / ad opeñbera alla þa stooru hlute.

20 Drottenn / þar er eingenn sem þu/ og þar er eingenn Gud / utañ þu/ epter ollu þvi/ sem vier hofum heyrt med vorū eyrū.

21 Og * hvør er sem þiñ lijdur Jsrael/ eitt einasta Foolk a Jordune / sem Gud gieck burt til / ad frelsa sier eitt Foolk / ad giora þier eitt nafn af stoorum og hr ædelegum Hlutum / vid Heidingiana / ad utreka fyrer þijnu Foolke/ sem þu leist et af Egyptalande? * 2. Sam. 7/ 23.

22 Og þu giorder þitt Foolk Jsrael þier til eins Foolks æfenlega/ og þu Drottenn/ þu ert ordenn þeim eirn Gud.

23 Og nu Drottenn/ þad ord/ sem þu tal ader yf' þijnū þienara/ z yf'r hns huse/ verde satt eilijflega / og giør so sem þu hefur talad.

24 Ja þad verde satt/ og þitt nafn verde stoort eilijflega ad mañ segie : sa Drott enn Zebaoth Jsraels Gud / er Jsraels Gud/ og þijns þienara Davids hus vere stodugt fyrer þijnu auglite.

25 Þvi þu/ minn Gud/ þu hefur opeñbe ad * fyrer þijns þienara eyrum / ad þu villter biggia honum eitt hus / þar fyrer hefur þiñ þienare funded (i sijnu hiar- ta/) ad bidia fyrer þijnu auglite.
* 2. Sam. 7/ 27. etc.

26 Og nu Drottenn / þu ert sa Gud / og hefur talad þetta gooda til þijns þienara

27 Og nu villder þu blessa þijns þienara hus / ad þad mætte blijfa æfenlega fyr- er þijnu auglite/ þvi þu Drottenn/ þu hef- ur blessad þad / og (þad sie) blessad til eilijfrar tijdar.

## XVIII. Capitule.

David underokar sijna Ovine/ og setur Valldstioorn og Kirkiu-Þionustu med duganda Personum.

Og þad skiede þar epter / þa * sloo David Philisteana/ z und erokade þa / og took Gat / og heñar tilheirande þorp af Phi listeana hende. * Ps. 60/ 2.

2 Hañ sloo og Moab/ ad Moab vard Davids þienare / og bar gafur.

3 David sloo z Adar Eser/ Konungenn af Zoba/ i Hemath/ þegar hñ foor burt/ ad uppsetia sitt teikn hia þvi vatne Phrat.

4 Og David took fra honum þusund vagna/ og sio þusund reid-meñ / og tiju þusund Footgaunguliids/ og David * sund ur hioo alla vagnana nedañtil / þo hiellt hñ hundrad vagnum epter þar af.
* Jos. 11 / 9.

5 Og þeir Syrlendsku af Damasco ko mu ad hialpa Adar Eser / Konungenum af Zoba/ eñ David sloo af þeim Syr- lendsku tuo og tuttugu þusund meñ.

6 Og

6 Og David liet (foolk) i Syria i Damasco / og þeir Syrlendsku urdu David undergiefner / og færdu gafu / og Drottenn frelsade David / hvørt hann droo burt.
7 Og David took þa gyllene skiollldu / sem AdarEsers þienarar høfdu a sier / og færde þa til Jerusalem.
8 David took og af Tibehath og af Chun / HadarEsers stødum / harla mikenn kopar / þar af giørde Salomon þad * kopar-haf / z stolpana / z kopar-kierenn.
* 1. Kong. 7/ 23.
9 Þegar Thou / konungurenn af Hemath heyrde / ad David hafde sleiged allann AdarEsers / konungsens af Zoba / hanns her.
10 Þa sende hann Adoram sinn son til Kong Davids / ad oska hønum lucku / og ad blessa hann / ad hann hafde strijdt vid AdarEser / og sleiged hann / þvi Thou atte strijd vid AdarEser / og øll gull-ker / og silfur og kopar:
11 Kong David helgade Drottne og so þau med þvi silfre og gulle / sem hann hafde teked fra øllum heidingiunum / sem var fra Edom / og fra Moab / og fra Ammons børnum / og fra Philisteunum / og fra Amalek.
12 Absai Zeruia son sloo og Edom * i Sallt-dalnum / atian þusunder.
* Ps. 60/ 2. etc.
13 Og hann sette festing i Edom / og allur Edom var David undergiefenn / og Drottenn frelsade David / hvørt hñ foor burt.
14 So rijkte David yfer øllum Israel / og hiellt doom og riettende medal alls sijns foolks.
15 Og Joab * Zeruia son var yfer herinum / og Josaphat Ahiluds son var secretere. * 2. Sam. 8/ 16. c. 20/ 23.
16 Og Zadok Ahitubs son / og Abimelech Abiathars son voru prestar / og Sausa var cancellere.
17 Og Benaia Jojada son / var yfer þeim Crethi og þeim Plethi / og Davids syner voru og sierdeileslega hia konungsens hende.

XIX. Capitule.

Ammonitarner smána Davids Sendemenn / enn verda slegner i Strijde fyrer Davids Þienara.

Og þad skiede þar epter / ad * Nahas / Ammons barna kongungur deyde / og hñs son vard konungur i hañs stad.
* 2. Sam. 10/ 1.
2 Þa sagde David: eg vil giøra myskunsemd vid Hanon / Nahas son / þvi hañs fader giørde myskunsemd vid mig / og David sende bod / ad hugga hann yfer sijnum fødur. Þegar Davids þienarar komu i Ammons barna land / til Hanon / ad hugga hañ /
3 Þa sogdu Ammons barna høfdingiar til Hanon: meinar þu / ad David heidre þinn fødur fyrer þijnum augum / ad hñ sende huggara til þijn? eru hñs þienarar ecke komner til þijn / ad ransaka / og ad umm billta / og ad nioosna umm landed?
4 Þa took Hanon Davids þienara / og rakade þa / og skar þeirra klæde half af allt til lendar / og liet þa fara.
5 Og þar fooru nockrer / og gafu David til vitundar umm þa mennen / og hñ sende moote þeim / þvi mennerner voru miog svijvirder / og konungurenn sagde: vered i Jericho / þar til ydar skiegg vex / z komed (so aptur)
6 Enn þegar Ammons børn sau / ad þeir lucktudu illa fyrer David / þa sende Hanon og Ammons børn þusund centener silfurs / ad leygia sier af Mesopotamia / og af Syria Maecha / og af Zoba / vagna og reidmenn.
7 Og þeir leygdu sier tvær og þriatigi þusunder vagna / og kong Maecha med sijnu foolke. Þeir komu og settu sijnar herbuder fyrer Medba / og Ammons børn søfnudust af þeirra stødum / og komu til strijdsens.
8 Þegar David þ heyrde / þa sende hñ Joab med þann giørvalla kappana her.
9 Og Ammons børn voru utdreigenn / og høfdu herklæd sig til strijds fyrer stadarens porte / enn konungarner / sem voru komner / hielldu til sierdeileslega a mørkenne.
10 Þegar Joab sa ad strijded var moote

 hønum /

honum/ i fyrer og a bak/ þa utvalde hann af ollum ungum mönnum i Israel/ og sloo sier i fylking moote þeim Syrlendsku.

11 Og þad foolk/ sem umfram var/ sette hann under Absai syns broodurs hond/ og þeir sloou sier i fylking mote Ammons bornum.

12 Og hann sagde: þar sem þeir Syrlendsku verda mier ofsterker/ þa skalltu koma mier til hialpar/ enn verde Ammons born þier ofsterk/ þa vil eg hialpa þier.

13 Vertu hughraustur/ og lát oss hondla diarflega/ fyrer vort foolk/ og fyrer vors Guds stade: * Drottenn giore/ hvad honum gott synest. * 1. Sam. 3/ 18.

14. Þa droo Joab fram/ og þad foolk/ sem var hia honum/ moot þeim Syrlendsku til strijdsens/ og þeir flijdu fyrer honum.

15 Og þegar Ammons born sau/ ad þeir Syrlendsku flijdu/ þa flijdu þeir og fyrer Absai hans broodur/ og fooru i staden/ og Joab kom til Jerusalem.

16 Enn þegar þeir Syrlendsku sau/ ad þeir voru slegner fyrer Israel/ sendu þeir bod/ og sooktu þa Syrlendsku/ sem voru a hina sijdu flioots ens/ og Sophach Adar Esers strijds-hofudsmadur/ foor fyrer þeim.

17 Þegar þad var David til vitundar gefed/ þa safnade hann ollum Israel/ og foor yfer Jordan/ og þegar hann kom til þeirra/ þa sloo hann fylkingu i moote þeim/ Þegar David hafde fylkt mote þeim Syrlendsku til strijds/ þa strijddu þeir vid hann.

18 Enn þeir Syrlendsku flijdu fyrer Israel/ og David i hel sloo af þeim Syrlendsku sio þusund vagna/ og fiorutijgu þusund menn footgaungulids/ hann sloo og Sophach strijds-hofudsmannenn i hel.

19 Þegar Adar Esers þienarar sau/ ad þeir voru slegner fyrer Israel/ þa giordu þeir frid vid David/ og urdu hans þienarar/ og þeir Syrlendsku villdu ecke meir hialpa Ammons bornum.

## XX. Capitule.

### David a Strijd vid þa Ammonita og Philistea.

OG þad skiedt a þeirre tijd/ þegar aared var ute/ a þeirre tijd/ sem kongarner utdraga/ þa færde Joab strijds-hereñ/ og fordiarfade Ammons barna land/ og kom/ og settest um Rabba/ enn David var i Jerusalem/ og Joab sloo Rabba/ og nidurbraut hana.

2 Og David * took þeirra konungs koronu af hans hofde/ og fann hana eins centener gulls punga/ og þar voru gimsteinar i henne/ og hun var sett a Davids hofud/ Hann færde og allmiked herfang ut af stadnum. * 2. Sam. 12/ 30.

3 Hann færde og foolked ut/ sem þar var inne/ og skipte þeim med sögum og med iarn-sledum/ og med öxum/ Og so giorde David vid alla Ammons barna stade/ og David kom til baka/ og allt foolked/ til Jerusalem.

4 Og þad skiede þar epter/ þa þar stood strijd i Gesar vid Philisteana/ þa sloo * Sibechai sa Husathite/ Sippai af Rapha bornum/ og þeir urdu nidur þrykter. * 2. Sam. 21/ 18.

5 Þar epter * var enn nu strijd vid Philisteana/ og Elhanan Jairs son sloo Lahemi Goliaths þess Gathita broodur/ hvors spioots skapt var sem eitt vefiar ripur. * 2. Sam. 21/ 19.

6 Og þar var enn nu strijd i Gat/ og * þar var eirn hármadur/ og hans fingur (og tær) voru sex a hvorium stad/ þad eru fioorer og tuttugu/ og hann var ogso fæddur af Rapha. * 2. Sam. 21/ 20.

7 Og hann * hædde Israel/ enn Jonatan/ Simeas Davids broodurs son sloo hann.
* 1. Sam. 17/ 10.

8 Þesser voru (þeir risar) Rapha fædde i Gat/ og þeir fiellu fyrer Davids hond/ og fyrer hans þienara hond.

## XXI. Capitule.

### Davids Hofmoodur i þvi ad telia Foolked straffast af Drottne med Drepsoott.

ÞA stood * satan i moot Israel/ og upphvatte David/ ad telia Israel. * 2. Sam. 24/ 1.

2 Og David sagde til Joabs/ og til foolksens foringia: ganged/ telied Israel/ fra Berseba og allt til Dan/ og færed til myn/ ad eg meige vita þeirra tolu.

3 Þa sagde Joab: Drottenn fiolge sitt foolk/ eins sem þeir (nu eru) hundrad sinn

um/eñ eru þeir ecke/ mÿns Herra konung sens / aller mÿns Herra þienarar? hvar þ spyr miñ Herra þar epter? hvar þ skylldi þad vera til eirmar skulldar a Jsrael?

4 Eñ konungsens ord gieck yfer hond moot Joab / og Joab droo ut / og reiste um̃ i ollu̅ Jsrael / og kom til Jerusalem.

5 Og Joab gieck David summuna a þui talda foolke / og sa allur Jsrael voru ell efu hundrud þusund meñ / sem utdroou sverd / og Juda fiogur hundrud og siøtiu þusund meñ/ sem utdroou sverd.

6 Þo talde hñ ecke Levi og BenJamin a medal þeirra / þui konungsens ord var Joab vidurstiggelegt.

7 Eñ þsse giørningur likade Gude illa/ þar yfer sloo hñ Jsrael.

8 Þa sagde David til Guds: * eg hefe þunglega syndgad/ad eg hefe giort þetta verk/eñ tak þo nu burt þÿns þienara mis giørning / þui eg hefe giort alldæelega.

* 2. Sam. 24/10.

9 Og Drotteñ talade til Gads/Davids siaanda / og sagde:

10 Gack/ og tala til Davids/og seig: so sagde Drotteñ: eg legg þier þreñslags (hlut) fyrer/ utvel þier eirn af þeim/ ad eg skule giora þier.

11 Þegar Gad kom til Davids/þa sagde hñ til hñs: so sagde Drotteñ:

12 Utvel þier añadhvort hungur i þriu aar/eda ad flÿa þria mænude fyrer þÿnum mootstøndurum/ og fyrer þiña fiandmaña sverde/ ad þad skule grijpa (þig/) eda Drottens sverd / þad er drepsootti þria daga i landenu/ad Drottens eingell skule fordiarfa i øllum Jsraels landamerkium/so sia nu til/ hvada orde eg skule svara honum/sem mig utsende.

13 Þa sagde David til Gads: mier er miøg þraungt um̃/lat * mig þo falla i Drottens hond / þui hañs myskuñseme er miøg stoor/og lat mig ecke falla i mañeskiuñar hond.

* 2. Sam. 24. 14. Harmagr. 3/22.

14 Þa liet Drotteñ drepsoott koma i Jsrael/og þar fiellu af Jsrael/ siøtiu þusund meñ.

15 Og Gud sende eirn eingel til Jerusalem / ad fordiarfa hana/ og sem hañ fordiarfade hana/leit Drotteñ þar til/ og hañ angrade þad vonda/ꝛ hañ sag de til eingelsens/sem fordiarfade: Þad er noog/ tak nu þÿna hond aptur / og Drottens eingell stood hia Ornans þss Jebusita hlodu.

16 Þegar David upplipte sÿnum aug um / og saa Drottens eingel standa i millum Jardareñar og i millum Himensens/ og sitt brugded sverd i hñs hende/ utrikt yfer Jerusalem/þa fiell David og þeir ellstu/ hulder med seckium/ a þeirra asioonu.

17 Og David sagde til Guds: er þad ecke eg/ s befalade/ad taka toluna a fool kenu? sia eg/eg er sa/sem syndgade/ og giørde so illa / eñ þesser sauder / hvad hafa þeir giort? Drotteñ miñ Gud / kiære/lat þÿna hond vera moote mier og moote mÿns fødurs huse/og ecke mo te þÿnu foolke/ad plaga þa.

18 Þa sagde Drottens * eingell til Gads/ad seigia til Davids/ad David skylldi fara upp/ꝛ uppreisa Drottne * * eitt altare i Ornans þss Jebusita hladgarde * 2. Sam 24/18. ** 2. Kron. 3/1. etc.

19 So gieck David upp epter Gads orde/ sem hñ talade i Drottens nafne.

20 Þegar Ornan snere sier vid/ sa hñ eingeleñ/ og hñs fioorer syner/ sem voru med honum / sem folou sig / og Ornan þreskte hveite.

21 Og David gieck til Ornan / þa sa Ornan/og vard Davids var/ og hñ giecck ut af hladgardenum / og beigde sig fyrer David med andlitenu til Jardar.

22 Og David sagde til Ornan: gief mier þañ hladgardsens stad/ad eg kuñe biggia Drottne eitt altare þar a / gief mier hñ fyrer fulla peninga/ad plaguñe meige lina fra foolkenu.

23 Þa sagde Ornan til Davids: taktu (ad eins vid honu̅)miñ Herra konungur/ og giør sem þad vocknast þier/sia/eg gief þessa uxa til breñeoffurs/og þa sleda til vidar / og hveited til matoffurs / eg gief þad allt.

24 Og Kong David sagde til Ornan: ecke so / eñ eg vil vissulega kaupa hañ fyrer fulla peninga/ þvi eg vil ecke taka þad/ sem þier tilheyrer handa Drottne / og ecke hafa þ til brenñ-offurs þ eckert.

25 So gaf David Ornan fyrer þañ stad sex hundrud sekla gulls epter vigt.

26 Og David biggde Drottne þar eitt altare/ og offrade brenñ-offre og þackar-offre/og þegar hñ kallade a Drottenñ/ þa bænheyrde hñ hñ fyrer elldenñ af Himnenum/a brenñ-offursens altare.

27 Og Drottenñ sagde til eingelsens / ad stijnga sijnu sverde i sijnar skeider.

28 Þegar David sa a somu tijd/ad Drottenñ bænheyrde hñ i Ornans þess Jebusita hladgarde/ þa offrade hñ þar.

29 Þvi Drottens tialldbud / sem Mose hafde giort i eydemørkeñe/ og brenñ-offurs altared var a þeirre somu tijd * a þeirre hæd i Gibeon. * c. 16/ 39.

30 Og David kuñe ecke fara fyrer þvi sama ad adspyria Gud/þvi hñ var hrædd ur fyrer Drottens eingels sverde.

## XXII. Capitule.

David efnade til Musteris Bigging arefnar i Jerusalem.

Og David sagde: hier skal Drottens Guds hus vera / og hier skal Israels brenñ-offurs altare vera.

2 Og David befalade ad safna * þeim framande / sem voru i Israels lande/og tilsette hoggvara til ad hoggva slietta steina / til ad biggia Guds hus.

* 2. Kron. 2/ 17.

3 Og David liet tilbua myked jarn til sauma/til dyrañа i portenu/ og til (hvoris sem var þørf) ad festast / og mikeñ kopar/ ad mañ kuñe hñ ecke vega.

4 Og cedrus trie otoluleg / þvi þeir af Zidon og Tyro færdu mikeñ cedrus vid til Davids.

5 Þvi David þeinkte: Salomon miñ son er ungur/og lijtels mattar/og hused sem skal biggiast Drottne skal vera miog stoort/ad hñs nafn og prijs kuñe upphefiast i ollum londum/ þar fyrer vil eg tilsetia honum (efne / ) so tilsette David myked (efne) fyrer siñ dauda.

6 Þa kallade hñ Salomon siñ son / og baud honum ad biggia Drottens Israels Guds hus.

7 Og David sagde til Salomons sijns sonar: * eg / eg hafde i siñe ad biggia Drottens mijns Guds nafne eitt hus.

* C. 17/ 1.

8 Eñ Drottens ord kom til mijn/ og sagde: þu hefur uthellt miklu bloode/og hææd stoor strijd/ þu skallt * ecke biggia mijnu nafne eitt hus/þvi þu uthellter miklu bloode a Jordena fyrer mier. * c. 29/ 3.

9 Siaa/ hiñ son/ sem þier er fæddur/ hañ/ hñ skal vera eirn roolegur madur/ þvi eg vil giefa honum roo fyrer ollum hañs fiandmoñum allt um kring / þvi Salomon skal vera hñs nafn/ og eg vil giefa frid og roosemd yfer Israel a hñs dogū.

10 Hañ/hañ * skal biggia mijnu nafne eitt hus/og * * hañ/ hñ skal vera mier eirn sonur/ z eg vil vera hm eirn fader/ z stadfesta hñs rijkes stool yfer Israel eilijflega. * 1. Kong. 5/5. * * Ebr. 1/5.

11 So mun nu/ miñ son/ Drottenñ vera med þier/og þu munt verda luckusamur/og biggia Drottne þijnum Gude eitt hus/ so sem hañ talade um þig.

12 Og Drottenñ mun giefa þier hyggende og forstand/ z giefa þier befalning yfer Israel/og ad þu skuler hallda Drottens þijns Guds logmaal.

13 Þa muntu vera luckusamur / nær þu helldur þig ad giora epter þeim setningum og riettindum / sem Drottenñ baud Mose til Israels / vertu hraustur og med einu diorfu giede / þu skallt ecke ottast/og ecke mistreysta.

14 Og sia/ * eg hefe tilbued til Drottens hus i miñe mædu hundrad þusund centener gulls / og þusund siñum þusund centener silfurs/þar ad auk koparenñ og jarned fyrer utañ vigt / þvi þar er myked þar af/eg hefe og tilbued timbur og steina/og þar til mattu leggia meira. * c. 29/ 2.

15 So hefur þu marga erfidara/ hogg

vara og timburmeñ til steins og tries/ og allra handa vijsa meñ a allra handa verknad.

16 A gull/a silfur/og a kopar/og a jarn fyrer utan tolu/svo tak þig upp/og giør þ/z Drottenñ mun vera med þier.

17 Og David baud øllum Israels foringium ad hialpa Salomon hañs syne/ (seigiande:)

18 Er ey Drottenñ ydar Gud med ydur? og * hefur giefed ydur roosemd allt um kring? þui hañ hefur giefed landsens iñbiggiara i mijna hønd/ og landed er uñed fyrer Drottenñs augsijn / og fyrer hñs folks augsijn *v.9. c.23/25

19 So giefed nu ydar hiortu og ydar sæler til ad leita Drottenñs ydar Guds / og taked ydur upp / og bigged þess Drottenñs Guds helgedoom/ ad iñfæra Drottenñs sattmaals ørk/og Guds heilagañ bunad i hused/þad sem skal biggiast handa Drottenñs nafne.

## XXIII. Capitule.

David tilsetur Levitana til ad þramfylgia Verkenu i Drottenñs huse.

DA negar David var gamall z saddur af døgum / þa giørde hañ Salomon siñ son til konungs yfer Israel.

2 Og hañ safnade øllum foringiunum i Israel/ og prestunum og Levitunum.

3 Og Levitarner voru talder fra þriatiju ara gømlum og þar yfer/Og þeirra tala var fra hofde til høfuds / sem voru (sterker) meñ / atta og þriatiju þusunder.

4 Af þeim(voru skickader)til ad framfilgia verkenu i Drottenñs huse/fioorar og tuttugu þusunder / og fovitar og doomarar sex þusunder.

5 Og fioorar þusunder portvaktara/ og fioorar þusunder/ sem lofudu Drottenñ med hliodfærum/sem eg hefe giørt/(sagde David/)til ad lofa med.

6 Og David skipte þeim i skipaner / til Levi barna / til * Gerson / Kaath og Merari. * 1. Mos. 46/ 11.

7 Af * Gersonitunum var Ladan og Simei. * 2. Mos. 6/ 17.

8 * Ladans børn voru(þesse:)Jehiel/ og Sethan/og Joel/þrijr. * c. 26/21.

9 Simei børn voru Salomith/og Hasiel/og Haran/ þrijr. Þesser voru þeir yppurstu medal fedrañа af Ladan.

10 Simei børn voru Jahath / Sina og Jeus/ og Bria/ þesser fioorer voru Simei børn.

11 Og Jahath var sa firste / og Sisa sa añar / eñ Jeus og Bria attu ecke mørg børn/þar fyrer voru þeir reiknader fyrer eins fødurs hus.

12 Kaaths børn voru Amram / Jezehar / Hebron og Vssiel fioorer.

13 Amrams * børn voru Aaron og Mose/ og ** Aaron var fraskileñ/ ad helga þad heilagasta / hñ og hñs syner æfenlega/ ad giøra reykelse fyrer Drottenñs augsijn/ ad þioona hønum/og ad blessa i hañs nafne æfenlega.

* 2. Mos. 6/ 20. ** Ebr. 5/ 4.

14 (Vidvijkiande)Mose Guds mañe/ hañs børn reiknudust under Levi ætt.

15 Mose * børn voru Gersom og Elieser. * 2. Mos. 2. 22/ 23.

16 Gersoms børn/* Sebuel sa firste. * C. 26/ 24.

17 Og Eliesers børn voru Rehabia sa firste/ og Elieser atte eingeñ oñur børn/ eñ Rehabia børn voru mørg fleire.

18 Jezhars børn voru Salomith/ sa firste.

19 Hebrons * børn voru Jeria sa firste/Amaria sa añar/ Jehasiel sa þridie/og Jekameam sa fiorde. * c.24/23.

20 Vssiels børn voru Micha sa firste/ og Jesia sa añar.

21 Merari * børn voru Maheli og Musi: Maheli børn voru Eleasar og Kis. * c. 6/ 19.

22 Og Eleasar deyde/og atte aungvar syne/helldur dætur/ og Kis børn/þeirra brædur tooku þær.

23 Musi børn voru Maheli / og Eder/ og Jeremoth/ þrijr.

24 Þesse eru Levi børn a medal þeirra fedra hus / og foringiar a medal fedrañа/

rañа / ſem voru reiknader epter nafna tale yfer þeirra høfud / hvørier giørdu embættesens verk i Drottens huſe / fra tuttugu ára gømlum / og þar yfer.

25 Þvi David hafde ſagt : Drottenn Israels Gud hefur * giefed ſijnu foolke rooſeme / og þad ſkal bua i Jeruſalem æfenlega. * c. 22 / 18.

26 Og vidvijkiande ogſo Levitunum / þeir ſkylldu ecke bera tiallbudena / eda nockud af hennar bunade / (ſem heyrde) til þioonuſtunnar.

27 Þvi epter Davids þeim ſeinuſtu ordū / voru þeſſer talder af Levi bornū / fra tuttugu ára gømlū og þar yfer.

28 Ad þeir ſkyllde ſtanda hia Aarons barna hende / ad þioona i Drottens huſe ut i gardenum / og ut i herbergiunū / og ad allrahanda heilagra (hluta) hreinſun / og ad Guds huſs embættes verkū.

29 Sem er ad ſkodunar braudunum / og ad miølenu / til mat-offurſens / ⁊ ad oſijrdum køkum / og ad pønnunum / og ad riſtenne / og ad øllū mæler ⁊ mæta.

30 Og ad ſtanda hvørn morgun / ad þacka og ad lofa Drottenn / og lijka ſo um̃ aptanenn.

31 Og ad offra Drottne øllum brenne-foornum / a ſabbatunum / a (nyiu) maanudunum / og a þeim ſtiptudu hatijdum med tølu epter þeirra vijſu / alltijd fyrer Drottens auglite.

32 Og ad þeir ſkillde taka koſtgiæfelega vara a ſamkundu tialldbudenne / og a helgedoomenum / og a Aarons bornum þeirra brædrum / ad þioona i Drottens huſe.

## XXIV. Capitule.

David ſetur af Levi Bornum Foringia og Þienara vid Helgedoomenn.

Enn fyrer Aarons bornum voru þeirra ſkipaner. Aarons born voru Nadab og Abihu / Eleaſar og Ithamar.

2 Enn * Nadab og Abihu deyde fyrer þeirra fødurs augſijn / og áttu eingenn børn / og Eleaſar og Ithamar voru preſtar. * 3. Moſ. 10. 1 / 2. etc.

3 Og David * ſkipte þeim / og Zadok af Eleaſars bornum / og Ahimelech af Ithamars bornum / epter þeirra rød / i þeirra embætte. * 2. Kron. 8 / 14.

4 Og þar voru fleire ypparleger (ſterker) menn fundner a medal Eleaſars barna / enn a medal Ithamars barna / þegar þeir ſkiptu þeim / af Eleaſars bornum voru ſextan til foringia / a medal (þeirra) fedra huſs / enn af Ithamars bornum / a medal þeirra fedra huſs / átta.

5 Og þeir ſkiptu þeim epter hlutføllum / þeſſum med hinum / þvi helgedoomſens foringiar / og þeir Guds foringiar / voru af Eleaſars bornum / og af Ithamars bornum.

6 Og Semaia Nethaneels ſon / ſkrifarenn af Levitunum / uppſkrifade þa fyrer konungſens augſijn / og foringiañа / og Zadoks preſts / og * Ahimelechs Abjathars ſonar / og þeirra ypparſtu fedra a medal preſtanna / og fyrer Levitunum / (So ad) eins fødurs hus var hia Eleaſar / (og þad annad) var i ſama máta hia Ithamar. * c. 18 / 16.

7 Sa firſte hlutur gieck ut yfer Jojarib / ſa annar yfer Jedaja.

8 Sa þridie yfer Harim / ſa fioorde yfer Seorim.

9 Sa fim̃te yfer Malchia / ſa ſiøtte yfer Mejamin.

10 Sa ſiøunde yfer Akkoz / ſa áttunde yfer Abia.

11 Sa nijunde yfer Jeſua / ſa tijunde yfer Zechania.

12 Sa ellefte yfer Eliaſib / ſa toolfte yfer Jakim.

13 Sa þrettande yfer Hupa / ſa fioortande yfer Jeſebeab.

14 Sa fimtande yfer Bilga / ſa ſextande yfer Immer.

15 Sa ſeitiande yfer Heſir / ſa átiande yfer Pizez.

16 Sa nijtiande yfer Pethahia / ſa tuttugaſte yfer Jeheſkel.

17 Sa fyrſte og tuttugaſte yfer Jachin / ſa annar ⁊ tuttugaſte yfᵉ Gamul.

18 Sa þridie z tukkugaste yfer Dela-ia/sa fioorde z tukkugaste yfer Maasia

19 Þesse þeirra skickun epter þeirra embætte var/ ad ganga i Drottens hus/ epter þeirra vÿsu/ under þeirra fødurs Aarons hende/so sem Drotteñ Israels Gud hafde boded hønum.

20 Og af þeim ødrum Levi børnum/ var a medal Amrams barna/ Subael/ a medal Subaels barna/ Jehdeia af Rehabia.

21 A medal Rehabia barna var sa foringe Jesia.

22 A medal Jezeharitaña var Selomoth a medal Selomaths barna/var Jahath.

23 Og a medal * Hebronitaña var Jeria/sa(firste/)Amaria sa añar/Jehasiel sa þridie/ Jakmeam sa fioorde.

* C. 23/ 19.

24 Af Ussiels børnum var Micha / a medal Micha barna/ var Samir.

25 Jesia var Micha brooder / a medal Jesia barna var Sacaria.

26 Merari børn voru Maheli og Musi/Jaasia børn voru Beno.

27 Merari børn af Jaasia voru Beno/og Sohan/ og Sakur/og Ibri.

28 Af Maheli var Eleasar/og * hañ atte aungva syne. * C. 23/ 22.

29 Vidvÿkiande Kis / Kis børn voru Jerahmeel.

30 Og Musi børn voru Maheli / og Eder/og Jeremoth/Þesse eru Levitaña børn i þeirra fedra huse.

31 Og þeir køstudu ogso þeim hlutū moote þeirra brædrum Aarons børnum / fyrer kong Davids og Zadoks og Ahimelechs augsÿn / og þeirra yppurstu fedra a medal prestaña/ og a medal Levitaña/ þeim ypparsta a medal fedraña moote þeim minsta broodur.

## XXV. Capitule.

David setur Saungvara vid Helgedoomeñ.

Og David og stryds høfudsmeñerner fraskildu til embættesens af Asaphs børnum/og Hemans og Jedithuns / þa sem skylldu spaa med hørpum / og med psalturum / og med cimbalis / Og þeir sem voru kallder(a medal þeirra/ )voru meñ/ (hæfer) til þeirra embættes verke.

2 A medal Asaphs barna voru Sachur/ og Joseph/og Nethania/ og Asarela/ Asaphs børn/under Asaph / sem spaadu under konungenum.

3 Vidvÿkiande Jedithun / Jedithuns børn voru Gedalia/og Seri / og Jesaia/Hasabia/og Mathithia/sex/under þeirra fødur Jedithun/sē spaade med hørpum/ ad þacka og lofa Drotteñ.

4 Vidvÿkiande Heman/Hemans børn voru Bukkia/ Mathania/ Ussiel/Sebuel/og Jerimoth/ Hanania/Hanani/ Eliatha/Gidalthi/ og Romamthi Eser / Jasbekasa/ Mallothi / Hothir / Mahesioth.

5 Aller þesser voru Hemans børn/sem var konungsens siaande i Guds orde / ad upplipta hornenu / þvi Gud hafde giefed Heman fioortan syne og þriar dætur.

6 Aller þesser voru under þeirra fedrum/ med saung i Drottens huse/ med cimbalis / psølturum og hørpum / til þioonustaña i Guds huse/und' konungenum/ Asaph og Jedithun og Heman.

7 Og þeir og þeirra brædra tala/ sem voru lærder i Drottens saung/aller for standuger / voru tvø hundrud og atta og attatÿu.

8 Og þeir køstudu hlutum um þeirra varatekt / so vel * þañ miñsta sem þañ stædsta/(so vel)meistarañ sem læresveineñ. * C. 24/ 31.

9 Sa fyrste hlutur gieck ut yfer Asaph/(nefnelega)yfer Joseph/Sa añar yfer Gedalia/ hañ og hañs brædur/ og hañs syner voru toolf.

10 Sa þridie yfer Sakur/ hañs syne og hañs brædur toolf.

11 Sa fiorde yfer Jezri / hañs syne og hñs brædur / toolf.
12 Sa fimte yfer Nithania / hñs syne og hñs brædur / tolf.
13 Sa siøtte yfer Bukkia / hañs syne og hñs brædur / tolf.
14 Sa siøunde yfer Jsreela / hñs syne og hñs brædur / tolf.
15 Sa ætttunde yfer Jesaia / hñs syne og hñs brædur / tolf.
16 Sa niunde yfer Mathania / hañs syne og hñs brædur / tolf.
17 Sa tiunde yfer Simei / hñs syne og hñs brædur / tolf.
18 Sa ellefte yfer Asareel / hñs syne og hñs brædur / tolf.
19 Sa tolfte yfer Hasabia / hñs syne og hñs brædur / tolf.
20 Sa þrettande yfer Subael / hañs syne og hñs brædur / tolf.
21 Sa fiortande yfer Mathithia / hñs syne og hñs brædur / tolf.
22 Sa fimtande yfer Jeremoth / hañs syne og hñs brædur / tolf.
23 Sa sextande yfer Hanania / hñs syne og hñs brædur / tolf.
24 Sa seitiande yfer Jasbekasa / hñs syne og hñs brædur / tolf.
25 Sa ætiande yfer Hanani / hñs syne og hñs brædur / tolf.
26 Sa nitiande yfer Mallothi / hañs syne og hñs brædur / tolf.
27 Sa tuttugaste yfer Eliatha / hñs syne og hñs brædur / tolf.
28 Sa fyrste og tuttugaste yfer Hothir / hñs syne og hñs brædur / tolf.
29 Sa añar og tuttugaste yfer Gidalthi / hñs syne og hñs brædur / tolf.
30 Sa þridie og tuttugaste yfer Mahesioth / hñs syne og hñs brædur / tolf.
31 Sa fiorde og tuttugaste yfer Romamthi Eser / hañs syne og hñs brædur / tolf.

## XXVI. Capitule.

**David setur Port Vaktara / Skattmeistara yfer Musterisens Skatt z Befalningemeñ.**

Nu eru skickande * port-vaktarañа skipunum: a medal Koritañа var Meselemia Kore son / af Asaphs bornum. * 2. Kron. 8/14

2 Og Meselemia ætte born: Sacaria þañ frumgietna / Jedial þañ añañ / Sebadia þañ þridia / Jathniel þañ fiorda.
3 Elam þañ fimta / Johanan þañ siøtta / Elioenai þañ siøunda.
4 Og ObedEdom atte og born / Semaia þañ frumgietna / Josabad þañ añañ / Joah þañ þridia / z Sachar þañ fiorda / og Nethaneel þañ fimta.
5 Ammiel þañ siøtta / Jsaschar þañ siøunda / Peulthai þañ attunda / þui Gud hafde blessad hñ.
6 Og Semaia hñs syne voru born fædd / þeir sem stiornudu i þeirra fedra huse / þui þeir voru sterker kappar.
7 Semaia born voru Othni / og Rephael / og Obed / (og) Elsabad / hañs brædur dugandes foolk / Elihu og Samachia.
8 Aller þesser voru af ObedEdoms bornum / þeir med þeirra bornum og þeirra brædrum / duglegt foolk / skickader til embættes tueir og sextiu af ObedEdom.
9 Og Meselemia born og brædur dugleger meñ voru ætian.
10 Og Hosa af Merari bornum atte born / Simri var sa fyrste / eñ þo hñ være ecke sa frumgietne / eñ hañs fader hafde sett hañ til þess ypparsta.
11 Hilkia sa añar / Tebalia sa þridie / Sacaria sa fiorde / Øll Hosa born og brædur voru þrettan.
12 Og yfer þa fiell portvaktarañа skipan / yfer þañ ypparsta prest af (volldugum) moñum / til varatektar / mots vid þeirra brædur / ad þiona i Drottens huse.
13 Og þeir køstudu hlutum / so vel sa minste sem sa stærste i þeirra fedra huse / til hvers ports.
14 Og sa hlutur moot austre fiell yfer Selemia / og þeir køstudu hlut fyrer Sacaria hñs son / sem var hyggeñ i forstande / og hñs hlutur gieck ut moot nordre.
15 Og ObedEdom moot sudre / og hñs syne / moot Esupims huse.

16 Suppim og Hosa moot vestre / hiaa Schalechet porte/ sem mañ geingur upp ad a þui haa stræte/ sem vakteñ er i mot hvor añare.
17 Moot austre voru sex af Levitunum/ moot nordre fiorer a dageñ/ og moote sud re fioorer a dageñ/ og hiaa Esupim tveir (og) tveir.
18 (Eñ) hiaa Parbar moot vestre/ fiorer a stræteinu/ tveir hia Parbar.
19 Þessar eru port vaktarana skipaner / a medal þeirra Korhita barna / og fyrer Merari børnum.
20 Eñ af Levitunum var Ahia yfer Guds huss fiærsioodum og yper þeirra heilogu hluta fiærsioodum.
21 Af Ladans børnum / þess Gersonita born/ af Ladan voru fedrana foringiar/ sem var af Ladan sa Gersonite Jehieli.
22 Jehieli born voru Setham z Joel ha ns brooder/ yfer Drottens huss fiærsiodū
23 A medal Amramitana / af Jezeha ritunum/ Hebronitunum / Ussielitunum.
24 Og Sebuel / Gersons son / Mose sonar/ var høfdinge yfer fiærsioodunū.
25 Eñ hañs brædur heirdu til Elieser/ Rehabia var hñs son / og Jesaia/ hañs son/ og Joram hñs son / og Sichri hñs son / og Selomith hñs son.
26 Þesse Selomith og hñs brædur voru yfer ollum þeirra heilogu hluta fiær sioodum/ sem kong David hafde helgad/ asamt þeir yppurstu fedur a medal þeir ra yppurstu yfer þusundum z yfer hund rudum/ og þeir yppurstu i hernum.
27 Af strijdunū og af herfangenu høf du þr helgad/ad bæta Drottens hus mz.
28 Og allt hvad Samuel sa siaande / og Saul Kis son / og Abner Ners son/ og Joab Zeruia son / høfdu helgad/ allt hvad hvor hafde helgad/ þad var under Selomith og hañs brædra hende.
29 Af Jezeharitunum var Chenania og hañs syner (setter) til verksens utañ verdt i Israel / til forrita og til domara.
30 Af Hebronitunum var Hasabia og hñs brædur/ duganleger meñ/ þusund og sio hundrud/ (setter) til bepalnings ma na yper Israel / a þessa sijdu Jordanar moot vestre / til allra handa Drottens høndlunar/ og til ad þiona konungenum.
31 A medal Hebronitana var Jeria sa yppatste a medal Hebronitana ættar og þeirra fedra / a þui fertugasta Davids rijkes are/ var leitad og funded a medal þeirra duganleger meñ i JaeserGilead.
32 Og þeirra brædur voru duganleger meñ/ tvær þusunder og sio hundrud/ fed rana foringiar / og konungureñ David sette þa yper Rubenitañ og Gadditañ/og þa halfu Manasses ætt/ til allrar Guds høndlunar og konungsens høndlunar.

## XXVII. Capitule.

Hier uppreiknast Estrijds Foringiar: Ættana Høfdingiar: Raadsmeñ yper Davids Fiærsioodum: Davids hell sta Raad og Viner.

Og þad eru nu Israels børn ept er þeirra tolu / fedrana høfd ingiar/og høfdingiar yper þu sundum og yper hundrudum / med þeirra befalnings mønnum / þeir sem tooku vara a konungenū/ epter ollu em bætte i (þeirra) skipunum/ad ganga fra og til/ hver eirn manud/ i ollum ársens manudum/ sierhvor skipan voru fioorar og tuttugu þusunder.
2 Yper þeirre fyrstu skipan i þeim fyr sta manade var * Jasabeam/ Sabdi els son / og i hñs skipan voru fioorar og tuttugu þusunder. * c. 11/ 11.
3 Hñ var af Perez bernum eirn foringe yper ollum stridsins høfudsmønnunum a þeim fyrsta manade.
4 Og yfer þess añars manadar skipan var * Dodai sa Ahohite/og hñs skip an/ og Mikloth sa foringe / i hñs skip an voru fiorutiju þusunder. * c. 11/ 12. 2. Sam. 23/ 9.
5 Sa þridie hershøfdinge i þeim þrid ja manade var Benaia Jojadæ prests son / eirn foringe / og i hñs skipan voru fioorar og tuttugu þusunder.
6 Þesse Benaia var eirn * kappe a medal þeirra þriatiju/og yper þeim þria tiju / og (yper) hñs skipan var Ammi

Sabad hans son. * c. 12/24.
2. Sam. 23/ 22.

7 Sa fioorde/ i þeim fioorda mænade/ var Asael Joabs brooder/ og Sabadia hans son epter hn / i hns skipan voru fioorar og tuttugu þusunder.

8 Sa fimte/ i þeim fimta mænade/var sa hofdinge Samhut sa Jsrahite/ og i hns skipan voru fioorar og tuttugu þusunder.

9 Sa siotte/i þeim siotta mænade/var* Jra Jkes son sa Thekoite/ og i hns skipan voru fioorar og tuttugu þusunder.
* Sam. 23/ 26.

10 Sa siounde/ i þeim siounda mænade/ var Helez sa Pelonite af Ephraims bornum/og i hans skipan voru fioorar og tuttugu þusunder.

11 Sa attunde/ i þm attunda mænade / var * Sibechai sa Husathite/af Sarehitunum / i hns skipan voru fioorar og tuttugu þusunder. * 2. Sam. 21 / 18.

12 Sa nijunde/i þeim nijunda mænade/ var Abieser sa Anthothite af þeim Benjeminitum/ og i hans skipan voru fiorar og tuttugu þusunder.

13 Sa tijunde/i þeim tijunda mænade/ var Maerai sa Nethophatite af Serahitunum/ i hans skipan voru fiorar og tuttugu þusunder.

14 Sa ellefte/i þm ellefta mænade/v * Benaia sa Pirathonite af Ephraims bornum/og i hns skipan voru fiorar og tuttugu þusunder. * c. 11/ 30.

15 Sa tolfte/i þeim tolffta mænade / var* Heldai sa Nethophathite af Othniel/i hans skipan voru fioorar og tuttugu þusunder. * c. 11/ 30.

16 Og yfer Jsraels ættum voru fyrer Rubenitanum/eirn hofdinge Eliaser Sichri son. Fyrer Simeonitunum/ Sephatia Maecha son.

17 Fyrer Levi/Hasabia Kemuels son. Fyrer Aaron/ Zadok.

18 Fyrer Juda/Elihu af Davids brædrum. Fyrer Jsaschar / Amri Michaels son.

19 Fyrer Sebulon / Jesmaia Obadia son. Fyrer Naphthali/ Jeremoth Asriels son.

20 Fyrer Ephraims bornum / Osea Asasia son. Fyrer þeirre hælfu Manasse ætt/ Joel Pedaia son.

21 Fyrer þeirre hælfu Manasse ætt i Gilead/Jddo Sacaria son. Fyrer Ben Jamin / Jaesiel * Abners son.
* 2. Sam. 3/ 28.

22 Fyrer Dan/Asareel Jorohams son. Þesser voru Jsraels ætta hofdingiar.

23 En David took ecke tolu a þeim / sm voru tuttugu ara gamler z þar yfer/ þvi Drottenn hafde talad um/ad fiolga Jsrael/sm stiornur a Himnenum.

24 Joab Zeruja son hafde byriad ad telia / en fullkomnade þad ecke/ af þvi þar vard ein stoor reide þar fyrer yfer Jsrael/ þar fyrer kom talan ecke i kongs Davids kroniku tolu.

25 Og yfer konungsens fiarsioodum var Asmaveth / Adiels son. Og yfer fiarsioodum i landenu/ ut i stodunu / og i þorpunum/og i slotunum var Jonatan Ussia son.

26 Og yfer þeim/ sem giordu erfided a morkenne/ad yrkia Jordena/var Esri Chelabs son.

27 Og yfer vijn-fiollunum var Simei sa Ramathite. Og yfer þvi/s var i vijn gordunu og vijn-kiollurunu/ var Sabdi sa Siphmite.

28 Og yfer oliu-gordunu og morber-triænu/ sem voru i dalnum/ var Baal Hanan sa Gederite/ og yfer oliu-kiollurunum var Joas.

29 Og yfer uxunu/þeim s m foodrudust i Saron/var Sitri/ sa Saronite. Og yfer uxunum i dolunum var Saphat Adlai son.

30 Og yfer ulfolldunum var Obil sa Jsmeelite. Og yfer osnunu var Jehedia sa Meronothite.

31 Og yfer saudunu var Jasis sa Agarite/ Aller þesser voru hofdingiar yfer þvi gotze/sem heyrde kong David til.

32 En Jonatan/Davids fodur brooder/ var raad / eirn forstandugur mann / hann var og cancellere. Og Jehiel Hachmoni

moni son var hia konungsens bornum.

33 Og * Achitophel var konungsens rad/og ** Husai sa Archite/var konungsens vinur. * 2. Sam. 15/12.
** 2. Sam. 15/37.

34 Og epter Achitophel var Joiada Benaias son og AbJathar/ En Joab var konungsens strijds-hofudsmadur.

## XXVIII. Capitule.

David talar um Drottens Huss Bygging til Hofdingiana/og til sijns Sonar Salomons

Og safnade David ollum Jsraels foringium/ættana hofdingium / og hofdingiunum yfer þeim skipunum/sem þioonudu konungenum/ og hofdingiunum yfer þusund/og hofdingium yfer hundrud/ og hofdingiunum yfer ollu konungsens/ og hans sonar gotse og fie/med herbergia sveinunum/og kappunum/og ollum dugandes monnum til Jerusalem.

2 Og kong David stood a sijnar fætur/og sagde: heyred mier/mijner brædur/ og mitt foolk: * eg hefe teked mier fyrer/ad biggia eitt hus/i hverju Drottens sattmals ork skyllde hvijlast/ og handa vors Guds footskor / og hafde underbued mig til ad biggia.
* 1. Kong. 8/17/ etc.

3 En Gud liet mier seigia: * þu skallt ecke biggia mijnu nafne eitt hus / þvi þu ert eirn strijdsmadur / og hefur uthellt bloode. * 2. Sam. 7/5.
1. Kong. 5/3.

4 Nu hefur Drotten Jsraels Gud utvaled mig af mijns fodurs giorvollu huse/ ad vera Konungur yfer Jsrael æfenlega / þvi hann utvalde * Juda til hofdingia dæmesens/ og i Juda huse / ** mijns fodurs hus/ z a medal mijns fodurs barna / hafde hann þocknan til mijn/ad giora(mig)til konungs yf' allan Jsrael. * 1. Mos. 49/10.
** 1. Sam. 16. 1/12.

5 Og a medal allra minna sona / þvi Drotten hefur giefed mier marga syne/ hefur * hann utvaled Salomon minn son/ ad sitia a Drottens rijkes stoole yfer Jsrael. * Spek. 9/7.

6 Og hann hefur talad til mijn: * þinn son Salomon/hann skal biggia mitt hus/ z mijna garda/þvi eg hefe utvaled mier hann til eins sonar/og eg vil vera honum eirn fader. * 2. Sam. 7/13.

7 Og eg vil stadfesta hans rijke æfenlega/ef hann er stadfastur ad giora mijn bod og mijn riettende/sem a þessum deige.

8 Og nu fyrer alls Jsraels Drottens safnadar augum/ og fyrer vors Guds eyrum/hallded og uppspyried oll Drottens ydar Guds bod / uppa þad þier mættud sitia ad þvi gooda lande/og lata ydar bornum þad til arfs epter ydur æfenlega.

9 Og þu Salomon minn son / þeckt þijns fodurs Gud / og þiona honum i giorvollu hiarta / og i eirne viliugre sal/ þvi * Drotten ransakar oll hiørtu/ og underskendur alla þankana tiecklan. Ef þu leitar hans/mun hann finnast af þier / og ef þu yfergiefur hann/ mun hann burtkasta þier æfenlega.
* Ps. 7/10. etc.

10 Sia nu til/þvi Drotten hefur utvaled þig/ ad biggia eitt hus til helgedoomsens/vertu hughraustur/ z gior þ.

11 Og David gaf Salomon synum syne eina * lijkingu a vopna husenu og hans husum/ z hans herbergium/ og hans solum/og hans herbergium innan til/og a nadar stoolsens huse. * 2. Mos. 25/9.
C. 26/30.

12 Og eina lijkingu uppa allt þad/sem var i andanum/sem var hia honum/sem var a Drottens huss garde/og a ollum herbergiunum i kring/handa fiarstoodunum i Guds huse / og handa heilagleikans fiarstoodum.

13 Og handa prestana og Levitana skipunum/og handa embættesens verke i Drottens huse/og handa ollum þunade i Drottens huss þioonustu.

14 Gulled(gaf hann)epter gull-vigtene/ til allra handa bunings i hverju embætte/(og silfur)til allra handa silfurbunings/ epter vigt/til allra handa bu

nings i hvøriu embætte.

15 Og vigt til þeirra gyllene lioosa-stiaka / og til þeirra gyllene lampa / sierhvørs lioosa stiaka og hañs lampa sÿna vigt/ og til silfur lioosa stiakaña epter vigt til hvørs lioosa stiaka / og hañs lampa / epter hvørs lioosa stiaka þioonustu.

16 Og (hañ gaf) gull epter vigt til skodunar braudaña borda / til hvørs bords/og silfur til silfur bordaña.

17 Og til krookaña / og til muñlaugaña/og til lok-kieraña/hreint gull/ og til gull-bikaraña epter vigt / til hvørs bikars/ og til silfur-bikaraña epter vigt/til hvørs bikars.

18 Og til reykelses altaresens/ hreint gull epter vigt. Og gull til lÿkingareñar a vagnenum / (nefnelega) a cherubim/ sem skylldu utbreida (vængena) og hylia yfer Drottens sattmaals ørk.

19 Alla (þessa hlute) hefur hañ giefed mier/(sagde David/) skÿrlega uppskrifada af Drottens hende/(nefnelega) alla lÿkingareñar giørninga.

20 Og David sagde til sÿns sonar Salomons: * vertu hughraustur/ og hafdu eitt diarft gied/ og giør þad/ ottast ecke / og vert ecke efasamur/þvi Gud Drotteñ/ miñ Gud/mun vera med þier/ hañ mun ecke taka hendena fra þier / ei helldur yfergiefa þig / þar til þu hefur fullkomnad allt verked til embættesens i Drottens huse. * c. 22/13. 5. Mos. 31/6.

21 Og sia/prestaña og Levitaña skipaner til alls embættesens i Guds huse/ þeir eru og med þier til allra verka / þeir eru villuger og vÿser til alls embættes / þar med høfdingiarner / og allt foolked (reidubued) til allra þiña hondlana.

## XXIX. Capitule.

David æmiñer Høfdingiana til Prelates/Packar og ækallar Drotteñ/i hvørium hñ burt sofnar.

Framveiges sagde kong David til alls safnadarens : Salomon sa einaste a medal miña sona / sem Gud hefur utvaled/* er ungur og lÿtelmagna/eñ verked er stoort/ þvi sa bustadur er ecke fyrer eina mañeskiu / helldur fyrer þañ Drotteñ Gud. * c. 22/ 5.

2 Og eg hefe undrebued af øllū mÿnū mætte til mÿns Guds huss/gulled til gull (buningsens/) og silfred til silfur-(buningsens/) og kopareñ til kopar-(buningsens/) og jarned til jarn-(buningsens/) og tried til trie-(buningsens/) Onyx steina/og ad iñsetia / og steina til prÿdes/ og misslita (steina/) og allrahanda gimsteina/ og marga marmara steina.

3 Og eñ þar til / af þvi eg hefe þocknan til mÿns Guds huss / hefe eg sierdeilslega gull og silfur/ sem eg hefe giefed til mÿns Guds huss/uñfram allt þ/sm eg hefe underbued til heilagleikans huss.

4 Þriatiu þusunder centener gulls af Ophirs gulle / og sio þusunder centener hreinsads silfurs / til ad uñslaa husens vegge med.

5 Ad þad skule vera gull sem gull (skal vera/)og silfur sem silfur(skal vera/)og til allrahanda giørnings fyrer meistara hend/og hver er (nu)* velvilliugur til/ ad uppfylla sÿna hend i dag fyrer Drottne? * 2. Mos. 35/ 5.

6 Þa voru fedraña høfdingiar / og Israels ætta høfdingiar/ ꝛ høfdingiarner yfer þusundum og yfer hundrudum / og høfdingiarner yfer konungsens verke f. velvilliuger.

7 Og þeir gæfu til embættesens i Guds huse/ fim̄ þusund centener gulls/ og tÿu þusund gyllene / og tÿu þusund centener silfurs/og atiaan þusund centener kopars og hundrad þusund centener jarns.

8 Og hia hvørium sem urdu fundner * steinar/ þa gæfu þeir til Drottens huss fiaarsiooda/ i Jehiels þess Gersonita hond. * 2. Mos. 35/ 27.

9 Og foolked var gladt/ad þeir voru velviliuger/ þvi þeir gæfu Drottne af øllu hiarta / frÿviliuger. Og kong David gladde sig ogso stoorlega.

10 Og David lofade Drotteñ fyrer þeim giørvøllum sofnude/og David sagde: lofadur vertu Drotteñ Israels vors fødurs Gud/

Gud/ fra eilijfd og til eilijfdar.

11 Þier Drottēñ ber tigneñ og magteñ / og vegsemdeñ/ og sigureñ/ og heidureñ/ þvi allt i Himnenũ z a Jorduñe/ (sem/) rijked er þitt/ Drottiñ/ og þu ert upphaf- eñ yfer allt til eins höfuds.

12 Og rijkdoomureñ og dijrdeñ eru fyrer þier/ og þu stioornar yfer öllum hlutum/ og magt og kraptur er i * þiñe hende/ og i þiñe hende (stendur/) ad giora þad allt stoort og sterkt. * 2. Kron. 20/ 6.

13 Og nu vor Gud/ vier þöckum þier/ og prijsum þiñar vegsemdar nafn.

14 Þvi hver er eg? og hvad er mitt foolk? ad vier skylldum hafa maatt til ad giefa velviliuglega / sem þetta (geingur til?) þvi þad er allt af þier/ z af þiñe hende höfum vier giefed þier þad.

15 Þvi * vier erum framande og giester fyrer þier / lijka sem aller vorer fedur / Vorer dagar a Jördune eru sem eirn ** skugge/ og hier er eingeñ vænting.

* Ps. 39/ 13. etc. ** Job. 14/ 2.

16 Drotteñ vor Gud / öll þesse gnoctt/ sem vier höfum tilætlad ad biggia þier eitt hus/ til þijns heilaga nafns/ hun er af þiñe hende/ og hun er öllsömun þijn.

17 Og miñ Gud/ eg veit/ ad þu * rañsakar hiortuñ/ og elskar froomleik. (Þar fyrer) hefe eg i mijns hiarta froomleika giefed alla þessa (hlute) velviliuglega / og hefe nu med glede sied þitt foolk / sem hier panst/ ad þad hefur giefed þier frijviliuglega. * Ps. 7/ 10. etc.

18 Drotteñ / Abrahams / Isaaks og Israels/ * vorra fedra Gud/ vardveit þetta æfenlega / ad skicka þijns foolks hiartans þaunkum / og tilreid þeirra hiarta til þijn. * 3. Mos. 3. 6/ 15/ 16. C. 4/ 5. 1. Kong. 18/ 35. P. G. 3/ 13.

19 Og gief mijnum syne Salomon eitt rieett skickad hiarta/ ad hallda þijn bod/ þijna vitnesburde og þijna setninga / og ad giora þad allt/ og ad biggia þañ bustad / sem eg hefe fyrerætlad.

20 Sijdañ sagde David til þess alls safnadar: lofed nu Drotteñ ydar Gud/ og allur söfnudureñ lofade Drotteñ þeirra fedra Gud/ og beigde sig/ og tilbad fyrer * Drottne og fyrer kongenum. * Ordsk. 24/ 21.

21 Og þeir offrudu Drottne fornũ / og offrudu brenne-foornum fyrer Drotteñ þañ añan dag þar epter / þusund uxum / þusund hrutum/ þusund lömbum/ og þeirra drickiar-offre/ og mörgum fornum fyrer allañ Israel.

22 Og þeir aatu z druncku fyrer Drottens auglite/ a þeim sama deige med storre glede/ og giördu añad siñ * Salomon Davids son til konungs / og smurdu (hañ) Drottne til eins höfdingia/ og Zadok til prests. * 1. Kong. 1. 33.

23 So * sat Salomon a Drottens stole/ eirn konungur i hijns födurs Davids stad/ og vard luckusamur/ og allur Israel var hönum hlijdeñ.

* C. 28/ 5. 1. Kong. 1. 35/ 39.

24 Og aller þeir yppurstu og vollduger/ ogso öll kong Davids börn gaafu sig under kong Salomon.

25 Og Drotteñ giörde Salomon megtugañ i vegsemd/ fyrer alls Israels augum / og gaf hönum konunglega dijrd / sem eingeñ konungur hafde fyrer hañ yfer Israel.

26 So var David Isai son konungur yfer öllum Israel.

27 Eñ * tijmeñ sem hañ var konungur yfer Israel/ er fiörutiju aar. I Hebron rijkte hañ sio aar/ og i Jerusalem rijkte hañ þriu og þriatiju (aar.)

* 1. Kong. 2/ 11. etc.

28 Og hañ deyde i eirnre goodre elle/ saddur af dögunũ/ rijkdom og vegsemd.

29 Og Salomon hañs son vard konungur i hijns stad. Eñ konungs Davids giörningar/ þeir fyrstu og sijdustu/ siaa/ þeir eru skrifader a medal Samuels þess siaanda orda/ og a medal Natans spaamañs orda/ og a medal * Gads þess siaanda orda. * C. 21/ 9.

30 Med öllu sijnu rijke/ og hijns magt/ og tijmunum/ sem komu yfer hañ / og yfer Israel/ og yfer öll rijkeñ i landenu.

ENDER

a þeirre fyrre Kronikaña Book.

# Su Aunnur Kronicaña Book

## I. Capitule.

Salomons Rijkdoomur og Vijsdoomur.

Og Salomon Davids son * styrkte sig i sijnu rijke/ og Drottẽ hañs Gud var med hønum/ z giørde hañ stooraũ harla miog. * 1. Kong. 2. 12/46.

2 Og Salomon sagde til alls Israels/ til þeirra yppurstu yfer þusundum og hundrudũ/ og til doomaraña/ og til allra høfdingiaña/ fyrer øllũ Israel/ þeirra yppurstu fedra.

3 Og þeir geingu burt/ Salomon og allur søfnudureñ med hønũ/ til þeirrar hædar/ sem var i Gibeon/ þvi þar var Guds samkundu tialldbud/ sem Mose Drottẽs þienare hafde giort i eydemørkeñe.

4 Eñ David hafde fært Guds ørk upp fra Kiriath Jearim/ til (stadarens/) sem David hafde tilreidt til heñar/ þvi hñ hafde reist eitt tiallđ til heñar i Jerusalem.

5 Og þad * kopar-altare/ sm̃ Bezaleel Uri son/ Hurs sonar/ giørde/ var þar fyrer Drottẽs tialldbud/ og Salomon og søfnudureñ vitiudu þess.

6 Og Salomon uppstie þar til kopar-altaresens fyrer Drottẽs augsyn/ sem var fyrer samkunduñar tialldbud/ og offrade a þvi þusund breñe-foornum.

7 A * þeirre sømu noott openberadest Gud fyrer Salomone/ og sagde til hañs: bid/ hvad eg skal giefa þier.

* 1. Kong. 3/5.

8 Og Salomon sagde til Guds: þu hefur giørt stoora myskunsemd vid David miñ fødur/ og giørt mig til konungs i hañs stad.

9 Lát nu Drottẽ Gud/ þitt ord vera satt til mijns fødurs Davids/ þvi þu/ þu hefur giørt mig til konungs yfer eitt foolk/ sem eru so marger sm̃ dupt a Jørduñe.

10 Gief mier nu vijsdoom og forstand/ ad eg kuñe ganga ut og iñ fyrer þessu folke/ þvi hvør kañ (añars) dæma þetta þitt mikla foolk?

11 Þa sagde Gud til Salomon: med þvi ad þad var i þijnu hiarta/ og þu hefur ecke beded um̃ rijkdoom/ gots og vegsemd/ edur um̃ þiña fiandmaña sal/ og ecke helldur beded um̃ eitt langt lijf/ helldur beded þier vijsdooms og forstands/ ad þu kyñer dæma mitt folk/ yfer hvørt eg hefe giørt þig til konungs.

12 So sie vijsdoomur og forstand giefed þier/ * þar med vil eg giefa þier rijkdoom/ og gotz og vegsemd/ (slijkt) sem eingeñ konungur/ sem hefur vered fyrer þig/ hefur haft/ ei helldur skal nockur epter þig slijkt hafa. * Eph. 3/20.

13 Og Salomon kom til Jerusalem/ fra þrre hæd/ sm̃ var i Gibeon/ fra samkunduñar tialldbud/ og rijkte yfer Israel.

14 Og * Salomon safnade vøgnum og reidmøñum/ og fieck þusund og fiøgur hundrud vagna/ z tolf þusund reidmeñ/ og sette þa i vagn-stadena/ og hia konungenũ i Jerusalem. * 1. Kong. 10/26.

15 Og konungureñ * giørde silfred og gulled i Jerusalem/ sem steina/ z cedrus trien/ sm̃ morber-trien/ þar eru i dølunum i margfiølda. * c. 9/27.

16 Og tollur af hestunum var sa/ sem Salomon heyrde til af Ægyptalande/ (og vidvijkiande) ofnu (verke/) kongsens kaupmeñ tooku þ ofna(verk) i betaling.

17 Og þeir fooru upp/ og utfærdu af Ægyptalande/ eirn vagn fyrer sex hundrud silfur-(peninga/) og eirn hest fyrer hundrad og fimtiju/ Og so færdu þeir þ ut til allra þrra Hethita konunga/ z til konungaña i Syria/ þ þrra hønd.

## II. Capitule.

Salomons Um̃sorgun fyrer Musteres Bigginguñe.

Og

Og Salomon þeinkte um̃ ad byggia Drottens nafne eitt hus / og sijnu rijke eitt hus.

2 Og Salomon * talde siø þusund meñ / til byrda / og attatiju þusund timburmeñ / a fiallenu / og þriu þusund og sex hundrud tilsioonar meñ yfer þa. * 1. Kong. 5 / 15.

3 Og Salomon * sende til Huram / kongsens i Tyro / og liet hønum seigia: ** eins sm̃ þu giørder vid David miñ fødur / og sender hønum cedrus / ad biggia sier eitt hus med / ad bua þar i / (so giør og vid mig.) * 1. Kong. 5 / 2.
** 2. Sam. 5 / 11. 1. Kron. 14 / 1.

4 Sia / eg vil biggia Drottens mijns Guds nafne eitt hus / ad helga þad fyrer hañ / til ad upptendra kostulegt reykelse / fyrer hañs augsijn / og ydugleg skodunar-braud / og breñe-offur um̃ morgun og aptan / a sabbatum̃ / og a (nij) manudum / og a Drottens vors Guds hatijdum / þetta æfenlega fyrer Jsrael.

5 Og þad hus / sem eg vil biggia / skal vera stoort / þvi * vor Gud er stærre eñ aller guderner. * Ps. 86 / 8.

6 Þo / hvør kañ megna / ad biggia hønum eitt hus? þvi * Himnarner og Himnaña Himnar kuña ecke grijpa hñ / og hvør er eg / ad eg skyllde biggia hønum eitt hus? eñ til ad giøra reykelse fyrer hañs auglite / (vil eg biggia þad.)
* C. 6 / 18. 1. Kong. 8 / 27.

7 So send mier nu eirn vijsañ mañ til ad erfida / i gulle / og i silfre / og i kopar / og i jarne / og i skarlate / og purpura / og i blau silke / og þañ sem kañ vel utgrafa med þeim vijsu / sem eru hia mier i Juda og i Jerusalem / hvøria David miñ fader hefur tilætlad.

8 Og send mier cedrus-trie / grene og algunim af Libanon / þvi eg veit / ad þijner þienarar kuña høggva trie a Libanon / z sia / mijner þienarar skulu vera med þijnum þienurum.

9 Og ad tilbua mier mørg trie / þvi þad hus / sem eg vil biggia / skal vera stoort og sierdeiles legt.

10 Og sia / eg vil giefa timburmoñunum / þijnum̃ þienurum̃ / sem høggva trien / * tuttugu þusunder cor malads hveites / z tuttugu þusunder cor bigg / z tuttugu þusunder bath vijns / og tuttugu þusunder bath oliu. * 1. Kong. 5 / 11.

11 Þa svarade Huram / konungureñ af Tyro fyrer skrif / og sende til Salomon: af þvi Drotteñ elskar sitt foolk / hefur hñ sett þig til konungs yfer þa.

12 Framar sagde Huram: * lofadur vere Drotteñ Jsraels Gud / sem hefur giort Himineñ og Jordena / ad hañ gaf kong David eirn vijsañ / higgeñ og forstanduguñ son / sm̃ skal byggia Drottne eitt hus / og sijnu rijke eitt hus. * 1. Kong. 5 / 7.

13 So sende eg nu eirn vijsañ mañ / sem hefur forstand / (og hefur v[illegible]) hia mijnum fødur Huram.

14 Sem er eirnrar kvinnu son af Dans dætrum / og hñs fader eirn madur af Tyro / sem kañ * erfida i gulle / og i silfre / i kopar / i jarne / i steine / og i trie / i skarlate / i blau silke / i bysso / og i purpura / og ad utgrafa allrahanda / og artuglega ad upphugsa allrahanda / hvad mañ setur hønum fyrer / med þijnum vijsu / og med mijns herra Davids þijns fødurs vijsum. * 2. Mos. 31 / 3.

15 So sende nu miñ herra hveited og bigged / oleum og vijned til siña þienara / sem hñ hefur sagt.

16 So viljum vier høggva trien af Libanon / sm̃ þier þurfunges verdur (giøresst /) og vier viljum færa þau til þijn i flotum a hafenu giegnt Japho / z þu skallt færa þau upp til Jerusalem.

17 Og Salomon talde alla þa framande meñ / sem voru i Jsraels lande / epter þa tølu / sem David hañs fader talde þa / og þar voru fundner hundrad og fimmtiju þusunder / z þriar þusunder og sex hundrud.

18 Og hñ sette * siøtiju þusunder til drattar-maña af þeim / og attatiju þusunder til høggvara a fiallenu / og þriar þusunder og sex hundrud til tilsioonar maña / sem skylldu hallda foolkenu til erfides. * 1. Mos. 5 / 15.

3. Cap.

## III. Capitule
### Musteresens Bigging.

Og Salomon * biriade ad biggia Drottens hus i Jerusalem a Moria fialle/sem var syndt David hañs fødur / hvørt hñ hafde tilbued a Davids stad/ i ** Ornans þess Jebusita hladgarde.

* 1. Kong. 6 / 1. ** 2. Sam. 24/ 25. 1. Kron. 21/18.

2 Og hañ byriade ad biggia i þeim ødrū mánade a þeim ødrum ( deige ) a syns rijkes fioorda áre.

3 So lagde Salomon grundvølleñ til ad biggia Guds hus / Leingdena epter ál num i þeirre fyrstu mæling/sextyu alner/ og breiddena tuttugu alner.

4 Og vopnhused / sem var framaftil / var a leingd / epter breiddeñe a husenu / tuttugu (alna) langt/eñ hædeñ var hund rad og tuttugu alner/og hañ um̃sloo þad innañtil med hreint gull.

5 Eñ þad stoora hus þiliade hañ med furu-trie/ z um̃sloo þad med goodu gulle/ og giørde þar a palma og hleckia(verk.)

6 Og sette hused med gimsteinum til pryddes/ z gulled var af Parvaims gulle.

7 Og hañ um̃sloo hused/ bitana/ stafena/ og veggena þar af / og dyrnar þar af/ med gull / og liet utgrafa cherubim a veggena.

8 Hañ giørde og þess helgasta hus/hvørs leingd var tuttugu alner/ epter hussens breidd/ og þess breidd var tuttugu alner / Og um̃sloo þad med goodu gulle/ hierum sex hundrud centener.

9 Og vigteñ a saumnum var fim̃tyu sekla gulls/Og hñ umsloo salena med gull.

10 Hañ giørde og i þess helgasta huse tuo cherubim/med hrærañlegra (bylæta) verke / Og mañ um̃sloo þa med gulle.

11 Og leingdeñ a vængunum a cherubim var tuttugu alner / þess eina vængur var fim̃ alner/ og náde a hussens vegg / sa añar vængur (var og) fim̃ alner/sem náde til þess añars cherubs vængs.

12 So (hafde) og sa añar cherub eirn væng fim̃ alna (langañ/) sem snerte vid hussens vegg/ og þañ añañ væng fim̃ alna(langañ/)sem kom vid þess añars cherubs væng.

13 Þesser þeirra cherubims vænger voru utbreidder tuttugu alner / Og þeir stoodu a þeirra fotum/ z þeirra andlit sneru til hussens.

14 Hañ giørde og for-tialled af blau (silke/) og skarlate / z purpura/og bysso/ og giørde cherubim þar a.

15 Hñ giørde og * tvo stoolpa fyrer husenu/þriatyu og fim̃ alna hæa/og knappa sem voru þar ofañ a/ fim̃ alna.

* 1. Kong. 7/ 15/ etc.

16 Og hañ giørde hleckia-(verk/) sem i chornum/og feste þad ofañ a stolpana/ og giørde hundrad granata-eple/ og feste a hleckena.

17 Og hañ uppreiste stolpana fyrer musterenu / eirn a þa hægre sydu/ og hiñ añ añ a þa vinstre sydu. Og kallade þess nafn a þa hægre sydu / Jachin/og þess nafn a þa vinstre sydu / Boas.

## IV. Capitule.
### Musteresens Verkfære.

Hañ giørde z eitt * kopar-altare/ tuttugu alna langt og tuttugu alna breitt/ og tyu alna hátt.

* C. 7 / 7.

2 Þar med giørde hañ * þad steipta haf/ tyu alna (vydt) fra (þeim eina) barme þar a til (þess añars) barms þar a/ allt um̃ kring/ og fim̃ alna hátt / og ein mæling/ þriatyu alna/ (laung/) took þad um̃ kring. * 1. Kong. 7 / 23. etc.

3 Og þar voru uxa minder under þvi/ sem geingu allt um̃ kring þad / til tyu alna/ sem stoodu allt um̃ kryng hafed / Tvær rader uxa voru steiptar þar a.

4 Þad stood a tolf uxum / so ad þre mur var snued i moot nordre / og þremur snued moot vestre/og þremur snued moot sudre / og þremur snued moot austre/ og hafed ofañ a þeim / og øllum þeirra bakhlutum var (snued) iñ ad.

5 Og þ var eirnar þverhandar þyckt / og barmureñ þar a var eins sem eirnar muñlaugar barmur/(eda sem) bloomstur a eirnre liliu/ þ took þriu þusunder bath.

6 Og hañ giørde * tyu katla og sette

finn til þeirrar hægre sijdu / z fimm til þeirrar vinstre sijdu / ad þvo i þeim / Hvad sem heirde til brenne-offrenu / stungu þeir þar i / Enn hafed var / ad prestarner skilldu þvo sig þar i. * 1. Kong. 7 / 38.

7 Og hann giørde tiju * lioosastiaka af gulle / eins sem þeir skilldu vera / og sette i musrered / fimm a þa hægre sijdu / og fimm a þa vinstre sijdu. * 1. Kong. 7 / 49.

8 Og hann giørde tiju bord / og sette i musrered / fimm a þa hægre / og fimm a þa vinstre sijdu / Og hann giørde hundrad munnlaugar af gulle.

9 Hann giørde og eirn gard fyrer prestana / og eitt stoort gangrum / Og dyr a gangrumenu / z umsloo dyrnar med kopar.

10 Og hann sette hafed i þad hægra hornn i moot austre sunnann til.

11 Þar med giørde Huram potta / z skoflr z munnlaugar / So fullkomnade Huram erfided / sem hann giørde fyrer kong Salomon a Guds huse.

12 (Sem voru) þeir * tveir stoolpar med listanum og knoppunum ofann a bædum stoolpunum / Og tvenner hleckier ad hylia bæda listana a knoppunum / sem voru ofann a stoolpunum. * 1. Kong. 7 / 15. etc.

13 Og þau fiogur hundrud granataeple a bædum hleckiunum / tvær rader granata epla a hvørium hleck / ad hylia knappana bæda lista / sem voru ofann a stolpunum.

14 Og hann giørde stoolana / og giørde katlana ofann a stoolunum.

15 Þad eina haf / og þa tolf uxa þar under.

16 Þar med pottana / og skofurnar / og krokana.

17 Og alla þeirra bunade giørde Huram Abiel / fyrer kong Salomon til Drottens huss / af hreinum kopar.

18 A * Jordans slietlende / liet konungurenn steypa þa i þiettre Jørd / i millum Succoth og i millum Zaredatha.
* 1. Kong. 7 / 46.

19 Og * Salomon giørde alla þessa bunade miøg marga / ad mann kunne ecke vita vigtena a koparnum.
* 1. Kong. 7 / 48.

20 Og Salomon giørde allann bunadenn til Guds huss / og þad gull-altare / og bordenn / og skodunar braudenn þar a / og liloosastiakana med þeirra lampum / af þicku gulle / ad upptendra þa / sem þad byriade / fyrer chornum.

21 Og bloomstrenn / z lamparner / og lioosa sexenn voru af gulle / þad var fullkomed gull.

22 Þar med psaltararner / og bikararner / og skeidernar / og skalernar / voru af þicku gulle / (vidvijkiande) inngangenum til hussens / hanns dyr / inn ad þvi heilagasta / og dyrnar a mustere sens huse / voru af gulle.

## V. Capitule.

### Musteresens Vigsla.

So vard allt verked fullkomnad / sem Salomon giørde a Drottens huse / Og Salomon bar inn þad * sem David hans fader hafde helgad / og silfred og gulled / og alla bunadena lagde hann i fiærsioodenn i Guds huus. * 1. Kong. 7 / 51.
1. Kron. 28 / 14. etc.

2 Þa safnade Salomon til Jerusalem þeim ellstu i Israel / og allra ættanna foringium / fedranna høfdingium a medal Israels barna / ad uppfæra Drottens sattmalsørk af Davids stad / þad er Zion.

3 Og aller Israels menn søfnudust * til konungsens a hatijdenne / þad er i þeim siøunda manade. * 1. Kon. 8 / 2.

4 Og aller Israels ellstu komu / og Levitarner tiptu ørkenne upp.

5 Og þeir færdu ørkena upp / og samkunnunar tialldbud / z alla þa heilogu bunade / sem voru i tialldbudenne / þa uppfærdu prestarner og Levitarner.

6 Enn kong Salomon / og allur Israels søfnudur / þeir sem voru safnader til hanns fyrer ørkenne / offrudu saudum og uxum / sem ecke kunnu teliast / ei helldur reiknast fyrer margfiølda.

7 So færdu prestarner Drottens sattmals ørk til hennar stadar / inn i choren i husenu / i þad helgasta / inn under þa cherubims vænge.

8 Þvi cherubim utbreiddu vængena yf-

er arkareñar stad / og þeir cherubim huldu yfer ørkena / z yfer heñ^r staung um ofañ til.

9 Þar epter droou þeir steingurnar ut / ad mañ sꝍ knappana af steingunum framañ a ørkeñe i chornum / Eñ utañ til sꝍ mañ þa ecke / Og hun var þar allt til þessa dags.

10 Þar * var eckert i ørkeñe / utañ þær tvær tøblur / sem Mose lagde (þar i) i Horeb / þegar Drottẽ giørde (sattmꝍl) vid Israels børn / þegar þeir fooru af Ægyptalande. * 1. Kong. 8 / 9. etc.

11 Og þad skiede / þegar prestarner geingu ut af þvi heilaga / Þvi all^s prestar sem fundust / høfdu helgad sig / so ad þeir hielldu ecke skipununum.

12 Og Levitarner / saungvararner / af øllum / sꝫ voru under Asaph / Heman / Jedithun / og under þeirra børnum / og þeirra brædrum / færder i lyn klæde / med cimbalis og med psølturum / og hørpum / stoodu austañvert hia altarenu / og hundrad og tuttugu prestar med þeim / sem bliesu i bꝍsunurnar.

13 Og þar var sem eirn (af þeim) sem trometade og synge / ad heyra eina raust / ad lofa og þacka Drottne / Og þegar þeir upphoofu raustena i bꝍsunum og i cimbalis / og i (ødrum) løngum hliod færum / og i þvi mañ lofade Drottẽ / (so þar sagdest:) þvi hñ er goodur / þvi hañs myskunseme er eiliflig / þa vard hused fullt med eina þoku / (þad er) Drottẽs hus.

14 Og prestarner kuñu ecke standa ad þioona fyrer þokuñe / Þvi * Drottẽs dyrd fyllte Guds hus. * 2. Mos. 40 / 34

## VI. Capitule.

### Salomons Bæn i Musterinu.

Þa sagde Salomon: * Drottẽ hefur sagt / ad hañ villde bua i dimuñe. * 1. Kong. 8 / 12. 2. Mos. 20 / 21.

2 Og eg / eg hefe biggt eitt hus / þier til eins bustadar / og eiñ stad til þyns sætes æfenlega.

3 Þar epter snere konungureñ synu andlite / og blessade allañ Israels søfnud / Þvi sa giørvallur Israels søfnudur stood.

4 Og hañ sagde: lofadur vere Drottẽ Israels Gud / sem hefur talad med synum muñe til Davids myns fødurs / og fullkomnad med synum høndũ / þar hañ sagde:

5 Fra þeirre * tyd / þegar eg utfærde mitt foolk af Ægyptalande / hefe eg ecke utvaled eirn stad af øllum Israels ættum / til ad biggia eitt hus / ad mitt nafn skyllde vera þar / ecke helldur hefe eg utvaled nockurn / ad vera eirn høfdingia yfer mitt foolk Israel. * 2. Sam. 7 / 6.

6 Eñ eg hefe utvaled Jerusalem / ad mitt nafn skule vera þar / Og utvaled David / ad vera yf^r mynu folke Israel.

7 David miñ fader hafde og i siñe / ad biggia Drottẽs Israels Guds nafne eitt hus:

8 Eñ Drottẽ sagde til Davids myns fødurs: med þvi þad var i þynu hiarta / ad biggia mynu nafne eitt hus / þa giørder þu vel / af þvi þad var i þynu hiarta.

9 Þo skalltu ecke biggia þad hus / Helldur * þiñ sonur / sꝫ skal utkoma af þynum lendum / hañ skal biggia hused hañda mynu nafne. * 1. Kron. 29 / 6.

10 So hefur (nu) Drottẽ stadfest sitt ord / sem hañ talade / Þvi eg er uppkomeñ i Davids myns fødurs stad / og sit a Israels stoole / so sem Drottẽ hefur talad / og eg hefe biggt Drottẽs Israels Guds nafne eitt hus.

11 Og eg hefe sett ørkena þar i / þar sem Drottẽs sattmꝍle er / sem hñ hefur giørt vid Israels børn.

12 Og hañ gieck fram fyrer Drottẽs altare / fyrer øllum Israels søfnude / og utriettte synar hendur.

13 Þvi Salomon hafde giørt eirn koparkietel / og sett hañ mitt i gardeñ / fim alna i siñe lengd / og fim alna i siñe breidd / og þriggia alna i siñe hæd / og hañ stood hia hønum / og kraup a syn kne fyrer øllũ Israels søfnude / og upp

rette

riettke sijnar hendur moote Himnenum.

14 Og hann sagde: Drottenn Israels Gud/ þar er eingenn Gud sem þu/ i Himnenum/ edur a Jördunne/ sem helldur sätt mäla og myskunseme vid þijna þienara / sem ganga fyrer þijnu auglite / i þeirra giörvöllu hiarta.

15 Sem hefur efnt þijnum þienara David mijnum födur þad þu talader til hanns/ þvi þu hefur talad med þijnum munne/ og fullkomnad med þinne hende/ so sem a þessum deige.

16 Og nu/ Drottenn Israels Gud/ efn þijnum þienara David mijnum födur/ þad þu * talader til hanns/ og sagder: þig skal ecke vanta einn mann fra mijnu auglite/ sem skal sitia a Israels stoole/ Þo so framt þijn börn vardveite þeirra veg/ ad ganga i mijnu lögmaale/ eins sem þu hefur geinged fyrer mijnu auglite. * 2. Sam. 7/ 16.

17 Og nu/ Drottenn Israels Gud/ lät þitt ord vera satt / sem þu talader til þijns þienara Davids.

18 Enn sannarlega/ munde Gud kunna ad bua hia manneskiunne a Jördunne? sia / * Himnarner og Himnanna Himnar kunna ecke ad taka þig/ hvörnenn skyllde þetta hus/ sem eg hefe biggt? * Es. 66. 1. etc.

19 Snu þier þo til þijns þienara bænar / og til hanns beidne / Drottenn minn Gud/ ad heyra þad hroop og bæn/ sem þinn þienare bidur fyrer þijnu auglite.

20 Ad þijn augu mætte vera openn yfer þessu huse dag og noott/ yfer þessum stad/ sem * þu hefur sagt/ ad setia þitt nafn þar/ Ad heyra þa bæn/ sem þinn þienare mun bidia a þessum stad. * 2. Mos. 20/ 24.

21 So heyr nu til þijns þienara og þijns foolks Israels bæna/ sem þeir munu bidia a þessum stad/ og heyr þu þad af þijns heimkinnes stad / fra Himnenum/ ja heyr og vert nadugur.

22 Þar sem nockur syndgar i moote sijnum naunga/ og * honum verdur eidur eydur uppalagdur/ sem hann skal sveria/ og eydurenn kiemur fyrer þitt altare i þessu huse: * 2. Mos. 22/ 11.

23 Þa heyr af Himnenum/ og giör / og dæm þijna þienara/ ad betala þeim ogudlega/ ad gieva hanns veg a hanns höfud/ Og riettlata þann riettferduga / ad gieva honum epter sijnu riettlæte.

24 Þar sem og þitt foolk Israel verdur * sleiged fyrer (þeirra) ovinum/ af þvi þeir hafa syndgad i moote þier / og þeir umvenda sier/ og medkienna þitt nafn/ og bidia/ og grätbæna fyrer þijnu auglite i þessu huse. * 5. Mos. 28/ 25.

25 Þa heyr af Himnenum/ og vertu nadugur yfer þijns foolks Israels syndum/ og fær þa aptur i landed / sem þu gafst þeim og þeirra fedrum.

26 Nær * Himenenn er tilbyrgdur/ ad þad ecke rigner/ af þvi þeir hafa syndgad moot þier/ og þeir bidia i þessum stad/ og medkienna þitt nafn/ og umvenda sier fra þeirra syndum / nær þu hefur plagad þa. * 5. Mos. 28. 23/ 24.

27 Þa heyr i Himnenum/ og vertu nadugur/ yfer þijna þienara/ og þijns foolks Israels syndum/ nær þu hefur kient þeim þann gooda veg/ i hvörium þeir skulu ganga/ og lät rigna a þitt land/ sem þu gafst þijnu foolke til arfs.

28 Nær * hungur kiemur i landed/ nær þar verdur drepsoott / þurkur og brune / nær þar verda grashoppur og kalormur/ nær þeirra fiandmenn setiast umm þeirra port i landenu/ edur nockur plaga/ edur nockur siukdoomur (skyllde uppakoma.) * C. 20/ 9. etc.

29 Ad hvor helst (þa) bidur/ og grätbæner þig af allrahanda manneskium/ og a medal alls þijns foolks Israel/ nær þeir þeckia hvor sijna plagu / og sijna eymd/ og (nockur) * utrietter sijnar hendur til þessa huss: * v. 12/ 13.

30 Þa heyr af Himnenum/ af þijns sætes heimkinne/ og vert nadugur/ og gief hvörium epter öllum sijnum vegum/ epter þvi sem þu þecker hanns hiarta/ þvi þu/ * þu einn þecker manneskiunnar barna hiarta. * Ps. 7/ 10.

31 Ad þeir skule ottast þig/ ad ganga a þijnum vegum alla daga/ so leinge þeir lifa i landenu/

landenu/ sm̄ þu hefur gefed vorū fedrū.
32 Widvijkiande so og þeim framanda/ hvør ecke er af þÿnu foolke Israel/helld ur mun koma af framande lande/ fyrer þÿns þess stoora nafns/og þinar megtugu handar/ og þÿns utrietta armleggs skulld/ Nær þeir koma/og bidia gagnvart þessu huse.
33 Þa heyr af Himnenum/af þÿns sæt es heimkyñe/og gior epter ollu þvi/hvar fyrer sa framande hroopar til þÿn/Uppa þad allt foolk a Jordūñe/ meige þeckia þitt nafn/og ottast þig/eins sem þitt foolk Israel/og ad þeir meige vita/ad þetta hus/ sem eg hefe biggt/ er nefnt epter þÿnu nafne.
34 Nær þitt foolk dregur ut til striidsens i moote sijnū fiandmoñū/a veigenū/hvar þu sender þa/& þeir bidia til þÿn a veigenū til þessa stadar/sem þu utvallder/ og til hussens/ sem eg biggde þÿnu nafne:
35 Þa heyr þeirra bæn/og þeirra beidne af Himnenum/og hiælpa þm̄ til rietta.
36 Nær þeir syndga i moote þier/med þvi þar er * eingen maneskia/ s̄ vijst ecke syndgar/ & þu verdur reidur uppa þa/og gefur þa under þeirra fiandmeñ/ad þeir føre þa fangna (burt/) færande þa fangna(burt) i eitt land langt burtu eda nær/ * 1. Kong. 8/ 46. etc.
37 Og þeir læta þad ganga sier til hiarta i landenu/ sem þeir eru fangner/ad þeir umvenda sier/og bidia til þÿn i þeirra fangelses lande/ og seigia: * vier høfū syndgad/misgiort/og breitt ogudlega. * Ps. 106/ 6. Dan. 9/ 5.
38 Og þr umvenda sier til þÿn i þeirra giorvøllu hiarta/ og i þeirra giørvallre sal/ i þeirra fangelsis lande/ þar sem mañ helldur þeim faungnum/ og þeir bidia moot vegenum til þeirra lands/ sem þu gafst þeirra fedrum/ og * til stadarens/ sem þu utvalder/ og til hussens/sm̄ eg hefe biggt þÿnu nafne: * Dan. 6/ 10.
39 Þa heyr þeirra bæn/og þeirra beidne af Himnenum/af þÿns sætes heimkyñe/og hiælpa þeim til rietta/og vert þÿnu foolke nædugur/sem hefur syndgad i moote þier.
40 So læt nu/ miñ Gud/ þÿn augu vera opeñ/og læt þÿn eyru giefa gaum ad þrre bæn/ (sm̄ skiedur) i þssū stad.
41 Og * tak þig nu upp/ Drottleñ Gud/til þiñar hvijldar/þu og þÿn sattmals ørk/ Drottleñ Gud/læt þÿna presta verda klædda med hiælpræde/ og læt þÿna heilaga gledia sig i þvi goda.
* 4. Mos. 10/ 35. etc.
42 Drottleñ Gud/ snu ecke þÿnu auglite burt fra þÿnum smurda/ þeink a þa miklu myskunseme(sm̄ þu audsynder) * David þÿnum þienara.
* 2. Sam. 7/ 13.

## VII. Capitule.

### Musteris Vijgslañ fullgiørest.

Og þa Salomon hafde utbedid/ þa * fiell elldur af Himne/ og forteerde breñe-offrenu/ og slatur-offrenu/og * * Drottens dijrd fylldte huised. * 3. Mos. 9/24. 1. Kong. 18/ 38. ** 2. Mos. 40/ 34. etc.
2 So prestarner kuñu ecke ganga i Drottens hus/þvi Drottens dijrd fyllte Drottens hus.
3 Þegar oll Israels born sau elldeñ ofañ falla/og Drottens dijrd yfer husenu/ þa beigdu þeir sig med asioonunum nidur til Jardar/a goolfed/ og tilbadu/og þackudu Drottne/ad hn̄ er * goodur/ ad hañs myskunseme er eilijf.
* Ps. 136/ 1.
4 Og * konungureñ og allt foolked offrade slatur-offre fyrer Drottne.
* 1. Kong. 8/ 62.
5 Og kong Salomon offrade offre/ tveimur & tuttugu þusund uxū/ & hundrad & tuttugu þusund saudū/ & þeir vijgdu Guds hus/konungureñ og allt foolked.
6 Eñ prestarner stoodu/i þeirra vardtektum/ og Levitarner med Drottens saung-verkfære/ sem konungureñ David hafde lated giora til ad þacka Drottne med/ad hañs myskunseme er eilijf/ þegar David lofade (Gud) fyrer þau/ Og prestarner * bliesu i basunurnar i

moote

mooke þeim/og allur Jſrael ſtood.
* 4. Moſ. 10/ 10.

7 Og Salomon helgade þan̄ midgard/ ſem var fyrer Drottens huſe/ þvi han̄ hafde þar giort bren̄e-offur / og þackar-offurſens feite / Þvi þad * kopar altare/ ſem Salomon liet giøra/ kun̄e ecke taka bren̄e offred / og mat-offred / og þad feita. * c. 4/ 1.

8 Og Salomon hiellt hatijdena a þeirre ſømu tijd ſio daga/ og allur Jſrael med honum/ eirn miøg ſtoor ſøfnud ut/ fra þvi man̄ kemur til Hemath/ allt til Egypti lækiar.

9 Og þan̄ attunda dag hiellt hn̄ eirn forbods (dag/ )þvi altareſens vijgſlu hielldu þeir i ſio daga / og hatijdena i ſio daga. * 4. Moſ. 7/ 10.

10 En̄ a þeim þridia og tuttugaſta deige i þeim ſiøunda manade/ liet han̄ foolked fara til þeirra heimkyn̄a/ glada og med einu goodu giede / yfer þvi gooda / ſem Drotten̄ hafde giort David og Salomon/og Jſrael ſijnu folke.

11 So * fullkomnade Salomon Drottens hus og konungſens hus/ og allt þ/ ſem var komed i Salomons hiarta / ad giøra i Drottens huſe/og i ſijnu huſe/ þar fieck han̄ lucku til. * 1. Kong 9/1.

12 Og Drotten̄ openberadeſt fyrer Salomon um̄ nottena/ og ſagde til han̄s: * eg hefe heyrt þijna bæn / og utvaled mier þen̄an̄ ſtad / til eins offurs huſſ. * 1. Kong. 9/ 2. etc. 5. Moſ. 12/ 5. etc.

13 Sia (nær) eg tilbirge Himenen̄/ad þad ecke rigner / og ſia / (nær) eg bijd graſhoppu ad eta landed / edur nær eg læt drepſott koma a medal mijns folks:

14 Og mitt foolk audmijker ſig/ſem er kallad epter mijnu nafne / og bidia og leita mijns andlites / og ſnua ſier af þeirra þeim vondu vegum/ſo vil eg/ eg heyra af Himnenū/ og forlata þeirra ſynder/og giøra þeirra land heilnæmt.

15 (So) ſkulu nu mijn augu vera open̄/ og mijn eyru giefa gaum ad bænen̄e i þeſſum ſtad.

16 So hefe eg nu utvaled og helgad þetta hus/ad mitt nafn ſkule vera þar æfenlega/ og mijn augu/ og mitt hiarta/ſkule vera þar alla daga.

17 Og þu/ ef þu geingur fyrer mijnu auglite/ ſo ſem David þin̄ fader hefur geinged/ ad giøra epter øllu þvi / ſem eg bijfalade þier / og helldur mijna ſetninga og mijn riettende.

18 (So) vil eg og ſtadfeſta þijns rijkes ſtool/lijka ſem eg hefe ſattmala-bunded mig vid þin̄ fødur David/ og ſagt: þig ſkal ecke vanta eirn man̄/ ſem ſkal vera herra yfer Jſrael.

19 En̄ burt ſnuë þier ydur / og yfergiefed mijna ſetninga og mijn bod ſem eg hefe ſett ydur fyrer/og ganged burt/ og þiooned ødrū gudū/ og tilbidied þa.

20 Þa * ſkal eg uppræta þa af mijnu lande/ſem eg hefe giefed þm̄/ Og þeſſu huſe / ſem eg hefe helgad til mijns nafns/ſkal eg burtkaſta fra mijnu auglite/ og giefa þad til eins ordſkvidar / og ſpotts a medal alls foolks.
5. Moſ. 4. 26. C. 30/ 18.

21 Og a þeſſu huſe/ſem er(ſo) hatt/ ſkal hvør madur undra ſig/ſem geingur fram̄ um̄/og ſeigia: * hvar fyrer hefur Drotten̄ ſo fared med þetta land og med þetta hus? * 1. Kong. 9/8. etc.

22 Og þeir munu ſeigia : af þvi / ad þeir hafa yfergiefed Drotten̄ / þeirra fedra Gud/ſem utfærde þa af Egypta lande/ og hafa teked framande gude/og tilbeded fyrer þeim / og þioonad þeim/ þar fyrer hefur han̄ fært alla þeſſa olucku yfer þa.

## VIII. Capitule.

Salomon liet nockra Stade ſtirkia / og ſende Skip til Ophir.

Og þad ſkiede epter þad * tuttugu ar voru ute / a hvørium Salomon bygde Drottens hus/ og ſitt hus: * 1. Kong. 9/ 10.

2 Þa bigde Salomon og þa ſtade / þa ſem Huram gaf Salomon/ og liet Jſraels børn bua þar.

3 Þar epter for Salomon til Hemath Zoba/ og van̄ hana.

4 Hann bygde z Thadmor i eydemørkenne/ og alla vista stade/ s hn bygde i Hemath:

5 Hann bygde z BethHoron efre z Beth Horon nedre / fasta stade med murum/ portum og staungum.

6 Asamt Baelath/ og alla vista stade/ sem Salomon hafde / og alla vagnsta de/ og reidmanna stade / og allt pad/sem Salomon hafde lyst til ad byggia i Jeru-salem /og a Libanon/og i øllu sijnu herra dæmes lande.

7 Allt pad foolk / sem var epter orded af Hethitanum / og Amoritanum / og Pheresitanum/ og Hevitanum/ og peim Jebusitum/peir sem ecke voru af Jsrael.

8 Af peirra børnum/ sem voru epter af peim i landenu/ * Hveria Jsraels born høfdu ecke eidelagt/pa giørde Salomon skatt-gyllda allt til pessa dags.

* Jos. 16/ 10.

9 Enn af Jsraels bornum voru peir sm Salomon ecke giørde til præla til sijns erf ides / pvi peir voru stryds men / og høfd ingiar yfer hans besta foolke / og høfd-ingiar yfer hans vøgnum og yfer hans reid-mønnum.

10 Og kong Salomons ypparstu byfal-ningsmenn voru tvø hundrud og fimtiju / peir sem riedu fyrer foolkenu.

11 Og Salomon liet sækia * Pharao-nis doottur upp af Davids stad / i pad hus/ sem hann hafde bygt til hennar / pvi hann sagde: mijn hustru skal ecke bua i Davids Jsraels konungs huse / pvi pad er hellagt/med pvi Drottens ørk er kom enn par i. * 1. Kong. 9/24.

12 Pa offrade Salomon Drottne brenne-offre a Drottens altare / sem hann hafde bygt fyrer vopn-husenu:

13 Og hvørium hlut a sijnum deige / ad offra epter * Mose bode / a sabba tunum/og nyu-mannudum / og peir tilsettu tijder priswarsinnum umm ared/ (sem var) a pss osijrda brauds hatijd/z a vikna-na hatijd/og a laufs-skalana hatijd.

* 4. Mos. 28/ 2. etc.

14 Og hann tilsette / epter Davids sijns fødurs vilju/ * prestana skipaner til peir ra pionustu / og Levitana til pess peir skylldu taka vara a / ad lofa/ og pioona fyrer prestunum / til dagligrar utrietting ar a sijnum deige/ og ports-vaktarana i peirra skipaner/ til hvers ports/pvi Da-vid/ sa Guds madur/ hafde so befalad.

* 1. Kron. 24/3. etc.

15 Og peir forlietu eckert af konung-sens bode/ (sem hann giørde) yfer prest-unum og Levitunum i allra handa efn-um / og umm fiarsioodenn.

16 Og Salomons verk var tilbued allt til pess dags grundvøllurenn var lagdur til Drottens hus-s/og til pss hn hafde full komnad pad/ ad Drottens hus var full-komnad.

17 Pa * foor Salomon til EzeonGe-ber/ og til Eloth / hia hafsens strønd i Edoms lande. * 1. Kong. 9. 26/27. etc.

18 Og Huram sende hønum skip fyrer sijna pienara/og pienara lærda uppa sioo enn/og peir komu med Salomons pienur-um til * Ophir/og sooktu padann fra fiøg ur hundrud og fimtiju centener gulls/ og færdu til kong Salomons. * c. 9/ 10.

## IX. Capitule.

### Salomons Vijsdoomur Rijkdoomur og Daude.

Og * Drottningenn af Seba heyr de Salomons rikte/ og kom ad freista Salomons/med diupum spurningum/til Jerusalem/med eirn miøg stooran her / og ulfallda/ sem baru dyrmætar iurter / og miked gull og gimsteina/og hun kom til Salomon / og talade vid hn allt pad / sem var i hennar hiarta. * 1. Kong. 10/ 1. etc.

2 Og Salomon kunngiørde henne øll henn ar ord/og par var eckert huled fyrer Sa lomone / sem hann ei kunngiørde henne.

3 Og pegar drottningenn af Seba sa Salomons vijsdoom/og pad hus/sem hn hafde bygt/

4 Og matenn a hans borde/ og hvernenn hans pienarar biuggu / og hans pienar-ar stoodu/og peirra klæde/ og hans skein kiara/og peirra klæde/ og hns uppgang/ par sm mann gieck upp til Drottens hus/ pa var par ecke andi framar i henne.

5 Og

5 Og hun sagde til konungsens : pad er satt / sem eg heþe heirt i mynu lande / um þyn ryne og um þiñ vysdom.
6 Eñ eg villde ecke trua þeirra ordum / þirt eñ eg er komeñ / og myn augu hafa * ecke sied pad / og sia / mier er * kungiord helþ teñ af þynum mikla vysdoome / Pu hefur meira / eñ pad rykte / sem eg hefe heirt.
7 * Sæler eru þyner meñ / og sæler eru þesser þyner sveinar / þeir sem alltyd stan da fyrer þiñe augsyn / og heira þiñ vysdoom. * Luc. 10 / 23.
8 Drottiñ þiñ Gud vere lofadur / sem heþur þig kiæraň / ad hañ heþur sett þig a siñ stool til konungs til Drottens þyns Guds / * med þvi þiñ Gud heþur Israel kiæraň / ad upprietta hañ æveñlega / par þyrer sette hañ þig til konungs yþer þa / ad þremia doom og riettlæte.
* 1. Kong. 10 / 9.
9 Og hun gaf konungenum hundrad og tuttugu centener gulls / og harla marger jurter og gimsteina / Og par voru ecke sliþ þær somu jurter / er drottningeñ aþ Seba gaf Salomone.
10 Þar til Hurams sveinar / z Salomons sveinar / * sem þærdu gull af Ophir / þeir þærdu algumim trie og dyrmætañ stein. * C. 8 / 18.
11 Og konunguriñ liet giora (aþ) þeim algumim triam (eirn kostulegañ) gang / til Drottens huss / og til konungsens huss / og horpur og psaltara til saunguaraña / Og par var ecke þirr soddañ sied i Juda lande.
12 Og kong Salomon gaf drottningune af Seba / allt pad hun girnteft / sem hun bad uñ / undañteknu þvi / sem hun haþde þært til konungsens / Og (hun) snere vid og foor i sitt land / hun z hennar sveinar.
13 Og pad gull / sem var Salomon þært eitt ar / var sex hundrud sextyju og sex centener gulls.
14 Utañ hvad kramararner og kaupmeñerner þærdu / Og aller konungar aþ Arabia / og herrarner i landenu færdu gull og silþur til Salomons.
15 Og kong Salomon * giorde tvo hundrud skiolldu / aþ slegnu gulle / ad par þooru sex hundrud (stycke) sleged gull til hvors skialldar. * 1. Kong. 10 / 16. C. 14 / 26.
16 Og þriu hundrud smaa skiolldu aþ slegnu gulle / ad par þooru þriu hundrud (stycke) gulls til hvors aþ þeim skiollduñ / og konunguriñ lagde þa i pad hus aþ Libanons skooge.
17 Og konunguriñ giorde * eirn stooran stool af fyls beinum / og umsleo hañ med klaru gulle. * 1. Kong. 10 / 18.
18 Og stooleñ hafde sex troppur og eina gyllene skør æfasta uppad til stolsens / og hañ hafde bryktur a baadar sydur um sætesens stad / og par stoodu tvo leon hia bryktunum.
19 Og toolf leon stoodu par a þeim sex troppum hia baadum sydum / slikt er ecke giort i nockru ryke.
20 Og øll Salomons drickiar-kier voru af gulle / og øll kiereñ / * sem voru i þvi huse / af Libanons skoge / voru af klara gulle / þvi silfur var einkes vert i Salomons tyd. * v. 17.
21 Þvi konungsens skip / sem fooru til Tharsis med Hurams þienurum / þau skip til Tarsis komu einusiñe i þremur arum / sem færdu gull og silfur / fyls bein / og apa z pafugla.
22 So * vard Salomon konungr stærre eñ aller konungar a Jørduñe / med ryke doome og vysdoome. * 1. Kong. 10 / 23.
23 Og aller konungar a Jørduñe gyrntust ad sia Salomons auglit / ad heyra hañs vysdoom / sem Gud hafde giefed i hañs hiarta.
24 Og þeir færdu (honum) hvør syna gaafu / silfur-kier / og gull-kier / og klæde / harneskiu og jurter / hesta og mula / (hvørs) ars hluk a hvøriu are.
25 Og Salomon * atte fiogur þusund stalla til hesta og vagna / og toolf þusund reidmeñ / og þa sette mañ i vagn stadena / og hia konungenum i Jerusalem. * C. 1. 14.
26 Og hañ var eirn herra yfer øllum konunguñ / fra fliootenu og allt til Philisteaña lands / og allt til Egypiaña

landamerkia.

27 Og * konungurenn giørde silfred i Jerusalem sem steinana / og cedrus trien setke hann sem morberktien/ sem eru i dalnum i margfiølda. * 1. Kong. 10/27. etc.

28 Og mann utfærde hesta af Egypta lande til Salomon/ og af øllum løndunum.

29 Og hvad meira er (ad seigia) um Salomons høndlaner / pær fyrstu/ og pær sijdurstu/ * eru pær ecke skrifadar i Natans spamanns kroniku/ og i Ahia pess Silonita spadome/ og i Jeddi pess sjaanda sioon/ i moote Jeroboams Natans syn. * 1. Kong. 11/ 41.

30 Og Salomon rijkte i Jerusalem / yfer giørvøllum Israel/ fiørutiju aar.

31 Og Salomon laa med sijnum fedrum/ og peir groofu hann i Davids sijns fødurs borg/ Og Rhoboam hans sonur vard konungur i hans stad.

X. Capitule.

Rhoboam epterpilger peirra ungu Raadum/ og misser tiju Kynkvijsler.

Og Rhoboam * foor til Sichem/ pvi allur Israel var kominn til Sichem/ ad giøra hann til konungs. * 1. Kong. 12/ 1.

2 Og pad skiede/ pegar Jeroboam Nebats son pad heyrde / pvi hann var i Egyptalande/ * hvørt hann var fluenn fra kong Salomon/ pa kom Jeroboam aptur af Egyptalande. * 1. Kong. 11/40.

3 Og peir sendu burt/ og kølludu hann/ og Jeroboam kom med øllum Israel / z peir tøludu til Rhoboam/ og søgdu:

4 Pinn fader giørde vort ok pungt/ so liett nu (nockru) af pijns fødurs peirre pungu pioonustu/ og hans pvi punga oke/ sem hann lagde oss uppa/ og vier vilium pioona pier.

5 Og hann sagde til peirra : komed pa aptur til mijn ad prem døgum/ z fooked foor.

6 Og kong Rhoboam raadslagade vid pa ellstu/ sem stoodu fyrer hans fødur Salomon/ medann hann lifde/ z sagde: hvad raaded pier/ ad giefa pessu folke fyrer svar?

7 Og peir tøludu vid hann/ og søgdu: vilier pu vera pessu foolke vingiarnlegur/ og høndla kiærlega vid pa/ og giefa peim good ord/ pa verda peir pijner pienarar alla daga.

8 Enn hann yfergaf peirra ellstu raad / sem peir gaafu hønum / og raadslagade vid pa ungu/ sem voru uppvaxner med hønum/ sem stoodu fyrer hønum.

9 Og sagde til peirra: hvad raaded pier/ ad vier skulum svara pessu foolke / sem talade vid mig/ og sagde: giør pad ok liett/ sem pinn fader lagde a oss?

10 Og peir ungu / sem voru uppvaxner med hønum/ tøludu vid hann/ og søgdu: so skalltu seigia til foolksens/ sem talade vid pig/ og sagde: pinn fader giørde vort ok pungt/ og giør pu pad liett yfer oss/ so skalltu seigia til peirra: minn minnste (fijngur skal vera) pickre enn mijns fødurs lendar.

11 Hafe nu minn fader lagt pungt ok uppa ydur/ pa skal eg / eg enn pa giora ydar ok stærra/ minn fader straffade ydur med svipum/ enn eg med scorpionum.

12 Pegar Jeroboam og allt foolked komu (aptur) til Rhoboama pann pridia dag/ sem konungurenn hafde talad/ seigiande: komed aptur til mijn a pann pridia dag.

13 Pa svarade konungurenn peim hardlega/ Og kong Rhoboam yfergaf peirra ellstu raad.

14 Og talade til peirra epter peirra ungu raade/ og sagde: minn fader hefur giørt ydar ok pungt/ z eg/ eg vil leggia par til/ Minn fader straffade ydur med svipum/ enn eg med scorpionum.

15 Og (so) heyrde konungurenn ecke folked/ Pvi pad var (so) skickad af Gude / uppa pad Drottenn villde stadfesta sitt ord / sem * hann talade fyrer Ahia af Silo/ til Jeroboams Nebats sonar.

* 1. Kong. 11, 29/31.

16 Og pegar * allur Israel saa / ad konungurenn villde ecke heyra pa / pa svarade foolked konungenum/ og sagde: * * hvada hlutdeild høfum vier (pa) i David? og vier høfum ecke arf i Isai syne/

syne/ hvør mañ til sÿns Heimkÿñes Israel/ (So) sia nu David til þÿns huss/ Og allur Israel foor til siña heimkÿña
* 1. Kong. 12/16. ** 2. Sam. 20/1.
17 Og Israels børn bruggu i Juda stødum/ og Rhoboam rÿkte yfer þeim.
18 Og * Kong Rhoboam sende Adoram rentumeistara/ eñ Israels børn grÿttu hn̄/ ad hn̄ deyde/ ⁊ Kong Rhoboam stie skiootlega upp i vagneñ/ ad flÿa til Jerusalem. * 1. Kong. 12/18.
19 So fiell Israel burt fra Davids huse allt til þessa dags.

XI. Capitule.

Rhoboam liet Strijded fara i moote Israel/ eñ styrkte Stadena.

OG * Rhoboam kom i Jerusalem/ og safnade Juda huse ⁊ BenJamin/ hundrad og ätta tÿu þusunð (ungra) og sterkra strÿdsmaña/ ad strÿda i moote Israel/ ad taka rÿked aptur til Rhoboam.
* 1. Kong. 12/21.
2 Eñ Drottenñs ord kom til Semaia þess Guds mañs/ og sagde:
3 Tala til Rhoboam Salomons sonar/ konungs i Juda/ ⁊ til alls Israels/ sem er i Juda og BenJamin/ og seig:
4 So sagde Drotteñ: þier skulud ecke fara upp/ ei helldur strÿda i moote ydar brædrum/ Hvør snue vid til sÿns huss/ þvi þesse høndlan er skied af mier. Og þeir hlÿddu Drottenñs orde/ og sneru fra ad fara i moote Jeroboam.
5 Og Rhoboam bioo i Jerusalem/ og biggde þa stade fasta i Juda.
6 Og biggde Bethlehem/ og Etam og Tekoa/
7 Og Bethzur/ og Socho/ og Adullam/
8 Og Gath/ og Maresa/ og Siph/
9 Og Adoraim/ og Lachis/ og Aseka.
10 Og Zarea/ ⁊ Ajalon/ ⁊ Hebron/ sem voru i Juda ⁊ i BenJamin fastar borger
11 Og hn̄ styrkte þa føstu stade/ og sette høfdingia i þa/ og byrgder med kost/ og oleum og vÿn.
12 Og hn̄ liet skiølldu og spioot i olla stadena/ og giørde þa harla miøg fasta/ og Juda og BenJamin voru under hm̄.
13 Og prestarner og Levitarner sem voru i øllum Israel/ gäfu sig fyrer hañ/ af øllum þeirra landamerkium.
14 Þvi Levitarner yfergäfu þeirra forstade og þeirra gotz/ og komu til Juda/ og til Jerusalem/ Þvi Jeroboam og hn̄s soner * burt räku þa/ ad giøra ecke Drottenñs prests embätte. * C. 13/9.
15 Eñ hn̄ * sette sier presta/ til þeirra hædaña/ og til dioflaña og kälfaña/ sem hn̄ liet giøra. * 1. Kong. 12/31/etc.
16 Og (marger) komu epter þeim/ af øllum Israels kynkuÿslum til Jerusalem/ sem gäfu þeirra hiørtu til/ ad spyrja Drotteñ/ Israels Gud/ ad offra til Drottenñs þeirra fedra Guds.
17 Og þeir styrktu Juda rÿke og efldu Rhoboam Salomons son i þriu är/ Þvi þeir geingu i Davids og Salomons vegum i þriu är.
18 Og Rhoboam took sier eina hustru/ (fyrer utañ) Mahelath Jerimots Davids sonar dottur/ Abihail/ * Eliabs dottur/ Isai sonar. * 1. Sam. 16/6. c. 17/13
19 Og hun fædde hønum syne/ Jeus og Semaria og Saam.
20 Og epter hana took hañ Maecha Absaloms dottur/ og hun fædde hønum Abia/ og Athai/ og Sisa/ ⁊ Selomith.
21 Eñ Rhoboam hafde Maecha Absaloms dottur kiærare/ eñ allar sÿnar hustrur/ ⁊ sÿnar medhustrur/ Þvi hn̄ took ätian hustrur/ ⁊ sextÿu medhustrur/ og aflade ätta ⁊ tuttugu sona/ ⁊ sextÿu dætra.
22 Og Rhoboam sette Abia Maecha son til eins høfuds/ til eins høfdingia a medal hn̄s brædra/ þvi (hañ þeinkte/) ad giøra hn̄ til konungs.
23 Og hn̄ giørde skinsamlega/ ⁊ utskipte af øllum sÿnum sonum/ i øll Juda og BenJamins lønd/ i alla fasta stade/ og gaf þeim yferfliootañlega vist/ og girntest margar hustrur.

XII. Capitule.

Rhoboam mæter Strijde af Sisak/ og deyr.

Og þad ſkiede / þegar Rhoboam hafde ſtadfeſt rijked / og eflt þad/ yfergaf hn̄ Drottens log mœl/ z allur Iſrael med honū.

2 Þar fyrer ſkiede þ * a þvi fim̄ta kong Rhoboams ære/ ad Siſak/ konungurenn af Egyptalande/ droo upp i moote Jeruſalem / þvi þeir hofdu ſyndgad i moot Drottne/ * 1. Kong. 14. 22/ 25.

3 Med þuſund og tvo hundrud vagna/ og med ſextiju þuſund reidmenn / Og mann kunne ecke telia þad foolk / ſem kom med honum af Egyptalande/ Libium/ Suchium og Morlendſkum.

4 Og hann innfook þa foſtu ſtade / ſem voru i Juda/ og kom til Jeruſalem.

5 Þa kom Semaia ſpaamadur til Rhoboam/ og til þeirra yppurſtu i Juda/ ſem hofdu ſafnad ſier i Jeruſalem / vegna Siſaks / og ſagde til þeirra : ſo ſagde Drottenn : þier / þier hafed * yfergiefed mig / og eg/ eg hefe ogſo yfergiefed ydur i Siſaks hond. * c. 15/ 2. c. 24/ 20.

6 Þa audmijktu þeir yppurſtu i Iſrael ſig/ z konungurenn/ og þeir ſogdu : Drottenn er riettferdugur.

7 Og þegar Drottenn ſaa / ad þeir audmijktu ſig/ kom Drottens ord til Semaia/ og ſagde : þeir hafa audmijkt ſig / eg vil ecke fordiarfa þa / helldur giefa þeim ſnart ad komaſt undann / ſo ad mijn reide ſkal ecke utauſaſt yfer Jeruſalem/ fyrer Siſak.

8 Þo ſkulu þeir verda honum til þienara/ til ad þeckia (hvad þad er/ ) ad þioona mier/ z ad þioona rijkiunū i londunū.

9 So droo Siſak / konungurenn af Egyptalande/ upp i moote Jeruſalem/ og tok * fiærſioodenn i Drottens huſe / og fiærſioodenn i konungſens huſe/ hn̄ took þad alltſamann / took * * og þa gullſkiolldu/ ſem Salomon liet giora. * 1. Kong. 14/26. * * 1. Kong. 10/16. 2. Kron. 9/15.

10 Og kong Rhoboam liet giora kopar ſkiolldu i þeirra ſtad/ og befalade þeim yppurſtu hirdmonnum þa/ ſem tooku vara a konungſens huſſ dyrum.

11 Og þad ſkiede / ſo opt konungurenn gieck i Drottens hus/ komu hirdmenner og baaru þa / og færdu þa aftur i hirdmannanna herberge.

12 Og þa ſtund hn̄ audmijkte ſig/ vard Drottens reide ſnuenn fra honum / ad þad vard ecke allt fordiarfad/ Þvi þar var ogſo nockud gott i Juda.

13 So ſtadfeſte kong Rhoboam ſig i Jeruſalem/ og * rijkte/ Þvi Rhoboam var eins og fiorutiju æra gamall/ þegar hann vard konungur/ og rijkte ſeitian ær i Jeruſalem/ i þeim ſtad/ ſem Drottenn hafde utvaled/ * * ad ſetia ſitt nafn þar/ af ollum Iſraels ættum/ Og hn̄s moodur nafn var Naema ſu Ammonitiſka. * 1. Kong. 14/21. * * 2. Moſ. 20/24.

14 Og hn̄ giorde illt / þvi hn̄ ſkickade ecke ſijnu hiarta til ad leita Drottens

15 Og Rhoboams giorningar / þeir fyrſtu z þeir ſijdustu/ eru þeir ecke ſkrifader i Semaia ſpaamanns ordū/ og Iddo ſiaanda/ þegar hann uppſkrifade ætter nar / og þau ſtrijd i millum Rhoboam og Jeroboam alla daga ?

16 Og Rhoboam laa med ſijnum fedrum / og var grafenn i Davids borg/ og * Abia/ hanns ſon/ vard konungur i hanns ſtad. * c. 11/22. c. 13/1.

## XIII. Capitule.

Abia ſtrijder i moote Jeroboam / og vinnur Sigur.

A Þvi * attianda kong Jeroboams ære / þa vard Abia konungur yfer Juda. * c. 12/16. 1. Kong. 15/ 1.

2 Hann rijkte þriu ær i Jeruſalem/ Og hanns moodur nafn var Michaia Uriels dotter/ af Gibea/ Og þar var ſtrijd i millum Abia og i millum Jeroboam.

3 Og Abia bioo ſig til bardaga / med her og volldugu ſtrijds foolke / fiogur hundrud þuſunder utvalldra manna/ Og Jeroboam bioo ſig til ad ſtrijda vid hann/ med atta hundrud þuſundum / ungum hrauſtum ſtrijdsmonnum.

4 Og Abia took ſig upp/ ofann af Zemaraims fialle/ ſem ligg z a Ephraims fialle/ og ſagde : heyred mig/ Jeroboam/ og allur Iſrael :

5. Sylldud þier ecke vita/ ad Drottenn Israels Gud hefur giefed David rijked yfer Israel æfenlega/ honum og hans sonum/ med einum sallt-sattmala?

6 Eñ Jeroboam Nebats son/ Salomons Davids sonar sveirn/ * reiste sig upp/ og fiell fra sijnum herra:
* 1. Kong. 11/ 26.

7 Og lausingia foolk / Belials børn / gafu sig til hans/ og styrktu sig i mooote Rhoboam Salomons syne/ Þvi Rhoboam var ungur og blaukhiartadur/ ad hañ kuñe ecke veria sig fyrer þeim.

8 Og nu þeinked þier/ ad setia ydur i moote Drottens rijke under Davids sonu/ af þvi þier erud eirn stoor flockur/ og hafed * gull kalfa/ sem Jeroboam giørde ydur til guda. * 1 Kong. 12/ 28.

9 Hafed þier ecke utreked Drottens presta / Aarons børn og Levitana / og giort * ydur presta/ eins sem foolked i løndunum: eñ sierhvør sa sem kiemur ad fylla sijna hønd med eirn ungañ uxa/ og sio hruta/ verdur prestur fyrer þm / sem ecke eru guder. * 1. Kong 12/ 31.

10 Eñ vier heyrum Drottne vorum Gude til/ og høfum ecke forlated hañ/ Og prestarner/ sem þioona Drottne/ eru Aarons børn/ og Levitarner eru i verkenu:

11 Og þeir sem upptendra Drottne breñe-offur * hvørn morgun og hvørt kvølld/ þar ad auk þad kostulega reykelse/ og skodunar-brauden a þvi hreina borde/ og þañ gull-lioosastiaka og hans lampa/ ad upptendra hvørn aptan/ Þvi vier hølldum Drottens vors Guds varatekt / eñ þier / þier hafed forlated hañ. * 4. Mos. 23 / 6.

12 Þar fyrer sia/ Gud er med oss i filkingar broddenum / og hans prestar/ og trometarar til ad trometa/ ad trometa i moote ydur/ Þier Israels børn/ þier skulud ecke strijda i moote Drottne ydar fedra Gude/ þvi þad mun ecke luckast ydur

13 Eñ Jeroboam giørde eitt launsatur um kring/ ad koma bak vid þa/ So voru þeir ad framañ (i moote) Juda/ og launsatrid bak þeim.

14 Þegar Juda snere sier/ sia/ þa var strijded i fyrer og til baka þm/ Og þeir hroopudu til Drottens/ og * prestarner bliesu i basunurnar. * 4. Mos. 10/ 9.

15 Og hvør eirn i Juda hroopade/ Og þa skiede/ þegar hvør eirn i Juda hroopade/ þa sloo Gud Jeroboam og allañ Israel fyrer Abia og Juda.

16 Og Israels børn flijdu fyrer Juda/ og Gud gaf þa i þeirra hønd.

17 Og Abia og hans foolk sloo þa med einu storu slage/ og þar fiellu slegner af Israel/ fim hundrud þusund unger meñ.

18 So urdu Israels børn underokud somu tijd / eñ Juda børn urdu sterki / þvi þeir reiddu sig uppa Drottenn þeirra fedra Gud.

19 Og Abia sookte epter Jeroboam/ og iñtook (þessa) stade fra honum/ Bethel med heñar tilheyrande þorpum/ og Jesana med heñar tilheyrande / og Ephron med heñar tilheyrande.

20 Og Jeroboam komst ecke meir til magtar/ so leinge Abia lifde/ eñ Drottenn sloo hñ/ ad hañ deyde.

21 So styrkte Abia sig/ og took sier fiortan hustrur/ og ablade tveggia og tuttugu sona / og sextan dætra.

22 Eñ hvad meira er ad seigia um Abia/ og hans vegu og hans ord/ þad er skrifad * i Iddo spamañs historiu.
* C. 12/ 15.

## XIV. Capitule.

Asa aftekur Afgudadijrkan / Bigger fasta Stade/ Færer strijd i moot Serah af Morlande.

Og * Abia la med sijnum fedrum/ og þeir groofu hñ i Davids borg/ og Asa hans son / vard konungur i hans stad/ I hans tijd var landed kirt i tiju ar.
* 1. Kong. 15/ 8.

2 Og * Asa giørde gott og riett fyrer Drottens sijns Guds augum.
* 1. Kong. 15/ 11.

3 Og hañ took þeirra framande ølturu burt/ og hæderнar/ og sundur slo stolpana/ * og afhioo lundana. * 5. Mos. 7/ 5.

4 Og hañ liet Juda ſeigia / ad þeir ſkylldu leita Drottēs þeirra fedra Guds/og giøra løgmaaled og bodorded.
5 Og hañ burt took þær hæder og afgude ur øllum ſtødum / i Juda/ og rijked var ſtillt under hønum.
6 Og hañ *biggde faſta ſtade i Juda/ af þvi landed var i kirdum/og þar var eckert ſtrijd i moote hønum a þeim aarum/Þvi Drottē gaf hønum rooſemd.
* C. 11. 5.
7 Og hañ ſagde til Juda : laatum oſſ biggia þeſſa ſtade/og færa mur um̄ krijng / og turna / port og ſteingur / þa ſtund landed er eñ nu fyrer oſſ/þvi vier høfum leitad Drottēs vors Guds/leitad(hañs/)og hañ hefur giefed oſſ rooſemd allt um̄ krijng/So biggdu þeir/og þad gieck luckulega.
8 Og Aſa hafde eirn her / ſem baaru ſkiølld og ſpioot / af Juda þriu hundrud þuſunder / og af BenJamin / ſem baaru ſkiølld og ſpentu boga/tvø hundrud og aattatiju þuſunder/ aller þeſſer voru ſterker kappar.
9 Og Serah / ſa af Morlande / droo ut i moote þeim med eirn her/ þuſundſiñum þuſunder/þar med þriu hundrud vagna/og kom allt til Mareſa.
10 Og Aſa droo ut i moote hønum / og þeir ſettu ſig i fylking til ſtrijds / i Zephata dal hia Mareſa.
11 Og Aſa hroopade til Drottēs ſijns Guds/ og ſagde: Drottē/*þar er ecke greinarmunur hia þier/ ad hiaalpa añadhvørt med mørgum/(edur) þar/ ſem eingeñ magt er/ Hiaalpa oſſ Drottē vor Gud / þvi vier reidum oſſ uppa þig/og vier erum komner i þijnu nafne moote þeſſū flock: Drottē/þu ert vor Gud / eingeñ mañeſkia maa ( nockud) i mooote þier. * 1. Sam. 14/ 6.
12 Og Drottē ſloo Morianana fyrer Aſa z fyrer Juda/ z Morianarner flijdu
13 Og Aſa z foolked ſem var hia hønum elltu þa allt til Gerar/ Og þar fiell af Morianunum/ſo ad *eingeñ af þeim var lifande/ þvi þeir urdu brotner fyrer Drottne/z ꝧ hñs her/z þeir baaru harla miked herfang þar fra. * c. 20/ 24.
14 Og þeir ſloou alla ſtade nidur allt um̄ krijng Gerar /þvi*Drottēs hrædſla kom yfer þa/Og þeir rændu alla ſtadena/ þvi þar var miked herfang i þeim.
* C. 17/ 10.
15 Og þeir ſloou ogſo fie-huſeñ nidur og burt fluttu marga ſaude og ulfallda/ og komu aptur til Jeruſalem.

## XV. Capitule.

### Aſæ Gudhrædſla og Vandlæte.

Og þar vat Aſaria Odeds ſon / yfer hønum var Guds Ande.
2 Og hñ gieck ut fyrer Aſa/ og ſagde til hañs : heyred mig Aſa/og allur Juda og BenJamin: Drotteñ er med ydur / af þvi þier erud med hønum/ og ef þier leited hñs/ mun hañ laata ſig fiña af ydur / eñ ef þier yfergiefed hñ / mun hñ yfergiefa ydur.
3 Iſrael hefr marga daga vered ꝧ utañ ſañañ Gud/og fyrer utañ preſt/ſem kienner/ og fyrer utañ løg.
4 Eñ þegar þeir um̄vendu ſier i þeirra neid til Drottens Iſraels Guds/og *leitudu hañs/þa liet hañ ſig fiña af þeim.
* 5. Moſ. 4/ 29.
5 Og a þeirre ſømu tijd gieck þad þm̄ ecke vel/ſem geingu ut z iñ/Eñ þar vard* ſtoort haareiſte yfer øllū þeim/ ſm̄ biuggu a Jørduñe. *Matth. 24/ 6/7.
6 Ad (þad eina)* foolk vard ſundurknoſad a þvi ødru/ og (ſa eine) ſtadur a þeim ødrum/ Þvi Gud hafde ſkielft þa med margſkonar aangiſt. *Eſ. 19/2
7 Eñ þier ſkulud vera hughrauſter / og laated ydar hendur ecke falla / Þvi ydar verk hefur laun.
8 Þegar Aſa heyrde þeſſe ord / og Odeds ſpaamañs ſpaadoom/vard hñ hugſtirkur / og burt took ſviijvirdingarnar af þvi giørvøllu Juda og BenJamins lande/og af þeim ſtødum/ ſm̄ hñ hafde iñteked af Ephraims fialle/ og endurnijade Drottēs altare / ſem var fyrer Drottēs vopnhuſe.
9 Og hñ ſafnade øllum Juda og Ben

Iamin / og þeim framande hia þm̃ af Ephraim/og Manaſſe/og af Simeon/ Þvi marger af Iſrael fiellu til hañs / þegar þeir ſaau/ad Drottẽ hñs Gud var med hønum.

10 Og þeir ſøfnudu ſier til Jeruſa-lem/a þeim þridia maanade/a Aſa rijk es fim̃tanda aare.

11 Og offrudu til Drottẽs ſama dag/ af þvi herfaange/ſm̃ þeir høfduført/ ſiø hundrud uxū/ og ſiø þuſund ſaudū.

12 Og þeir geingu i ſattmaala/ad leita Drottẽs þrra fedra Guds/i þrra giør vøllu hiarta / ⁊ i þrra giørvallre ſaal.

13 Og hvør ſem ecke villde leita Dro-ttẽs Iſraels Guds / ſkyllde deydaſt / bæde ſmaar ⁊ ſtor/bæde madur ⁊ kviña.

14 Og þeir ſooru Drottne med ſtorre rauſt/ og med føgnude/ og med tromet-um/ og med baaſunum.

15 Og allur Juda var gladur yfer eyd-num / þvi þeir høfdu ſvared i þeirra giørvøllu hiarta/og leitudu hñs i þeir ra giørvøllum vilia/ Og hañ liet ſig fiña af þm̃/og* Drotteñ gaf þm̃ roo-ſeme allt um̃ kring. * c.14/6. c.20/30.

16 Og kong Aſa * afſette ogſo(ſijna) moodur Maecha/ad vera fyrſtiñu / af þvi hun hafde uppreiſt eiñ Miplezeth i lundeñ/og Aſa afmaade heñar Mip-lezeth/og malde þad ſundur/ og brende þad i Kidrons dal. * 1. Kong. 15/16.

17 Eñ * þær hæder i Iſrael voru ecke burt tekn^r^/ þo v^r^ Aſa hiarta riett(ſkick ad/)alla hañs daga. * 1. Kong. 22/44.

18 Og hañ iñførde þad hñs fader haf de helgad/ og ꝥ hñ(ſialfur)hafde helg-ad/i Guds hus/ſilfur/ ⁊ gull/og ker.

19 Og þar var eckert ſtrijd allt til þeſſ fim̃ta og þrijtugaſta Aſa rijkes aars.

## XVI. Capitule.

Aſa Samband vid Benhadad/ Siuk-doomur og Daude.

A þvi ſiøtta og þrijtugaſta A-ſa rijkes aare / droo Baeſa I-ſraels konungur i moot Ju-da/og biggde Rama/ad hamla ad fara ut ⁊ iñ til Aſa Juda konungs

2 Eñ Aſa uttook ſilfur og gull af fiaarſioodnum i Drottẽs huſe / og i konungſens huſe / og ſende til Benha-dad/ konungſens af Syria/ ſem bioo i Damaſco/og liet ſeigia:

3 Þar er ſamband i millum mijn og i millum þijn/og i millum mijns fødurs/ og i millum þijns fødurs/ ſiaa / eg hefe ſendt til þijn ſilfur og gull / gack / laat þitt ſamband fara vid Baeſa Iſraels konung/ad hañ drage upp fra mier.

4 Og * Benadad hlijdde konungenum Aſa / og ſende ſtrijds høfdingiana / ſem hañ hafde/i moote Iſraels ſtødū/ Og þeir ſloou Jon og Dan / og Abel-Maim/og alla Naphthali viſta ſtade.

*1. Kong. 15/20. 2. Kong. 16/9.

5 Og þad ſkiede/þegar Baeſa þad heyr de/þa liet hñ af ad biggia Rama/og li-et ſiñ giørning vera.

6 Þa took kong Aſa allañ Juda / og þeir tooku ſteinana fra Rama/og timb red þar til/med hvøriu Baeſa biggde/ og hñ biggde þar med Geba og Mizpa

7 Og a þeirre ſømu tijd kom Hanani ſiaaande til Aſa/ Juda konungs / og ſagde til hañs: af þvi * þu reidder þig uppa konungeñ af Syria / og reidder þig ecke uppa Drotteñ þiñ Gud/ þar fyrer er konungſens magt af Aſſyria ſloppeñ ur þiñe hende. * Jer. 17/ 5.

8 Eñ voru ecke Morianarner og þeir Libiſku eirn ſtoor ſtrijds flockur med har la mørgum vøgnum og reidmøñum? ſa mt þegar þu reidder þig uppa Drott-eñ/ gaf hañ þa i þijna hønd.

9 Þvi Drottẽs augu reña um̃ a all-re Jørduñe / ad ſtyrkia ſig med þeirra riettferdugu hiarta vid hñ. Þu giørd-er daarlega þar uti / þar fyrer ſkalltu hier epter hafa ſtrijd.

10 Eñ Aſa vard reidur uppa þañ ſiaa anda/og * ſette hñ i faangelſe/ Þvi hñ møglade i giegn hønum fyrer þad / og Aſa underokade (nockra)af foolkenu a þeirre ſømu tijd. * 1. Kong. 22/27.

11 Og ſiaa/ Aſa giørningar/þeir fyrſtu

og þeir syduftu/ sem/ þeir eru skrifader i Juda og Jsraels konunga book.

12 Og Asa vard siukur i synum fook- um a synu nijunda og þrytugasta rykes ære/og hans siukdoomur jook ſt/z hann leit ade ecke Drottens i synū siukdome/ þvi (hann reidde sig) uppa læknarana.

13 Og Asa laa med synū fedrū/ z deyde a syns rykes fyrsta og fertugasta ære.

14 Og þeir groofu hann i synum grof- um / sem hann liet sier grafa i Davids stad/ og þeir lögdu hann i leg-stade/sem mann hafde uppfyllt med(dyrmtū)urt- um/z allrahanda reykelsum/ tilreiddum epter apotekarans konst/og * þeir bren- du hm (til æru) med einu myked stooru baale. * c. 21/ 19/ Jer. 34/ 5

## XVII. Capitule.

Josaphats Lucka.

Og * Josaphat hans son vard konungur i hns stad/ og vard megtugur i moote Jsrael. * 1. Kong. 15/ 24.

2 Og hn sette stryds foolk i alla Juda fasta stade/og sette befalings menn i Ju da land/og i Ephraims stade/sem ha- ns fader Asa hafde innteked.

3 Og Drottenn var med Josaphat/þvi hann gieck i syns födurs Davids fyrre vegum/og leitade ecke Baalims.

4 Enn hann leitade syns födurs Guds/ og gieck i hans bodum/og ecke epter Js- raels verkum.

5 Og Drottenn stadfeste ryked under hönum / og allur Juda gaf Josaphat gæfur/og * hann hafde rykdoom og veg semd yferflootanlega. * c. 18/ 1.

6 Og þegar hans hiarta upphafdest i Drottens vegū/ þa took hn þar epter þær hæder og lunda burt af Juda.

7 Og a hns pridia rykes ære/sende hn syna höfdingia/Benhail/og Obadia/og Sacaria/og Nethaneel/og Michaia/ad kenna i Juda stödum.

8 Og med þeim þa Levita/ Semaia/ og Nethania/og Sebadia/og Asael/og Se- miramoth/ og Jonathan/ og Adonia/ og Tobia/og Tob Adonia/Levitana/og med þeim Elisama og Joram/prestana.

9 Og þr kendu i Juda/og höfdu Drott ens logbook med sier/ z foru um kring i öllū Juda stödū/z kendu medal folksens.

10 Og * Drottens otte var yfer öllum rykium i löndunum / sem laau um kring Juda / ad þeir strijddu ecke i moote Josa- phat. * c. 14/ 14. 1. Mos. 35/ 5.

11 Og þeir af Philisteunum færdu Jo- saphat * skeink/med þeim silfur-(skatte sem þeim var)uppalagdur/Og þeir Ara- bisku færdu hönum fienad/ sio þusunder og sio hundrud hruta/og sio þusunder og sio hundrud hafra. * 1. Kong. 4/ 21.

12 So voox Josaphat/og vard alltyd stær re/og biggde slot / og vista stade i Juda.

13 Og hann hafde myked ad syssla i Juda stödum / Og stryds menn/ volldugt foolk / voru i Jerusalem.

14 Og þetta var talann a þeirra fedra huse/sem voru ypparster i Juda yfer þu sundum : Adna sa ypparste/og med hön- um voru þriu hundrud þusunder volld- ugs foolks.

15 Og næst hönum var Johanan sa ypp arste / og med hönum voru tvö hundrud og attatyu þusunder.

16 Og næst hm var Amasia Sichri son/ Drottens sialfviliugur/ og med hm voru tvö hundrud þusunder volldugra manna.

17 Og af BenJamin var Eliada/eirn volldugur madur / og med hönum voru tvö hundrud þusunder / buner med boga og skiolld.

18 Og næst hönū var Josabad/og med hönum voru hundrad og attatyu þusund er bunar til hers.

19 Þesser tooku vara a konungenum/fyr er utann þa / sem konungurenn hafde sett i þa fostu stade i öllum Juda.

## XVIII. Capitule.

Josaphat dregur med Achab i Striid i moote þeim Syrlendsku.

Og Josaphat hafde * stoorann rykdoom og vegsemd / og vard Achabs mægur. * c. 17/ 5.

2 Og * þegar (nockur) ær vo ru ute / droo hann ofann til Achabs i Sa-

maria / og Achab liet slátra saudum til hañs/og mørgum uxum/ & til þess folks/ sem var med hønum/og hañ kom hønum til ad fara upp til Ramoth i Gilead.

* 1. Kong. 22/2.

3 Og Achab Israels konungur hafde sagt til Josaphats Juda konungs: villtu fara med mier til Ramoth i Gilead? og hañ hafde sagt til hañs : eg er sem þu/ og mitt foolk sem þitt foolk/og(vier villum vera) med þier i strijdenu.

4 Eñ * Josaphat sagde til Israels konungs : kiære / adspyr Drottens ord i dag.  * 2. Kong. 3/ 11.

5 Og Israels konungur safnade spámønunum/ fiøgur hundrud møñum / og sagde til þeirra: skulum vier fara til Ramoth i Gilead til strijds/eda skal eg láta þ. hinkra? og þeir søgdu: far upp/ þvi Gud mun gefa(þa)i konungsens hønd.

6 Þa sagde Josaphat : er hier eñ nu eingeñ Drottens spámadur/ad vier kuñum spyria af hønum?

7 Og Israels konungur sagde til Josaphats : hier er eñ nu eirn madur / fyrer hvørn madur kañ ad spyria Drottenn/ eñ eg/ eg hata hañ / þvi hañ spáer mier ecke til goods/ helldur alla sijna daga til ills/ þad er Michæas Jemla son/ og Josaphat sagde : konungureñ tale ecke so.

8 Og Israels konungur kallade a eirn (af sijnum)herberges sveinum/ & sagde: sæk snarlega Michæas Jemla son.

* 1. Kong. 22. 9.

9 Og Israels konungur og Josaphat Juda konungur sátu hver a sijnū stoole/ færder i (þeirra)klæde/ og sátu a sliettuñe hiá Samaria port-dyrum / og aller spámeñerner spádu fyrer þeim.

10 Og Zedekia Cnaena son giørde sier járn-horn/ og sagde : so sagde Drottenn : hier med skalltu stanga þa Syrlendsku / þar til þu leggur þa i eyde.

11 Og aller spámeñerner spádu so / og søgdu: far upp til Ramoth i Gilead/ og þad mun luckast þier / og Drottenn mun giefa (hana) i konungsens hønd.

12 Og sendebodeñ / sem var geingeñ / ad kalla Michæam/ talade vid hañ/ og sagde: siá/spámañanna rædur eru sameiginlega goodar fyrer konungenum / lát & þitt ord vera eins med þeirra/ & tala gott.

13 Og Michæas sagde: ( so sañarlega sem) Drotteñ lifer/ hvad miñ Gud seiger/ þad skal eg tala.

14 Og hañ kom til konungsens/og konungureñ sagde til hñs: Michæa/skulum vier fara i moote Ramoth i Gilead i strijd? eda skal eg láta hinkra? og hañ sagde : far upp/ og þad mun luckast ydur/ & þeir munu giefast i ydar hønd.

15 Og konungureñ sagde til hñs : hvad opt skal eg særa þig/ad þu seiger mier eckert añad eñ satt/ i Drottens nafne.

16 Þa sagde hañ : eg sá alla Israelita sundurtvistrada a fiøllunum * sem saude/ er hafa aungvañ hyrder. Og Drotteñ sagde. hafa þesser aungvañ herra? hver fare heim til sijns huss med fride.

* 4. Mos. 27 / 17. Matt. 9/ 36.

17 Þa sagde Israels konungur til Josaphat: * sagde eg þier ecke / ad hñ spáer mier eingu goodu / helldur til ills.

* 2. Kong. 22/18. 2. Kong. 2/18.

18 Framveiges sagde hañ : þar fyrer heyred Drottens ord : eg sá Drottenn sitia a sijnum stoole / og allur Himensens her stood hiá hñs hægre og hñs vinstre sijdu.

19 Og Drotteñ sagde : hvør vill telia um̄ fyrer Achab Israels konunge/ ad hñ skule fara upp/ og falla i Ramoth i Gilead? & þegar sá eine talade/ & sagde so/ & sá añar sagde so: * 1. Kong. 22/ 20.

20 Þa utkom þar eirn ande/og stood fyrer Drottne/ og sagde : eg/eg vil telia um̄ fyrer hønum /og Drotteñ sagde til hñs: hvar med?

21 Og hñ sagde : eg vil utfara og vera eirn falskur ande i allra hañs spámaña muñe/ og hañ sagde : þu skallt telia um̄ fyrer (hønum)/& eirneñ framkoma þvi/ far burt/og giør so.

22 Og siá nu / Drotteñ hefur giefed eirn falskañ anda i þessara þiña spámaña muñ/og Drotteñ hefur talad vondt i mote þier.

23 Þa gieck* Zedekia Cnaena son ad/ og sloo Michæam a kiñbeined/og sagde: um̄

uñ hvorn veg er Drottens Ande fareñ fra mier/ad hañ tale fyrer þig? * v. 10.

24 Og Michæas sagde: sia/ þu skallt sia þad a þeim sama dege / þu skallt ganga þa i eitt herberge epter eitt añad / ad fela þig.

25 Þa sagde Israels konungur: taked Michæam/ z læted hañ vera hia Amon/ stadar foringianum/ og hia Joas/ kon ungsens syne.

26 Og seiged: so sagde konungureñ: * setied þeñañ i fangelses hus / og fæded hañ med hrigdar braude / og hrigdar vatne / þar til eg kiem aptur med fride. * c. 16/ 10.

27 Og Michæas sagde: komer þu vissulega aptur med fride / þa hefur ecke Drottenñ talad fyrer mig / Og hañ sagde: heired allt foolk.

28 So * foor Israels konungur / z Josaphat Juda konungur upp moote Ramoth i Gilead. * 1. Kong. 22/ 19.

29 Og Israels konungur sagde til Josaphath: eg vil torkienña mig / og koma i strijded / eñ haf þu þijn klæde (a þier /) og Israels konungur torkiente sig/ og þr komu i strijded.

30 Og konungureñ af Syria bijfalade sijnum yppurstu fyrer vagnunum / seigiande: þier skulud ecke strijda (hvorke) moot þeim smæa / edur moot þeim stoora/ utañ moot Israels konunge/ hm̃ alleina.

31 Og þad skiede / þegar þeir yppurstu fyrer vagnunum sau Josaphat/ þa sogdu þeir: þesse er Israels konungur / og þeir fooru uñ kring / ad strijda i moote hönum/ eñ Josaphat hroopade/ og Drottenñ hialpade hönum/ og Gud snere þeim fra hönum.

32 Og þad skiede / þegar þeir yppurstu fyrer vagnunũ sau/ ad hñ var ecke Israels konungur/ þa sneru þeir sier fra hm̃.

33 Og eirn madur spente boga oforvarandes/ og skaut Israels konung/ i millum (sverd)reimareñar og pansarans / Þa sagde hñ til vagn sveinsens: * snu þiñe hende / og fær mig ur hernum/ þvi eg er særdur. * c. 35/ 23.

34 Og strijded vard stoort sama dag/ og Israels konungur stood i vagnenum moote þeim Syrlendsku allt til kvollds/ og deyde / þegar sooleñ gieck nidur.

## XIX. Capitule.

### Josaphat sette Doomara i þeirre Veralldlegu og Andlegu Stiett.

En Josaphat Juda konungr kom til sijns huss aptur med fride til Jerusalem.

2 Og Jehu Hanani son sa siaande / gieck ut i moote hönum / og sagde til konungsens Josaphat: skalltu hialpa þeim ogudlega/ og elska þa/ sem hata Drottenñ? þvi þar fyrer er Drottens reide yfer þier

3 Eñ þar er (þo) nockud * gott funded hia þier/ ad þu hefur upphoggved lundzna af landenu / og sett þitt hiarta til ad leita Guds. * c. 17/3. etc.

4 So var Josaphat i Jerusalem/ z droo ut aptur a medal foolksens/ fra Berseba allt til Ephraims fialls / og færde þa aptur til Drottens þeirra fedra Guds.

5 Og hañ sette * doomara i landenu/ i ollum Juda fostum stodum/ (ja) i hvortum stad. * 5. Mos. 16/ 18.

6 Og hañ sagde til doomaraña: siaed hvad þier giored / þvi þier hallded ecke dom vegna mañana/ helldur vegna Drottens/ og hñ er med ydr i domsens hondlan.

7 Þar fyrer læted nu Drottens otta vera yfer ydur / vared ydur / og giored þad/ þvi þar er eingeñ orietttur hia Drottne vorum Gude/ ei helldur * personuñar alit/ ei helldur giafa medtekning.
* P. G. 10/34. etc.

8 Þar med sette Josaphat og so i Jerusalem (nockra) af Levitunum z prestunũ/ og af þeim yppurstu fedrum a medal Israels/ * yfer Drottens doom og yfer mala ferleñ/ þegar þeir voru komner aptur til Jerusalem. * 5. Mos. 17/8/9. c. 9/17

9 Og hñ baud þeim/ og sagde: giored so i Drottens otta trulega/ og med einu rietttskickudu hiarta.

10 Og i ollũ mælefnũ/ sem koma fyrer ydur af ydar brædrum / sem bua i þeirra stodum/ i millum bloods og bloods/ i millum

um løgmals og bods / setninga og rietti lida / þa undervijsed þeim / ad þeir ecke syndge i moote Drottne/og þar kune koma em reide yfer ydur og yfer ydar brædur/Giøred soo/soo munud þier ecke syndga
11 Og sia / Amaria sa ypparste prestur er yfer ydur i øllum Drottens maalaferlum/og Sebadia Jsmaels son sa høfdinge i Juda huse/i øllum konungsens malū/ so hafed þier fovita/Levitana/fyrer ydr/ vered hughrauster/ og giøred þetta / og Drotteñ mun vera med hinum gooda.

## XX. Capitule.

### Josaphats Sigur/Stioornan og Daude.

Og þad skiede/ ad þar epter komu Moabs børn/ og Ammons børn/ og þeir Ammonitar med þeī/i mote Josaphat til strijds.
2 Og þeir komu/sem gafu Josaphat til vitundar/og søgdu: þar kiemur eitn stoor flockur i moote þier/fra hiñe sijdu hafsens/fra Syria/og sia/ þeir eru i Hazezon Thamar/ þad er Engeddi.
3 Og Josaphat ottadest/og skickade sitt andlit / til ad leita Drotteñs/ og liet uthroopa eina føstu yfer allañ Juda.
4 Og Juda kom til samans/ ad uppleita Drotteñ/ og so af øllum Juda stødum komu þeir/ad leita Drotteñs.
5 Og Josaphat stood a medal Juda z Jerusalems safnadar i Drottens huse / fyrer framañ þañ nyja gard/ og sagde:
6 Drotteñ/vorra fedra Gud/ertu ei sialfur Gud i Himnenum? ia þu ert sa/sem stioornar i øllum heidingiaña rijkium/og * i þiñe hende er kraftur og magt / ad þar er * * eingeñ/sm̄ kañ standa i moote þier. * 1. Kron. 29/12. * * 2. Kron. 14/11
7 Hefur þu ecke/ vor Gud/ utreked þessa lands iñbiggiara fyrer þijnu fooʟke Jsrael/ og gefed þad Abrahams þijns vinar sæde æfenlega.
8 Og þeir hafa bued þar i/z biggt þier eiñ helgedom þar iñe f. þitt nafn/z sagt:
9 Nær * olucka kiemur yfer oss / sverds straff / edur drepsootti/ edur hungur/ þa skulum vier standa fyrer þessu huse og fyrer þier / þvi þitt nafn er i þessu huse/og hroopa til þijn i vorre neyd/so villder þu heyra og hialpa. * c. 6. 28. 1. Kong. 8/33. etc.
10 Og sia/ nu eru Ammons og Moabs børn/og þeir af Seirs fialle/ * i giegnum hvørra þu liest ecke Jsrael fara / þegar þeir fooru af Egyptalande / eñ þeir mattu vykia fra þeim/ og ecke eydeleggia þa. * 5. Mos. 2. 9/ 19/ 29.
11 Og sia/þeir lata oss þess gialda/ og koma ad utreka oss af þijnum arfe / sem þu hefur gefed oss ad eiga.
12 O vor Gud/villtu ecke dæma yfer þeim? þvi þar er eingeñ kraftur i oss i mote þessum stora hoop/sem kiemur i mote oss. Og vier / vier vitū ecke/hvad vier skulum giøra/eñ vor augu eru til þijn.
13 Og allur Juda stod fyrer Drottne/ z þeirra børn/ þeirra hustrur/ z þeirra syner.
14 Þa kom Drotteñs Ande midt i søfnudenum/yfer Jehasiel Sacariæ son/ Benaia sonar/Jehiels sonar/Methania sonar/þañ Levita/af Asaphs børnum.
15 Og hañ sagde/ merked aller af Juda/ og þier iñbiggiarar i Jerusalem/ og þu kong Josaphat/ so sagde Drotteñ til ydar: þier skulud ecke ottast/edur mistreysta fyrer þessū stoora hoop/ þvi striided er ecke moote ydur/ helldur moot Gude.
16 A morgun skulud þier fara ofañ moote þeim/ Sia/ þeir fara upp / þar sem mañ fer upp til Zis/og þier munud mæta þeim hia endanum i dalnum/ þvert yfer fra Jeruels eydemørku.
17 Þier skulud ecke striida i þessare (søk/)ganged þangad/standed og sied Drotteñs hialpræde/ sem er med ydur/ o Juda og Jerusalem þier skulud ecke ottast/og ecke vera efablandner/draged amorgun ut a mote þeim/ þvi Drotteñ(mun vera)med ydur.
18 Þa beigde Josaphat sig til Jardar med andlite/og allur Juda/ og iñbyggiararner i Jerusalem fiellu nidur fyrer Drottne/og tilbadu fyrer Drottne.
19 Og Levitarner af þeim Kaathita børnum og af þeim Korhita børnum / stoodu

stoodu upp/ ad lofa Drottẽ/ Israels Gud/ med stoorre raust/ hatt.

20 Og þeir tooku sig ærla upp um̃ morguneñ / og fooru ut til Thekoas eydemerkur / og þegar þeir droou ut / stood Josaphat/og sagde: heyred mier/ Juda / og þier iñbiggiarar i Jerusalem: trued a Drottẽ ydar Gud/so skulud þier vera ohulter/(og)trued a hañs spaamẽ/so skulud þier faa lucku.

21 Og hñ riede foolkenu/ z sette saung vara fyrer Drottẽ/og þa sem skylldu lofa þa heilögu Majestat/ þegar þeir droou ut æfram̃ vopnader/og sagde. * þacked Drottne / þvi hañs myskunseme er eylijf. * Ps. 106/ 1.

22 Og þegar þeir hoofu med prijse og lofe/liet Drottẽ eitt launsætur koma uppa Ammons börn/Moab og(þa af) Seirs fialle/sm̃ voru komner mot Juda / og þeir urdu slegner.

23 Þvi Ammons born og Moab/stoodu moote þeim af Seirs fialle/ad bañsetia z ad eideleggia/ z þegar þr höfdu eidt þeim af Seirs fialle/ hiælpade sa eine þeim ödrum/ ad þeir fordiörfudu (sig siælfa.)

24 Þegar Juda var komeñ til Mitzpe hia eydemörkeñe/ sneru þeir sier i moot foolkenu/og siaa/ þa lææu lijkamarner a Jördunñe/ z þar var eingeñ undañkomeñ

25 Og Josaphat kom og hñs foolk/ad skipta þeirra herfaange/ og þeir fundu a medal þeirra miked/ bæde goots og lijkame/ z kostulega hlute/sem þeir tooku af þeim/ad þeir kuñu ecke bera þad/og þeir utskiptu sama herfaange i þria daga/ þvi þad var miked.

26 Og a þm̃ fioorda deige komu þeir til samans i lofs-daleñ/þvi þar lofudu þr Drottẽ/ þar af kölludu þeir sama stadar nafn lofs-dal allt til þssa dags.

27 Sijdañ snere sier hvor madur af Juda og Jerusalem til baka/og Josaphat fyrer þeim/ad þeir færu til Jerusalem med glede / þvi Drottẽ hafde gladt þa yfer þeirra ovinum.

28 Og þeir fooru iñ i Jerusalem med psölturum/og med hörpum/og med basunum/til Drottẽs huss.

29 Og + Guds hrædsla kom yfer öll rijke i landenu / þegar þeir heyrdu / ad Drottẽ hafde strijdt i mooti Israels ovinum. + c. 14/ 14. c. 17/ 10.

30 So vard Josaphats rijke roosamt/ og hañs Gud gaf honum rooseme/allt um̃ kring.

31 Og Josaphat rijkte yfer Juda/hañ var fim̃ og þriatiju ara gamall/ þegar hañ vard konungur/og rijkte fim̃ og tuttugu ar i Jerusalem/og hañs moodur nafn var Asuba/ Silhi dootter.

32 Og hañ gieck i Asa sijns fodurs vegge/og veik ecke þar fra/þvi hañ giörde þad / sem riett var fyrer Drottẽs augũ.

33 Þo voru hæderner ecke burt tekner/ þvi folked hafde ecke eñ nu sett þeirra hiarta til þeirra fedra Guds.

34 Eñ hvad meira er ad segia um̃ Josaphat/ þa fyrstu og þa sijdustu hlutesim / þad er skrifad i Jehu Hanani sonar giörninge/ sm̃ hm̃ var bijfalad ad uppteikna i Israels konunga book.

35 Þo þar epter sambatt Josaphat / Juda konungur/ sig med Ahasia Israels konunge/ hañ/ hañ var ogudlegur i (sijnum) giorningum.

36 Og hañ sambatt sig vid hañ/ ad giöra skip/ sem skylldu fara til Tharsis/ z þeir giördu skipeñ i Ezeongaber.

37 Eñ Elieser Dodana son af Maresa/ spaade moot Josaphat/ og sagde: af þvi þu sambatst þig vid Ahasia/ hefur Drottẽ sundur rifed þijna giörninga/ Þa urdu *skipeñ sundur sleigeñ/ad þau kuñu ecke fara til Tharsis.

* 1. Kong. 22/ 49.

## XXI. Capitule.

Josaphats Daude. Jorams Mord / Afgudadijrkan/Straff og Daude.

Þar epter lææ Josaphat med sijnũ fedrũ/og var grafeñ hia sijnũ fedrũ i Davids borg/ z hñs son* Joram vard konungur i hñs stad. *2. Kong. 8/16. 1. Kron. 3/11

2 Og hñ ætte brædur / Josaphats syne/

ne/ Asaria/ og Jehiel/ og Sacaria/ og Azaria/ og Michael/ og Sephatia/ All er þesser voru Josaphats/ Jsraels kon ungs børn.

3 Og þeirra fader gaf þeim margar gæfur af silfre og gulle/ z giersemum/ med føstum stødum i Juda/ en̄ gaf Joram rijked/ þvi han̄ var sa frumgietne.

4 Þegar * Joram var kom̄en̄ til sijns fødurs rijkes/ og hafde stadfest sig/ sloo han̄ alla sijna brædur i hel med sverde/ og þar med (nockra) af þeim yppurstu i Jsrael. * 2. Kong. 8/ 16.

5 Joram var * tveggia og þriatijgu ara gamall/ þegar han̄ vard konungur/ og rijkte atta ar i Jerusalem.
* 2. Kong. 8/ 17.

6 Og hn̄ gieck a Jsraels konunga vei ge/ eins sem Achabs hus giørde/ þvi Achabs dootter var hn̄s hustru/ og hn̄ giørde vondt fyrer Drottens augum.

7 Þo villde Drotten̄ ecke fordiarfa Davids hus fyrer þess sattmala sku llđ/ sem han̄ hafde giørt * vid David/ og so sem han̄ hafde talad/ ad giefa hønum og han̄s børnum eitt lioos alla daga. * 2. Sam. 7/ 12.

8 J han̄s tijd fiell Edomiten̄ fra Juda/ z giørde eirn kong yfer sig.

9 Þar fyrer foor Joram fliotlega med sijnum høfdingiū/ og aller vagnar med hønum/ og took sig upp um̄ noottena/ og sloo Edom/ sm̄ hafde um̄kringt hn̄/ og þa yppurstu fyrer vøgnunum.

10 Þo fiell Edomiten̄ burt fra Juda/ allt til þessa dags/ Þa sømu tijd fiell Libna burt fra hønum/ þvi han̄ yfergaf Drotten̄ sin̄a fedra Gud.

11 Han̄/ han̄ giørde ogso hæder a fiøll unum i Juda/ og kom þeim til/ sm̄ biuggu i Jerusalem/ ad drijga hoor/ ꝫ han̄ rak Juda (þar til.)

12 Og þar kom eitt skrif til han̄s fra Elia spaman̄e/ s̄ hlioodade: so sagde Drotten̄/ þijns fødurs Davids Gud: af þvi þu ecke hefur geinged a þijns fødurs Josaphats veige/ et helldur Asa Juda kongs veige.

13 En̄ hefur geinged a Jsraels konga veige/ og giørt þad/ ad Juda og Jerusalems in̄biggiarar drijga hoor/ epter Achabs huss hooran/ og þu hefur þar med i hel sleiged þijna brædur af þijns fødurs huse/ * sem voru betre en̄ þu.
* 1. Kong. 2/ 32.

14 Sia/ so mun Drotten̄ slaa þig med stoorre plaagu a þijnu folke/ og a þijnum bornum og a þijnum hustrum/ og a øllu þijnu goldse.

15 Og þu (skallt plagast) med mørgum siukdoomum/ vegna þissa in̄ybla siukdooms/ þar til þijn in̄yble vegna siukdooms ganga ut dag fra deige.

16 So uppvakte Drotten̄ i moot Joram Philisteana og Arabana anda/ sem er hia Morlendskum.

17 Og þeir droou upp i Juda/ og ræntu þa/ og burt pærdu alla eign/ sem fanst i kongsens huse/ z þar med hn̄s syne/ z hn̄s hustrur/ ad hn̄ ecke hiellt ein̄ sijn̄ syne epter/ utan̄ Joahas hn̄s yngsta syne.

18 Og epter allt þetta plaagade Drotten̄ hn̄ i han̄s in̄yblum med siukdoome/ sem ecke kun̄e læknast.

19 Og þad varade dag fra deige/ og þegar tveggia ara tijd var liden̄/ geingu hn̄s in̄yble ut (af hønū/) med hn̄s siukdoome/ og hn̄ deyde af vondum sootum/ og hn̄s foolk giørde eckert bæl yfer hønum/ sem (þeir høfdu giort) bæl yfer hn̄s fedrum.

20 Han̄ var tveggia og þriatijgu ara gam all/ þegar hn̄ vard konungur/ og rijkte atta ar i Jerusalem/ z gieck (so/) ad eing en̄ hafde þocknan (a hønum/) og þeir groofu hn̄ i Davids borg/ en̄ ecke a medal konungan̄a grafa.

## XXII. Capitule.

Epter Ahasiæ Dauda rijkte Drottning Athalia i Juda.

Og þeir sem biuggu i Jerusalem/ * giørdu Ahasia/ han̄s yngsta son/ til konungs i hn̄s stad/ þvi þad skrijds foolk/ sm̄ kom med þeim Arabisku til um̄sætur sens/ hafde i hel sleiged alla þa firstu/ og Ahasia/ Jorams son/ vard konungur

ungur i Juda. * 2. Kong. 8/24.

2 Ahasia var tveggia og fiorutiju ara gamall/ þegar hann vard konungur/ og rijkte eitt ar i Jerusalem/ og hanns modur nafn/ var * Athalia/ Omri dotter. * 2. Kong. 11/1.

3 Hann/ hann gieck ogso a Achabs huss vegum/ þvi hanns mooder riede hønum ad giøra illa.

4 Og hann giørde vondt fyrer Drottens augum/ eins sem Achabs hus/ þvi þeir/ þeir voru radgiafar epter hans fødurs dauda/ og fordiørfudu hann.

5 Hann gieck ogso epter þeirra rade / og foor med Joram Achabs Jsraels konungs syne i strijd/ næst Hasael konungenum af Syria / til Ramoth i Gilead / enn þeir Syrlendsku * sloou Joram.
* 2. Kong. 8/8. C. 9/15.

6 Og hann snere aptur/ ad lata sig græda i Jesreel / þvi hann hafde sar/ sem þeir høfdu sleiged hann i Rama/ þar hann strijdde vid Hasael/ konungenn af Syria / og Asaria Jorams son/ Juda konungur/ foor ofann/ ad sia Joram Achabs son/ i Jesreel/ þvi hann la siukur.

7 Og Ahasiæ forørk(un) var af Gude / ad hann kom til Joram / þvi þegar hann kom / þa droo hann ut med Joram i moot Jehu/ Nimsi syne / sem Drottenn hafde smurt / ad uppræta Achabs hus.

8 Og þad skiede/ þa Jehu framde straffed i moot Achabs huse/ þa fann hann (nockra) af þeim ypparstu af Juda / og Ahasiæ brædra børnum / sem þioonudu Ahasia/ og sloo þa i hel.

9 Sijdann leitade hann epter Ahasia / og þeir gripu hann/ og hann/ hann hafde faled sig i Samaria/ og þeir færdu hann til Jehu/ og sloou hann i hel/ og groofu hann/ þvi þeir søgdu: hann er Josaphats son/ sem leitade Drottens i sijnu giørvøllu hiarta. Og þar var eingenn af Ahasia huse/ sem treyste sier/ ad taka rijked.

10 Þa * Athalia Ahasias mooder sa / ad hennar sonur var daudur / þa took hun sig upp / og fyrerkom øllu konunglegu sæde i Juda huse. * 2. Kong. 11/1.

11 Enn Josabeath/ konungsens dootter/ took Joas Ahasias son / og stal hønum a medal konungsens barna / sem voru i hel sleigenn / og liet hann med sinne foostru i sængur herberged / so falde Josabeath kong Jorams doottir / Jojada prests hustru/ hann/ þvi hun/ hun var Ahasia syster / fyrer Athalia/ ad hun slæe hann ecke i hel.

12 Og hann var dulenn med þeim i Guds huse sex ar / og Athalia var drottning i landenu.

## XXIII. Capitule.

### Joas verdur Konungur/ og Athalia fyrirferst.

Enn * a þvi siøunda are took Jojada eitt øruggt sinne fyrer sig/ og took þa ypparstu yfer hundrudum/ sem voru Asaria Jerohams son/ og Jsmael Johanans son/ og Asaria Obeds son/ og Maeseia Adaia son/ og Elisaphat Sichri son/ med sier i samband. * 2. Kong. 11/4.

2 Og þeir fooru um kring i Juda / og søfnudu Levitunum af øllum Juda stødum/ og þeim ypparstu fedrum a medal Jsrael / og komu til Jerusalem.

3 Og sa giørvalle søfnudur giørde eitt samband vid konungenn i Guds huse / og hann sagde til þeirra: sia/ konungsens sonur skal vera konungur / so sem Drottenn sagde um Davids børn.

4 Þetta er þad/ sem þier skulud giøra: þridie partur af ydur sem geingur inn um sabbatenn/ af prestunum og Levitunum/ skulu vera portvaktarar hia dyra þreskulldenum.

5 Og þridie parturenn i konungsens huse / og þridie parturenn hia grundvallar portenu/ enn allt foolked i gardenum fyrer Drottens huse.

6 Enn so eingenn kome inn i Drottens hus/ utann prestarner og Levitarner/ sem þar þioona/ þeir/ þeir skulu ganga inn/ þvi þeir eru heilager / enn allt foolked skal taka vara a Drottens varatekt.

7 Og Levitarner skulu skipa sier kring um konungenn / hvør med sijna verju i sinne hende/ og hvør sem kiemur i hused/ skal deydast/ Samt vered þier hia konungenum /

ungenum/ nær hañ geingur iñ/ og nær hañ geingur ut.

8 Og Levitarner og allur Juda giørdu epter øllu þvi / sem Jojada prestur hafde byfalad/og tooku hvør sitt folk/ sem iñkomu um̃ sabbateñ med þeim/ sem̃ utgeingu um̃ sabbateñ / þvi Jojada prestur liet ecke skipanernar ganga burt.

9 Og Jojada prestur * fieck þeim yppurstu yfer hundrudum/ spioot og skiølldu/ sem̃ høfdu vered kong Davids vopn/ sem voru i Guds huse. * 2. Kong. 11/10

10 Og hañ skipade øllu foolkenu / og sierhvør (stood) med sitt vopn i siñe hende/ fra þeirre hægre sijdu i husenu/ allt til þrrar vinstre sijdu i husenu / giegnt altarenu/ ꝛ giegnt husenu/ hia konungenum/ um̃ kring.

11 Þa framleiddu þr konungsens son / ꝛ settu koronuna ꝛ vitnesburdeñ uppa hañ/ og giørdu hañ ad konge / og Jojada og hañs syner smurdu hañ / og søgdu: kongureñ fæe lucku.

12 Þegar Athalia heyrde * foolksens hævada/ sem til hlupu og lofudu konungeñ/ þa gieck hun til foolksens i Drottens hus. * 1. Kong. 1/ 41.

13 Og hun sæ/og siæ/ þa stood konungureñ hia synum stoolpa i iñgangenum/ og þeir yppurstu/og bæsunurnar hia konungenum / og allt foolked i landenu var gladt/og blies i bæsunur/og saungvararner voru þar med streingia-leik / og gæfu til vitundar / ad mæñ skyllde syngia lof/ Þa sundur reif Athalia sijn klæde/og sagde: upphlaup/ upphlaup.

14 Eñ Jojada prestur gieck ut med þeim yppurstu yfer hundrudum/sem voru yfer hernum / og sagde til þeirra: leided hana ut fyrer rødena/ ꝛ hvør sem̃ fylger heñe/hñ skal deydast med sverde/ Þvi prestureñ hafde sagt: þier skulud ecke slæ hana i hel i Drottens huse.

15 Og þr løgdu hendur a hana/ ꝛ hun kom til hesta-portsens iñgangs hia konungsens huse/ og þeir sloou hana þar i hel.

16 Og Jojada giørde eitt samband i mille syn og alls foolksens / og i mille konungsens/ad vera Drottens poolk.

17 Sijdañ gieck allt poolked iñ i Baals hus/og brutu þad nidur / og sundurbrutu hñs olturu/ og hñs byllæte/og i hel sloou Mathan/ Baals prest / fyrer altarenu.

18 Og Jojada skickade embættum i Drottens huse/ pyrer prestano/ Levitana/ hvørium David hapde skipt til Drottens huss/ ad giora Drottne breñe-offur / sem skripad er i Mose løgmæle/med glede og med saung/sem David hapde diktad.

19 Hñ skickade ꝛ portvaktara i Drottens huss porte/ad eingeñ i nockre ohreiñe høndlan mætte koma (þar iñ.)

20 Og hñ took þa yppurstu yper hundrudum / og þa megtugu / og herrana a medal foolksens/og allt poolked ap landenu / og færde konungeñ opañ pra Drottens huse / og þeir geingu i giegnum þad hæpva port til konungsens huss/ og settu konungeñ a kong. stooleñ.

21 Og allt foolked ap landenu var gladt / og stadureñ var kirr /epter þad þeir hopdu i hel sleiged Athalia med sverde.

## XXIV. Capitule.

### Joas Rijkesstioornan og Daude.

JOas * var sio æra gamall/þegar hñ vard konungur/og rijkte þiorutijgi ær i Jerusalem / og hañs moodur napn var Sibia ap Berseba. * 2. Kong. 12/ 1.

2 Og Joas giørde riett fyrer Drottens augum/ so leinge Jojada prestur lipde.

3 Og Jojada took honum tvær hustrur/og hñ ablade sona og dætra.

4 Og þad skiede/ þar epter hapde Joas i siñe/ad endurnyia Drottens hus.

5 Og hañ sapnade prestunum og Levitunum / og sagde til þeirra: fared ut til Juda stada/ og safned peningum af øllum Israel / til ad endurbæta ydar Guds hus ærlega ærs/og þier skulud plijta ydur þar til/ eñ Levitarner plijttu sier ecke.

6 Þa kallade kongureñ Jojada þañ ypparsta/og sagde til hñs: þvi hefur þu ecke gæt a Levitunum/ ad iñfæra ap Juda og Jerusalem þa hiælp/ sem * Mose Drottens þienare / og Israels søpnudur (skickade)

(skickade) til vitnesburdarens llalldbud-ar. * 2. Mos. 30. 12/ 13.

7 Þvi su ogudlega * Athalia/ hennar syner/ hafa niduhrbroted Guds hus/ og allt þad sem var heilagt giort til Drottens huss / hafa þeir tileinkad handa Baalim. * c. 22/10.

8 Þa befalade konungurenn / og þeir giørdu eina kistu/ og settu hana i portted / utann fyrer Drottens huse.

9 Og þeir lietu uthroopa i Juda og i Jerusalem / ad innfæra Drottne þa hiælp/ sem var Israel uppalogd i eyde morkenne af * Mose Guds þienara.

* 2. Mos. 30. 12/13.

10 Þa gloddust aller foringiarner/ og allt foolked/ og þeir færdu/ og kostudu i kistuna/þar til hun vard full.

11 Og þad skiede / nær þad var tijme/ ad mann skyllde bera kistuna framm epter konungsens befalning/ fyrer Levitana/ og nær þeir sæu/ ad þar voru marger peningar i / þa kom konungsens skrifare / og sa sem hafde skickan af þeim ypparsta preste / og tæmdu kistuna / og baru hana burt (aptur/) og settu hana i sinn stad/ so giørdu þeir alla daga/ og sofnudu peningum i margfiolda.

12 Þessa gæfu konungurenn og Jojada * þeim/sem stoodu fyrer erfidenu i Drottens huss þioonustu / og þeir leigdu (stein-)hoggvara og timburmenn/til ad endurnyja Drottens hus / so og meistara a iærn og kopar / til ad endurbæta Drottens hus. * 2. Kong. 22/4.

13 So giørdu þeir/sem stoodu fyrer erfidenu / ad endurbooten a verkenu gieck framm fyrer þeirra hond/ og þeir komu Guds huse til sijns rietta lags/og þeir fullgiørdu þad.

14 Og þegar þeir hofdu þad fullkomnad/færdu þeir peningana/sem afgeingu/til konungsens og Jojada / þar af giørde mann verkfære til Drottens huss/ verkfære til þioonustunnar og til offrananna/ og skeider og gull-kier/og silfur-(kier/)og offrudu brenne-offre i Drottens huse ydduglega/alla Jojadæ daga

15 Og Jojada vard gamall/ og vel vid alldur/ og deyde / Hann var hundrad og þriatiju æra gamall/ þegar hann deyde.

16 Og þr grofu hn i Davids stad a med al konungann/ af þvi hann hafde giørt vel i Israel/bæde vid Gud og hns hus.

17 Enn epter Jojada dauda/ komu þr yppurstu af Juda/og tilbædu fyrer konungenum/ þa hlijdde konungurenn þeim.

18 So yfergæfu þeir Drottens þeirra fedra Guds hus/ og þioonudu lundunum og afgudunum/Þa vard þar ein reide yfer Juda og Jerusalem/fyrer þessarar þeirra syndar skulld.

19 Þo hn sende spæmenn til þrra / ad snua þm til Drottens / Þeir vitnudu fyrer þeim/ * enn þeir (villdu) þad ecke heyra. * c. 33/ 10.

20 Og Guds Ande yfklæddest Sacaria/ Jojada prests syne/og hann stie upp yfer foolked/ og sagde til þeirra: so sagde Gud: þvi yfertroded þier Drottens bod? þar þ munud þier ecke fæ lucku / þvi * þier hafed yfergiefed Drottenn / og hn hefur yfergiefed ydur. * c. 15/2.

21 Enn þr giørdu eitt samband i moote hm/ z grijttu hn i hel/epter konungsens bode/ i gardenum hia Drottens huse.

22 Og kong Joas minntest ecke þeirrar myskunsemdar/ sem Jojada hanns fader giørde vid hann/helldur sloo hanns son i hel. Og þegar hann doo/sagde hn: Drottenn mun sia og krefia þess.

23 Og þad skiede / þa ared var ute / droo þeirra Syrlendsku her upp i moote honum og þeir komu i Juda og Jerusalem / og fordiørfudu af foolkenu alla þa yppurstu i bland foolksens / og sendu allt þeirra herfang til konungsens af Damasco.

24 Enn þo ad þeirra Syrlendu magt kiæme med smaa menn / samt gaf Drottenn eirn mjog storann her i þeirra hond/af þvi þeir hofdu yfergiefed Drottenn þeirra fedra Gud/ og þeir stroffudu Joas.

25 Og þa þeir voru farner fra honum/ þvi þeir lietu hann epter i stoorum sikt doomum / * giordu hanns þienarar eitt

samband

samband i moote hønum / fyrer Jojada prests barna bloods skulld/ og sloou hañ i hel a hañs sæng/ so hañ deyde / Og þeir groofu hñ i Davids stad/ eñ groofu hañ ecke ** i konungaña grefum.

* 2. Kong. 12/20. ** 2. Kron. 21/20.

26 Og þesser voru þeir/sem giørdu samband i moote hønum: Sabad/ Simeaths þeirrar Amonitisku son / og Josabath Simrits þeirrar Moabitisku son.

27 Og vidvikiande hñs sonum/ og summusie / sem var sofnud under hønum / og Guds huss grundvelle/sin / þeir eru skrifader i konungaña bookar aniaal/ og * hañs son Amazia vard konungur i hñs stad. * 2. Kong. 12/21. c. 14/1.

XXV. Capitule.

Amaziæ Rijkes Stiornan og Daude.

Amazia var fim̃ og tuttugu ara gamall/ þegar hañ vard konungur/og rijkte niju og tuttugu aar i Jerusalem/ Og hñs mood ur nafn var Joadan / af Jerusalem.

2 Og hañ giørde riett fyrer Drottens augum/ þo ecke i einu fullkomnu hiarta.

3 Og þad skiede/ þegar rijked var stadfest hønũ/ þa sloo hañ sijna sveina i hel/ sem høfdu sleged konungeñ hñs fødur.

4 Eñ hañ sloo ecke þeirra børn i hel / þvi ( hañ giørde ) so sem er * skrifad i løgmaalenu i Mose book/ þad sem Drotteñ bijdur/ og seiger : fedurner skulu ecke deya fyrer børneñ / ei helldur børneñ deya fyrer fedurnar / helldur skal hver deya fyrer siñar syndar skulld.

*5. Mos. 24 / 16. etc.

5 Og Amazia safnade Juda / og setti þa epter (þeirra) fedra huse / til foringia yfer þusunder/ z til foringia yfer hundrud/ a medal alls Juda og BenJamin/ Og talde þa / fra tuttugu ara gømlum og þar yfer/og fañ a medal þeirra þriu hundrud þusund utvalda/ sem kuñu fara i strijd/ sem kuñu bera spioot z skiølld.

6 Þar med leigde hañ af Jsrael hundrad þusunder strijds-meñ/ fyrer hundrad centener silfurs.

7 Eñ þar kom eirn Guds madur til hñs/ og sagde: o konungur / lat ecke Jsraels her koma med þier / þvi Drotteñ er ecke med Jsrael / (ey helldur) med øllum Ephraims børnum.

8 Helldur kom þu/giør þad/styrk þig til strijdsens : Gud mun læta þig falla fyrer (þijnum) oviñum/ þvi þar er magt i Gude/ ad hialpa/ og ad læta falla.

9 Og Amazia sagde til Guds mans: hvad skal mañ þa giera af þeim hundrad centener/ sem eg hefe gefed strijdsmøñunum af Jsrael? og sa Gudsmadur sagde : Drotteñ hefur ad gefa þier meira eñ þetta.

10 Þa skilde Amazia þad strijds-foolk ad/sem var komed til hñs af Ephraim/ ad fara til þeirra stadar / Þar fyrer urdu þeir harla reider i giegn Juda/ og fooru aftur til þeirra stadar med storre reide.

11 Og * Amazia vard sterkur / og fære de sitt folk (ut/) og droo i Sallt-daleñ / og sloo Seirs børn tiju þusunder.

*2. Kong. 14/ 7.

12 Þar med fanngudu Juda børn tiju þusunder lifande/ og leiddu þa efst uppa kletteñ/og hrundu þeim ofañ af kletteñũ/ ad þeir aller brustu i sundur.

13 Eñ þeir strijdsmeñ/sem Amazia liet fara til baka / ad fara ecke til strijds med hønũ/ giørdu eitt aahlaup i Juda stade/ fra Samaria/ og allt til BethHoron / og sloou af þeim þriar þusunder/og rændu miklu herfange.

14 Og þad skiede / þegar Amazia kom ur Edomita ña slage/ þa førde hañ Seirs barna gude/ og sette þa sier til guda/ og tilbad þ þeim / og gaf þeim reykelse.

15 Þa vard Drottens reide grom yfer Amazia / og hañ sende eirn spaamañ til hañs/ hver ed sagde til hñs: hvar fyrer leitar þu þess foolks guda / sem * ecke kuñu hialpa þeirra foolke af þiñe hende? 2. Mos. 32/ 37/38.

16 Og þad skiede / þegar hañ talade til hñs/ þa sagde hñ til hñs : mun madur hafa sett þig til konungsens raads? lattu af / þier (sialfum til besta/) hvi skylldu þeir slaa þig? þa liet spaamadureñ af z sagde: eg førmerke ad Gud hefur alyktad/ad fordiarfa þig / af þvi þu þad giørder/

giorder/ og ecke hlÿdder mÿnu rææde.

17 Og Amazia/ * Juda konungur/ rææd þærde sig/ og sagde til Joas Joachas son ar/ Jehu Israels konungs sonar/ og liet seigia: kom og læætum oss sia hver añañ. * 2. Kong. 14/ 8.

18 Eñ Joas/ Israels konungur/ sende til Amazia Juda konungs/ z liet seigia: þirne-buskureñ/ sem er i Libanon/ sende til cedrus/ sem er i Libanon/ og liet seigia: gief þÿna dootter mÿnū syne til hust rur/ eñ villu-dÿreñ/ sem voru i Libanon/ hlupu yþer/ og nidurtrædu þirnebuskeñ.

19 Þu meinter: siaa/ þu hefur sleiged Edomitana/ og þitt hiarta stærer sig/ ad vegsamast/ Nu vertu i þÿnu huse/ hvar fyrer sæker þu epter olucku/ ad þu skule er þalla/ þu og Juda med þier?

20 Eñ Amazia hlÿdde (hønum) ecke/ þvi þad (skiede) af Gude/ ad giefa þa i (hañs) hond/ af þvi þeir høfdu leitad Edomitaña guda.

21 So foor Joas Israels konungur upp/ z þeir sææu hver añañ/ hñ z Amazia Juda konungur i BethSemes/ s̄ er i Juda.

22 Eñ Juda vard sleigeñ fyrer Israel/ og * flÿde hver til sÿns heimkÿñes.
*2. Sam. 18/ 17.

23 Og Joas Israels konungur greip Amazia Juda konung/ Joas son/ Joachas sonar i BethSemes/ og færde hañ til Jerusalem/ og nidur sloo mureñ i Jerusalem/ fra Ephraims porte/ allt til horn-portsens/ fiogur hundrud alna langt.

24 Og (hañ burt-took) allt gulled og silfred/ og oll verkfæreñ/ sem fundust i Guds huse/ hia ObedEdom/ og fiæærsiood eñ i konungsens huse/ og took børneñ til gÿslingar/ z kom aptur til Samaria.

25 Og Amazia Joas son/ Juda konungur/ lifde i fimtan æær epter Joas Joachas sonar/ Israels konungs/ dauda.

26 Og hvad meira er ad seigia um̄ Amazia/ þad firsta og þad sÿdasta/ siaa/ er þad ecke skrifad * i Juda og Israels konunga book? * 2. Kong. 14/ 1.

27 Og fra þeim tÿma/ ad Amazia gaf sig fra Drottne/ þa giordu þeir eitt sam bandt moote hønum i Jerusalem/ og hñ flÿde til Lachis/ Þa sendu þeir epter hønum til Lachis/ og sloou hañ þar i hel.

28 Og þeir fluttu hañ a hestum/ og * greofu hañ hia sÿnū fedrū i Juda stad.
* 2. Kong. 9/ 28.

## XXVI. Capitule.

### Ussiæ Rijkes-stiornan/ Sigur/ og Spitelska.

Þa * took allt Juda foolk Ussia/ sem var sextan ææra gamall/ og giorde hñ ad konunge i sÿns fedurs Amazia stad.
* 2. Kong. 14/ 21.

2 Hañ/ hañ bigde Eloth/ og kom heñe til Juda aptur/ epter þad konungureñ lææ med sÿnum fedrum.

3 Ussia var sextan ææra gamall/ þegar hañ vard konungur/ og rÿkte tvo og fim̄ tÿu æær i Jerusalem/ Og hañs moodur nafn var Jecholia af Jerusalem.

4 Og hñ giorde rieitt * fyrer Drottens augum/ epter ollu þvi/ sem Amazia hñs fader giorde. * c. 25/ 2.

5 Þvi hañ leitade Guds so leinge Sacaria lifde/ sem hafde forstand i Guds sioonū/ Og so leinge hñ leitade Drottens/ liet Gud hañ hafa lucku.

6 Þvi hañ droo ut/ og strÿdde i moote Philisteunum/ og nidur sloo murana i Gat/ og murana i Jabne/ og murana i Asdod/ og bigde stade vid Asdod/ og medal Philisteaña.

7 Og Gud hialpade hønum i moote Philisteunum/ og i moot þeim Arabisku/ sem biuggu i GurBaal/ og þeim Meunitum.

8 Og þeir Am̄onitar * gææfu Ussia gææfur/ og hñ vard nafnkuñugur/ þar til madur kiemur i Ægyptaland/ Þvi hñ var sterkur harla miog. * c. 17/ 11.

9 Þar med bigde Ussia turna i Jerusalem hia horn-portenu/ z hia dal-portenu/ og hia hornenu/ Og stirkte þa.

10 Hañ bigde og turna i eidemørkeñe/ og groof marga bruña/ þvi hañ hafde miked fie/ bæde i dolunum og a sliettuñe/ akur-meñ og vÿngards meñ/ hia fiollunum/ og hia Carmel/ Þvi hañ hafde lÿst til akur-(vrÿnu.)

11 Framveiges hafde Ussia eina strijds magt/ sem foor i her i fylktingu/ reikn ader epter þeirra yferskodun/ under Jeiels skrifara / og Maeseia bijfalnings mans hende/ Under Hanania hende/ eins af konungsens høfdingium.

12 Su heila tala af þeim yppurstu fedrum af strijds monnunum/ var tvø þusund og sex hundrud.

13 Og strijds heren under þeirra hende var þriu hundrud þusund/ og sio þusunder z fim hundrud/ hæfer til strijds/ med her-styrk/ ad hiaalpa konungenum i moote fiandmannenum.

14 Og Ussia fieck þeim handa þm øllum her/ skiølldu/ og spioot/ og hialma/ og pansara/ og boga/ og stein slongur.

15 Han giørde og arkuga brioost-vørn i Jerusalem/ sem skyllde vera a turnunum og a hornunum / til ad skioota med pijlum og stoorum steinum / So komst hans nafn vijdt ut/ af þvi honum vard undarlega hiaalpad / þar til han vard megtugur.

16 En þa han var orden megtugur / metnadest hans hiarta/ ad fordiarfa þ / Og han forgreip sig a Drottine sijnum Gude/ og gieck i Drottens mustere / ad giefa reykelse a reykelses altared.

17 Þo Asaria * prestur geinge epter honum/ z attatiu Drottens prestar m þm/ duganlegt folk. *1. Kron. 6/ 10.

18 Og þr motstodu konungenum Ussia/ og søgdu til hns: Ussia/ þad heyrer þier ecke til/ ad giefa reykelse fyrer Drottne/ helldur prestunum * Aarons børnum/ sem eru helgader til ad giefa reykelse/ Gack ut af helgedoomenu/ þvi þu forgrijpur þig/ og (þad verdur) þier ecke til heidurs fyrer þeim Drottne Gude.

* 4. Mos. 18/ 7.

19 Þa vard Ussia reidur/ og hn hafde eitt reykelses kier i hendenne / ad giefa reykelse/ Og sem hn var snæfur i moote prestunum/ þa utkom lijkþraa i hns enne/ fyrer prestunum i Drottens huse/ framme fyrer reykelses altarenu.

20 Og Asaria sa ypparste prestur leit til hans/ og aller prestarner/ og sia/ þa var hn lijkþraar i hns enne/ og þeir rætu han hastarlega þar fra/ jaa/ han vard ogso neyddur til ad ganga ut. þvi Drottenn hafde slegid han.

21 So var kong Ussia lijkþraar allt til hans dauda dags / og bioo sprestkur i einu fierdeiles huse/ þvi hn var fraskilenn fra Drottens huse/ Og Jotham hans son/ (stood) fyrer kongsens huse/ og dæmde foolked i landenu.

22 Hvad meira er ad seigia i fra Ussia / þad fyrsta og þad sijdasta/ hefur spamadurenn * Esaias/ Amos son skrifad. * Es. 1 1.

23 Og Ussia laa med sijnum fedrum/ og þeir groofu han med sijnum fedrum / i þeim akre / sem heyrde til konungana grøfum/ þvi þeir søgdu. han er spitelskur/ Og Jotham/ hans son/ vard kongungur i hans stad.

## XXVII. Capitule.

Jothams Rijkesstioornan.

Jotham var * fim og tuttugu aara gamall / þegar han vard konungur/ og rijkte sextan aar i Jerusalem / Og hans moodur nafn var Jerusa/ Zadoks dootter.

* 2 Kong. 15/ 33.

2 Og hn giørde riett fyrer Drottens augum/ epter øllu þvi / sem Ussia hns fader hafde giørt/ fyrer utan (þad/ ad) han ecke gieck i Drottens mustere / og foolked enn nu fordiarfade sig.

3 Han/ hn biggde þad haa port a Drottens huse / Og biggde mikid uppa Ophel mur.

4 Þar med biggde han þa stade a Juda fialle/ Og i skooginum * biggde han slot og turna. * c. 26/ 10.

5 Han/ hn strijdde og i moote Ammons barna konunge / og fieck yfer hond yfer þeim/ so ad Ammons børn gaafu honum þad sama aar hundrad centener silfurs / og tiju þusunder cor hveites / og tiju þusunder (cor) bygg/ þad gaafu Ammons børn honum/ bæde a þvi ødru og a þvi þridia aare.

6 So vard Jotham stirkur / þvi hann setti sijna vegu fyrer Drottens sijns Guds augsijn.
7 Og hvad meira er ad seigia um Jotham/og øll hans strijd/og hans vegu/ sina/þad er skrifad * i Israels og Juda konunga book. * 2. Kong. 15/ 32.
8 Hann var * fimm og tuttugu ara gamall/ þegar hann vard konungur/ og rijkte sextan aar i Jerusalem. * v. 1.
9 Og Jotham laa med sijnum fedrum/ og þeir groofu hann i Davids stad/ Og hans son * Achas vard konungur i hans stad. * c. 28/ 1.

XXVIII. Capitule.

Achas Rijkesstioornan.

Achas * var tuttugu ara gamall/ þegar hann vard konungur/og rijkte sextan aar i Jerusalem/og giørde ecke riett fyrer Drottens augum / sem David hans fader. * 2. Kong. 16 / 1.
2 Enn hann gieck i Israels konunga vegum/ þar med giørde hann steypt(bijlæte) til þeirra Baalim.
3 Hann gaf og reykelse i Hinnoms sonar dal / og brende sijna syne i elldenum/ epter * heidingianna svijvirdingum/hvørja Drotten hafde utreked fyrer Israels børnum. * 5. Mos. 18. 9/ 10. 1. Kong. 14/ 24.
4 Þar med offrade hann/og giørde reykelse a hædunum/og * a hoolunum/ Og under øllum grænum trieam. * 1. Kong. 14/23.
5 Þar fyrer gaf Drotten hans Gud hann i konungsens hønd af Syria/ so ad þeir sloou hann /og fluttu eirn mikenn fiølda af hans fangudum burt/og fluttu (þa) til Damascum. Og hann vard egso giefenn under konungsens hønd af Israel/ ad hann giørde eitt stoort slag uppa hann.
6 Þvi Pekah Remaliæ son i hel sloo i Juda hundrad og tuttugu þusunder a einum deige/ sem voru aller hraust foolk/ af þvi þeir forlietu Drotten þeirra fedra Gud.
7 Og Sichri/eirn vollduglur(madur)af Ephraim/ i hel sloo Maeseia / konungsens son/ og Asrikam/þann ypparsta fyrer husenu / og Elkana/ þann annann næstann konungenum.
8 Og Israels børn fluttu fangada burt af þeirra brædrum/ tvø hundrud þusund / kvinnur / syne og dætur / og tooku þar med miked herfang fra þeim / og færdu þad herfang til Samariam.
9 Og þar var eirn Drottens spamadur/hvørs nafn var Oded/og hann gieck ut i moote sama her / sem kom til Samariam / og sagde til þeirra : sia/med þvi Drotten ydar fedra Gud er reidur yfer Juda/gaf hann þa i ydar hendur/ Enn þier hafed grimmelega sleiged þa i hel/ad þad nær upp i Himenenn.
10 Og nu meintud þier/ad underþryckia ydur Juda børn og Jerusalem til sveina og þionustu-stulkna/ Er þar þa ecke søk hia ydur þ Drottne ydar Gude?
11 So hlijded mier nu/og flitied þa fangudu til baka / sem þier hafed burt fært af ydar brædrum / þvi Drottens reide er grøm yfer ydur.
12 Þa tooku (nockrer) menn sig upp a medal þeirra yppurstu af Ephraims børnum/Asaria Johanans son / Berechia/ Messilemoths son/ og Jehiskia Sallums son/ Amasa/ Hadlai son/ i moote þeim/ sem komu ur hernum:
13 Og þeir søgdu til þeirra: þier skulud ecke flitia þa fangudu hier inn / til skulldar yfer oss i moote Drottne/ Þvi þeinke þier ad giøra vorar synder og vora søk þess meire/ Þo ad vier høfum stoora søk / og þar sie ein stoor reide yfer Israel?
14 Þa sleppte striijds foolked fangunum og herfangenu/ fyrer þeim yppurstu og øllum søfnudenum.
15 Þa stoodu upp þeir menn / sem eru nefnder a nafn/og tooku þa fangudu/ og * alla nakta af þeim/klæddu þeir af herfangenu/og klæddu þa/ og feingu þeim skoo/og gafu þeim mat/og gafu þeim dryck/og smurdu þa/og alla veika/ þa fluttu þeir a øsnum/og færdu þa til Jericho/til * * palmastadarens/ hia þeirra brædrum/Sijdann komu þeir apftur til Samariam.

sagt/ Og eg kallade prestana/ og took ei-
rn eyd af þeim/ ad giøra þañeñ.

13 Eg uthriste ogso mitt laf/ og sagde:
so uthriste Gud hvørn mañ fra sijnu
huse og fra sijnu erfide/ sem ecke hellð-
ur þetta ord/ og hañ verde so * uthrist-
ur og tomur/ og allur søfnudureñ sag-
de: amen/ og þeir lofudu Drottiñ/ og
foolked giørde eins. * Matth. 10/ 14.

14 Og fra þeim tijma/ (konungureñ)
bijfalade mier ad vera þeirra fovite i
Juda lande/ (sem var) fra þvi tuttug-
asta are/ ꝛ allt til þess añars og þrij-
tugasta Artaxerxis kongs ærs/ (þad
er) toolf ær/ æt eg/ eg og mijner bræd-
ur/ ecke fovitans braud.

15 Og þeir fyrru fovitar/ sem høfdu
vered fyrer mig/ høfdu lagt þunga a
foolked/ og teked braud og vijn fra þm̃/
(og) þar med fiørutiju sekla silfurs/ og
þeirra sveinar høfdu fared med vallde
yfer foolked/ eñ eg/ eg giørde ecke svo/
fyrer Guds ottasaker.

16 Þar med bætte eg og uppa þessa
murs erfide/ og vier keyptum aungva ak-
ra/ ꝛ aller mijner þienarar mættu ko-
ma þangad til samans til erfidesens.

17 (Þar med) voru og af Judunũ og
þm̃ yppurstu/ hundrad ꝛ fimtiju meñ/
og þeir voru komner til mijn fra heid-
ingiunum/ sem eru allt um̃ kring oss/
vid mitt bord.

18 Og þad/ sem var tilreidt til eins
dags/ var eiñ uxe/ sex tilvalder sauder/
og fuglar/ sem voru matreidder handa
mier/ og millum (hvørra) tiju daga/ af
alls (slags) vijne/ yferfliootanlegt/ ꝛ um̃
fram̃ þetta leitade eg ecke fovitans
kostar/ þvi þrældoomureñ var þungur
a þessu foolke.

19 Miñ Gud/ þeink a mig til þess be-
sta/ epter øllu þvi/ sem eg hefe giørt
vid þetta foolk.

## VI. Capitule.

Nehemias um̃ flijr siña Fiandmaña
Raadslaganer.

Og þad skiede/ þegar Saneballat
og Tobia/ og Gesem sa Ara-
biske/ og adrer vorer fiendur/
heyrdu/ ad eg hafde biggt mur-
eñ/ og þar var eingeñ hola þar a fram
ar/ eñ þo eg hefde ecke eñ þa heingt
hurdernar i porteñ.

2 Þa sende Saneballat og Gesem til
mijn/ ad læta seigia: kom/ og lætum oss
koma samañ sameigenlega i lands þor-
punum a þeirre mørk Ono/ eñ * þeir
þeinktu ad giøra mier illt.
* 1. Mos. 50/ 20.

3 Og eg sende bod til þeirra/ ad læta
seigia: eg hefe eitt stoort verk ad ut-
rietta/ og kañ ecke koma ofañ/ hvi skyll-
de verked verda forsoomad nær eg yfer-
gief þad/ og fer ofañ til ydar?

4 Og þeir sendu (vel) fiorũ siñũ bod til
mijn/ med þeim hætte/ og eg svarade þe-
im a þeñañ hætt.

5 Þa sende Saneballat soleides i fim̃-
ta siñ siñ þienara til mijn/ og eitt oped
brief i hañs hende.

6 Þar i var skrifad: þad heft heyrst a
medal heidingiaña/ ꝛ Gasmu hefur þad
sagt/ ad þu og Judarner þeinke ad fa-
lla fra/ (og) þar fyrer bigger þu mur-
eñ/ og þu villder vera þeirra konungur
i þessum mælefnum.

7 Og þu eirneñ hafer tilsett spaa-
meñ/ sem skylldu uthroopa yfer þier i
Jerusalem/ og seigia: hñ er konungur
i Juda. Og nu mun soddañ heyrast
fyrer konungenum/ þar fyrer komum/
og lætum oss raadslaga samañ.

8 Eñ eg sende til hañs/ ad læta seig-
ia: þad er ecke skied soleides/ sm̃ þu seig-
er/ þvi þu hefur uppþeinkt þad af þij-
nu hiarta.

9 Þvi þeir villdu aller giøra oss hræ-
dda/ ꝛ þeinktu: þeir munu taka þeirra
hendur fra verkenu/ ꝛ þ mun ecke verda
fram̃geingt/ eñ nu styrk mijnar hendur.

10 Þegar eg/ eg kom i Semaia hus/ De-
laia sonar/ Mehetabeels sonar/ og hañ
hafde lokad sig iñe/ þa sagde hañ: læt-
um oss ganga til samañs i þad Guds
hus

Hus i midt musterẽd / og loka musteres dyrū/ þvi þeir munu koma ad slaa þig i hel/ ja þeir munu koma um̄ nottena ad slaa þig i hel.

11 Eñ eg sagde: skyllde eirn madur sem̄ eg/ flya? og hver er sem eg/ sem skyllde ganga i musterẽd/ til ad lifa: eg vil ecke ganga (þar iñ.)

12 Þvi eg merkte/ og saa/ Gud hafde ecke sendt hañ/ helldur sagde hañ þañ spaadoom um̄ mig / af þvi Tobia og Saneballat høfdu leigt hañ.

13 Þar fyrer var hañ leigdur / ad eg skyllde ottast/ ⁊ giøra so/ og syndga/ ad þad kiñe hafa orded þeim til eins ills nafns (um̄ mig/ ) ad þeir hefde kuñad midra mier.

14 Miñ Gud/ * þenk a Tobia og Saneballat/ epter þessum hañs giørdum / og eirneñ a þa spaakonu Noadia/ og a þa adra spameñ/ sem mig skielfdu.

* Ps. 74/ 22.

15 Og mureñ vard fullgiørdur a þim̄ fim̄ta og tuttugasta (deige) i Elul (manade/) a tveimur og fiøtiju døgum

16 Og þad skiede / þegar aller vorer fiandmeñ høfdu heyrt þad/ ⁊ aller heidingiarner/ sem voru allt um̄ kring oss/ saau þad/ þa * fiell þeim þeirra hugur harla miog / þvi þeir þecktu / ad þetta verk var giørt aß vorum Gude.

* 1. Mos. 42/ 28.

17 Ja a sama tijma voru aß Juda for-ingium/ sem skrifudu þeirra mørg brieß/ sem geingu til Tobiam / og (þar voru) þeir/ sem ßra Tobia komu til þeirra.

18 Þvi þar voru marger i Juda/ sem voru eydsvarner vid hñ/ þvi hañ var Sachania magur/ Ahrahs sonar/ og hñs son Johanan haßde teked Mesullams Berechiæ sonar doottur.

19 Og þeir tøludu um̄ hñs mikla froomleika fyrer mier / og ßluttu myn ord ut til hañs / (so) sende Tobia brieß til ad skielßa mig.

## VII. Capitule.

Nehemias setur Vakt i Portẽn/ og a Murana.

Framordiges skiede þ/ þegar mureñ var biggdur/ ad eg heingde ⁊ hurdernar/ ⁊ þar voru setter portvaktarar/ ⁊ saungvarar og Levitarner.

2 Og eg bijßalade Hanani/ mijnum brodur/ og Hanania/ slotsens foringia yßer Jerusalem/ þvi hñ var sem̄ eirn truþastur madur/ ⁊ ottadest Gud fram̄ yfer marga.

3 Og eg sagde til þeirra : Jerusalems port skulu ecke upplaatast / fyrr eñ sooleñ verdur heit/ og medañ þeir eñ nu standa (þar hia/) þa skulu þr apturloka portum/ ⁊ hardlæsa þm̄. Og ad þr setiest vakt aß Jerusalems borgarmøñū/ sierhvor a siñe vakt/ og sierhvor giegnt sijnu huse.

4 Þvi stadureñ var allvijdur og stoor/ eñ þar var lijted foolk i honum/ og huseñ voru ecke biggd.

5 Og miñ Gud gaß i mitt hiarta/ ad eg safnade saman herrunū og þeim ypparstu / og foolkenu / ad reikna þa til ættar / og eg ßañ eitt ætt-registur a þeim/ sem voru fyrst uppkomner (aß fangelsenu/ ) og ßañ skrißad þar i:

6 Þesse eru landsens børn/ þau sem̄ fooru upp aß utlegdarenar fangelse/ hveria Nabuchodonosor/ konungureñ aß Babylon/ haßde burt fært/ og sem voru komner aptur/ til Jerusalem og Juda / hver til sijns stadar.

7 Þeir sem̄ komu med Sorobabel/ Jesua/ Nehemia/ Asaria/ Raamia / Nachamani/ Mardochai/ Bilsan/ Misperet/ Bigevai/ Nehum/ Baena. Þetta er mañañna tala aß Israels foolke.

8 Pareos børn tvø þusund / hundrad og siøtiger og tvø.

9 Sephathia børn/ þriu hundrud siøtiju og tvø.

10 Arah børn / sex hundrud/ tvø og siøtiju.

11 * Pahath Moabs børn / a medal Jesua og Joabs barna/ tvø þusund og aatta hundrud og aatian. ÷ Esr. 2/ 6.

12 Elams børn/ þusund/ tvø hundrud/ fiøgur og fim̄tiju.

13 Sathu børn / aatta hundrud fim̄ og fiørutiju.

14 Sacai børn/ sio hundrud og sextiju.
15 Binnui børn/ sex hundrud ꜳtta og fiorutiju.
16 Bebai børn / sex hundrud ꜳtta og tuttugu.
17 Asgads børn / tvo þusund/ þriu hundrud tvø og tuttugu.
18 Adonikams børn/ sex hundrud/ siø og sextiju.
19 Bigevai børn / tvo þusund siø og sextiju.
20 Adins børn / sex hundrud / fim̃ og fim̃tiju.
21 Aters børn / af Niskia / ꜳtta og niutiju.
22 Nasums børn/ þriu hundrud/ ꜳtta og tuttugu.
23 Bezai børn / þriu hundrud fiøgur og tuttugu.
24 Nariphs børn / hundrad og tolf.
25 Gibeons børn/ fim̃ og niutiju.
26 Men̄erner af Bethlehem og Neto-pha/ hundrad/ ꜳttatiju ⁊ ꜳtta.
27 Men̄erner af * Anathot/ hundrad ꜳtta og tuttugu. * Jer. 1/ 1.
28 Men̄erner af Beth Asmaveth / tveir og fiørutiju.
29 Men̄erner a Kiriath Jearim/ Ca-phira og Beeroth / siø hundrud þrijr og fiørutiju.
30 Men̄erner af Rama og Gaba / sex hundrud ein̄ og tuttugu.
31 Men̄erner af Migmas/ hundrad og tveir og tuttugu.
32 Menerner af Bethel og Ai / hund-rad þrijr og tuttugu.
33 Men̄erner af þeirre an̄are Nebo / fim̃tiju og tveir.
34 Þeirrar an̄arar Elams børn/ þus-und/ tvø hundrud fim̃tiju ⁊ fiøgur.
35 Narims børn / þriu hundrud og tuttugu.
36 Jericho børn/ þriu hundrud fim̃ og fiørutiju.
37 Lodhadid og Ono børn/ siø hundrud og eitt og tuttugu.
38 Senaa børn/ þriu þusund/ niju hun drud og þriꜳtiju.
39 Prestarner: Jedaia børn/ af Jesua huse/ niju hundrud/ siøtiju og þriu.
40 Im̃ers børn/ þusund fim̃tiju ⁊ tvø.
41 Pashurs børn/ þusund/ tvø hund-rud siø og fiørutiju.
42 Harims børn / þusund og seitian.
43 Levitarner: Jesua børn/ af Kadmi el a medal Hodva barna/ siøtiju ⁊ fiøg:
44 Saungvararner : Asaphs børn / hundrad ꜳtta og fiørutiju.
45 Dyravaktararner: Sallums børn/ Aters børn / Talmons børn / Akubs børn/ Hatita børn/ Sobai børn/ hund-rad ꜳtta og þriꜳtiju.
46 Þeir Nethinim: Ziha børn/ Hasu pha børn/ Tabaoths børn.
47 Keros børn / Sia børn / Padons børn.
48 Libana børn / Hagaba børn / Sal-mai børn.
49. Hanans børn/ Giddels børn/ Ga-hars børn.
50 Reaia børn/ Rezins børn/ Necoda børn.
51 Gasams børn/ Usa børn.
52 Passeah børn/ Besai børn/ Meu-nims børn / Nephussims børn.
53 Bakbuks børn / Hakupha børn / Harhurs børn.
54 Bazliths børn / Mehida børn / Harsa børn.
55 Barkos børn/ Sisera børn/ Tha-mah børn.
56 Neziah børn/ Hatipha børn.
57 Salomons sveina børn / Sotai bø-rn/ Sopherets børn/ Prida børn.
58 Jaela børn / Darkons børn/ Gidd-els børn.
59 Sephatia børn/ Hatils børn/ Poch-ereths børn af Zebaim børnum/ Amons børn.
60 Aller þesser * Nethinim og Salo-mons sveina børn/ þriu hundrud niutiju og tveir. * Esr. 8/ 20.
61 Og þesser voru þeir/ sem fooru upp/ af Thel Melach/ Thel Harsa/ Cher-ub/ Addon og Immer/ en̄ kun̄u ecke kun̄-giøra þeirra fedra hus/ edur þeirra sæde/

hvørt

hvort þeir væru af Jſrael.

62 Delaia børn/Tobia børn/Necoda børn/ ſex hundrud tvø og ßiørutiju.

63 Og aß preſtunum/ Habaia børn/ Koz børn/ Barſillai børn/ ſem took eina huſtru aß Barſillai þeſſ Gileadita dætrum/og var kalladur epter þeirra nafne.

64 Þeſſer leitudu epter þeirra ßæding ar regiſtre/ og þad vard ecke ßunded/ og þeim var fravijſad fra preſt=ſkapnum.

65 Og Hath Tirſatha ſagde til þeirra/ ad þeir ſkylldu ecke eta aß þvi helgaſta/ fyrr en̄ ein̄ preſtur ſtæde ßyrer * Urim og Thummim. * 2. Moſ. 28/30.

66 Sa giorvallur ſøßnudur til ſamans var tvær og ßiørutiju þuſunder/ þriu hundrud og ſextiju.

67 Fyrer utan̄ þeirra ſvena/ og þeirra þioonuſtu=ſtulkur/ þau voru ſiø þuſunder þriu hundrud/þriatiju og ſiø/og þar voru hia þeim ſaungvarar og ſaung=kvinnur/tvo hundrud og ßim̄ og ßiørutiju.

68 Þeirra heſtar voru ſiø hundrud ſex og þriatiju/ þeirra mular tvø hundrud ßim̄ og ßiørutiju.

69 Ulfalldar ſiogur hundrud ßim̄ og þriatiju/ Aſnar/ ſex þuſund/ ſiø hundrud og tuttugu.

70 Og nockrer aß þeim yppurſtu ſedrum gæßu til verkſens: Hat Thirſatha gaß til ßiarſioodſens/ þuſund gyllene i gulle/ßimtiju mußlaugar/ ßim̄ hundrud og þriatiju preſta=kyrtla.

71 Og (adrer) aß þeim yppurſtu gæßu til verkſens ßiarſioodar tuttugu þuſund gyllene i gulle/tvær þuſunder og tvo hundrud pund ſilßurs.

72 Og þad/ ſem þeir adrer gæßu aß foolkenu/voru tiju þuſund gyllene i gulle/ og tvo þuſund pund ſilßurs/ og ſiø og ſextiju preſta=kyrtla.

73 Og preſtarner og Levitarner/og dyra vaktorarner/og ſaungvararner/ og(nockrer)af foolkenu/og þeir Nethinim og allur Jſrael biuggu i þeirra ſtødum.

## VIII. Capitule.

Løgbooken̄ verdur leſen̄ ßyrer Folkenu.

Þegar ſa ſiøunde manadur kom/ og Jſraels børn voru i þeirra ſtødum.

2 Þa ſafnade þad giørvallt foolk ſier/ lijka ſem eirn madur/ a gøtuna/ſem er fyrer vatns porteuu/og þeir ſøgdu til Eſras þeſſ ſkriftlærda/ad ſækia løg=bookena/ſem Drotten̄ hafde boded Jſrael.

3 Og Eſras preſtur bar fram̄ løgmaaled fyrer ſøfnuden̄/bæde men̄ og kvin̄ur/ og alla ſem kun̄u ſkynia ad heyra til/a þm̄ fyrſta deige i þm̄ ſiøunda manade.

4 Og han̄ las i hen̄e a gøtun̄e/ſem er fyrer vatns=porteuu/fra lioosu̅ (morgne)allt til middags/ fyrer møn̄um og kvin̄um/ og þeim ſem þad kun̄u ſkilia/ og alls foolkſens eyru voru ſnuen̄ til løg=bookaren̄ar.

5 Og Eſras ſa ſkriftlærde ſtood a einum (hæum)ſtool af trie/ſem þeir høfdu giort til þeſſ verks/og þar ſtood hia hønum/Mathithia/og Sema/z Anaia/ og Uria/og Hilkia/ og Maeſeia/ hia hn̄s hægre hende/og hia hn̄s vinſtre/Pedaja/og Miſael/og Malchia/ og Haſum/ og Hasbadana/ Sacharia (og) Meſullam.

6 Og Eſras lauk booken̄e upp fyrer alls foolkſens augum/ þvi hn̄ var yfer øllu foolkenu/ og þegar han̄ upplauk hen̄e/ſtood allt foolked.

7 Og Eſras lofade Drotten̄ þan̄ ſtoora Gud/og allt foolked ſvarade/amen/ amen/ med þeirra hendum upp rietlu̅/ og hneigdu ſig og tilbadu fyrer Drottne/med andlitenu til Jardar.

8 Og Jeſua/ og Bani/ og Serebia/ Jamin/Akkob/Sabthai/Hodia/Maeſeia/Klita/ Aſaria/ Joſabad/Hanan/ Plaia/og Levitarner komu foolkenu til ad giefa gaum ad løgmalenu/og foolked(ſtood)a ſijnum ſtad.

9 Og þeir læſu i booken̄e/ i Guds løgmaale klarlega og ſkilmerkelega/og(þeir adrer) ſkildu leſturen̄.

10 Og Nehemias han̄ er ſa * Hak Thirſatha/ og Eſras preſturen̄ ſa

skriftlærde / og Levitarner / sem komu folkenu til ad skilia / søgdu til alls folk sens: þesse dagur er Drottne ydar Gude helgadur/(þar fyrer) vered ecke hryggver/ og græted ecke/ þvi allt foolked griet / þegar þeir heyrdu løgmaalsens ord. * c. 7/ 20.

11 Framveiges sagde hañ til þeirra: fared/eted þad feita/og drecked þad sæta/og sended hønum part/sem eckert hefur tilreitt / þvi þesse dagur er vorum Drottne helgadur / þar fyrer æmgred ydur ecke/ þvi Drottens glede / hun er ydar styrkur.

12 Og Levitarner stilltu allt foolked/ og søgdu: vered stillter/ þvi þesse dagur er heilagur/ og æmgred ydur eckert.

13 Og allt foolked gieck ad eta og ad drecka/og ad senda parta ut/ z ad giøra eirn stoorañ gledskap / þvi þeir høfdu skiled þau ord / sem mañ hafde kuñgiørt fyrer þeim.

14 Og a ødrum deige søfnudust þeir yppurstu fedur a medal alls folksens / prestarner z Levitarner/til Esras þess skriftlærda/ ad fæ skilning a løgmaalsens ordum.

15 Og þeir fundu * skrifad i løgmaalenu / sem Drotteñ hafde boded fyrer Mosen / ad Israels børn skylldu bua i lauf-skælum/ a hætijdeñe i þeim siøunda manade. * 3. Mos. 23/42.

16 Og ad þeir skylldu þad openberlega kuñgiøra og uthroopa i øllum þeirra stødum/og i Jerusalem/og seigia: ganged ut a fialled/ og sæked oliu-greiner/ og balsams-greiner / og mirte-greiner/og paalma-greiner/og greiner af þick vøxnū triaam/ til ad giøra lauf-skæla/ sem skrifad er.

17 Og foolked gieck ut / og sookte / og giørde sier lauf skæla/hvør a sijnu þake/ og i þeirra gørdum/og i gardenum hia Guds huse/ og * a gøtuñe hia vatns portenu/ z a gøtuñe hia Ephraims porte. * v. 1.

18 Og sa giørvallur søfnudur af þeim/ sem var aptur komeñ af fængelsenu / giørde lauf-skæla / og bigggu i lauf-skælum. Þvi Israels børn høfdu ecke so giørt / sijdañ i Jesua Nuns sonar tijd/allt til þess sama dags/og þar var mikel stoor glede.

19 Og mañ las i Guds løg-book dag fra deige/ fra þeim fyrsta deige allt til þess sijdasta dags/ z þeir hielldu hætijd i siø daga/og a þeim ættunda deige/for bods(dageñ/) epter veniu.

## IX. Capitule.

### Foolksens Ydran.

Og a þeim fiorda deige/z tuttugasta deige i þessum manade/ komu Israels børn samañ/ med føstum og med seckiū og molldu a sier.

2 Og Israels sæde adskylde sig fra allra framande børnum / og þeir geingu fram og giørdu jaatning fyrer þeirra synder og þeirra fedra misgiørninga.

3 (Þvi) epter þad þeir voru uppstadner a þeirra stad/ þa læsu þeir i Drottens þeirra Guds løg-book fioorū siñum a deige/ og medkiendu fiorum siñū/ og tilbædu þ̄ Drottne þeirra Gude.

4 Og þar stood uppa Levitaña trøppu Jesua/og Bani/Kadmiel/Sebania/Bynni/ Serebia/ Bani/ Chenani/ og þeir hroopudu med stoorre raust til Drottens þeirra Guds.

5 Og þeir Levitar / Jesua og Kadmiel/Bani/ Hasabenia/ Serebia/Hodia/ Sebania / Pethaia / søgdu: standed upp/ lofed Drotteñ ydar Gud/ fra eylijfre tijd til eylijfrar tijdar/ Og madur lofe þitt vegsemdar nafn / sem er upphafed yfer alla blessan og lofgiørd.

6 Þu ert sa Drotteñ / þu alleina/ * þu hefur giørt Himeneñ/ jaa Himnaña Himna / og allañ þeirra her/ Jørdena og allt þad/sem þar er a/hafed og allt þad / sem þar i er / og þu giører alla þessa hlute lifande/ og Himensens her tilbidia þig. * P. G. 4/24. c. 14/15.

7 Þu Drotteñ ert sa Gud/ sem utvalder Abram / og færder hañ ut fra * Ur i Chaldæa/ og kallader hañs nafn * * 

Abraham. * 1. Mos. 11/ 31. etc.
** 1. Mos. 17/ 5.

8 Og þu fanst hn̄s hiarta trufast fyrer þier / og giørder eirn sættmala vid hañ/ ad giefa/(ia) ad giefa hañs sæde Cananitans/Nethitans/Amoritans/ og Pheresitans/og Jebusitans/ og Girgasitans land/og þu hefur hallded þyn ord / þvi þu ert riettferdugur.

9 Og þu* sæst vorra fedra eymd i Ægyptalande/ꝛ heyrder þeirra hroop hia þvi rauda hafe. * 2. Mos. 3/ 7.

10 Og þu giørder teikn og furdanleg (verk/)a Pharao/og a øllū hn̄s sveinum/ og a ollu foolke i hañs lande/ þvi þu visser/ad þeir høfdu breitt drambsamlega i giegn þier / og þu giørder þier eitt nafn/sem a þessum deige.

11 Og þu* adskylder hafed fyrer þm̄ / ad þeir geingu midt i giegnum hafed a þvi þurra / og þu kastader þeirra ofsooknurum i diuped / eins sem steine i strangt vatn. * 2. Mos. 14 / 21.

12 Og þu * leidder þa um̄ dageñ fyrer eirn Skij-stoolpa/og um̄ noottena fyrer eirn ello stoolpa/til ad lijsa þeim veigeñ/ sem þeir skylldu fara a.
* 2. Mos. 13/ 21. etc.

13 Og þu * komst ofañ yfer Sinai fiall/og** talader vid þa af Himnenum/og gafst þeim riettelig riettinde/og søñ løg / gooda setninga og bod.
* 2. Mos. 19/ 18. ** 2. Mos. 20/ 1.

14 Og þu kuñgiørder þeim þitt heilagt sabbat/og baudst þeim bod/og setninga ꝛ løgmæl/ꝥ Mosen þiñ þienara.

15 Og þu gafst þeim*braud af Himnenum i þeirra hungre/og utleidder þm̄ ** vatn af einum klett til þeirra þorsta/ og sagder til þeirra/ ad ganga iñ/ ad iñtaka landed / yfer hvørt þu upplipter þiñe hende/ til ad giefa þm̄ þad.
* 2. Mos. 16. 4/14. etc. ** 2. Mos. 17/ 6.

16 Eñ þeir og vorer fedur urdu drambsamer/ꝛ hardhnackader/og hlijddu ecke þijnum bodum.

17 Jæ þeir villdu ecke heyra þeim/ og þeinktu ecke a þijna furdanlega hlute / sem þu giørder vid þa / helldur voru hardhnackader / og køstudu einu høfde upp/ ad snua sier til baka til þrra þræl dooms/i þeirra þverud/ eñ þu ert fyrer giefningareñar Gud / * nædugur og myskunsamur/ þolenmoodur / og miøg myskunsamur/og yfergafst þa ecke.
* 2. Mos. 34/ 6. etc.

18 Jafnvel þo þeir giørdu sier eirn steiptañ kalf / og søgdu : þad er þiñ Gud/sem uppfærde þig af Ægyptalande/og giørdu stoorar hædungar.

19 Og þu/ þu yfergafst þa ecke i erde mørkeñe / epter þiñe stooru myskunseme/Sa skij-stoolpe veik ecke fra þm̄ um̄ dageñ/ad leida þa a veigenum/edur elld stolpeñ um̄ noottena/ ad upplijsa þa a veigenum sem þeir skylldu fara a.

20 Og þu gafst þiñ þañ goda Anda/ til ad undervijsa þeim/og snerer ecke þijnu manna fra þeirra muñe / og gafst þeim vatn til þeirra þorsta.

21 So fædder þu þa i fiørutiju ár i eydemørkeñe/ ad þa vantade ecker/ * þeirra klæde urdu ecke forn / og þeirra fætur boolgnudu ecke. * 5. Mos. 8/ 4. C. 29/ 52.

22 Og þu gafst þeim rijke og foolk/og skipter þeim hier og þar/ og þeir eignudust *Sihons land/ og konungsens land i Hesbon/ og Ogs land/konungsens i Basan. * 4. Mos. 21. 24/ 35.

23 Og þu fiølgader þeirra børn/ eins sem stiørnur a Himneñ / og færder þa til þess lands / sem þu hafder tilsagt þrra fedrū/ad fara iñ/ad iñtaka þad.

24 Og synerner fooru þangad/ og iñtoku landed/og þu nidur þrikter Cananitana/ landsens iñbiggiara / ꝥ þm̄ / og gafst þa i þeirra hønd / og þeirra konunga/ og foolked i landenu/ ad þeir giørdu vid þa epter þeirra villd.

25 Og þeir iñtooku fasta stade/og eitt feitt land/ og eignudust hus full af allrahanda gotse/ut høggna bruña/vijn og garda/ og oliu-garda/og trie/af hvørium mañ etur yferfliootanlega/og þeir ætu/ urdu * metter og feiter/og lifdu i vellist fyrer þijna stooru giæsku.
* 5. Mos. 32/ 15.

26 Eñ þeir urdu ohlijduger og mooþ-
þroaanleger i giegn þier/og køstudu þij-
nu løgmæle a bak ſier aptur / og i hel
ſloou þijna ſpæmeñ / ſem bæru vitnes
burd fyrer þier/ad ſnua ſier til þijn/og
þeir giørdu ſtoorar hædungar.

27 Þar fyrer gafſtu þa i þrra fiand-
mañа hønd/ og þeir þvingudu þa/ eñ
þegar þeir hroopudu til þijn i þeirra
hørmungar tijd / heyrder þu af Himn-
enum / og fyrer þijna ſtooru myſkunſe-
me / gafſtu þeim frelſara / hvørier ed
frelſtu þa af þeirra fiandmañа hende.

28 Eñ þegar þeir komu til hvijldar /
ſneru þeir vid til ad giøra illt fyrer þi-
ñe augſijn / ſo yfergafſtu þa i þeirra
fiandmañа hønd/ad þeir rijktu yfer þe
im. Nær þeir(þa)umſneru ſier/og hrop
udu til þijn/þa heyrder þu/þu af Him
nenum/og frelſader þa epter þiñe myſk
unſeme/ mørgum ſiñum.

29 Og þu lietſt vitna fyrer þeim/ til ad
ſnua þeim til þijns løgmæls/eñ þeir voru
dramblæter/ og hlijddu ecke þijnum bod-
um/ og ſyndgudu i moote þijnum riettind-
um/ * hvør ein mañeſkia ſkal giøra/ og
lifa fyrer þau / og þeir ſneru herdunum
burt/ & þr urdu hardhnackader og hlijddu
ecke. * 3. Moſ. 18/ 5. etc.

30 Og þu hielſt þvi fram mørg ær yf
er þeim / og lietſt vitna fyrer þeim med
þijnum Anda / fyrer þijna ſpæmeñ/ eñ
þeir tooku þad ecke til eyrna / þar fyrer
gafſt þu þa i þioodañа hønd i løndunū.

31 Eñ epter þiñe þeirre miklu myſkun-
ſeme/ giørder þu þa ecke ølldunges til ein-
ſkis/ellegar yfergafſt þa/þvi þu ert eirn
nædugur og myſkunſamur Gud.

32 Og nu vor Gud/ þu ſtoore Gud/ ſa
megtuge og ſa hrædelege/ þu ſem helldur
ſattmælañ og myſkunſemena / vird ecke
lijtels alla þa mædu/ſem hefur hitt a oſſ/
vora konunga/ vora høfdingia / og vora
preſta/og vora ſpæmeñ/og vora fedur/og
þitt giørvallt foolk / fra konungañа af
Aſſyria tijd/ allt til þeſſa dags.

33 Og þu ert riettferdugur i øllu þvi /
ſem er komed yfer oſſ / þvi þu giørder
riett/ eñ vier/vier giørdum ogudlega.

34 Og * vorer konungar/vorer høfding-
iar / vorer preſtar og vorer fedur / hafa
ecke giørt(epter)þijnu løgmæle/ecke hell-
dur aktad þijn bod/og þijna vitnesburde/
ſem þu lietſt vitna fyrer þeim.
* Dan. 9. 6/ 8.

35 Þvi þeir þioonudu þier ecke i þeirra
rijke/og i þijnū þeim mikla gooda/ſem þu
gafſt þeim / og i þvi vijda og þvi feita
lande/ ſem þu gafſt fyrer þeirra augſijn/
og þeir umvendtu ſier ecke fra þeim von-
du athøfnum.

36 Sia/ vier erū þioonar i dag/ Ja
þad land/ ſem þu gafſt vorum fedrum/
til ad eta ævøxt þar af/og þad gooda
þar af/ſia/þar erum vier þioonar i.

37 Og iñtekteñ þar af var aukeñ fyr-
er konungana/hvøria þu ſetter yfr oſſ/
fyrer vorra ſynda ſkulld / og þeir rijktu
yfer voru lijfe/ og vorū dijrū epter þeir-
ra vilia / og vier erum i ſtoorre neyd.

38 Og i øllu þeſſu giørum vier eirn
truſaſtañ ſattmæla/ og ſkrifum hañ /
og til iñſiglunar/(eru vidverande)vorer
høfdingiar/vorer Levitar/vorer preſtar

## X. Capitule.

Nehemias talar um þañ nija Sattmæla i millum Guds og foolkſens.

Og þeir/ſem voru vid iñſiglan-
ena/voru Nehemia Hat Tir
ſatha/ Hachalia ſon/og Ze-
dekia/

2 Zeraia/ Aſaria/Jeremia/

3 Pashur/ Amaria/ Malchia/

4 Hattus/ Sebania/ Malluch/

5 Harim/ Meremoth / Obadia/

6 Daniel/ Ginthon/ Baruch /

7 Meſullam/Abia/Meiamin/

8 Maaſia / Bilgai / Semaia / þeſſer
voru preſtarner.

9 Og Levitarner voru Jeſua Aſania
ſon/ Binnui/ Af Henadads børnum /
Kadmiel.

10 Og þeirra brædur/ Sebania/ Ho-
dia/ Klita/ Plaja/ Hanan/

11 Micha/Rechob/Haſabia/

12 Sachur/ Serebia/Sebania/

13 Hodia

13 Hodia/Bani/Beninu.

14 Þeir yppurstu af foolkenu voru Pareos/ Pahat/ Moab/ Elam/ Sathu / Bani/

15 Bunni / Asgad/ Bebai/

16 Adonia/ Bigvai/ Adin/

17 Ater / Hiskia/ Assur/

18 Hodia/ Hasum/ Bezai/

19 Hariph/Anathoth/Nebai/

20 Magpias/Mesullam/Hesir/

21 Mesesabeel/Zadok/Jaddua/

22 Platia/Hanan/Anaia/

23 Hosea/Hanania/Hasub/

24 Halohes/Pilha/Sobek/

25 Rehum/ Hasabna/Maeseia/

26 Og Ahia/Hanan/Anan/

27 Malluch/Harim/Baena.

28 Og þad añad foolk/ * prestarner/ Levitarner/ dyra-vaktararner/ saungvararner/þeir Nethinim og/hvør sem var adskyldur fra foolkenu i løndunum til Guds løgmals / þeirra hustrur / þeirra syner / og þeirra dætur / hvør sem kuñe skynia. * Esr. 2/ 70.

29 Þeir hielldu sig til siña brædra/þeirra yppurstu af þeim/ og komu i bañfæring og * i eyd / til ad ganga i Guds løgmale / sem er gefed fyrer Mosen þañ Guds þienara/ og ad hallda og giøra øll Drottens vors Guds bod/og hñs riett og hñs skickun. * 2. Kong. 23/ 3.

30 Og ad vier skylldum ecke gefa foolkenu i landenu vorar dætur/ ei helldur taka þeirra dætur til vorra sona.

31 Og nær foolked i landenu færde voru/ og allrahanda fædu/til ad selia * a sabbats deigenum/ad taka ecke vid þvi af þeim um̃ sabbaten̄/ꝛ a (ødrum)helgũ døgum. Og ad vier villdũ sleppa þvi siøunda are/og allrahanda þunga. * c. 13/15. Amos. 8/ 5.

32 Og leggia bodord uppa oss/ ad gefa arlega eirn þridia part af einum sekel / til vors Guds huss þioonustu.

33 Til skodunar brauds ꝛ daglegs(mat) offurs/ og til daglegs (breñe-) offurs/ a sabbatunum/(nÿ-)manudum/ til helgra daga/ og til þeirra heilogu Hluta/ og til synda-foorna/ad giøra forlykun yfer Israel/ og alls vors Guds huss verke.

34 Og vier lietum kasta hlut um̃ vidarens offur/prestarner/Levitarner/og foolked/ ad færa þad til vors Guds huss/ epter vorra fedra huse/ a tilsettum tymum/ arlega ars/ til ad breña a Drottens vors Guds altare/ so sem þar er * skrifad i løgmalenu. * 3. Mos. 6/ 12.

35 Og til ad frambera vors lands fyrsta grooda/ og allra triaña fyrstañ avøxt/arlega ars/ til Drottens hus.

36 Og þa frumbornu af vorum sonum/ og voru fie / sem þar er skrifad * i løgmalenu / og frumburdena af vorum uxum ꝛ vorum saudum/ad færa (þetta) til vors Guds hus/til prestaña/þeirra sem þiona i vors Guds huse. * 2. Mos. 13/ 2.

37 Og ad vier skylldum færa þad fyrsta af voru deyge/ꝛ vorum upplyftingum/og allrahanda triaña avexte / must og oliu/til prestaña/til herbergiaña hia vors Guds huse / Og tyunder af voru lande/til Leviaña/ og Levitarner sialfer skylldu taka tyunder / i øllum vorum (akurs) verks stødum.

38 Og ad eirn prestur / Aarons sonur / skyllde vera hia Levitunum/ nær Levitarner tæke tyunder/og Levitarner skyllde upp færa * tyunder af tyundũ til vors Guds huss/til herbergiaña/ til fiarsiooda hus sens. * 4. Mos. 18. 26/ 28.

39 Þvi Israels børn og Levi børn/ skylldu upp færa kornsens/mustarens/ og oliuñar upplyfting til herbergiaña/ af þvi þar være helgedoomsens verkfære / og prestarner/ þeir sem þioona/ og dyravaktararner/ og saungvararner/ad vier skylldum ecke yfergefa vors Guds hus.

## XI. Capitule.

### Nøfn þeirra i Jerusalem og i Lands-Þorpunum.

Og folksens * foringiar biuggu i Jerusalem / og þad añad folk liet kasta hlut / ad lata koma eirn af tyu / ad bua i Jerusalem / i þeim heilaga stad / og þeir nyu partar i stødunum. * c. 7/ 5.

2 Og folked blessade alla þa meñ / sem

voru viliuger til ad bua i Jerusalem.
3 Og þesser eru þeir ypparstu af landenu / sem biuggu i Jerusalem / eñ i Juda stadum bio hvør a sijnu gotse / i þeirra stødum / sem var Jsrael / prestarner og Levitarner / og þeir Nethinim / og Salomons sveina børn.
4 J Jerusalem biuggu (nockrer) af Juda børnum / og af BenJamins børnum / Af Juda børnū / Athaia Usia son / Sacharia sonar / Amaria sonar / Sephatia sonar / Mahelaleel son' / af Parez børnū
5 Og Maeseia Baruchs son / Chosche sonar / Hasaia sonar / Adaia sonar / Joiarib sonar / Sacharia sonar / þess Siloni sonar.
6 Oll Parez børn / sem biuggu i Jerusalem / voru fiogur hundrud atta og sextigu dugleger meñ.
7 Og þesse voru BenJamins børn: Sallu Mesullams son / Joed sonar / Pedaia sonar / Kolaia sonar / Maeseia sonar / Jthiel sonar / Jesaia sonar.
8 Og epter hañ / Gabai / Sallai / Nyu hundrud atta og tuttugu.
9 Og Joel Sichri son var þeirra forstandare / og Juda Senua son var yfer stadarens ødrum (parte.)
10 Af prestunum: Jedaia Joiaribs son / Jachin.
11 Saraia Hilkia son / Mesullam sonar / Zadok sonar / Meraioth sonar / Ahitub sonar / sem var eirn høfdinge i Guds husse.
12 Og þeirra brædur / sem giørdu verked til hussens / voru atta hundrud tveir og tuttugu / og Adaia Jerohams son / Pelalia sonar / Amzi sonar / Sacharia sonar / Pashur sonar / Malchia sonar.
13 Og hñs brædur / þeir ypparstu a med al fedrañā voru tvø hundrud tveir z fiørutigu / og Amassai Asareels son / Asai sonar / Mesillemoth sonar / Jmer sonar.
14 Og þeirra brædur dugleger meñ voru hundrad atta og tuttugu / Og Sabdiel Gedolims son var settur yfer þa.
15 Og af Levitunum: Semaia Hasubs son / Asrikam sonar / Hasabia sonar / Buñi sonar.
16 Og Sabthai og Josabath / af Levitaña høfdingium / voru yfer þeim utvortes giørninge i Guds huse.
17 Og Mathania Micha son / Sabdi sonar / Asaphs sonar / eirn høfdinge ad byria / giørde þackløte i bænene / z Bakbukia var sa añar af hñs brædrum / z Abda / Samua son / Galal sonar / Jeduthun sonar.
18 Aller Levitarner i þeim heilaga stad / voru tvø hundrud fiooter og attatigu.
19 Og dyravaktararner / Akkub / Talmon og þeirra brædur / þeir sem tooku vara a portunum / voru hundrad tveir og siøtigu.
20 Eñ þeir adrer Jsraels prestar og Levitarner voru i øllum Juda stødum / hvør i sijnu erfd.
21 Og þeir Nethinim biuggu i Ophel / z Ziha z Gispa voru yfer þeim Nethinim.
22 Eñ sa ypparste yfer Levitunum / i Jerusalem / var Usi / Bani son / Hasabia sonar / Matthania sonar / Micha sonar / Af Asaphs børnum voru saungvarar þeir yfer fra Guds huss verke.
23 Þvi þar var konungsens bifalning yfer þeim / og saungvararner breittu trulega / hvørs dags verk (skiede) a sijnum deige.
24 Og Pethahia Mesesabeels son / af Serachs børnum / Juda sonar var hia konungsens hende / i ollu verke til folksens
25 Eñ i lands-þorpunum a þeirra merkum / biuggu (nockrer) af Juda børnum i * Kiriath Arba / og þeirra lands-þorpum / og i Dibon / og heñar lands-þorpum / og i Jekazeel og heñar lands-þorpum. * Jos. 20/ 7. c. 21/ 11.
26 Og i Jesua / og i Molada / og i Bethphalet.
27 Og i Hasarsual / og i Berseba / og þeirra lands-þorpum.
28 Og i * Ziklag / og i Mechona / og heñar þess lands-þorpum. * Jos. 15/ 31.
29 Og i Enrimmon / og i Zarea / og i Jarmuth.
30 Sanoah / Adullam / og þeirra lands-þorpum / Laches og heñar mørkum / Aseka og heñar lands þorpū / Og þeir høfdu herbuder fra Berseba / allt til Hinnoms dals.

31 En BenJamins born af Gaba (bioggu) i Michmas/ og Aia/ og BethEl/ og þeirra lands þorpum.
32 Anathoth/ Nob/ Anania/
33 Hazor/ Rama/ Githaim/
34 Hadid/ Zeboim/ Neballat/
35 Lod z Ono i handverks manna dalnū
36 Af Levitunum (bygdu nockrer) i Juda hlutdeildum/ (og) i BenJamin.

## XII. Capitule.

Prestana og Levitana Nøfn og Ætt Registur. Jerusalems Vigsla.

Og þesser eru prestarner og Levitarner/ sem upp foru med Sorobabel/ Sealthiels syne/ z Jesua: Seraia/ Jeremia/ Esra/
2 Amaria/ Malluch/ Hattus/
3 Sechania/ Rehum/ Meremoth/
4 Iddo/ Ginthoi/ Abia/
5 Mijamin/ Maadia/ Bilga/
6 Semaia og Jojarib Jedaia/
7 Sallu/ Amok/ Hilkia/ Jedaia. Þesser voru ypparster a medal prestana og þeirra brædra i Jesua tijd.
8 En Levitarner voru: Jesua/ Bennui/ Kadmiel/ Serebia/ Juda/ Matthania/ Hann og hans brædur voru yfer * þackargiordunum. * C. 11/17.
9 Og Bakbukia/ og Unni/ þeirra brædur/ voru þvert yfer fra þeim/ fyrer varatektene.
10 Og Jesua ablade Joiakims/ og Joiakim ablade Eliasibs/ og Eliasib ablade Jojada.
11 Og Jojada/ ablade Jonatans/ og Jonatan ablade Jaddua.
12 Og i Joiakims tijd voru prestar/ fedrana foringiar/ fyrer Seraia var Meraia/ fyrer Jeremia/ Hanania.
13 Fyrer Esra/ Mesullam/ fyrer Amaria/ Johanan.
14 Fyrer Melluchu/ Jonatan/ fyrer Sebania/ Joseph.
15 Fyrer Harim/ Adna/ fyrer Meraioth/ Helkai.
16 Fyrer Iddo/ Sacharia/ fyrer Ginthon/ Mesullam.
17 Fyrer * Abia/ Sichri/ fyrer Miniamin/ fyrer Moadia/ Piltai. * Luc. 1/5.
18 Fyrer Bilga/ Sammua/ fyrer Semaia/ Jonatan.
19 Fyrer Joiarib/ Mathnai/ fyrer Jedaia/ Ussi.
20 Fyrer Sallai/ Kallai/ fyrer Amok/ Eber
21 Fyrer Hilkia/ Hasabia/ fyrer Jedaia/ Netaneel.
22 Fyrer Levitunum i Eliasibs tijd voru Jojada/ og Johanan/ og Jaddua/ sem voru skrifader fedrana foringiar/ og prestar ner allt til Darii þess Persiska rijkes.
23 Levi born/ fedrana foringiar voru skrifader i kroniku bookena/ og allt til Johanan Eliasib sonar tijdar.
24 Og Levitana foringiar voru Hasabia/ Serebia og Jesua Kadmiels son/ og þeirra brædur þvert yfer fra þeim/ ad lofa (og) þacka/ sem * David sa Guds mand ur hafde boded/ (su eina) varatekt giegnt þeirre adare. * 1. Kron. 25/ 1. etc.
25 Mathania og Bakbukia/ Obadia/ Mesullam/ Talmon og Akub voktudu kostgiæfelega uppa porten/ vid dyra prostulldena i portunum.
26 Þesser voru i Jojakims Jesua sonar tijd/ Josadak sonar/ og i Nehemia fovita tijd/ og i Esra prests þess skriftlærda.
27 Og til murana vijgslu i Jerusalem uppleitudu þeir Levitana af ollum þeirra stodum/ ad færa þa til Jerusalem/ ad hallda vijgsluna med glede og med þackargiordum/ og med saung/ cimbalis/ psolturum og horpum.
28 Og saungvarana born sofnudust og af þeirre slettu (eign) allt um kring Jerusalem/ z af Netophati lands þorpum.
29 Og af Gilgal huse/ og af okrunum i Gibea og Asmaveth/ þvi saungvararner hofdu bygt sier lands þorp kringum Jerusalem.
30 Og prestarner og Levitarner voru hreinsader/ sijdan hreinsudu þeir folked/ og portenn og murenn.
31 Þa liet eg Juda hofdingia upp stijga a murenn/ og eg skickade tvo stora þacklætes (chora) og gang/ (einn) a þa hægre sijdu uppa murnum/ til * mykiu portsins.

sens. * c. 2/ 13.

32 Og Hosaia/ z helften af Juda høfd ingium gieck epter þeim.

33 Og Asaria/ Esra og Mesullam/

34 Juda/ z BenJamin/ og Semaia / og Jeremia.

35 Og nockrer af prestañа børnum / med bæsunum/ sem var Sacaria/ Jon akans son/ Semaia sonar/ Mathania sonar/ Michaia sonar/ Sachur sonar/ Asaph sonar.

36 Og hañs brædur/ Semaia/ og Asa reel/ Milalai/ Gilalai/ Maai/ Netaneel z Juda/ Hanani/ med Davids Gudsmañs streingia leik / Og Esra sa skriftlærde (gieck) fyrer þeim.

37 Og gagnvart bruñ-portenu/ og giegnt þeim / uppstigu þeir um̃ trøppurnar/ uppa Davids stad/ uppa murnū/ riett upp til Davids huss / og allt til vatns-portsens moot austre.

38 Og sa añar packlætes (chor) gieck þvert yfer fra/ og eg epter hønum/ og helften af foolkenu / uppa murnum / riett upp til Onenas turns/ og allt til þess breida murs.

39 Og ad ofañ fra Ephraims porte / og fyrer ofañ þad gamla port / og fyrer ofañ fiske-ported / og Hananeels turn/ og Mea turn/ allt til fiær-portsens/ og þeir voru standande i fængelsesens porte.

40 Og (so) stoodu þeir tveir packlætesens (chorar) i Guds huse/ og eg / og helften af þeim yppurstu med mier.

41 Og prestarner/ sem voru Eliakim/ Maeseia/ MinJamin/ Michaia/ Elioenai / Sacaria / Hanania / med bæsununum.

42 Og Maeseia/ z Semaia/ z Eleasar/ og Ussi/ z Johanan/ z Malchia/ og Elam/ og Eser/ z saungvararner sungu hatt/ og Jesrahia var forstandare.

33 Og þeir offrudu a þm̃ sama deige/ stoorum foornum/ og voru glader/ þvi Gud hafde gladt þa med eirnre stoorre glede / og eirneñ kviñurnar og børneñ glöddu sig/ so ad Jerusalems glede vard heyrd langt burt.

44 Og a þm̃ sama deige urdu meñ sett er yfer fiærsiooda herbergeñ/ * þ upplistingaña/ fyrer fyrsta avøxt/ z þ tiundernar/ til ad safna i þau af økrunum um̃ stadena/ þeim pørtum/ sm̃ eru i løgmalenu til prestaña og Levitaña / þvi Juda hafde glede yfer prestunum z Levitunū/ sm̃ stodu. * c. 10/ 37. c. 13/ 5.

45 Og þeir tooku vara a þeirra Guds varatekt/ og a hreinsunareñar varatekt/ og saungvararner og dyravaktararner (stoodu) epter Davids (og) hañs sonar Salomons setninge.

46 Þvi i Davids og i Asaphs tijd / fordum / (voru setter) foringiar fyrer saungvørunum/ og lof-saungvørunum og packlætes meñerner til Guds.

47 Eñ allur Israel gaf saungvaraña og dyravaktaraña parta i Sorobabels tijd og Nehemiæ tijd/ hvørn dag siñ part/ og þeir helgudu handa Levitunum/ og Levitarner helgudu handa Aarons sonum.

## XIII. Capitule.

Nehemiæ Vandlæting.

A þeim sama deige var lesed i Mose book/ fyrer foolksens eyrum/ og þar vard funded * skrifad i/ ad eirn Ammonite og Moabite skyllde ecke koma i Guds søfnud æfenlega. * 5. Mos. 23/ 3.

2 Af þvi þeir komu ecke i moote Israels børnum med braudeд og med vatned/ helldur * leigdu Bileam moote hønū / til ad bølva hm̃/ eñ þo vor Gud snere þeirre bølvan til blessunar. * 4. Mos. 22/ 5. etc.

3 Og þad skiede/ þegar þeir heyrdu løgmaled/ þa skyldu þeir allra handa sam bland fra Israel.

4 Og Eliasib prestur / sem var fordum settur yfer Guds huss herberge / heyrde Tobiæ til.

5 Og hañ hafde giort hønum eitt stoort herberge/ hvar i þeir høfdu til forna lagt mat offur/ reykelse/ z verkfære/ og tiund et af kornenu / musteñe og oluñe / epter Levitaña og saungvaraña og dyravaktaraña

aña Tilgialning/og prestaña kipling.

6 Eñ þegar allt þetta skiede/var eg ecke i Jerusalem / þvi a þvi ødru og þrettug(asta) ari Artaxerxis konungs kom eg af Babylon / kom eg til konungsens / og epter þad (nockrer) dagar voru ute / beiddest eg (aptur) ordlofs af konungenum.

7 Og eg kom til Jerusalem / og skyniade um̄ þad illa / sem Eliasib giørde fyrer Tobia/ ad hañ hafde giørt hønū eitt herberge i gardenū/hia Guds huse.

8 Og þad ængrade mig miøg / og eg kastade øllum verkfærunum ur Tobia huse i burt ut fyrer herberged.

9 Og baud ad þr skylldu hreinsa herbergeñ/ z eg iñflutte aptur þangad Guds huss verkfære/mat-offur og reykelse.

10 Og eg formerkte ad Levitaña partur var þeim ecke giefeñ/so ad Levitarner z saungvararner/sm̄ giørdu verked/ voru burt vikner/ hvør til sÿns akurs.

11 Þa * straffade eg þa yppurstu/ z sagde: þvi yfergiefum vier Guds foolk? Þo safnade eg þeim / og sette þa i þeirra stad. * v. 17/25.

12 Þa færde allur Juda tiunder af kornenu/ z musteñe og oliuñe/til fiarsioodareñs.

13 Og eg sette yfer þañ fiarsiood Selemia prest/ og Zadok þañ skrifara/ og Pedaia af Levitunum / og vid þeirra hønd Hanan Sachurs son/Mathania sonar / þvi þeir voru halldner trufaster/og þeim var bÿfalad/til ad skipta til þeirra brædra.

14 Miñ Gud/ * þenk a mig þar i/ og afmæ ecke mÿnar myskunsemder / sem eg hefe giørt vid mÿns Guds hus/og a hañs varatektum. * v. 31/ etc.

15 A þeim sømu døgum sæ eg i Juda þa/sem trædu þrugur um̄ sabbateñ/og iñfærdu bindene / og sem klifiudu asna bæde mz vÿn-þrugū/ og fÿkiū/ z allrahanda byrdum/og bæru til Jerusalem/ a sabbats-deige / og eg vitnade ( i giegn þeim) a sama deige/ þa þeir * selldu fædslu. * 1. 10/ 31. Amos 8/ 5.

16 Þar i biuggu (og nockrer) af Tyro/ sem færdu fisk og allrahanda vøru / sem þeir a sabbatenum selldu Juda børnum/ og i Jerusalem.

17 Þa * straffade eg þa yppurstu i Juda/og sagde til þeirra: hvad er þetta hid vonda/ sem þier giøred/ ad vanhelga sabbats-dageñ? * v. 11/ 25.

18 Giørdu ei ydar fedur so / og vor Gud leidde alla þessa olucku yfer oss og yfer þeñañ stad? og þier giøred reidena stærre yfer Israel/ad vanhelga sabbateñ?

19 Og þad skiede/ þegar porteñ i Jerusalem voru yferskigd fyrer sabbateñ/ þa baud eg/og porteñ voru lokud/ og eg bÿfalade/ad þeir skylldu ecke upplæta þau/ þar til epter sabbateñ/Og eg sette (nockra) af mÿnum sveinum hia portunum/ ad eingeñ birde skyllde koma iñ a sabbatsdeigenum.

20 Þa voru kramararner og kaupmeñerner med allrahanda vøru/um̄ nootena/ utañ þ Jerusalem / einusiñe eda tvisvar.

21 Þa vitnade eg fyrer þeim / og sagde til þeirra : þvi erud þier um̄ noott fyrer murnum? giøred þier þad aptur/þa skal eg leggia hønd a ydur. Fra þeim sama tÿma komu þeir ecke um̄ sabbateñ.

22 Og eg sagde til Levitaña / ad þeir skylldu vera hreiner/ og koma til ad taka vara a portunum/ ad helga sabbats-dageñ. Miñ Gud/ þenk a mig og so i þessu/ z spara mig epter þiñe storu myskunseme.

23 Eg sæ a sama tÿma / ad Judarner iñtooku hustrur/ Asdoditiskar / Ammonitiskar/ Moabitiskar.

24 Og þeirra børn toludu ad halfu leite Asdoditsku/ og kuñu ecke tala Judaisku/ helldur epter hvørs foolks mæle.

25 Og eg straffade þa/ og bølvade þm̄/ og sloo (nockra) meñ af þeim/ og reitte hær af þeim/og took eirn eyd af þm̄ vid Gud: * þier skulud ecke giefa ydar dætur þeirra sonum/ ei helldur taka þeirra dætur til ydar sona / edur til ydar.

* 5. Mos. 7/ 3. Esr. 9/ 2.

26 Hefur ecke Salomon / Israels konungur/syndgad þar i? eñ þo þar være ecke eirn konungur/ sem hañ / a medal þeirra



mørgu

mørgu heidingia / og hn̄ var sijnum Gude kiær / & Gud sette hn̄ til konungs yfer allt Israel / þo * komu þær utlendsku kvinn ur hønū til ad syndga. * 1. Kong. 11/3.

27 Hafed þier (ecke þad) heyrt / ad þier giøred alla þessa þa stooru vondsku / ad forgrijpa ydur a vorum Gude / i þvi þier taked utlendskar kvinnur?

28 Og (eirn) af Jojada børnum / Eliasibs þess ypparsta prests son hafde giørt teingd vid Saneballat þan̄ Horonita / þar fyrer rak eg hn̄ fra mier.

29 Þeink a þa / minn Gud / af þvi þeir hafa saurgad prestskapen̄ / sæ prestskaparens og Levitanna sattmaala.

30 So hreinsade eg þa af øllum utlendskum / og skickade prestunum og Levitunum varatekter / hvørium til sijns verks.

31 Og til ad offra vidnū a tilsettū tijmum / & fyrstu ævøxtū. * Þeink a mig / minn Gud / til hins gooda.

*C. 5/19. C. 13. 14/22.

ENDER

a Nehemiæ Book.

# Esther Book.

## I. Capitule.

Asveri Giestabod / & Vasthi Vfskufan

Og þad skiede i Asveri tijd / hn̄ er sa Asverus / sm̄ rijkte fra India & allt til Morlands / yfer hundrad og siø og tuttugu løndum.

2 A þeim sømu døgum / sem kong Asverus sat a sijnum rijkes stoole / sem var i Susan / høfud stadnum.

3 A þvi þridia hn̄s rijkes aare / giørde hn̄ øllum sijnum høfdingium / og sijnum sveinum / eitt giestabod / þeir megtugu af Persia og Meden / footurnar og høfdingiarner i løndunum (stoodu) fyrer hønum.

4 Þegar hn̄ liet (þa) sia sijns rijkes veglegan̄ rijkdoom og dijrd / siñar majestatis hefd / marga daga / (sem voru) hundrad og attatijgu dagar.

5 Og þegar þesser dagar voru ute / giørde konungurenn øllu foolke / sm̄ voru i Susan høfud-stadnū / bæde stoorum og smaaum / eitt giestabod i siø daga / i urtagardenum hia konungsens huse.

6 (Þar hiengu) hvijt / græn & fiol-blaa (tiølld) bunden̄ med (dijrmætu) lijne og skarlats snurum i silfur-hrijnga / og a marmara-stoolpum / beckerner voru af gulle & silfre / a goolfenu porphyrites / & marmara-(steirn) & pari-(steirn /) og fiol blaar (steirn.)

7 Og man̄ gaf (þeim) ad drecka i gull kierum / og i ødrum og ødrum kierum / og konunglegt vijn yferfliootanlegt / sm̄ konungurenn orkade.

8 Og madur drack epter løgmaalenu / þar neydde ecke nockur (þan̄ annan̄ /) þvi so hafde konungurenn befalad øllum forstødu mønnū i sijnu huse / ad giøra epter þvi sem hvørium lijkade.

9 Og Vasthi drottning giørde & eitt giestabod fyrer kvinnurnar / i þvi konunglega huse / sm̄ var konungs Asveri.

10 A þeim siøunda deige / þegar konungsens hiarta var glatt af vijne / sagde hann til Meuniam / Bistha / * Harbona / Bigta og Abagtha / Sethar og Carcas / þeirra siø herberges sveina / þeirra sem þientu fyrer konungenū Asverus. * C. 7/9.

11 Ad sækia drottning Vasthi fyrer konungenn / med rijkesens koronu / til ad laata foolked og høfdingiana sia hennar frijdleika / þvi hun var dægeleg.

12 Enn drottning Vasthi veigrade sier vid ad koma / epter konungsens orde / sem skiede fyrer herberges sveinana / Þa vard konungurenn harla reidur / og hans hastur brann i hønum.

13 Og konungurenn sagde til þeirra vijsu / sem skyniudu um̄ hættalaged / þvi so skylldu konungsens maal skie fyrer øllum forstandugum a løgum og riette.

14 Og

14 Og þeir næstu hia hønum voru Charsena/ Sethar/ Admatha/ Tharsis/ Meres/ Marsena/ Memuchan/ þeir siø høfdingiar af Persia ⁊ Meden/ sem sau konungsens auglit/ þeir sem satu efst i rijkenu.

15 Hvad skal mañ epter Løgmalenu giøra vid drottning Vasthi / af þvi / ad hun hafde ecke giørt epter kongsens Asveri orde/ fyrer herberges sveinana?

16 Og Memuchan sagde fyrer konungenu ⁊ høfdingiunū: drottning Vasthi hefur ecke alleinasta giørt illa i moote konungenū/ helldur i moot øllū hofdingium/ og i moot øllu foolke / sem er i kongs Asveri løndum.

17 Þvi drottningarennar giørningur mun ut berast til allra kvenna/ so ad þær forakte þeirra meñ fyrer þeirra augū/ nær þær seigia : konungureñ Asverus baud drottning Vasthi ad koma fyrer sig/ og hun kom ecke.

18 Og a þessū deige munu høfdingia kvinnur i Persia ⁊ Meden (eins) seigia til allra konungsens høfdingia/ nær þær hafa heyrt drottningareñar giørning/ ⁊ (so mun þar koma) forøktun ⁊ reide nog

19 * Þocknest þad konungenum/ so late mañ eitt konunglegt bod utganga fra hønum/ og skrifa medal þeirra Persa og Meda laga/ so þad ecke yfertrodest/ ad Vasthi skal ecke koma fyrer kong Asverum/ og konungureñ giefe heñar næstu / sem er betre eñ hun / heñar rijke. * c. 3/ 9.

20 Nær konungsens befalning/ sem hañ mun giøra i hañs giørvøllu rijke/ þvi þad er stoort / mun heyrast / Þa munu allar kvinnur hallda þeirra meñ i heidre / bæde stoorra og smaa.

21 Og þad þocknadest konungenum og høfdingiunū/ og konungureñ giørde epter Memuchans orde.

22 Og hañ utsende brief til allra konungsens landa/ i * hvort land/ epter siñe skrift/ og til hvors foolks epter sijnu tungumaale / ad ** hvor madur skyllde vera herra i sijnu huse/ og tala epter sijns fol-kongumaale. * c. 3/12. ** 1. Mos. 3/16

## II. Capitule.

### Esther verdur Drottning.

Epter þessa giørninga/ þegar kongs Asveri reide var stillt/ þeinkte hañ a Vasthi / og hvad hun hafde giørt / og hvad þar var alyktad yfer heñe.

2 Þa søgdu konungsens sveinar / sem þioonudu hønum : mañ uppleite konungenum ungar dægelegar jomfrur.

3 Og konungureñ late senda byfalnings meñ i øll sijns rijkes lønd/ ad þeir til samans føre allrahanda ungar dægelegar jomfrur / til Susan høfud-stadarens/ i frur-stofuna/ under Hege/ konungsens herberges sveins hønd / sē tekur vara a kveñ foolkenu/ ⁊ fær þeim þa hlute/ þær skule hreinsa sig med.

4 Og hvør su stulka sem þocknast konungenum/ hun skal vera drottning i Vasthi stad. Þetta þocknadest konungenum/ og hañ giørde so.

5 Þar var eiñ Judaiskur mañ i Susan/ høfud-stadnum/ hvørs nafn var * Mardochæus/ Jairs son/ Simei sonar/ Kis sonar/ eins Jemini mañs. * Neh. 7/7.

6 Hvør ed var burt flutur ur Jerusalem med þeim fangna hoop/ sem var burt færdur / med Jechonia Juda konunge/ hvørn Nebuchodonosor konungureñ af Babylon liet burt færa.

7 Og hañ uppfoostrade Adassa/ hun er Esther hañs fødur brooðurs dootter / þvi hun atte hvørke fødur nie moodur/ og hun var ein dægeleg og frijd stulka/ og þegar heñar fader og heñar mooder deyde / þa took Mardochæus hana sier til doottur.

8 Og þad skiede / þegar konungsens ord/ og hañs løgmaal vard heyrt/ og þær mørgu stulkur voru færdar til samans til Susan / høfud-stadarens/ til Hege handar / vard og Esther tekeñ til konungsens huss/ til Hege handar/ sem var kveñaña vaktare.

9 Og þijkañ þocknadest hønū/ og fañ myskunseme fyrer hañs augsijn / Þar

fyrer hradade hañ med þa hlute / hun skyllde hreinsa sig med / og med heñar hlutdeild ad giefa heñe / og siø fridar stulkur/ad giefa heñe af konungsens huse/ og hañ umskipte vid hana / med heñar stulkum/ til þess gooda (stadar) i frur stofuñe.

10 Esther hafde ecke auglyst sitt folk/ og sijna ætt / þvi Mardochæus hafde bijfalad heñe / ad hun skyllde ecke giefa þad til vitundar.

11 Og Mardochæus gieck daglega fyrer gardeñ / hia jomfrur herbergenu/ ad reina hvort þad geinge Esther vel/ og hvad vid hana skyllde skie.

12 Þegar sierhvorrar stulku nidurradan kom/ad ganga iñ til kong Asverus/epter þad toolf mánader voru ute fyrer heñe / epter kveñaña løgmæle/þvi þeirra hreinsunar dagar skylldu so fullkomnast / sem voru sex mánader / med oleu af mirru / og sex mánader/ med dijrmætum jurtum/ og (ødrum) kveñaña hreinsunum.

13 Þar med kom þa þijkañ til konungsens/ Allt hvad hun sagde/var heñe giefed/ ad hun þar med geinge fra jomfrurherbergenu iñ til konungsens huss.

14 Hun/hun gieck iñ þañ sama aptan / og um morguneñ gieck hun ut aptur i þa adra frur stofu / til Saasgas handar / konungsens herberges sveins/sm̃ var medhustruña vagtare/Hun mætte ecke koma framar til konungsens/ utañ konungureñ hefde lyst til heñar / og hun være kollud med nafne.

15 Og þegar Ester/ * Abihails Mardochæi fødurbrodurs dottur nidurradan kom/sem hañ hafde teked sier til dottur/ ad koma til konungsens/ þa beiddest hun einskis/ nema hvad sem Hegai / konungsens herberges sveirn/kveñaña vaktare munde seigia: og Esther fañ nád hiá øllum þeim sem hana sáu. *c. 9/29.

16 (So) vard Esther tekeñ til kong Asverus/ i hañs konungslega hus / i þeim tijunda mánade / þad er Tebeth mánadur / a hañs rijkes siøunda áre.

17 Og konungureñ hafde Esther kiæra framm yfer allar kvinur/ og hun fieck nád og miskuñseme fyrer honum/ fram̃ yfer allar jomfrur/ og hañ sette rijkesens koronu a heñar høfud/og giørde hana ad drottningu i Vasthi stad.

18 Og konungureñ * giørde øllum sijnum høfdingium og sijnũ þienurũ eitt stoort giestabod/ þad var Esthers giestabod/og hañ liet londeñ hvijla / og gaf konunglegar giafer. *c. 1/ 3.

19 Þegar jomfrurnar søfnudust añad siñ / þa sat Mardochæus i konungsens porte.

20 Esther hafde ecke giefed heñar ætt/ et helldur heñar folk til vitundar / eins sem Mardochæus hafde bijfalad heñe / Þvi Esther giørde epter Mardochæi orde / eins sem þañ tijd hun var uppfædd hiá honum.

21 A þeim sømu døgum / sem Mardochæus sat i konungsens porte/ urdu tveir konungsens herberges-sveinar/Bigthan og Teres/ af þeim/sem tooku vara a dyrunum/ reider/ og leitudu ad leggia hønd a kong Asverus.

22 Og þad vard Mardochæo kuñgiort/ og hañ gaf drottninguñe Esther þad til vitundar/ og Esther sagde konungenum þad under Mardochæi nafne.

23 Og þesse breitne var ransøkud og fund eñ / og þeir voru bæder heingder a einu tre/og þad var skrifad i * kroniku book ena fyrer konungenum. * c. 6/ 1.

## III. Capitule.

### Hamans Æru-Girnd og Vppslattur i moot Judum.

Þegar þetta var skied/giørde kong Asverus Haman HamMedatha son/þañ Agagita stoorañ/ og upphafde hañ / og sette hañs stool yfer alla høfdingia / sem voru hiá honum.

2 Og aller konungsens þienarar / sem voru i konungsens porte / beigdu (knie/)og til bædu fyrer Haman / þvi konungureñ hafde so boded um̃ hañ/ Eñ Mardochæus beigde ecke (knie/)ei helldur tilbad.

3 Þa søgdu konungsens sveinar / sem

voru

voru i konungsens porte / til Mardochæum: hvar þ yþertredr þu konungsens bod?
4 Og þad skiede/þegar þeir sǫgdu þad daglega til hans / og hann hlyddi þeim ecke/þa gaþu þeir Naman þad til vitundar/ ad sia / hvort Mardochæi ord være stadþǫst/ þvi hann haþde sagt þeim/ ad hann være eirn Jude.
5 Þegar Naman sa / ad Mardochæus beigde ecke (knie/) edur tilbad fyrer hǫnum/ þa vard Naman þullur aþ bræde.
6 Og hǫnum þotte litelsiǫrlegt ad leggia hǫnd a Mardochæum alleina/ þvi þeir hǫfdu giefed hǫnum Mardochæi þolk til vitundar/ helldur sokte Naman epter/ ad eideleggia alla Judana / sem voru i giǫrvǫllu Asveri ryke/ (neþnelega) Mardochæi þoolk.
7 J þeim þirsta mænade/ þad er Nisan mænudur/ a þvi tolþta Asveri are / liet Naman kasta * Pur/ þad er hlutum þyrer sier/ dag þra deige/ og þra mænadenum til þess toolfta mænadar / þad er Adar mænudur. * c. 9/24.
8 Þvi Naman haþde sagt til kong Asverus: hier er eitt þoolk utdreift og skipt a medal þiodanna i ǫllum þinna rykia lǫndum/Og þeirra lǫg ǫdruvyse/enn alls þolk sens (lǫgmal/) Þeir giora og ecke epter konungsens lǫgum / þar þyrer hlyder ecke konungenum (ad lyda/) ad læta þa (so) vera.
9 Þocknest* þad konungenum/ þa skriþest ad fyrerkoma þeim/so vil eg vega thiu þusund centener silþurs i þeirra hendur / sem giera verked / ad þæra þad inn i konungsens skatt kamers. * c. 1/ 19.
10 Þa took konungurenn sinn hring aþ sinne hende/ og gaþ Naman Nam Medatha syne / þeim Agatita/ Judanna þiandmanne/ þann.
11 Og konungurenn sagde til Naman/ þad silþur skal vera þier gieþed / og foolked ad giora vid þad so sem þier gott syneſt.
12 Þa voru konungsens skrifarar kallader i þm þyrsta mænade / a þm þrettanda deige i hǫnu/z þar var skriþad epter ǫllu þvi/ sem Naman byfalade/ til allra konungsens hǫfingia/z til fovitanna/s voru hier z þ'' yþer landenu/z sierhvǫrs þolks hǫþdingia / epter * hvǫrs lands skriþt/ og epter hvǫrs þoolks tungumæle/Undir kong Asveri naþne var þad skriþad/og innsiglad med konungsens hring. * c. 1/22
13 Og bileþenn voru send þyrer hlauparar/til allra konungsens landa/ ad eydeleggia/z hel sla/og þyrer koma ǫllu Judunum/ bæde ungum og gǫmlum/ bǫrnum og kvinnu a einum deige/(sem var) a þess toolþta mænadar þrettanda deige/ þad er Adar mænudur/ og ad ræna þeira gotze.
14 (Þesse var)ein copie aþ skriþenu/ ad ein byþalning skyllde gieþast i hvǫrt land/ openberlega fyrer ǫllu foolke / ad vera reidubuner til þess sama dage.
15 Nlauparararner geingu þlivotlega ut / epter konungsens byþalning / og su byfalning var gieþenn i Susan/hǫþud-stadnum / Og konungurenn og Naman sætu ad drecka/ og Susan stadur vard aþsinna.

## IV. Capitule.

### Judanna Nrigd yþer Asveri Byfalning.

Þegar Mardochæus formerkte allt þad/sem skied var/þa reiþ Mardochæus syn klæde/og færde sig i eirn seck og ǫsku/og gieck ut/midt i stadenn / og hroopade med einu stooru og bitru kveine.
2 Og hann kom þyrer konungsens port/þvi mann mætte ecke ganga inn ad konungsens porte med einum seck a sier.
3 Og i hvǫriu lande(og)stad/sim konungsens ord og hns byþalning framkom / var þar ein stoor sorg a medal Judanna/ z þasta z grat:/z kveinan/Þar voru lagder sekker z aska uppa marga aþ þeim.
4 Þa komu Esthers stulkur og hennar herberges-sveinar/og gaþu henne þad til vitundar/Og drottningenn vard miǫg sorgþull/og sende klæde/ad læta Mardochæum fara i/og taka hns seck þra hǫnum/ enn hnn took þau ecke.
5 Þa kallade Esther Nakhach / eirn af konungsens herberges sveinum / sem hnn liet standa framme fyrer henne/og hun gaf hǫnum byfalning til Mardochæum/

um / ad vita hvad þad være / og hvar fyrer þetta ſkiede?

6 Þa gieck Nathach ut til Mardochæum / a gøtuna i ſtadnum / ſem var fyrer konungſens porte.

7 Og Mardochæus gaf hønum til vikundar / allt hvad hañ ſkied være / og * þa ſum̃u ſilfurs / ſem Haman hafde ſagt / ad vega iñ i konungſens ſkatt-kamers / fyrer Judana ſkulld / ad eydeleggia þa. * C. 3 / 9.

8 Og hañ fieck hønum eina copie af þeirre ſkrifudu bijfalning / ſem var giefeñ i Suſan / ad eydeleggia þa / til ad ſijna Eſther / og ad kuñgiøra heñe / og bijfala heñe ad ganga iñ til konungſens / og bidia hañ / og ad vitia hañs vegna heñar fooks.

9 Og Nathach kom / og gaf Eſther Mardochæi ord til vitundar.

10 Þa ſagde Eſther til Nathach / og gaf hønum bijfalning til Mardochæū:

11 Aller konungſens þienarar og foolked i konungſens løndum vita / ad hvør madur eda kviña / ſem geingur til konungſens i þañ iñſta gard / ſem ecke verdur kalladur / þa er þar eitt løgmæl yfer hønum / ad ſlaa (hañ) i hel / utañ konungureñ riette * gull ſpijruna moote hønum / ad hañ meige lifa / Eg / eg er ecke kølld ad koma til konungſens / nu i þriatiju daga. * C. 5 / 2. C. 8 / 4.

12 Og mañ ſagde Mardochæo Eſthers ord.

13 Þa ſagde Mardochæus / ad þeir ſkylldu ſvara Eſther: þeink ecke i þijnu ſiñe / ad frelſa (þig) i konungſens huſe fram yfer alla Judana.

14 Þvi þar ē þu ad ſøñu munder þegia a þeſſare tijd / þa munde Judana ſkie ein endurnæring ꝫ frelſe af einū ødrū ſtad / og þu og þijns fødurs hus / þier mundud faraſt / Og * hvør veit / hvort þu (ecke) ſiert vegna þeſſarar tijdar / komeñ til rijkes. * 1. Moſ. 45 / 7.

15 Þa ſagde Eſther / ad ſvara Mardochæo.

16 Gack / ſafna øllum Judum / þeim ſem finnaſt i Suſan / og faſted fyrer mig / og þier ſkulud ecke eta / ey helldur drecka i þriu daga / nott og dag / og ſo eg ꝫ mijnar ſtulkur / viliū lijka ſo faſta. Og ſo vil eg ganga til konungſens / hvad ecke er epter løgmaalenu / og fareſt eg þa ſo / ſo maa eg faraſt.

17 Og Mardochæus gieck / og giørde epter øllu þvi / ſē Eſther bijfalade hm̄.

## V. Capitule.

### Eſthers Gieſtabod fyrer Konungeñ og Haman.

Og þad ſkiede a þeim þridia deige / þa iklædde Eſther ſig konunglegum (klædum /) og ſtood i gardenum hia konungſens huſe / iñañ til giegnt konungſens huſe / og konungureñ ſat a ſijnum konunglega ſtool / i þvi konunglega huſe / giegnt dyrunum a huſenu.

2 Og þad ſkiede / þegar konungureñ ſaa Eſther drottningu ſtanda i gardenum / fieck hun naad fyrer hañs augum / og * konungureñ utriette til Eſther gull-ſpijruna / ſem var i hñs hende / Þa gieck Eſther fram / og ſnerte þad fremſta a ſpijruñe. * C. 4 / 11. C. 8 / 4.

3 Þa ſagde konungureñ til heñar: hvad ſkadar þig / drottning Eſther? Og hvad er þijn beidne? þo ꝥ være til helftar rijkeſens / þa ſkyllde ꝥ giefaſt þier.

4 Og Eſther ſagde: þockneſt þad konungenum / ſo kome konungureñ og Haman i dag til þeſſ gieſtabods / ſem eg hefe tilreidt fyrer hañ.

5 Og konungureñ ſagde: laated Haman flijta ſier / ad giøra ſem Eſther hefur ſagt. Og konungureñ kom og Haman til gieſtabodſens / ſem Eſther hafde tilreidt.

6 Þa ſagde konungureñ til Eſther i gieſtabodenu yfer vijnenu: hvad er þijn bæn / og hun ſkal giefaſt þier / og hvad er þijn oſk / være þad jafnvel helfteñ af rijkenu / þa ſkal þad ſkie.

7 Þa ſvarade Eſther / og ſagde: mijn bæn og mijn oſk er.

8 Hafe * eg funded nad fyrer konungsens augum/og ef þad þocknast konungenum/ad veita (mier) mijna bæn/og ad giøra mijna beidne/so kome konungureñ og Haman til þess giestabods / sem eg vil tilreida þeim / So vil eg giøra a morgun/ sem konungureñ hefur sagt.

* C. 7/ 3.

9 Þa gieck Haman þañ sama dag wt/ gladur og med goodu giede. Og sem Haman sa Mardochæum i konungsens porte/ ad hañ stood ecke upp/ ei helldur hrærde sig fyrer honū/ þa vard Haman fullur af reide uppa Mardochæum.

10 Og Haman hiellt sier / Og þegar hañ kom heim/ sende hañ/og liet sækia sijna vine/og Seres sijna hustru.

11 Og Haman uppreiknade fyrer þeim sijns rijkdooms vegsemd / og sijn mørg børn/og alltsamañ/ * hvørneñ konungureñ hefde giørt hañ (so) stooran / ad hañ hefde upphafed hañ yfer furstana og konungsens þienara. * C. 3/ 1.

12 Og Haman sagde: og eirneñ drottning Esther liet aungvañ koma med konungenum til giestabodsens/ sem hun tilbioo/ utañ mig/ og eg er ogso bodeñ til heñar a morgun med konungenum.

13 Eñ eg er ecke anægdur med allt þetta/ allañ þañ tijma/sem eg sie Mardochæum þañ Juda sitia hia konungsens porte.

14 Þa sagde Seres hañs hustru / og aller hañs viner til hañs: lat þa giøra eitt trie/ fimtiju alna hatt/ og seigdu a morgun til konungsens / ad þeir heinge Mardochæum þar a / og kom gladur til giestabodsens med konungenum. Og þetta þocknadest Haman/ og hañ liet tilbwa tried.

## VI. Capitule.

### Mardochæi Upphæd til Æru og Virdingar.

A þeirre somu nott/ gat konungureñ ecke sofed / Og hañ baud/ad sækia kronikana bok/ og þær voru lesnar fyrer konungenum.

2 Og þar fanst skrifad / ad * Mardochæus hafde til vitundar giefed um Bigthana og Teres / tvo konungsens herberges-sveina/ af þeim/ sem tooku vara a (dyra-)þrøskulldenum/ sem leitudu / ad leggia hønd a kong Asverus.

* C. 2/ 23.

3 Og konungureñ sagde : hvada æra og vegsemd er skien Mardochæo fyrer þad ? þa søgdu konungsens sveinar/ sem þioonudu honum : hañ hefur ecke feinged neitt.

4 Þa sagde konungureñ : hvør er i gardenum? og Haman var komeñ i gardeñ/wte fyrer konungsens hwse/ad seigia konungenum/ ad þeir mætti heingia * Mardochæū a þad trie/ sem hañ hefde laated tilbwa handa honum.

* C. 4/ 14.

5 Og konungsens sveinar søgdu til hañs: sia/Haman stendur i gardenum. Og konungureñ sagde : laated hañ ganga iñ.

6 Þegar Haman kom / sagde konungureñ til hañs : hvad skal madur giøra vid þañ mañ/sem konungureñ giarnañ vill vegsama? & Haman þeinkte i sijnu hiarta: hvørn skyllde konungureñ meir vilia vegsama/ eñ mig ?

7 Þar fyrer sagde Haman til konungsens: sa madur/ sem konungureñ giarnañ vill vegsama/

8 Honum skal madur hingad færa konungleg klæde/sem konungureñ plagar ad bera/og þañ hest/sem konungureñ rijdur a/ og ad madur setie þa konunglegu koronu a hañs høfud.

9 Og mañ skal fa soddañ klæde og eirn hest i eins af konungsens hellstu fursta hønd / og mañ skal yklæda þañ mañ / sem konungureñ vill giarnañ vegsama/ Og færa hañ a hestenum um kring a stadarens gøtum / og lata wthroopa fyrer honum: so skal madur giøra vid þañ mañ / sem konungureñ giarnañ vill vegsama.

10 Þa sagde konungureñ til Haman:

flyt þier/ tak klædeñ og hesteñ/ so sem þu hefur talad/ og giør so vid Mardochæum þañ Juda/ þañ sem situr i kon ungsens porte/ læt eckert vanta af øllu þvi/ sem þu hefur talad.

11 Þa took Naman klædeñ og hesteñ/ og liet yfklæda Mardochæum/ og liet hañ rijda a stadarens gøtum/ og hroop ade fyrer hønum: so skal madur giøra þeim mañe/ sem konungureñ vill giarn añ vegsama.

12 Og Mardochæus kom apkur til kon ungsens ports. Eñ Naman flytte sier til sijns hwss/ sirgiande og med einu skijldu høfde.

13 Og Naman sagde Seres siñe hustru/ og til allra siña vina/ allt pad/ sem hañ hafde hendt. Þa søgdu hañs spek ingar og Seres hañs hustru til hañs: sie Mardochæus af Juda sæde/ fyrer hvørium þu hefur teked til ad falla/ þa megnar þu eckert i moote hønum/ helldur mætt alderles falla fyrer hm̃.

14 Þegar þau eñ nu tøludu vid hañ/ þa komu konungsens herberges-svein ar ad/ og hrødudu þvi/ ad færa Naman til giestabodsens/ sem * Esther hafde tilreidt. * C. 5. 8.

VII. Capitule.

Esthers Añad Giestabod fyrer Kon ungenum og Naman.

Þegar konungureñ var komeñ og Naman til * giestabodsens/ med drottning Esther.
* C. 5/ 8. C. 6/ 14.

2 Þa sagde konungureñ til Esther og so a ødrum deigenum/ þegar hañ hafde drucked vijn: hvørs bidur þu drottning Esther/ og þad skal giefast þier/ og hvad er þijn osk/ være þad jafnvel þad halfa rijke/ þa skal þad skie.

3 Drottning Esther svarade og sagde: hafe eg funded nad fyrer þijnum augum/ o konungur/ og þocknest þad konungenum/ þa gief mier mitt lijf fyr er miñar bænar skulld/ og mijnu foolke/ fyrer miñar beidnes saker.

4 Þvi vær erum seld/ eg og mitt foo lk/ ad eideleggiast/ ad i hel slaast/ og ad fyrerfarast. Og ef vier mættum seliast til præla og til ambætta/ so villda eg hafa þagad/ eñ þo fiandmadureñ kuñe ecke bæta konungenum þañ skada.

5 Þa svarade kong Asverus/ og sagde til drottningar Esther: hvør er sa/ eda hvar er hañ/ sem þorde ad taka þad sier i siñe/ ad giøra so?

6 Og Esther sagde: sa fiandmadur og ovin er sa vonde Naman. Og Naman vard stadlaus fyrer konungenum og drottningune.

7 Og konungureñ stood upp i siñe reide fra giestabodenu yfer vijnenu/ (og gieck) i hæfeñ hia hwsenu/ og Naman stood upp/ ad bidia fyrer sitt lijf af drottning Esther/ Þvi hañ sa/ ad þar var ælyktud ein oluckа yfer sier af konungenu.

8 Þegar konungureñ kom apkur wr hæfnum hia hwsenu/ i hwsed/ sem hañ hafde drucked vijn/ þa la Naman a becknum/ sem Esther (sat) a/ Þa sagde konungureñ: vill hañ og giøra drott ningune ofrijke hia mier i hwsenu? Þeg ar þad ord wtgieck af konungsens muñe/ þa byrgdu þeir Namans andlit.

9 Og Narbona/ eirn af herberges svei nunum/ sagde til konungsens: siaa/ þar stendur og so tried/ sem Naman giørde handa Mardochæo/ sem talade gott fyrer konungeñ/ i Namans garde/ fim tiju alna hætt. Þa sagde konungureñ: heinged hañ þar a.

10 So heingdu þeir Naman a trienu/ sm̃ hñ hafde læted tilbwa handa Mar dochæo/ og konungsens reide stilltest.

VIII. Capitule.

Judarner faa Leijfe af Konge ad hefn na sijn a sijnum Fiandmoñum.

A þeim sama deige gaf kong Asverus drottning Esther Namans hws/ sem var Jud aña fiandmadur. Og Mardo chæus kom fyrer konungeñ/ þvi Esther gaf til vitundar/ hvad nære hañ heyr de heñe til.

2 Og konungurenn droo sinn * hring af/ sem hann hafde teked fra Naman / og gaf Mardochæo hann / og Esther sette Mardochæum yfer Namans hws.
* C. 3/ 10.

3 Og Esther talade enn framar til kon ungsens / og fiell hønum til foota/ og griet/og bad hann/ad burttaka Namans þess Agagita vondsku / og hanns æsetning / sem hann hafde þeinkt i mooti Judunum.

4 So * riette konungurenn gull-spijr-una til Esther/ Og Esther stood upp/ og stood fyrer konungenum. * C. 5/ 2.

5 Og hun sagde: þockness þad konung enum/og hafe eg funded nææd fyrer hon um/og sie þad konungenum haganlegt/ og eg þockness hønum / so skrife mann / ad apturkalla Namans Medatha son ar/þess Agagita uppslættar bref/sem hann hefur skrifad / til ad fyrerkoma Judunum / sem voru i øllum konungsens løndum.

6 Þvi hvørnenn kann eg (þola) og siaa a þad vonda / sem skyllde hitta mitt foolk? og hvørnenn kann eg(þola) og siaa a minnar ættar eydelegging.

7 Þa sagde kong Asverus til drottning Esther/ og til Mardochæum þess Juda: siaa / eg hefe giefed Esther Namans hws / og hann hafa þeir heingt a trienu / af þvi hann lagde sijna hønd a Judana.

8 So skrifed nu þid vegna Judanna/ so sem yckur gott syness/under konungsens nafne / og innsigled þad med konungsens hring/þvi þad skrif/sem skrifast under konungsens nafne / og verdur innsiglad med konungsens hring / er ecke ad apturkalla.

9 So voru konungsens skrifarar kallader a þeirre somu tijd/ i þeim þridia mænade / þad er Sivan mænadur / a þeim þridia og tuttugasta (deige)i þeim sama / og þar vard skrifad epter øllu þvi/sem Mardochæus bijfalade / til Judanna & til valldsmannanna/& lands herranna & høfdingianna i løndunū/sem voru fra Indía/og allt til Morlands/ hundrad og siø og tuttugu lønd/* epter hvørs lands rike / og hvørs folks tungumæle/og til Judanna epter þeirra skrift og epter þeirra tungumæle.
* C. 1/ 22.

10 Og hann skrifade under kong Asveri nafne / og innsiglade med konungsens hring/& sende brefenn fyrer post-boda a hestum/jaa fyrer þa/sem* ridu a farar skiootum/ sem voru mwlar/ þeir voru fadder af hrissum. * C. 3/ 15.

11 Ad konungurenn giæfe Judunum (leife/) sem voru i hvørium stad / ad safnast og veriast vegna þeirra lijfs / ad eideleggia/ ad i hel slaa/ og ad fyrerkoma alls foolksens og landsens magt/ sem plaagudu þa/ børn og hustrur / og ad ræna þeirra gotse.

12 A einum deige/i øllum kongs Asveri løndum / sem var a þeim þrettanda (deige) i þeim toolfta mænade/ þad er Adar mænadur.

13 Ritsens innehalld var/ ad ein bijfaloning var giefenn i øll lønd/ openberlega fyrer øllu foolke / ad Judarner skylldu vera reidubuner a þessum deige/ ad hefna sijn a þeirra fiandmonnum.

14 Þeir rijdande poost-bodar a farar-skiootum/(sem voru)þeir mwlar/foru snarlega ut/og hrødudu sier/epter kon ungsens orde/ og su bijfalning var giefenn i Susan/høfudstadnum.

15 Og Mardochæus gieck ut fra konungenum i konunglegum klædum/i blaaum og hvijtum/og med eina stoora gull-koronu/ og eina kostulega lijn kaapu/ og purpura/og * Susan stadur klætte sig/ og vard gladur. * C. 3/ 15.

16 Þar var komed eitt lioos og glede til Judanna / og fagnudur og vegsemd.

17 Og i hvøriu lande / og i hvørium stad/til hvørs stadar konungsens ord og hanns bijfalning framkom/ var glede og fagnudur a medal Judanna/giestabod og gooder dagar/so ac marger af foolkenu i landenu urdu Judar/ þvi * Judanna otte

otte kom yfer þa.

* 1. Mos. 35/5. 2. Kron. 17/10.

## IX. Capitule.

Judarner hefna siin a þeirra Fiandmonum / innsetia Purims Hatijd.

Og a þeim tolfta mánade/ þad er * Adar mánadur / a þeim þrettanda deige i þeim sama (mánade/) þegar konungsens ord og hans byfalning kom fram / ad þad skyllde skie/ a þeim deige/ sem Judanna fiandmenn vonudu / ad yfirstijga þa/ þa snere þad sier/ so ad Judarner/ þeir (sialfer) yferstigu þeirra fiandmenn * C. 3/7.

2 Þa sofnuduſt Judarner i þeirra stødum/ i øllum kongs Asveri løndum / ad leggia hønd a þa/ sem þeim villdu vondt. Og eingenn kunne standa þeim i mooti / þvi ad þeirra otte var komenn yfer allar þioodernar.

3 Og aller høfdingiar i landenu / og valldamenn/ og lands-herrar/ og konungsens byfalnings menn / upphæfdu Judana/ þvi Mardochæi otte fiell yfer þa.

4 Af þvi Mardochæus var * stoor i konungsens hwse/ og hans rikte kom i øll lønd / þvi madurenn Mardochæus jookst / og vard megtugur. * c. 10/ 3.

5 So sloou nu Judarner alla þeirra fiandmenn med sverd-slage/ og i hel sloou og fyrerkomu (þeim/) og giørdu epter þeirra vilia i moote þeim / sem voru þeirra fiandmenn.

6 Og i Susan høfudstadnum i hel sloou Judarner/ og fyrerkomu fimm hundrudum manna.

7 Og Parsandatha/ og Dalphon/ og Aspatha/

8 Og Poratha/ og Adalia/ og Aridatha/

9 Og Parmastha/ og Arissai/ og Aridai/ og Vajesatha:

10 Þvi Hamans sonu / sem var Medatha sonur/ Judanna fiandmanns/ slou þeir i hel. Enn þeir løgdu ecke þeirra hønd a herfanged.

11 A þeim sama deige kom þeirra i hel slegnu tala i Susan høfud-stad / fyrer konungenn.

12 Og konungurenn sagde til drottningar Esther: Judarner hafa i hel slegid og fyrerkomed fimm hundrud manns / og tiju Hamans sonum / i Susan høfudstadnum/ hvad hafa þeir giørt i þeim ødrum konungsens løndum? og * hvad beidist þu/ og þad skal giefast þier/ og hvørs beidest þu framar / og þad skal skie. * c. 5. 3/6. c. 7/2.

13 Og Esther sagde: * þocknest þad konungenum/ þa giefest og so a morgun Judunum (leife/) sem eru i Susan/ ad giøra epter þessa dags befalning/ ad þeir henge Hamans tiju syne uppa tried. * c. 1/ 9.

14 Og konungurenn byfalade ad giøra so/ og þar vard giefenn byfalning i Susan/ og þeir heingdu Hamans tiju syne.

15 Og Judarner søfnudust / sem voru i Susan/ og so a þeim fiortanda deige i Adar mánade/ og i hel sloou i Susan þriu hundrud menn/ enn løgdu ecke þeirra hønd a gotsed.

16 Enn þeir adrer Judar / sem voru i konungsens lande/ komu til samans/ og hlijfdu þeirra lijfe/ og feingu roo fyrer þeirra ovinum / og i hel sloou þeirra fiandmenn/ fimm og siøtiju þusunder/ enn løgdu ecke þeirra hønd a herfanged.

17 (Þad skiede) a þeim þrettanda deige i Adar mánade / og þeir hvijlldust a þeim fiortanda (deige) i þeim sama/ Og giørdu hann til giestabods og fagnadar dags.

18 Enn Judarner / sem voru i Susan/ voru komner til samans/ a þeim þrettanda i þeim (sama/) og a þeim fiortanda (deige) i þeim (sama/) og hvijldust a þeim fimtanda (dege) i þeim (sama/) og þann giørdu þeir til giestabods og fagnadar dags.

19 Þar fyrer giørdu Judarner a lands þorpunum / sem bi uggu i þeim opnu þorpum / þann fiortanda dag i Adar mánade/ ad giestabods og fagnadar og ad einum listugum deige / og (a hvørium) sa eine skyllde senda þeim ødrum skeinkingar.

ſkeinkingar.

20 Og Marochæus ſkrifade þeſſa hlu te/ og ſende bref til allra Judaña/ ſem voru i øllum kongs Aſveri løndum/ nærre og langt fra.

21 Ad giøra þeim eina ſidveniu/ ad hallda þañ fioortanda dag i Adar ma nade/og þañ fimtanda i þeim(ſama/) a hvøriu are.

22 Epter þeim døgum/ a hvørium Judarner høfdu roo fyrer þeirra fiand møñum/og þeim manade/ſem var um vendur fyrer þa fra hrigd til glede/ og fra ſorg til eirnrar liſtugrar tijdar/ ad hallda þa fyrer gieſtabods og fagnadar daga/ og (a hvørium) ſa eine ſkyllde ſenda þeim ødrum ſkeinkingar/og gaf ur til þeirra fatæku.

23 Og (hver af) Judunum tooku vid þvi/ ſem þeir høfdu byriad ad giøra/ z ſem Mardochæus ſkrifade þeim til.

24 Þvi Naman Medatha ſon ſa Agagite/ allra Juda fiandmadur/ hafde þeinkt moot Judunum/ ad fyrerkoma þeim/og hafde lated kaſta * Pur/ þad er hlut/til ad fordiarfa/og til ad fyrer koma þeim. * c. 3/ 7.

25 Og þegar hun var geingeñ til kon ungſens/hafde hañ bijfalad fyrer bref/ ad hañs ſa vonde aſetningur/ſem hañ hafde þeinkt moot Judunum/ſkyllde ko ma aptur a hañs høfud/ Og * þeir ſkylldu heingia hañ/ og hañs ſyne a trie. * c. 7/ 10.

26 Þar fyrer kølludu þeir þa ſømu daga Purim/epter þeſſ Purs nafne/fyr er þeirrar ordſakar ſkulld/ epter øllum þeſſa brefs ordum/og hvad þeir høfdu ſied þar hia/og hvad þm̃ var afhendt/

27 Upptooku Judarner/ og vidtooku þvi uppa ſig/ og a þeirra ſæde/ og a alla þa/ſem giæfe ſig til þeirra/ad eing eñ mætte yfertroda þad/ad hallda fyr er vijſt þeſſa tvo daga/ epter þvi ſem þeir voru ſkrifader/ og epter þeirra tij ma/ a hvøriu are.

28 Ad þeir dagar ſkylldu vera i miñe/ og halldaſt af hvørre kynkvijſl/hvørre ætt/hvøriu lande og hvørium ſtad/ og ad þeir Purims dagar ſkylldu ecke und añ falla a medal Judaña/og þrra miñ ing ſkyllde ecke aflata fra þeirra ſæde.

29 Og drottning Eſther/ * Abihails dotter/og Mardochæus ſa Jude/ſkrif udu all kroptuglega/ad ſtadfeſta þetta Purims bref añad ſiñ. * c. 2/ 15.

30 Og hañ ſende bref til allra Judaña/ til hundrad og ſiø og tuttugu lan da i Aſveri rijke/med kiærlegum z tru føſtum ordum.

31 Ad ſtadfeſta þeſſa þa Purims daga/ a þeirra tijmum/ epter þvi ſem Mardochæus ſa Jude/ og drottning Eſther hafde ſtadfeſt yfer þeim/ og epter þvi ſem þau høfdu ſtadfeſt yfer þeim ſialfum/ z yfer þeirra ſæde/faſt aña og þeirra hroops høndlan.

32 Og Eſthers ord ſtadfeſtu þeſſar Purims høndlaner/ og þad var ſkrifad i bookena.

## X. Capitule.

### Mardochæi Vegſemd/ Magt og Froomleike.

Nar epter lagde kong Aſverus ſkatt uppa landed/og eyarnar i hafenu.

2 Eñ allur hañs velldes og hañs magtar giørningur/ og ſøgn a Mardochæi * magt/ med hvørre kon ungureñ hafde giørt hañ megtugañ/ er þad ecke ſkrifad i konungaña kroni ku book/ af Meden og Perſia?

* C. 8/ 15.

3 Þvi Mardochæus ſa Jude var ſa añar epter kong Aſverus/og megtugur fyrer Judunum/ og þocknanlegur fyrer hañs brædra margfiølda/ ſem leitade ſijns foolks hins beſta/og ſem talade vel fyrer allt ſitt ſæde.

ENDER

a Eſther Book.

# Jobs Book.

## I. Capitule.

### Jobs Gudhrædsla / Misser og Þolenmæde.

Þar var eirn madur i Uz lande / hañ hiet Job / og sa same madr var (all-) fromur og rædvandur / og sem ottadest Gud / og fordadest hid vonda.

2 Og hønum voru fædder siø syner og þriar dætur.

3 Og hañs kvikfienadur var siø þu-sund sauder / og þriu þusund ulfaldar / og fim̃ hundrud pør yxna / og fim̃ hundrud øsnur / og nüog mørg hiw / Og sa same madur var megtugre / eñ aller þeir / sem biuggu moot austrenu.

4 Og hñs syner geingu burt / og giørdu giestaboð / hvør i sÿnu hwse a sÿnum deige / Og sendu burt / og budu þeirra þremur systrum / til ad eta / og til ad drecka med þeim.

5 Og þad skiede / nær giestabods dagarner voru wte / þa sende Job og helgade þa / og tok sig ærla um̃ morguneñ upp / og offrade breñe-offre epter allra þirra tølu / Þvi Job þeinkte: kañ skie / mÿner syner hafe syndgad / z blessad Gudi þeirra hiarta / so giørde Job alla dagana.

6 Og þad hendte sig a einu deige / þegar þau * Guds børn komu ad ganga fram̃ fyrer Drottneñ / þa kom og so satan midt a medal þeirra. * c. 2 / 1.

7 Þa sagde Drotteñ til satan: hvadañ fra kiemur þu? og satan svarade Drottne / og sagde: fra / ad fara um̃ i landenu / og fra / ad * ganga um̃ kring þar i.

* 1. pet. 5 / 8.

8 Og Drotteñ sagde til satan: * hefur þu giefed giætur ad mÿnum þienara Job? þvi hañs lÿke er ecke i landenu / eirn madur / sem er (all-) froomur og rædvandur / sem ottast Gud / og sem fordast þad vonda. * c. 2 / 3.

9 Eñ satan svarade Drottne / og sagde: mun Job ottast Gud forgiefens?

10 Hefur þu / þu ei sett gyrding um̃ hñ / og um̃ hañs hws / og um̃ allt þad hañ hefur / allt um̃ kring? þu hefur blessad hñs handaverk / og hñs kvikfienadur hefur i (margfiolda) wtbreidt sig i landenu.

11 Eñ wtrett nu þÿna hønd / og hrær vid øllu þvi / sem hñ hefur / (hvad gyllder þad) hvort hañ mune ecke blessa þig i þÿnu auglite?

12 Og Drotteñ sagde til satan: sia / allt þ hñ hefur / (vere) i þiñe hende / alleinasta legg ecke þÿna hønd a hñ (sialfañ.) Þa gieck satan wt fra Drottens auglite.

13 Og þad skiede eirn dag / sem hañs syner og hañs dætur / ætu og drucku vÿn i þeirra þess frumgietna brodurs hwse /

14 Þa kom eirn sendebode til Jobs / og sagde: yxneñ plægdu / og øsnurnar geingu a grase hia þeim.

15 Þa fiellu þeir wt af Seba / og tooku þau / og slogu sveinana med bitru sverde / Og eg er alleinasta undañkomeñ / eg / eg alleina / ad giefa þier þad til vitundar.

16 Þegar hañ eñ nu talade / þa kom eirn (añar /) og sagde: Guds elldur fiell af Himnenum / og vard upptendradur a saudena / og a sveinana / og forærde þeim / Og eg er alleinasta undañ komeñ / eg / eg alleina / til ad giefa þier þad til vitundar.

17 Þegar hañ eñ nu talade / þa kom eirn (añar /) og sagde: Chaldæi giørdu þriar flocka / og yfirfiellu ulfaldana / og tooku þa / og slogu sveinana med bitru sverde / Og eg er alleinasta undañ komeñ / eg / eg alleina / ad giefa þier þad til vitundar.

18 (Eñ) þegar hañ eñ nu talade / þa kom eirn (añar /) og sagde: þÿner syner og þÿnar dætur ætu og drucku vÿn i þeirra þess frumgietna brodurs hwse.

19 Og sia / þar kom eitt stoort vedur af eydemørkeñe her yfirfra / og skeik uppa hwssens fiogur horn / ad þad fiell a sveinana / og þeir deydu / Og eg er alleinasta

undañ

undañ komeñ / eg / eg alleina / ad giefa þier þad til vitundar.

20 Þa uppstood Job / og reif syna kapu / og klipte sitt høfud / og fiell a jordena / og tilbad:

21 Og sagde: * naken wikom eg af miñi ar moodur lyfe / og naken mun eg fara þangad aptur: Drotteñ gaf / og Drotteñ hañ took / Drottenis nafn vere lofad.

* Preb. 5/ 14. etc.

22 J øllu þessu syndgade Job ecke / og talade eckert oskickanlegt um̄ Gud.

## II. Capitule.

### Job verdur plagadur og spottadur.

Þad skiede eitn dag / þegar Guds børn komu / ad ganga fram̄ fyrer Drotteñ / þa kom og so * satan midt a medal þeirra / ad koma fram̄ fyrer Drotteñ. * c. 1/ 6.

2 Þa sagde Drotteñ til satan: hvadañ fra kiemur þu? og satan svarade Drottne / og sagde: fra / ad fara um̄ i landenu / og ganga um̄ kryng þar i. * 1. Pet. 5/ 8.

3 Og Drotteñ sagde til satan: hefur þu giefed gætur ad mynum þienara Job? Þvi hañs lyke er ecke i landenu / eitn madur / sem er (all-) froomur / og rædvandur / sem ottast Gud / og fordast þad vonda / Og helldur eñ nu fastlega vid siñ froomleika / eñ þu hefur upphvatt mig moote hønum / ad fordiarfa hañ an sakar.

* C. 1. 1/ 8.

4 Þa svarade satan Drottne / og sagde: huud fyrer huud / og allt þad eitn madur hefur / mun hañ giefa fyrer sitt lyf.

5 Eñ wtrett nu þyna hønd / og snert hañs bein og hañs hölld / (hvad gilldér) hvort hañ ecke mune blessa þig i þynu auglite?

6 Og Drotteñ sagde til satan: sia / hañ vere i þiñe hende / þo varadu hañs lyf.

7 Þa foor satan wt fra Drottenis augsyn / og sloo Job med vondum kaunum / fra hañs ylium og allt til hañs hvirfels.

8 Og hañ took sier eina skøfu / og skoof sig þar med / Og sat midt i øskuñe.

9 Og hañs * hustru sagde til hañs: helldur þu eñ nu fastlega vid þiñ froomleika? blessa Gud / og deydu. * c. 19/ 17.

10 Eñ hañ sagde til heñar: þu talar / eins sem ein af þeim dårlegu (kvinnum) talar / skylldum vier wedtaka alleinasta þad gooda af Gude / og ecke asamt medtaka þad vonda? * i øllu þessu syndgade Job ecke med synum vørum. * c. 1/ 22.

11 Þeir þryr Jobs viner heyrdu alla þessa olucku / þa sem var komeñ yfer hañ / þa komu þeir / hvør af synum stad / * Eliphas sa Themanite / og Bildad sa Suchite / og Zophar sa Naamathite / og urdu samrada / ad koma / ad hafa medaumkun yfer hønum / og ad hugga hañ.

* 1. Mos. 36/ 4. 15.

12 Þegar þeir uppliftu þeirra augum̄ aleingdar / þa þecktu þeir hañ ecke / og þeir upphoofu þeirra raust / og grietu / og sierhvør reif syna kapu / og dreifdu duptе a þeirra høfud moote Himnenum.

13 Og satu med hønum a Jordu sio daga og sio nætur / og eingeñ talade til hañs eitt ord / þvi þeir sau / ad þynañ var harla stoor.

## III. Capitule.

### Jobs Opoleñmæde.

Þar epter uppliet Job siñ muñ / og formællte synum deige.

2 Og Job svarade / og sagde:

3 * Fortapadur verde sa dagur / a hvørium eg er fæddur / Og su nott / þa mañ sagde: eitt sveitn er gieteñ.

* C. 10/ 18. Jer. 20/ 14.

4 Sa same dagur mætte vera (all-) myrkur / Gud skyllde hier ofañad ecke spyria epter hønum / eckert skyn skyllde skyna yfer hañ.

5 Myrkur og daudans skugge skyllde vañhelga hañ / eitt sky skyllde vera yfer hønum / dagsens beiskleiker ogna hønum.

6 Myrkred skyllde iñtaka þa somu nott / ad hun skyllde ecke gledia sig medal ársens daga / ad hun skyllde ecke koma i manadaña tal.

7 Sia / su sama noot skyllde vera einmana / ad eingeñ fognudur skyllde koma a heñe.

8 Ad þeir formæle heñe / sem formæla

deigenum/sem eru reidubwner til ad upp-
vekia Leviathan.
9 Stiornur i hennar reckre skylldu verda
myrkvar/ hun skyllde vænta epter liose/
og þad skyllde ecke (koma/) og hun skyllde
ecke sia a morgun-rodans augna-brwner.
10 Af þvi hun lukte ecke mijns lijfs
dyr/ og hulde ecke hörmungena fyrer
mijnum augum.
11 Hvar fyrer var eg ecke daudur af (mod
ur) lijfe? hvar fyrer wtkom eg af lijfenu/
og ecke (strax) uppgaf andann?
12 Hvar fyrer komu knie fyrer mig? og
hvar fyrer briooster/ ad eg skyllde siwga?
13 Þvi þa munde eg nu liggia og vera
kyrr/ Eg munde sofa/ (og) nu hafa
haft hvijld/
14 Med konungunum og rad-herrunum a
Jordunne/ sem byggia sier þa eyde (stade:)
15 Edur med furstunum/ sem höfdu gull/
sem uppfylltu þeirra hws med silfur:
16 Edur ad eg hefde ecke vered (til/)
sem eitt huled otijma bært foostur/ sem þau
ungu born/ er ecke hafa sied lioosed.
17 Þar hafa ogudleger aflated ad ogna
(ödrum/) og þar hvijla þeir mattlausu.
18 Þar hafa fangarner frid asamt/ þe
ir heyra ecke þreingingarmannsens raust.
19 Þar er (bæde) smar og stoor/ Og
sveinnenn frij fra sijnum herra.
20 Hvar fyrer giefur hann einum aum-
ingia lioosed/ og lijfed hrigggvum af hiarta?
21 Þeim/ * sem bijda epter daudanum/
enn hann (kiemur) ecke/ og grafa epter hon
um/ helldur enn epter þeim huldu (fiar-
sioodum.) * Openb. 9/ 6.
22 Þeir/sem gledia sig/so þeir stöckva upp/
þeir skylldu kiæta sig/nær þeir finna gröfena.
23 Einum manne/ hvörs vegur er hulenn/
og Gud lukte til umm kring hann?
24 Þvi nær * eg skal eta/ þa kiemur mijn
andvarpan/ og mijnar ylbraner renna wt
sem vatned. * Ps. 102/ 10.
25 Þvi eg ottadest harla miög/ og þad
kom yfer mig/ Og þad sem eg hræddest
fyrer/ hendte mig.
26 Eg var ecke i rod/ ei helldur kyrr/ og
hvijlde ecke/ og þar kom hrelling.

## IV. Capitule.

### Eliphas talar til Jobs.

Þa svarade Eliphas sa Thema-
nite/ og sagde:
2 Ef vier villdum reyna ad
tala til þijn/ munde þad styggia
þig? enn hvör kann hallda sier fra ad tala?
3 Sia/ þu hefur undervijsad mörgum/
Og styrkt * þær þreittu hendur.
* Ebr. 12/12.
4 Þijn ræda hefur uppreist þann fallna/
og þu hefur styrkt þau beigdu knie.
5 Enn nu er þad kiemur til þijn/ þa styggv
er þad þig/ Þad hefur hæft a þig/ og þu
ert skielfdur.
6 Var ecke þinn (Guds) otte þijn von?
og þinna vega froomleike þitt traust.
7 Kiære/ þeink þig um/ hvör saklaus er
fyrerfarenn? edur hvar eru þeir rietvijser
du eydelagder?
8 (Helldur) so sem eg hefe sied/ þeir sem
plægdu vondskuna/ og þeir sem sadu mæd
ufre/ þeir meiga uppskiera þad (sama.)
9 Þeir munu fyrerfarast fyrer Guds
anda/ og eydeleggiast af hans reide anda.
10 Leonsins öskur/ og þess (grimma) leon-
sens raust (er heyrd/) og þeirra (ungu)
leona tennur eru wtbrotnar.
11 Þad (sterka) leon er tortijnt fyrer ut-
ann rann/ og þess (gamla) leons hvolpar
eru sundur dreifder.
12 Og eitt ord er sagt mier heimuglega/
og mitt eyra nam þar af.
13 J þankum af sioonunum a noott-
unne/ nær eirn diupur svefn fellur a folk.
14 Þa kom otte og skialfte a mig/ og
skielfde miög mijn bein.
15 Og eirn ande gieck framm fyrer mi-
er/ þar yfdust hærenn a mijnu lijfe.
16 Hann stood/ og eg kunne ecke þeckia
hanns asigkomulag/ þar var eitt bijlæte
fyrer mijnum augum/ þad var kyrt/ og eg
heyrde eina raust/ (seigiande:)
17 Mun ein manneskia kunna ad halldast
riettferdugre/ enn Gud? mun eirn madur
vera hreinne/ enn sa/ hann giorde?
18 Sia/ * hann kann ecke reida sig uppa
sijna þienara/ Og mætte leggia daarskap

a sijna sendeboda. * c. 15/ 15.
19 Hvad myklu framar ( eru þeir þvi-lijker/ ) sem bwa i leir-hwsum / hvøtra grundvøllur er i dupte/ Mañ munde stiet-ta þa (smatt) fyrr eñ moleñ.
20 Fra morgne allt til kvollds munu þe-ir meliast (smatt/) af þvi þar er eing-eñ/sem leggur (þad uppa hiartad/) mu-nu þeir forderfast æfenlega.
21 Fer þeirra virding ecke burt med þe-im? ja þr munu deya/eñ ecke i vijsdoome.

## V. Capitule.

### Eliphas helldur afram ad tala vid Job.

Hreopa þu nu hvort þar sie nock-ur/ sem svare þier? og til hvørs af þeim heilögu villt þu lijta?
2 Þvi reideñ mun slaa eirn dára i hel/og vandlætingeñ mirda eirn gick.
3 Eg/ eg sa eirn dára rootfestañ / og formællte hañs hwse strax.
4 Hañs børn munu vera langt fra hia-lpræde/ og sundur slaast i portenu/og þar mun eingeñ hialpare vera.
5 Sa hwngrade mun eta hañs korn-skurd/og mun taka hañ iñ af þirnunum/ og sierhver af þeim þyrstu munu wt-drecka (soddañ) þeirra krapt.
6 Þvi vondskañ kiemur ecke wt af dupte/ og mædañ kañ ecke vaxa upp af Jordune.
7 Eñ ein mañeskia er fædd til mædu / eins sem neistar fliwga hatt upp.
8 Eg/eg villde þo leita epter Gude/og setia mijna rædu til Guds.
9 Hañ /* sem giører stoora hlute/hvør-ia madur kañ ecke rañsaka / Undarlega hlute/so þeir ecke na ad teliast. * c.9/10
10 Hañ sem giefur regn a Jardrijked / og lætur vatn koma a götunar.
11 Ad setia þa lijtelmootlegu hatt upp/ ad þr/ s̄ hrygdu/ fyrer frelsed upphefiest.
12 Sem giører * þeirra hreckvijsu rada-giørd til einkes / ad þeirra hendur kuñe ecke giøra þad/ þeir taka sier fyrer.
* 1. Cor. 3/ 19. Es. 8/ 10.
13 Sem hondlar þa vijsu i þeirra slæ-gd / Ad þeirra illgiørnu rad kollkastest.
14 Ad deiginum skulu þeir hlaupa fram i myrkred/ og fálma um̄ middeiged / sem um̄ noott.
15 Eñ hañ frelsade eiñ fatækañ fra sverdenu / og fra þeirra muñe / og fra eins ofslugs hende.
16 Og sa lijtelmootlege hafde von / og vondskañ matte hallda sijnū muñe samañ
17 Sia / * sæl er ein mañeskia / sem Gud strafar/ Þar fyrer skalltu ecke for agta þess Almattuga refsing.
* Openb. 3/ 19. etc.
18 Þvi hañ/hañ * særer/ og bindur um̄/ hañ slær ( i giegnum/ ) og hañs hendur lækna. * 5. Mos. 32/39. 1. Sam. 2/6.
19 Hañ mun frelsa þig i sex hormung um/og i * siøundu skal eckert vont snerta þig. * Ordsk. 24/ 16.
20 J * hwngrenu mun hañ frelsa þig fra daudanum / Og i strijdenu fra sverds-ens vallde. * Ps. 33/ 19.
21 Þu skallt skijlast fyrer tunguñar svi-pu / og ecke ottast fyrer eydeleggingūñe/ nær hun kiemur.
22 Þu skallt hlæa ad eydeleggingūñe og ( stooru ) hwngre / Og ecke ottast fyrer villudijrum i landenu.
23 Þvi þiñ * sattmaale skal vera vid steinana a mørkeñe / og þau villudijreñ skulu hallda frid vid þig. * Ezech. 34/25
24 Og þu skallt merkia / ad þijn tialld-bwd hefur frid / og þu skallt vitia þijns heimilis og ecke syndga.
25 Og þu skallt reina/ad þitt sæde verd-ur margfallt / og þitt afkvæme sem gr-as a Jordune.
26 Þu skallt koma til grafareñar i (goodre) elle/ eins sem eitt bindene upp-tekst a sijnum tijma.
27 Sia/ þetta høfum vier reynt / so er þad/heyr þad/ og skil þu þad fyrer þig.

## VI. Capitule.

### Job svarar Elipha uppa sijna Rædu.

Eñ Job svarade / og sagde:
2 Eg villde mitt kløgumaal mætte vijst vegast/og madur vill de upplipta miñe olucku afamt i meta-skalum.

3 Þvi hun munde verda þÿngre eñ sandur i hafenu/ þar fyrer eru mÿn ord uppsvelgd

4 Þvi þess Almættuga* skeite eru i mier/ hvøria eytur miñ ande dreckur/ Guds ognaner eru settar moote mier.

* C. 34/ 6, Ps. 38/ 3.

5 Mun eirn skoogar-asne rymia epter grasenu/ Edur skyllde eirn uxe baula yfer sÿnu foodre.

6 Mun þad smecklausa kuña etast fyrer utañ sallt? eda er þar smeckur i þvi hvÿta krÿng um (eggia-)bloomed?

7 Þeir hluter miñe sæla baud vid ad snerta / þeir eru sem oheilnæmer hluter i mÿnum mat.

8 O ad mÿn bæn mætte koma / og Gud villde giefa þad eg vona.

9 Og ad Gud villde slaa mig i smætt / Hañ villde læta sÿna hend lausa / og hoggva mig.

10 Þa hefde eg eñ nu huggun/og mætte verda herkeñ i pÿnuñe/ nær hañ ecke villde þyrma/ Þvi eg hefe ecke huled hins heilaga rædu.

11 Hvad er miñ mattur/ ad eg kuñe vona? og hvad er mÿn endalykt/ad eg skule leingia mitt lÿf?

12 Er miñ mattur (þa) mattur af steine/ eda mitt holld af kopar?

13 Er þar þa eingeñ hialp i mier / og er stødugleikeñ rekeñ fra mier?

14 Skyllde honum/sem slær sier fra sÿnum næunga/(lætast i tie)myskunsemdeñ/ og sem villde yfergiefa þess Almættugasta otta?

15 Mÿner brædur * hafa brugdest sem eirn lækur / So sem eirn straumur i lækium/ þar hleipur fram. * Ps. 38/ 12.

16 Þeir læker / sem eru svarter af iis / sniooreñ skal hyliast a þeim.

17 A þeirre tÿd/þeir munu þidna/þa munu þeir vera i burt/ Nær þad verdur heitt/þa munu þr forganga af þtra stodū.

18 Þeir munu vÿkia wt wr a þeirra vega stigum/Þeir munu fara upp til ein kis / og forganga.

19 Þeir horfa upp ad vegunum til Thema/ Þeir vænta sier ad fara til Seba.

20 Þeir urdu til skam̄ar / ad þeir reiddu sig þar uppa/Þeir komu þangad og skom̄udust sÿn.

21 Þvi þier erud nu eckert / Þier skulud sia hormungena/ og ottast.

22 Hefe eg sagt: færed mier hÿngad/og skeinked fyrer mig af ydar formegan.

23 Edur frelsed mig af þiandmañsens hende/Og leysed mig af tÿrañans hende?

24 Kieñed mier/og eg/eg vil þegia/Og undervÿsed mier/þad eg fer villt i.

25 O hvad eru þeirra rædvøndu ordræd ur stadfestar? eñ hvad mun þad straffverka/(sem kiemur) fra ydur?

26 Skylldud þier i þvi ad straffa upp huxa ord? (og slaa) þess efablandna ræðum i vind?

27 Iaa villdud þier kasta ydur ofañ yfer þañ fødurlausa / og grafa i moot ydar næunga.

28 Og nu ef þier villed/þa lÿted a mig/ og (læted þad koma)fyrer ydar augsyn/ hvort eg villde liuga.

29 Um̄vended ydur nu / og læted rangleted fara. Iaa um̄vended ydur eñ nu / mitt rietltæte er þar.

30 Mun mÿn tunga hafa orietl? mun miñ muñur ecke skynia vondskurnar.

## VII. Capitule.

### Job klagar yfer Mañaña Eymdarleg um Nag i þessu Lÿfe.

Er ein mañeskia ecke i strÿde a Iordūñe? og eru hañs dagar ecke sem eins* (dag-)launara dagar? * C. 14/ 6.

2 Sem eirn þræll munde længa epter skugga/Og sem eirn (dag-)launare mætte vænta sÿns kaups.

3 So hefe eg feinged onytu mænude mier til arfs / og þeir hafa taled mier eymdarlegar nætur wt.

4 Nær eg lagde mig/þa sagda eg: nær mun eg standa upp? og sÿdañ reiknade (mitt hiarta/nær ꝥ villde verda)/aftan/ og eg vard mettur af mædusemdum/ allt til røckurs.

5 Mitt holld er klædt med ormum og skarne af dupte / mÿn hwd er sprwngeñ og rotud.

6 Mÿner

6 Mijner dagar eru audvelldlegar(burt flogner/)eñ ein ( vefara) vinda/ og eru umlidner / ad voneñ hefur eirn enda.
7 Peink / ad mitt lijf er eirn * vindur/ Mitt auga mun ecke koma aptur til ad sia gott. * c. 9/ 25.
8 Sa/hvørs auga/ sem(nu)sier mig / mun ecke skoda mig/ Pijn augu munu(liga)epter mier/ eñ eg mun ecke (finast.)
9 Eitt sky hverfur og fer burt / Eins sa / þar fer nidur til helvijtes / mun ecke koma upp (aptur.)
10 Hañ mun ecke koma aptur meir til sijns hws/og hañs stadur mun ecke þeckia hañ framar meir.
11 So vil eg / eg ecke hindra miñ muñ/ eg vil tala i mijns anda angist / klaga i miñar sálar * beiskleika. * c. 10/ 11.
12 Er eg eitt haf/edur eirn hval-fiskur/ ad þu villt setia eitt vardhalld yfer mig?
13 Nær eg þeinkte: mijn sæng skal hugga mig / mijn hvijla skal lietta (nockru) af miñe kløgun?
14 Pa hræder þu mig i draumum/Og i sioonunum komstu mier til ad skielfast.
15 Ad mijn sál oskar ad vera kyrkt/ Jaa daudans helldur eñ miña beina:
16 Mier leidest/Eg mun ecke lifa eilijflega/ Lattu af vid mig/þvi mijner dagar eru hiegoome.
17 Hvad er eitt mañ / ad þu vilier virda hañ mykels? og ad þu villt leggia þier hañ a hiarta? * Ps. 8/5. Ps. 144 /3. Ebr. 2/6.
18 Og vitia hañs hvørn morgun/ad reyna hañ øll augna-blik.
19 Hvad leinge villtu ecke vijkia fra mier? villtu ecke læta mig vera/ allt þar til eg reñe nidur mijnum hræka?
20 Hafe eg syndgast/ hvad skal eg(þa) giora þier / o þu* mañeskiunar vaktare? hvar fyrer hefur þu sett mig til ásteitingar/ ad eg er mier (sialfum) til eirnrar byrde? * Ps.121/4.
21 Og hvar fyrer villtu ecke burttaka miñ misgiorning/ og læta mijna vondsku fara burt? þvi eg mætte nu leggiast i duft / og nær þu leitader mijn um morgun eñ/ þa skyllde eg ecke (finast.)

## VIII. Capitule.

### Bildad talar til Jobs.

Pa svarade * Bildad sa Suchite/og sagde: * c. 2/ 11.
2 Hvad leinge villtu tala þetta? og ( hvad leinge skyllde ) þijns munns ord vera eirn sterkur vindur?
3 Hvart munde Gud umbreita riettenum? og hvørt munde sa Almattuge umbreita riettvijsene ?
4 Hafe* þijner syner syndgad fyrer honum/þa hefur hañ burtkastad þeim fyrer þrra misgiorninga skulld? *c/1.18/19.
5 Eñ ef þu giefr þig i tijma til Guds/ og giorer bæn til þess Almattugasta.
6 Og sierł þu(ad eins) hreinn og rædvandur/ Pa mun hañ nu uppvekia(nockud añad ) yfer þig / og farsælañ giora þijns riettlætes bwstad.
7 Og * hvad þu hafder fyrr / mun vel vera litied/eñ þad þu munt hafa hier epter/mun vaxa miøg. * c. 42/ 10.
8 Þvi kiære/ spurdu þa umlidnu ætt/ og bædu þig til þess/ sem þeirra fedur hafa uppspurt.
9 Þvi vier vorum til i giær / og vitum eckert/ Þvi* vorer dagar eru eirn skugge a Jørduñe. * c. 14. 1/ 2. etc.
10 Skylldu þeir/þeir ecke kieña þier/ja segia þier / og frambera ræduna wt af þeirra hiarta?
11 Kañ og eitt sef ad uppvaxa fyrer utañ ledju? kañ einged groa fyrer utañ vatn?
12 Nær þad eñ nu stendur grænt/(eñ þo) þad ecke upphøggvest/mun þad þo visna fyrre øllum jurtum.
13 So geingur þad til vid alla þa/sem gleyma Gude/ Og eins * hræsnara von mun fortapast. * c. 11/ 20.
14 Þvi hañs von mun verda (hønum) leidenleg/ Og hañs traust er eirn kongulóar vefur.
15 Hañ mun reida sig uppa sitt hws/ og þad skal þo ecke standa / Hañ mun bæta uppa þad/eñ þ skal ecke verda standande.
16 Hañ er fullþroska fyrer sol/ Og hañs kuistur mun vaxa i hañs hæf.

17 Hañs rætur munu groa hver i adra hia eirnre uppsprettu/ hañ mun lita uppa eitt hws af steinum.
18 (Eñ) nær (Gud) uppsvelger hañ aß sijnum stad/ þa mun sa eine neita hønum/ (og seigia :) eg sa hañ ecke.
19 Sia/ þ er hñs vegar glede/ Og þar munu (adrer) uppvaxa aß einu ødru dupte.
20 Sia/ Gud burtkastar ecke þeim froo ma/ og tekur ecke i þess vonda hønd.
21 Þar til hañ uppfyller þiñ muñ med hlætur/ og þijnar varer med fagnud.
22 Þeir/ sem þig hata/ * munu (ølldunges) svijvirdast/ Og þeirra ogudlegu tialldbwd/ mun ecke meir fiñast.
* Ps. 6/ 11.

## IX. Capitule.

### Job svarar Bildad.

Eñ Job svarade/ og sagde:
2 Jaa/ eg veit/ * ad þad er so/ og hvad skyllde ein mañeskia riettlæta sig fyrer Gude?
* C. 25/ 4.
3 Ef * hañ vill þrætta vid hañ/ so kañ hañ ecke svara hønum einu af þusund. * 2. Mos. 34/ 7. Ps. 143/ 2.
4 Hañ er harla vijs / og megtuglega sterkur / hvør forherte sig i giegn hønum/ og hafde lucku?
5 Hañ / sem flitur fiølleñ/ so ad þau verda þess ecke var/ sem umbillter þeim i siñe reide.
6 Hañ/ sem hrister Jørdena ur sijnum stad/ ad heñar stoolþar meiga bifast.
7 Hañ/ sem talar til soolareñar/ so ad hun kañ ecke koma upp / og iñsiglar yfer stiørnunum.
8 Sem utbreider Himineñ alleina / og geingur a haffsens bilgium.
9 Sem giører ad Arcturus/ * Orion ⁊ regn stiørnurnar (koma hier fram) ⁊ þær huldu (stiørnur) i moote sudrenu.
* Amos. 5/ 8.
10 Sem giører stoora hlute / so þeir ecke naa ad rañsakast / Og undarlega hlute/ so þar er ecke tala a.
11 Sia/ hañ geingur yfer fyrer mier / og eg sie (hañ þo) ecke/ Og hañ geingur fram hia/ og eg (samt) ecke þecke hañ.
12 Sia/ nær hañ vill taka/ hvør kañ ad koma hønū til ad skila aptur? hvør vill seigia til hañs: hvad giører þu?
13 Gud fraa snijr * ecke siñe reide/ Þeir beigdu sig under hañ/ sem villdu hiaalpa (ødrum) af hofmood. * Nah. 1/ 6.
14 Langtum sijdur skyllde eg/ eg kuña ad svara hønum/ (og) utvelia mijn ord/ (sem eg kuñe tala) vid hañ?
15 Þvi þo eg (jafnvel) være riettferdugur/ kiñe eg ecke svara/ Eg maa bidia um̄ naad/ fyrer hønum / sem lætur dæma mig.
16 Þo eg (jafnvel) hroopade/ og hañ svarade mier/ þa kiñe eg ecke trwa/ ad hañ heyrde mijna raust.
17 Þvi hañ lemur mig med einum hvirfelvinde/ og giører mier mørg saar fyrer utan sok.
18 Hañ leifer mier ecke/ ad draga miñ anda/ Helldr mettar mig med beiskleik ū
19 Þo eg (villde flija) til magtar/ sia/ þa er hñ sterkur/ Edur og til riettar/ hvør villde koma mier i tal (vid hañ?)
20 Þo eg villde riettlæta mig/ so munde miñ muñur fordæma mig / Sie eg fromur/ þa kañ hñ þo giøra mig rækañ
21 Være eg fromur / so kiñe eg ecke þeckia mig sialfañ/ (eñ) eg munde ieingrast ad lifa.
22 Þad er eitt / þar fyrer sagda eg: hañ/ hañ fyrerkiemur þeim frooma og ogudlega.
23 Ef hñ villde hwdstrijkia (nockurn) hastarlega til dauda/ þa kiñe hñ hlæia ad hiña saklausu freistingu.
24 Landed verdur giefed i eins ogudlegs hønd/ hañ birger þess doomara asionu / (Giører hañ þ) ecke? hvar (og) hvør er sa/ (er giører þad?)
25 Og mijner dagar hafa vered * flioo are eñ eirn hlaupare/ Þeir flydu burt/ hafa ecke sied gott/ * C. 7/ 7.
26 Þeir eru burtfarner/ med hradfærum skipum/ sem eirn ørn/ er vill fliwga epter fædu.
27 Nær eg þeinke / ad eg vilie gleyma miñe kløgun/ eg vilie laata mitt bragd

hverþa/

hvetþa/og endurlÿfga mig/

28 Þa mꝏ eg ottast fyrer øllum mÿnum þÿnum/Med þvi eg veit/ad þu lætur mig ecke vera saklausann.

29 Eg/ eg hlÿt ad halldast ogudlegur / Hvar þ vil eg nu plaga mig forgiefens?

30 Þo ad eg safnvel * þvæ mig med snioo-vatne/ og hreinsade mÿnar hendur med sapu/ * Jer. 2/ 22.

31 Þa dÿfder þu mier þo nidur i pitten/ Og mÿn klæde mundu hafa andstygd a mier.

32 Þvi hann er ecke eirn madur/sem eg/ ad eg kunne svara hønum / ad vid kiñum ganga til samans fyrer doomenn.

33 Þar er eingenn/sem kann giora wr i millum ockar/ sem kann leggia sÿna hønd a ockur bæda.

34 Ad hann take sitt hrÿs fra mier / og ad hans otte ogne mier ecke.

35 Þa villde eg tala og ecke ottast fyrer hønum/Þvi med soddann moote er eg ecke med mier (sialfum.)

X. Capitule.

## Job klagar sÿna Eymd fyrer Gude.

Mÿna sal bÿdur vid mÿnu lÿfe / eg vil læta mÿna klogun ganga yfer mig/eg vil tala i * miñe sꝏlar beiskleika. * c. 7/ 11.

2 Eg vil seigia til Guds : fordæm mig ecke / lat mig vita / hvar um þu prætter vid mig.

3 Mun * þad þocknast þier/ad þu giorer ofrÿke/ad þu burtkaster þiña handa verke / og lÿser þeirra ogudlegu rꝏde? * C. 34/ 10.

4 Hefur þu (þa) holldleg augu / edur villtu sia so sem ein mañeskia sier?

5 Eru þÿner dagar / sem eirnrar mañeskiu dagar? eru þÿn ꝏr sem eins mañs dagar?

6 Ad þu spyr epter mÿnum misgiørningum / og leitar epter miñe synd.

7 Þu veitst/ ad eg hefe ecke breitt ogudlega / Þo er þar eingenn / sem kann frelsa af þiñe hende.

8 Þÿnar hendur hafa smÿdad mig / og giort mig allt um kring / þo villtu uppsvelgia mig.

9 Þeink þo / ad þu * giorder mig/ sem leyr / og ad þu villt giora mig ad dufte aptur. * c. 33/ 6.

10 Hefur þu ei wthellt mier/sem miolk/ og hleypt mier til samans sem oste?

11 Hefur þu (ecke) klædt mig med hwd z hollde/ z þaked mig med beinū og sinū:

12 Þu gafst mier lÿf og nꝏd / Og * þÿn tilsioon vardveiter minn anda. * P. G. 17/ 28.

13 Enn þetta hafder þu(þo) huled i þÿnu hiarta/eg veit/ ad þetta var hia þier.

14 Ef eg syndgade/so gꝏder þu ad mier/og letst mig ecke vera saklausann vegna mÿns misgiørnings.

15 Hafe eg giort ogudlega / (þa) vei mier/z være eg riettferdugur/(þa) villde eg (þo) ecke upplifta mÿnu høfde/ eg er mettur af forsmꝏn/z ad sia mÿna eymd.

16 Og hun eykst / Jꝏ þu eltter mig * sem leon/ og kiemur aptur/ jꝏ ert undarlegur i moote mier. * Es. 38/13.

17 Þu endurnÿar þÿn vitne i moote mier/og þÿn reide verdur mikil i moote mier/ Þar eru umskipte og strÿd i moote mier.

18 Og hvar fyrer utfꝏrder þu mig af (moodur)lÿfe? (Gud giæfe) * eg hefde uppgiefed andann / ad eckert auga hefde sied mig. * c. 3. 3/11. Jer. 20/ 14.

19 Eg mætte hafa vered/so sem eg ecke hefde vered til/ Vered borenn til grafarennar af (moodur) lÿfe.

20 Eru mÿner dagar ecke fꝏer? hættu þo / Lat af vid mig / ad eg mig lÿted endurlÿfge.

21 Fyrr enn eg geing burt/og kiem ecke aptur/til myrkurs og daudans skugga lands/

22 Eins myrks lands/ sem daudans skugga dimmu / og hvar * eckert skick er/ og hvar þad skÿn sem myrkur. * c. 3/ 19.

XI. Capitule.

## Zophar talar til Jobs.

Þa svarade * Zophar fra Naamathite/og sagde: * c. 2/11.

2 Skal þar ecke svarast til margra orda? og mun eirn * muñ-hvass madur kuña ad hafa riett? * Ps. 140/ 12.

 3 Skylde

4 Hañ setti * eina miñing um̃ sÿna undarlega hlute: Drottleñ er nædugur og myskunsamur. * Luc. 22/ 19.

5 Hañ gaf þeim fædu/ sem hañ ottast/ Hañ miñest æfenlega a siñ sattmala.

6 Hañ liet kuñgiøra sÿn megtugu verk fyrer sÿnu foolke/ ad giefa þeim heidingiaña arf.

7 Hañs handaverk eru sañleike og riettur/ Allar hñs befalningar eru sañar.

8 Eru stadfestar alltÿd z eilÿflega/ Þar eru tilsettar i sañleika og fromleika.

9 Hañ sende sÿnu foolke eina lausn/ Byfalade siñ sattmala (ad vera) æfenlega/ Hñs nafn er heilagt z hrædelegt.

10 * Drottens otte er vÿsdoomsens upphaf/ Ein good vitska fyrer alla þa/ sem giøra þar epter/ Hañs lofstÿr blÿfur alltÿd. * Ordsk. 1/7. c. 9/10.

## CXII. Psalmur.

### Þeirra Gudhræddu Blessaner/ jafnvel ogso i þessu Lÿfe.

Haleluja.

Sæll er sa madur/ * sem ottast Drottiñ/ Sem hefur mykelega lyst til hañs bodorda.
* Ps. 1. 1/2. Ps. 119/ 1.

2 * Hañs sæde mun verda megtugt a Jorduñe/ Þeirra froomu ætt mun blessast. * Ordsk. 20/ 7.

3 Goke * og rÿkdoomur mun vera i hañs huse/ Og hañs riettlæte blÿfur alltÿd. * Ps. 34/ 10.

4 Þar er * uppruñed eitt lioos fyrer þa froomu i myrkrenu/ Hañ er nædugur og myskunsamur og riettlatur.
* Ps. 97/ 11. 2. Mos. 10/ 23.

5 Þad er eirn goodur madur/ sm̃ audsÿn er nad/ og sem lanar (giarnañ/) Hañ mun koma fram̃ sÿnum malefnum fyrer doomenum.

6 Þvi hañ mun ecke skeika æfenlega/ Eirn riettlatur mun vera til eirnrar æfenlegrar miñingar.

7 Hañ mun ecke ottast fyrer vondum tÿdendum/ Hañs hiarta er stødugt/ hañ vonar a Drottiñ.

8 Hañs hiarta stendur stødugt/ hañ mun ecke ottast/ þar til hañ * sier a sÿnum ovinum. * Ps. 91/8. Ps. 118/7.

9 Hañ * utdreifer/ hañ giefur þeim fatæku/ Hañs riettlæte blÿfur alltÿd/ Hañs horn mun upphefiast med vegsemd. * 2. Cor. 9/ 9.

10 Savgudlege mun þad sia/ og reidast (þar af/) Hañ * mun gnÿsta med sÿnum tøñum/ og burtsmelltast. Þvi þeirra ogudlegu osk mun forganga.
* Ps. 35/ 16. Ps. 37/ 12.

## CXIII. Psalmur.

### Gud giefur audmiukum Naad.

Haleluja.

Lofed * þier Drottens þienarar/ lofed Drottens nafn.
* Ps. 134/ 1.

2 Lofad * vere Drottens nafn fra nu og allt til eylÿfrar tÿdar.
* Dan. 2/ 20.

3 Fra * solareñar uppgaungu allt til heñar nidurgaungu er Drottens nafn lofad. * Mal. 1/ 11.

4 Drottiñ er haar yfer øllum heidingium/ hañs dÿrd er yfer Himnunum.

5 * Hvør er sem Drottiñ vor Gud? ** sem hefur sett sig hatt? * 2. Mos. 15/11. Ps. 86/ 8. ** Ps. 138/ 6. Es. 57/ 15.

6 Hañ sem lytelæcker sig ad sia/ i Himnunum og a Jordunñe.

7 Sem * uppreiser eirn lÿtelmagna af duftenu/ Og upphefur eiñ fatækañ af skarnenu. * 1. Mos. 41. 40/ 41.

8 Ad setia hañ hia høfdingium/ hia sÿns foolks høfdingium.

9 Hañ/ * sem giører ad ein obyria byr i husenu ein glød barna-mooder/ haleluja.
* 1. Mos. 21/ 2. 1. Sam. 1/20. Luc. 1/57.

## CXIV. Psalmur.

### Israel þackar Drottne fyrer Velgiørninga.

Hegar * Israel foor ut af Egyptalande: Jakobs hus fra einu foolke/ sem hafde eitt framande maal. * 2. Mos. 12/ 41.

2 Þa vard Juda ad hañs helgedoome: Israel hañs herradæme.

3 Hofed * sa z flÿde: ** Jordan hliop apt a bak. * 2. Mos. 14/22. ** Jos. 3. 13/16

4 Fiølleñ stucku sem Hrutar/ Hæder-nar/ sem unglombeñ.

5 Hvad (gieck ad) þier/ þu haf/ ad þu fluder? þu Jordan/ ad þu hlioopst aptur til baka?

6 Þier fiøll/ ad þier stuckud/ sem hrutar/ Þier hæder/ sem unglømb?

7 Bifastu/ þu Jørd/ fyrer Drottens augsyn/ Fyrer Jakobs Guds augsyn.

8 Sa/ * ed snere kletenum i stødu-vatn/ Þeim (harda) steine i eina upp-sprettu. * 2. Mos. 17/ 6. etc.

## CXV. Psalmur.

### Mañeskiuñar Athvarf ber ad vera a Gude.

Eige oss Drotteñ/ eige oss/ Helldur gief þijnu nafne dijrdena/ fyrer þijna mijskun/ fyrer þiñ sañleika.

2 Hvi skylldu heidingiarner seigia: * hvar er nu þeirra Gud? * Ps. 42. 4/ 11.

3 Eñ vor Gud er i Himnenum/ hañ * giører allt hvad honum þocknast.
* Ps. 135. 6.

4 Þeirra afguder eru * silfur z gull/ eirnrar mañeskiu handaverk.
* Ps. 135. 15. etc.

5 Þeir hafa muñ/ eñ kuña ecke tala/ Þeir hafa augu/ eñ kuña ecke sia.

6 Þeir hafa eyru/ eñ kuña ecke heyra/ Þeir hafa naser/ eñ kuña ecke lukta.

7 Þeir hafa hendur/ eñ kuña ecke þreyfa/ Þeir hafa fætur/ eñ kuña ecke ganga/ Þeir kuña ecke tala i gegnum þeirra hals.

8 Eins sem þeir/ * eru þeir/ er giøra þa/ Ja sierhvør/ sem reider sig uppa þa. * Spek. 14. 9.

9 * Israel/ reid þig uppa Drotteñ/ hañ er þeirra hialp og þeirra skiølldur.
* Ps. 121. 3.

10 Arons hus/ reided ydur uppa Drotteñ/ hañ er þeirra hialp og þeirra skiølldur.

11 Þier sem ottest Drotteñ/ reided ydur uppa Drotteñ/ hañ er þeirra hialp og þeirra skiølldur.

12 Drotteñ miñest a oss/ hañ mun blessa/ * hañ mun blessa Israels hus/ hañ mun blessa Arons hus. * Ps. 118. 3/ 4

13 Hañ * mun blessa þa/ sem ottast Drotteñ/ þa smæu med þeim stooru.
* Ps. 112. 2.

14 Drotteñ mun auka vid ydur/ vid ydur og vid ydar børn.

15 * Þier erud blessader fyrer Drottne/ sem hefur giørt Himen og Jørd.
* 1. Mos. 26/ 29.

16 * Himnarner/ (ja) Himnarner heyra Drottne til/ Eñ Jørdena gaf hañ mañeskiuñar børnum. * 1. Mos. 14/ 22.

17 Þeir * daudu kuña ecke lofa Drotteñ/ ei helldur nockur/ sem nidurfer i þad kyrra. * Ps. 6/ 6.

18 Eñ vier/ vier lofum Drotteñ/ fra nu og allt til eilijfrar tijdar/ halleluja.

## CXVI. Psalmur.

### Huggun i Krosse og Hørmung.

Þad er mier kiært/ ad Drotteñ vill heyra mijna raust/ mijnar bæner.

2 Þvi hañ hneigde sitt eyra til mijn/ Þar fyrer vil eg akalla hañ mijna daga.

3 * Daudans reip voru um kring mig/ og * helvijtes angist hafde hitt a mig/ eg fañ angist og neyd (fyrer mier.) * 2. Sam. 22/ 5. Ps. 18/ 6.
** Ps. 30/ 4.

4 Eñ eg akallade i Drottens nafne/ (seigiande:) kiære Drotteñ/ frelsa mijna sal.

5 Drotteñ er nadugur og riettlatur/ Og vor Gud er mijskunsamur.

6 Drotteñ vardveiter þa einfølldu/ Eg var snaudur/ þo frelste hañ mig.

7 Mijn sal/ kom aptur til þiñar hvijldar/ þvi Drotteñ hefur giørt vel vid þig

8 Þvi * þu frelsader mijna sal fra daudanum/ mitt auga fra grætnum/ miñ foot fra hrøsun̄ñe. * Ps. 56/ 14.

9 Eg vil * ganga (yduglega) fyrer Drottne i þeirra lifendu lande.
* 1. Mos. 17/ 1.

10 * Eg trude/ þar fyrer talade eg/ Eg/ eg var miøg nidurþryktur.
* 2. Cor. 4/ 13.

11 Eg/eg sagde i miñe efasemd: * Sierhvør mañeskia er eitn lygare.
* Rom. 3/4.

12 Hvørneñ skal eg betala Drottne alla hañs velgiørninga vid mig?

13 Eg vil taka vid þeim margfallda hiælpr æðesens kaleik/og ákalla DRottēs nafn.

14 Eg * vil betala Drottne myn heit/ nu fyrer øllu hñs foolke. * Ps. 22/26.

15 Þad er dyrmætt fyrer Drotteñs augum/ nær hañs heilager deyia.

16 Kiære Drotteñ/sañarlega/ * eg er þiñ þienare/ eg er þiñ þienare/ þiñar ambáttar son/ Þu hefur leyst myn bønd. * Spek. 9/5.

17 Þier vil eg offra þackar-offurs offrum/og ákalla i Drotteñs nafne.

18 Eg * vil betala Drottne myn heit/ nu fyrer øllu hñs foolke. * Ps. 50/14.

19 J Drotteñs hus forgarde/ Midt i þier Jerusalem/ halleluja.

## CXVII. Psalmur.

### Spaadomur um̃ Heidingiaña Kallan.

Lofed * Drotteñ aller heidingiar/prysed hañ aller lyder.
* Rom. 15/11.

2 Þvi hañs myskunsemd er megtug yfer oss/ og Drotteñs sañleike er æfenlega/ halleluja.

## CXVIII. Psalmur.

### Þacklæte fyrer Messiæ Velgiørninga.

Lofed * Drotteñ/ þvi hañ er goodur/ þvi hañs myskunsemd er eilyflega. * Ps. 107/1. Ps. 136/1. Rom. 15/11.

2 Jsrael * seige nu/ad hañs myskun er eilyflega. * Ps. 115.12/13.

3 Þeir/ sem eru Aarons hus/ seige nu/ ad hañs myskunsemd er eilyflega.

4 Þeir/sem ottast Drotteñ/seige nu/ ad hañs myskunseme er eilyflegana.

5 Eg * kalla a DRotteñ/ af angist/ Drotteñ bænheyrde mig ørlátlega.
* Es. 26/16.

6 * Drotteñ er med mier/ eg vil ecke ottast/ Hvad kañ ein mañeskia giøra mier? * Ps. 56/5. Ebr. 13/6.

7 Drotteñ er med mier/medal þeirra/ sem hiælpa mier/ Þar fyrer * vil eg/ eg sia uppa þa/ mig hata. * Ps. 54/9.

8 Þad er betra ad reida sig uppa Drotteñ/ * eñ vona a mañeskiurnar.
* Ps. 108/12. Ps. 146/3.

9 Þad er betra ad reida sig uppa Drotteñ/ eñ vona a høfdingiana.

10 Aller heidingiar settu sig i kryngum mig/ (eñ) i Drotteñs nafne vil eg nidurhøggva þa.

11 Þeir settust um̃ kryng mig/ja/settust um̃ kryng mig/(eñ) i Drotteñs nafne vil eg nidurhøggva þa.

12 Þeir * settust um̃ kryng mig/ sem byflugur/Þeir eru utsløkter/sem elldur i þyrnum/ J Drotteñs nafne vil eg nidurhøggva þa. * 5. Mos. 1/44.

13 Þu hrast mier hardlega ad falla/eñ Drotteñ hiælpade mier.

14 * Drotteñ er myn magt/ og(miñ) psalmur/ hañ var mitt hiælprǽde.
* 2. Mos. 15/2.

15 Mañ syngur um̃ glede og hiælpræde/i þeirra riettlátu tialldbudum: Drotteñs hægre hønd byhelldur sigrenum.

16 Drotteñs hægre hønd er upphafeñ/ Drotteñs hægre hønd behelldur sigrenum.

17 Eg mun ecke deyia/helldur lifa/og eg mun framtelia Drotteñs verk.

18 Drotteñ tiptade mig vel/ Eñ gaf mig ecke i daudañ.

19 Láted * riettlætesens port upp fyrer mier/ Eg vil ganga þar iñ/ eg vil þacka Drottne. * Es. 26/2.

20 Þetta er Drotteñs port/þeir riettlátu munu ganga þar iñ.

21 Eg vil þacka þier * ad þu bænheyrer mig/og varst mitt hiælpræde.
* Ps. 119/71.

22 Sa * steiñ/sem byggingar meisterner burt køstudu/ er ordeñ ad einum høfudhirningar-(steine.) * Matth. 21/42. 1. Pet. 2/7.

23 Þetta er skied af Drottne/ þad er undarlegt fyrer vorum augum.

24 Þesse

24 Þesse er dagurenn/ sem Drottenn giør de/ * lǽtum oss kiǽtast og glediast a hønum. * Openb. 19/ 7.
25 O Drottenn/ * frelsa nu/ o Drottenn/ lǽt þad luckast nu. * Joh. 12/ 13. etc.
26 Lofadur vere sa/ sem kiemur i Drottens nafne/ Vier blessum ydur af Drottens huse.
27 Drottenn er Gud/ og hann liet lijsa fyrer oss/ Binded hǽtijdarennar offur med bøndum allt til altaresens horna.
28 Þu ert minn Gud/ þar fyrer vil eg þacka þier/ o minn Gud/ eg vil upphefia þig.
29 Þacked * Drottne/ þvi hann er good ur/ þvi hans myskunseme er eilijflega. * Ps. 136. 1/ 26.

## CXIX. Psalmur.

### Umm Guds Ords Avǿxt og Nytseme

Sǽler * eru þeir/ sem lifa froomlega/ þeir sem ganga i Drottens løgmǽle. * Ps. 1. 1/ 2. Ps. 112/ 1.
2 Sǽler eru þeir/ sem hallda hans vitnesburd/ þeir ed hans leita af øllu hiarta
3 Jǽ þeir/ sem giøra ecke misgiørning/ (Helldur) ganga a hans vegum.
4 (Drottenn) þu/ þu hefur boded ad hallda kostgiǽfelega þijnar befalningar.
5 O ad mijner veiger mǽttu stadfestast ad hallda þijnar skickaner.
6 Þa mun eg ecke til skammar verda/ nær eg lijt til allra þinna bodorda.
7 Eg vil þacka þier af einu rǽdvøndu hiarta/ i þvi eg lǽre þijns rettlǽtes dooma.
8 Eg vil hallda þijnar skickaner/ Yfer gief mig ecke so miøg.
9 Hvar med skal einn ungur bevijsa sinn stig? ad taka vara (þar a) epter þijnu orde.
10 Eg leitade þijn af mijnu giørvøllu hiarta/ lǽt mig ecke fara villt fra þijnum bodum.
11 Eg geymde þijn ord i mijnu hiarta/ uppa þad eg skillde ecke syndga i moote þier.
12 Lofadur vertu/ þu Drottenn/ * kienn mier þijnar skickaner. * v. 26. 64/ 68.
13 Eg uppreiknade med mijnum vørum øll þijns munns riettende.
14 Eg gled mig i þinna vitnesburda veige/ sem yfer øllum yferfliotanlegleika.
15 Eg vil minnast a þijnar befalningar/ og lijta til þinna stiga.
16 Eg * vil forlysta mig i þijnum skickunum/ Eg vil ecke gleima þijnu orde. * v. 47.
17 Giør * vel vid þinn þienara/ ad eg mǽtte lifa/ og hallda þitt ord. * Ps. 51/ 20.
18 Upplǽt mijn augu/ ad eg meige siǽ þa undarlegu hlute af þijnu løgmǽle.
19 Eg * er framande a Jørdunne/ hyl ecke þijn bodord fra mier. * Ps. 39/ 13. etc.
20 Mijn sǽl er kramenn af þreyingu/ epter þijnum riettendum allttijd.
21 Þu straffader þa bølvudu dramblǽtu/ þa/ sem fara villt fra þijnum bodum.
22 Snu fra mier spotte og foroktun/ þvi eg helld þijna vitnesburde.
23 Þar * sitia ogso høfdingiar/ og þeir tǽlada i giegn mier/ (enn) þinn þienare skal minnast a þijnar skickaner. * Ps. 2/ 2.
24 Eg hefe ogso lyst til þinna vitnesburda/ þeir eru mijner rǽdsmenn.
25 Mijn sǽl loder vid dupted/ Halltu mier vid lijfed epter þijnu orde.
26 Eg uppreiknade mijna vegu/ og þu bǽnheyrder mig/ kienn mier þijnar skickaner.
27 Lǽt mig skynia þinna befalninga veg/ so vil eg tala umm þijn undarleg (verk.)
28 Mijn sǽl flytur burt vegna hrigdar/ Styrk mig epter þijnu orde.
29 Snu fra mier einum følskum veige/ og gief mier þitt løgmǽl.
30 Eg utvalde sannleikans veg/ eg sette þijn riettinde fyrer (mig.)
31 Eg ǽhangde þijnum vitnesburdum/ Drottenn/ lǽt mig ecke til skammar verda.
32 Eg vil hlaupa þinna bodorda veg/ nær þu huggar mitt hiarta.
33 Drottenn/ kienn mier þinna setninga

veg/z eg vil vardveita hñ (allt til)enda

34 Undervijsa mier / og eg vil vard-
veita þitt løgmal / og hallda þad af
giørvøllu hiarta.

35 Fær mig a þiña bodorda braut/þvi
eg hefe lyst þar til.

36 * Hneig mitt hiarta til þiña vit-
nesburda/og ecke til agyrndar.
*1. Sam. 8/3.

37 Frasnu mijnum augum/ad þau ecke
sæe hiegooman/ Hallt mier vid lijfed a
þijnum veige.

38 Stadfestu þitt ord vid þiñ þien-
ara/ sem (þienar) til þijns otta.

39 Lat mijna forsmaan ganga fram-
hia / sem eg ottadest fyrer / Þvi þijner
doomar eru gooder.

40 Sia / eg hafde laungun til þiña
befalninga/ halltu mier vid lijfed i þij-
nu riettlæte.

41 O Drottañ/lat þijna myklu mysk-
unseme koma fram vid mig/Þijna Frel
san epter þijnu orde.

42 Og eg vil svara hønum/*sem brijx
lar mier um nockud / ad eg hafe reidt
mig uppa þitt ord. * Ps. 42. 4/ 11.

43 Og * tak ecke sañleikans ord so al-
deiles af mijnum muñe/ þvi eg tek vara
a þijnum doomum. * Jer. 15/16.

44 Og eg vil jafnañ hallda þitt løg-
maal / æfenlega og alltijd.

45 Og eg vil (ørt) ganga a gangrum-
enu/þvi eg leitade þiña befalninga.

46 Og eg vil tala um þijna vitnes-
burde fyrer konungunum/og ecke smæ nast

47 Og eg vil * forlysta mig i þijnum
bodum/hvør eg elska. * v. 16.

48 Og upplipta mijnum høndum til
þiña bodorda / hvør eg elska / og tala
þijna setninga.

49 Minstu eins ords vid þiñ þien-
ara / med hvøriu þu hughreyster mig.

50 Þesse er mijn huggun i miñe eymd/
Þvi þitt ord * hefur hallded mier vid
lijfed. * Ps. 19/ 8.

51 Þeir dramblatu spottudu mig (so)
miog/ Eg veik (þo) ecke fra þijnu løg-
maale.

52 Drottañ/eg minnest a þijna dooma
fra eilijfd/ og vard huggadur.

53 Þar * greip mig ein ækiefd/vegna
þeirra ogudlegu / sem yfergæfu þitt
løgmal. * Ps. 39/4.

54 Þijner setningar eru mijner saung-
var i mijnu giesta-herberge.

55 Drottañ / eg huxade um nootkena
til þijns nafns/og hiellt þitt løgmaal.

56 Þetta skiede mig / af þvi eg hiellt
þijnar befalningar.

57 Eg sagde: Drottañ er mitt hlut-
skipte/ eg vil hallda þijn ord.

58 Eg bad fyrer þijnu auglite af giør
vøllu hiarta/vertu mier nædugur ept
er þijnu orde.

59 Eg hugleidde mijna vegu/ og snere
mijnum footum til þiña vitnesburda.

60 Eg flijtte mier / og tafde ecke ad
hallda þijn bodord.

61 Þeirra ogudlegu hoopur rænte mig/
(Eñ) eg gleymde ecke þijnu løgmaale.

62 Eg * stend upp um midnætted / ad
packa þier fyrer þijns riettlætes doo-
ma. * Ps. 42/ 9.

63 Eg helld mig til allra þeirra/ sem
ottast þig / og til þeirra / sem hallda
þijnar befalningar.

64 Drottañ/* Jørdeñ er full af þiñe
myskunsemd/ Kieñ mier þijna setninga.
* Ps. 33/5

65 Þu * giørder vel vid þiñ þienara/
Drottañ/epter þijnu orde. * v. 27.

66 Kieñ mier eitt goodañ skilning og
forstand/ Þvi eg true a þijn bodord.

67 Adur eñ eg vard audmijktur / foor
eg villt/ Eñ nu helld eg þitt ord.

68 Þu ert goodur/og giører vel / kieñ
mier þijna setninga.

69 Þeir * dramblatu dikta lijge um
mig/(eñ) eg/eg vil hallda þijnar befal-
ningar af giørvøllu hiarta. * v. 78/85.

70 Þeirra hiarta vard feitt / sem ijst-
ra / (eñ) eg / eg forlysta mig vid þitt
løgmaal.

71 Þad var mier gott/ad eg vard aum
ur/ad eg kyñe læra þijna setninga.

72 Þijns muñs løgmaal er mier betra/

eñ

eñ þusund * (stycke) gulls og silfurs.
* Ps. 19/ 11.

73 Þijnar * hendur hafa giört mig og tilreidt mig/ Undervijsa mier/ og eg vil læra þijn bod. * Job. 10/8. Ps. 139.13/14.

74 Þeir sem ottast þig/ munu sia mig/ og gledia sig / þvi eg vona a þitt ord.

75 Drottenñ/ eg veit/ ad þijner doomar eru riettlæte / og ad þu audmyker mig trulega.

76 Læt þijna mijskunsemd nu vera ad hugga mig / epter þijnu orde til þijns þioons.

77 Læt þijna mijskunsemd veitast mier/ ad eg meige lifa/ Þvi * þitt lögmaal er mijn stoor unadsemd. * v. 35.

78 Læt þa drambláatu smænast / þvi þeir nidurþrycktia mier * med falskleika/ (eñ) eg/ eg vil tala um þijnar bijfalningar. * v. 86.

79 Læt þa snua vid til mijn/ sem þig óttast/ og þeckia þijna vitnesburde.

80 Læt mitt hiarta vera fullkomed i þijnum setningum / ad eg ecke skule smænast.

81 Mijna saalu * leinger epter þijnu hialpræde/ Eg vona a þitt ord.
* 1. Mos. 49/ 18.

82 Mijn augu vatnnegnudust vegna þijns ords / i þvi eg sagde : nær villtu hugga mig?

83 Þvi eg var eins sem ein hud i reik / þo gleymde eg ecke þijnum setningum.

84 Hvad * leinge skal þiñ þienare bijda? nær villtu hallda doom yfer þeim/ sem offsækia mig? * Openb. 6/ 10.

85 Þeir stollthu groofu grafer fyrer mig/ hvad ecke er epter þijnu lögmaale.

86 Öll þijn bodord eru sañleikur/ Þeir offsækia mig falsklega/ hialpa mier.

87 Þeir höfdu hartnær fyrerkomed mier a Jördunñe/ eñ eg / eg yfergaf ecke þijnar befalningar.

88 Hallt mier vid lijfed epter þiñe mijskunsemd/ þvi eg vil vardveita þijns muñs vitnesburd.

89 Drottenñ/ * þitt ord er stödugt eilijflega / i Himnunum. * Es. 40/ 8.

90 Þiñ sañleike er æ og allttijd/ Þu * stadfester Jördena og hun mun halldast (vid.) * Ps. 89/ 12.

91 Þeir halldast vid (eñ nu) þeñañ dag epter þijnum doomum/ þvi þeir eru all er þijner þienarar.

92 Hefde þitt lögmaal ecke vered mijn stoor unun / þa hefde eg fyrerfarist i mijñe eymd.

93 Eg vil alldrei gleyma þijnum befalningum/ þvi þu helldur mier vid lijf ed med þeim.

94 Eg heyre þier til/ frelsa mig/ þvi * eg leita þiña befalninga. * v. 45.

95 Þeir * ogudlegu taka vara a mier/ ad eydeleggia mig / (Eñ) eg vil giefa giætur ad þijnum vitnesburdum.
* Ps. 37/ 32.

96 Eg hefe sied ending a öllum hlutum/ (Eñ) þitt bodord (breider sig) mióg vijda.

97 Hversu hefe eg þitt lögmaal kiært/ þad er mijn ræda * hvörn dag.
* Ps. 1/ 2.

98 Þu munt giöra mig hyggnare eñ mijna fiandmeñ med þijnum bodum/ þvi þad er mitt æfenlega.

99 Eg vard hyggnare eñ aller þeir / sem kiendu mier/ þvi þijner vitnesburder voru mijn ræda.

100 Eg vard mijked * forsiaalare eñ þeir gomlu/ þvi eg hiellt þijnar bijfalningar. * Spek. 8/ 10.

101 Eg hiellt mijnum footum fra öllum vondum stigum / ad eg kyñe hallda þitt ord.

102 Eg veik ecke fra þijnum doomum/ þvi þu/ þu kiender mier.

103 Hversu voru þijn ord * sætare fyrer miñ goom / eñ hunang fyrer miñ muñ. * Ps. 19/ 11.

104 Eg er allforsiaall af þijnum befalningum / þar fyrer hata eg alla falska stigu.

105 Þitt ord er * ein lykt fyrer miñ foot/ og eitt lioos a mijnum stig.
* 2. Pet. 1/ 19. Ps. 19/ 9.

106 Eg soor / og vil þad hallda / ad vard.

vardveita þijns rietlætes dooma.
107 Eg er so miøg aumur/Drottenn / halltu mier vid lijfed epter þijnu orde.
108 Drottenn / * lat nu mijns munns sialfviliug (offur) þocknast þier / og kienn mier þijna dooma. * Ps. 19/ 15.
109 Mijn sal er alltijd i minne hende / þo hefe eg ecke gleymt þijnu løgmale.
110 Þeir ogudlegu løgdu eina snoru fyrer mig/þo foor eg ecke villt fra þijnum befalningum.
111 Eg fieck þijna vitnesburde til arfs æfenlega / Þvi þeir eru mijns hiarta glede.
112 Eg hneigde mitt hiarta ad giøra epter þijnum setningum æfenlega til enda.
113 Eg hata undersørula (hlute/) og elska þitt løgmaal.
114 Þu ert mitt skiool og minn skiølldur/ eg * vona til þijns ords. * v. 74.
115 Vijked fra mier þier vondu/ og eg vil hallda mijns Guds bod.
116 Vidhalltu mier epter þijnu orde/ ad eg meige lifa/og * lat mig ecke verda til skammar i minne von. * Ps. 25.2/3.
117 Styrk mig/ad eg meige verda frelsadur / og eg * vil alltijd forlysta mig i þijnum setningum. * v. 70/ 143.
118 Þu nidurstoost alla þa/ sem fooru villt fra þijnum setningum/þvi þeirra svik er falskleike.
119 Þu burtkastader øllum ogudlegum a Jordunne/sem snuddu-syndre; þar fyrer elskade eg þijna vitnesburde.
120 Mitt holld * var hrædt fyrer þijnum otta / og eg skielfdest fyrer þijnum doomum. * Job. 4. 14/ 15.
121 Eg frammkvæmde rietten og rietlæted/Gief mig ecke under þa/sem vilia giøra mier ofrijke.
122 Forsvara þinn þienara til þess gooda / Ad þeir dramblatu giøre mier ecke ofrijke.
123 Mijn augu forleinger epter þijnu hialpræde/ z epter þijns rietlætes orde.
124 Giør vid þinn þienara epter þinne myskun/og kienn mier þijna setninga.
125 Eg er þinn þienare/undervijsa mier/ ad eg meige þeckia þijna vitnesburde.
126 Þad er tijme/ad Drottenn giøre(þar nockud vid/) þeir hafa sundurrifed þitt løgmaal.
127 Þar fyrer * elskade eg þijn bod/framar gulle / og framar(skijru)gulle.
* Ps. 19/ 11.
128 Þar fyrer helld eg allar(þijnar)befalningar umm alla hlute riettar ad vera/ eg hata alla falska vegi.
129 Þijner vitnesburder eru undarleger/ þar fyrer hiellt mijn sal þa.
130 Þinna orda upplokning kann upplijsa/ sem * gierer þa einfølldu forstandiga.
* Ps. 19/ 8. 2. Tim. 3. 15/ 16.
131 Eg upplauk mijnum munne/ og took andann / Þvi eg hafde lysting til þinna bodorda.
132 * Snu þier til mijn / og vert mier nædugur / sem þu ert vanur vid þa sem elska þitt nafn. * Ps. 6/ 5.
133 Stadfest mijnar gaungur i þijnu orde / og lat aungvann ortett drottna yfer mier.
134 Leys mig fra manneskiunnar ofrijke/ so vil eg hallda þijnar befalningar.
135 Lat þitt andlit skijna fyrer þijnum þienara / og kienn mier þijna setninga.
136 Þar floodu vatns straumar af mijnum augum/ af þvi þeir ecke hallda þitt løgmaal.
137 Drottenn/ * þu ert riettvijs/og þijner doomar eru riettir. * 2. Mos. 9/ 27. Openb. 16/ 5.
138 Þu hefur bodeð þinna vitnesburda riettlæte og sannleika aldeiles.
139 Mijn * vandlæting hefur (nær þvi) uppriekt mier / þvi mijner mootstandarar hafdu gleymt þijnu ordu * Ps. 69/10.
140 Þitt * ord er miøg klart giort/og þinn þienare elskar þad. * Ps. 12/ 7. Ps. 19/ 9.
141 Eg er lijtell og foraktadur / (enn) gleyme ecke þijnum befalningum.
142 Þitt rietlæte er rietlæte eilijflega / og þitt løgmaal er sannleikur.
143 Neyd og angist hittu a mig/ (enn) þijn bodord voru mijn stoor unadsemd.
144 Þinna vitnesburda rietlæte er ei-

lijflega/ underviſa mier/ ſo life eg.

145 Eg hroopade i gieruollu hiarta / bænheyr mig/ Drotteñ /eg vil hallda þijn- ar ſkickaner.

146 Eg hroopade til þijn/ frelſa mig / og eg vil hallda þijna vitnesburde.

147 Eg kom ſnema i morgun-rockrenu/ og hroopade/ eg * vonade a þitt ord.

* v. 114.

148 Mijn augu voru voknud fyrer (næt- ur.) vaktena/ ad tala um þitt ord.

149 Heyr mijna rauſt epter þinne myſk- unſeme / Drotteñ / hallltu mier vid lijfed epter þijnum riette.

150 Þeir trædu ſier framm/ ſem ſætu ept er falſkleika / þeir voru langt fra þijnu logmaale.

151 (Eñ) Drotteñ/ þu ert nærre/ og oll * þijn bod eru ſañleike. * v. 86.

152 Eg hefe leinge vitad um þijna vitn esburde/ ad þu hefur ſtadfeſt þa eilijflega.

153 Sia mijna eymd / og frelſa mig / þui eg hefe * ecke gleymt þijnu log- maale. * v. 61/ 141.

154 Framflyt mijnu mæleſne/ og end- urleis mig / halltu mier vid lijfed fyrer þijns ords ſaker.

155 Hiælpræded er langt fra þeim ogud legu / þui þeir leita ecke þiña ſetninga.

156 Drotteñ/ þijn myſkunſemd er miog ſtoor/ halltu mier vid lijfed epter þijnum doomum.

157 Mijner * ofſoknarar/ ꝛ mijner moot ſtandarar eru marger/ (eñ) eg vijk ecke fra þijnum vitnesburdum. * Pſ. 3/2.

158 Eg ſa þa hreckvijſu/ og mig baud (þar vid/) þui þeir hielldu ecke þitt ord.

159 Sia/ ad eg hefe elſkad þijnar bijfal ningar/ Drotteñ/ halltu mier vid lijfed ept er þinne myſkunſemd.

160 Upphaf a * þijnu orde er ſañleikur/ og alls þijns riettlætes domur eilijflegano.

* Joh. 17/ 17.

161 Hofdingar ofſoktu mig an ſakar/ Eñ mitt hiarta * ottadeſt fyrer þijnu orde. * Eſ. 66/ 2.

162 Eg gladde mig yfer þijnu orde/ ſem ſa / þar finnur eitt ſtoort herfang.

163 Eg halade lijge / og hafde and- ſtygd (þar til/ Eñ) elſkade þitt logmaal.

164 Eg lofade þig ſio ſiñum a deige/ fyrer þijns riettlætes dooma.

165 Þeir hafa ſtoorann frid / ſem elſka þitt logmaal/ og munu ecke raſa.

166 Drotteñ/ eg beid epter þijnu hiælp- ræde/ og giorde epter þijnum bodum.

167 Mijn ſaal hiellt þijna vitnesburde/ og eg elſka þa miog.

168 Eg hiellt þijnar befalningar og þijna vitnesburde/ þui aller mijner veiger eru fyrer þier.

169 Drotteñ/ lat mitt hroop koma framm fyrer þitt auglit / underviſa mier epter þijnu orde.

170 Lat mijna beidne koma fyrer þitt auglit/ frelſa mig epter þijnu orde.

171 Mijnar varer ſkulu vtauſa lofgio- rd/ nær þu kieñer mier þijna ſetninga.

172 Mijn tunga ſkal * wtſkijra þijna ræ- du / þui oll þijn bod eru riettlæte.

* Ordſk. 6/ 22.

173 Lat þijna hond hiælpa mier / þui eg hefe wtvaled þijna befalning.

174 Drotteñ/ eg hafde loungun til þijns hiælpræded / og þitt logmaal er mijn ſtoor unun.

175 Lat mijna ſaal lifa/ og lofa þig/ og lat þiñ doom hiælpa mier.

176 Eg * foor villt/ ſem eitt lamb/ þat ferſt/ uppleita þiñ þienara/ þui eg hefe ecke gleymt þijnum bodū. * Eſ. 53/ 6. etc

## CXX. Pſalmur.

### Bæn i moote Fals-Kieñendum og Bakmælugum.

Eitn ſaungur uppa troppunum.

Eg (hiellt mier) til Drottens i minne neyd/ eg * hroopade/ og hañ bæn heyrde mig. * Pſ. 50 / 15.

2 Drotteñ / frelſa mijna ſaal fra eitrnre falſkre vor / Fra eitnre ſvika- fullre tungu.

3 Hvad giefur þier / eda hvad gagnar þier ein falſk tunga?

4 (Hun er ſem) eins ofluge hvoſſar pijlur / medgloodum af einebere (trie.)

5 Vei mier/ ad eg var framande a med- al Meſech/ bioo hia * Kedars tialldbud um.

um. * Lofkv. 1/ 5.

6 Mijn sæl hefur leinge bwed hia ein⸗um/ sem hatade frideñ.

7 Eg er fridsamur/ eñ nær eg tala/ þa eru þeir (bæner) til striijds.

## CXXI. Psalmur.

### Athvarf til Guds.

Eitn saungur a trøppunum.

Eg vil upplifta mijnum augum til fiallaña / hvadañ mier mun ko⸗ma hiælpeñ.

2 Mijn hiælp (kiemur) fra Drottne/ sem giørde Himeneñ og Jørdena.

3 Hañ mun ecke læta þiñ foot skeika / og ecke sofa/ sem vardveiter þig.

4 Siæ hañ mun ecke sofa/ og ei sofa/ sem vardveiter Israel.

5 Drotteñ er sa er vardveiter þig/ Drott⸗eñ er þiñ skugge yfer þiñe hægre hende.

6 Sooleñ skal ecke stijnga þig a dageñ/ edur tungled a nootturñe.

7 Drotteñ mun vardveita þig fra ollu illu/ hañ * mun vardveita þijna sæl.

* Ps. 54/ 6.

8 Drotteñ mun vardveita þiñ wtgang/ og þiñ iñgang/ fra nu og til eilijfrar tijdar.

## CXXII. Psalmur.

### Jerusalems Heilagleike z Vegsemd.

Davids saungur a trøppunum.

Eg gled mig vid þa / sem søgdu til mijn: vier viljum ganga i Dro⸗ttens huus.

2 Vorer fætur stoodu i þijnum portum Jerusalem.

3 * Jerusalem er bigd sem ein borg / þar er felld til samans. * 2. Kron. 6/ 6.

4 Hvar kynkvijslernar munu uppganga/ Drottens kynkvijsler / til Israels vitnes⸗burdar / ad þacka Drottens nafne.

5 Þvi þar stoodu doom⸗stoolarner / Da⸗vids huss stoolar.

6 Oske Jerusalem lucku / Þad skal ganga þeim vel/ sem elska þig.

7 Þar skal vera fridur iñañ þiña mwra/ lucka i þijnum høllum.

8 Fyrer miña brædra og miña vina sku⸗lld/ vil eg nu oska lucku yfer þig.

9 Fyrer Drottens vors Guds huss skulld/ vil eg leita þijns besta.

## CXXIII. Psalmur.

### Athvarf til Drottens.

Eitn saungur a trøppunum.

Eg * upplyfte mijnum augum til þijn/ þu sem situr i Himnenum.

* Ps. 121/ 1.

2 Siæ / sem þienaraña augu (horfa) a þeirra herra hønd/ sem eitnrar þioonustu stulku augu/ a heñar husfruar hønd/ so (horfa) vor augu uppa Drotteñ vorn Gud/ þar til hañ verdur oss nædugur.

3 Vertu oss nædugur Drotteñ / vertu oss nædugur / þvi vier erum miøg mettader med foroktun.

4 Vor sæl er miøg mettud af þeirra stoll⸗tu spotte/ af þeirra dramblætu foroktun.

## CXXIV. Psalmur.

### Þacklæte f. Guds Hiælp i Neydeñe.

Davids saungur a trøppunum.

Hefde Drotteñ ecke vered hia oss/ mætte Israel nu seigia.

2 Hefde Drotteñ ecke vered hia oss/ þegar mañeskiurnar upp stoodu i moote oss:

3 Þa hefdu þeir uppsvelgt oss lifande/ þar þeir voru (harla) reider uppa oss:

4 Þa hefdu * votneñ dreckt oss/ eitn straumur hefde geinged yfer vora sæl:

* Ps. 69/ 16.

5 (Jæ) þa hefde þad stollta vatn geing⸗ed yfer vora sæl.

6 Lofadur vere Drotteñ / sem gaf oss ecke til herfangs yfer þeirra tennur.

7 Vor sæl er sloppeñ / * sem eitn fugl/ wr (fugla) fængarans snøru/ snarañ er sundurslitteñ / og vier / vier sluppum.

* Ordsk. 6/ 5.

8 Vor * hiælp er i Drottens nafne/ sem giørde Himen og Jørd. * Ps. 121/ 2.

## CXXV. Psalmur.

### Von a Drotteñ verdur ecke til Skammar.

Eitn saungur a trøppunum.

Þeir sem * vona a Drotteñ/ þeir eru sem Zions fiall / er ecke mun skeika/ (helldur) mun bliffa æfen lega. * Ps. 21/ 8.

2 Þar eru Fioll um̃ kryng Jerusalem / Og Drottẽ er * kryngum sitt foolk / fra nu og allt til eilijfrar tijdar. * Ps. 34/8.
3 Þvi ogudleglekás spijra mun ecke hvijl la yfer þeirra rietlferdugu hlutdeild / Uppa þad þeir rietlferdugu skule ecke wtrietta þeirra hendur til ranglætesens.
4 Drottẽ / giør vel vid þa goodu/og * þa rædvondu i þeirra hiortum.
* Ps. 112/4.
5 Eñ þa / sem eru frafnwner a þeirra krookottum (veige/) þa mun Drottẽ læta fara med obootamonñunum/ * fridur vere yfer Israel. * Ps. 128/6. Gal. 6/16.

CXXVI. Psalmur.

Guds Barna Hrygd snijst til Glede.

Eirn saungur a troppunum.

Regar Drottẽ um̃vende * Zions fængelse/vorum vier sem dreymande. * Ps. 14/7.
2 Þa var vor muñur fullur med hlatur/og vor tunga med prys/Þa sagde mañ a medal heidingiañá: Drottẽ hefur giort stoora hlute vid þessa.
3 Drottẽ * hafde giort stoora hlute vid oss/ (þar fyrer) erum vier glader.
* Luc. 1/49.
4 Drottẽ / snu vern fængelse / sem straumar (koma) i sudrenu.
5 Þeir/ * sem sa med græt / munu uppskiera med fagnude. * Matth. 5/4.
6 Eirn mun ganga hryggur burt og græta / nær hañ ber þad længsamlega (safnada) sæde/(Eñ) skal vijst koma med fagnude / nær hañ ber sijn bindene.

CXXVII. Psalmur.

Guds Blessan a Gotse og Bornunum.

Salomons saungur a troppunum.

Nema Drottẽ bygge eitt huus/ þa erfida þeir forgiefens/sem byggia þar uppa/Nema Drottẽ vardveite eirn stad / þa vaka vaktararner forgiefens.
2 Þad er forgiefens / ad þier standed arla upp/(þar epter)leinge sitted/ * eted braud med sorg / Þvi so giefur hañ sijnum kiærum (vin) þad / (sem) i svefne.
* Ezech. 12/19.
3 Sia/børneñ eru * Drottẽs arfur/lijfs sens avoxtur er eitt betalingur.
* 1. Mos. 33/5.
4 Sem pijlur i eins øflugs hende / so eru þeir ungu sveinar.
5 Sæll er sa madur/sem hefur fyllt sitt koffur af þeim/Þeir munu ecke skræmast nær þeir tala vid Fiandmeñena i portenu.

CXXVIII. Psalmur.

Gudhræddra Forelldra Blessan.

Eirn saungur a troppunum.

Sæll er hver sa/sem ottast Drottẽ/sa sem geingur a hañs veige.
2 Þvi þu munt næra þig af þiña handa erfide/ sæll ertu/og þad mun ganga þier vel.
3 Þijn hustru mun verda sem eitt avaxtarsamt vijnntrie/ til hlidañá a þijnu huse / Þijn børn / sem oliu-kvister um̃ kryng þitt bord.
4 Sia / hvi so mun sa madur blessast / sem ottast Drottẽ.
5 Drottẽ mun * blessa þig af Zion/og þu munt sia þad gooda i Jerusalem / alla þijna lijfdaga. * Ps. 134/3.
6 Og þu munt sia þijn barna børn/ * frid yfer Israel. * Ps. 125/5.

CXXIX. Psalmur.

Um̃ Straff yfer Guds Kyrkiu Fiandmeñ.

Eirn saungur a troppunum.

Peir þreyngdu mier mioog fra mijn um ungdoome/ matte Israel nu segia:
2 Þeir þreyngdu mier mioog fra mijnum ungdoome/ eñ kuñu ecke (yfer buga) mig.
3 Ploogmeñener plægdu a mijnũ hrygg / Þeir utdroou þeirra ploogfor.
4 Drottẽ er rietlatur / hañ afhioo þeirra ogudlegu streinge.
5 Þeir skulu skæmast og snua til baka / aller sem hata Zion.
6 Þeir skulu verda/ sem * gras a þekiu/ sem pornar / fyrr eñ þad kiemur fram̃.
* Es. 37/27.
7 Af hverju slattu-madureñ ecke fyller sijna hond / eg helldur sa siñ arm / sem bindur bindeneñ.

8 Og þeir/ sem ganga fram um/ ſegdu ecke: Drottens bleſſan ſie yfer ydur/ Vier bleſſudum ydur i Drottens nafne.

## CXXX. Pſalmur.

### Bæn um Syndanna Fyrergiefning.

Eirn ſaungur a troppunum.

Af þvi diupa/ hroopa eg til þijn Drotten.

2 Drotten/ * heyr a mijna raust/ lat þijn eyru hyggia ad minna bæna rauſt. * Pſ. 5/ 1. Pſ. 102/ 1.

3 Drotten/ ef þu * villt giæta ad vondſkunum/ Drotten/ hver kann þa ſtandaſt? * Pſ. 143/ 2.

4 Enn hia þier er fyrergiefning/ uppa þad menn ſkule þig ottaſt.

5 Eg * bed epter Drottne/ mijn ſal bed/ og eg bidleikade epter hans orde. * Pſ. 27/ 14.

6 Mijn ſal (vænter) epter Drottne/ meir enn vokumadurenn epter morgnenum/ ſem vænter epter morgnenum.

7 Iſrael vone a Drotten/ þvi hia Drottne er myſkunſemd/ og mykel lauſn hia honum.

8 Og hann/ hann * mun frelſa Iſrael af ollum ſijnum vondſkum. * 1. Moſ. 48/ 16.

## CXXXI. Pſalmur.

### Um Audmijkt.

Davids ſaungur a troppunum.

Drotten/ mitt hiarta er ecke hætt/ ei helldur mijn augu ſtoolt/ og eg geing ecke i ſtoorum hlutum/ edur i þeim/ ſem eru mier of-undarleger.

2 Nær eg ecke ſett og ſtillt mijna ſal/ ſem ſa/ þar er afvanenn fra ſinne mood ur/ ſem ſa/ þar er afvanenn/ er mijn ſala i mier.

3 * Iſrael vone til Drottens/ fra nu og allt til eilijfrar tijdar. * Pſ. 115/ 9.

## CXXXII. Pſalmur.

### Um Guds Þioonuſtu og Yfervallds̄ ſens Vidhalld.

Eirn ſaungur a troppunum.

Drotten * minnſtu a David/ a alla hans eymd. * Neh. 13. 14/ 31.

2 Sem ſoor Drottne/ ſem giorde Jakobs þeim vollduga heit/ (ſeigiande:)

3 Eg * vil ecke ganga i mijns Huſs tialldbwd/ eg vil ecke uppſtijga a minnar ſængur bed. * 2. Sam. 7/ 2.

4 Eg * vil ecke lata mijn augu ſofa/ (edur) mijnar augna brijr ſiga. * Ordsk. 6/ 4.

5 Þar til eg fann eirn ſtad fyrer Drotten/ bwſtad fyrer Jakobs megtugann.

6 Sia/ vier heyrdum/ ad hann var i Ephrata/ Vier fundum hann a ſkogar morkenne

7 Vier vilium ganga i hans helmkynne/ Tilbidia fyrer hans foot'ſkor.

8 Drotten/ * ſtattu upp til þinnar hvijldar/ Þu og þinnar magtar ork. * 4. Moſ. 10/ 35. etc.

9 Lat þijna preſta klæda ſig med riett læte/ og þijna heilaga * gledia ſig. * Pſ. 32/ 11.

10 Og fravend ecke þijns ſmurda aug lite fyrer Davids þijns þienara ſkulld.

11 Drotten * ſoor David ſannleika/ hvar fra hann ecke mun ſnua ſier/ (ſeigiande:) af þijns lijfs avexte vil eg ſetia a þinn ſtool. * Pſ. 89/ 4. P. G. 2/ 30.

12 Ef þijn born hallda minn ſattmala/ og minn vitnesburd/ ſem eg vil kienna þeim/ þa ſkulu og þeirra born (blijfa) alltijd/ þau ſkulu ſitia a þijnum ſtoole.

13 Þvi Drotten hefur utvaled Zion/ hann gyrnteſt hana ſier til eins bwſtadar/ (ſeigiande:)

14 Þeſſe er mijn hvijld alltijd/ hier vil eg bua/ þvi eg gyrnteſt hana.

15 Eg vil viſſulega bleſſa hennar fædu/ eg vil metta * hennar fatæka med braude. * Pſ. 37/ 19.

16 Og eg vil klæda hennar preſta med hiálpræde/ og hennar heilager ſkulu viſſulega gledia ſig.

17 Þar vil eg lata * Davids horn uppvaxa/ Eg tilreidde eina lykt fyrer minn ſmurda. * Luc. 1/ 69. Mal. 3/ 1.

18 Eg vil * klæda hans fiandmenn med ſkomm/ Enn hans korona ſkal bloomgaſt yfer honum. * Pſ. 35/ 26.

## CXXXIII. Pſalmur.

### Um Eindrægne.

Davids saungur a troppunum.

Sia/ hvad gott og hvad lystelegt er þad/ad brædurner bue ogso til samans.

2 Þad er eins sem þad besta oleum a hofdenu / sem ofann flytur a skiegged/(jaa) a Aarons skegg/Sem ofann flytur a hanns klædafalld.

3 Þad er eins sem * Hermons dogg / þar fellur a Zions fiall/Þvi þar hefur Drottenn befalad blessanene (ad vera/jaa) lyfenu allt til eilyfrar tydar.

* Lofkv. 4/8.

## CXXXIV. Psalmur.

Þeirra Trwoudu Lofgiord.

Eirn saungur a troppunum.

Sia/lofed Drottenn aller Drottens þienarar/þier/sem standa a nottunne i Drottens huse.

2 * Upplyfted ydar hondum til helgedoomsens/ og lofed Drottenn. * Ps. 141/2.

3 Drottenn blesse þig af Zion/sem giørde Himen og Jørd.

## CXXXV. Psalmur.

Þacklæte fyrer Guds Velgiørninga. Halleluja.

Lofed * Drottens nafn / lofed (hann) þier Drottens þienarar. * Ps. 113/1.

2 Þier sem standed i Drottens huse / i vors Guds hus forgarde.

3 Lofed Drottenn / þvi * Drottenn er goodur/ synged hanns nafne (lof/) þvi þad er lystelegt. * Ps. 118/1.

4 Þvi Drottenn hefur utvaled sier Jakob/Jsrael til syns sierdeiles (eigendoms)

5 Þvi eg/ eg veit/ ad Drottenn er stoor / og * vor Drottenn er yfer ollum gudum.

* 2. Mos. 15/11. Ps. 86/8.

6 Drottenn giørde * allt hvad honum þocknadest i Himnenum og a Jordunne / i hafenu/og i ollum afgrunnum. * Ps. 115/3

7 Hann lætur * damp uppganga fra Jardarennar enda/ hann giorer elldingena ad regne / Hann lætur vindenn utkoma af synum heimuglegum (stodum.)

* Jer. 10/13.

8 Sem * sloo þa frumgietnu i Egyptalande/ bæde manneskiurnar og dyrenn.

* 2. Mos. 12/29.

9 Hann sende teikn og undarleg (verk) midt i þig/ Egyptaland/ A Pharao og a alla hanns svetna.

10 Hann sem sloo margar þiooder/ *og i hel sloo sterka konunga. * Ps. 136/18.

11 * Sihon þeirra Amorita konung/og Og konungenn i Basan / og oll rykenn i Canaan. * 4. Mos. 21/24. etc.

12 Og *gaf þeirra land til arfs/Jsrael synu foolke til arfs. * Jos. 11/23. c. 12/6

13 Drottenn / þitt nafn er eilyflega / Drottenn/* þyn minning er æ og alltyd.

* Ps. 102/13.

14 Þvi Drottenn mun giora synu foolke rett/og vera synum þienurum nadugur.

15 Heidingianna * afguder eru silfur og gull/einnar manneskiu handaverk.

* Ps. 115/4.

16 Þeir hafa munn / enn þeir kunna ecke tala/Þeir hafa augu/ enn kunna ecke sia.

17 Þeir hafa eyru/enn kunna ecke heyra/ Og þar er ecke eirn ande i þeirra munne.

18 Þeir * sem þa giora / verda eins sem þeir/ (jaa) hver sa / sem reidet sig uppa þa. * Es. 42/17.

19 Jsraels hus/lofed Drottenn/Aarons hus lofed Drottenn.

20 Levi hus lofed Drottenn/þier sem ottest Drottenn /lofed Drottenn.

21 Lofadur vere Drottenn af Zion / sem byr i Jerusalem/ halleluja.

## CXXXVI. Psalmur.

Enn þa meira Þacklæte.

Þacked * Drottne/þvi hann er goodur/ þvi hanns myskunsemd er eilyflega. * Ps. 106/1. Ps. 107/1. Ps. 118/1.

2 Þacked þeim gudanna Gude/Þvi hanns myskunsemd er eilyflega.

3 Þacked þeim drottnanna Drottne/Þvi hanns myskunsemd er eilyflega.

4 Honum/ * sem giorer storra undarlega (hlute) alleina/ Þvi hanns myskunsemd er eilyflega. * Ps. 72/18.

5 Honum/ sem * giørde Himnana med speke / Þvi hanns myskunsemd er eilyf-

lega. * 1. Mos. 1/ 6. etc.

6 Honum/ sem * utþenur Jordena hia vatnenu/ Þvi hans myskunsemd er eilijflega. * 1. Mos. 1. 1/ 7/ 9. etc.

7 Honum/ sem * giorde þau storu lioos/ Þvi hans myskunsemd er eilijflega.
* 1. Mos. 1. 14/ 16.

8 * Soolena ad stioorna a deigenum/ Þvi hans myskunsemd er eilijflega.
* Ps. 74. 16/ 17.

9 Tungled og stiornurnar ad stioorna a nottunne/ Þvi hns myskunsemd er eilijflega

10 Honum/ * sem sloo Ægyptaland a þeirra frumburdum/ Þvi hans myskunsemd er eilijflega. * 2. Mos. 12/ 29. etc.

11 Og * færde Jsrael ut fra þeim/ Þvi hans myskunsemd er eilijflega.
* 2. Mos. 12/ 41.

12 Med einne megtugre hende/ og utrettum arme/ Þvi hans myskunsemd er eilijflega.

13 Honum/ * sem skipte þvi rauda hafe i parta/ Þvi hans myskunsemd er eilijflega. * 2. Mos. 14/ 21. Neh. 9/ 11.

14 Og liet Jsrael ganga midt i giegnum þad/ Þvi hans myskunsemd er eilijflega.

15 Og * uthratt Pharao og hans her i þad rauda haf/ Þvi hans myskunsemd er eilijflega. * 2. Mos. 14/ 28.

16 Honum/ sem færde sitt foolk i giegnum eidemorkena/ Þvi hans myskunsemd er eilijflega

17 Honum/ sem sloo stoora konunga/ Þvi hans myskunsemd er eilijflega.

18 Og * i hel sloo megtuga konunga/ Þvi hans myskunsemd er eilijflega.
* Ps. 135/ 10.

19 * Sihon þeirra Amorita konung/ Þvi hans myskunsemd er eilijflega.
* 4. Mos. 21. 24/ 34.

20 Og Og konungenn i Basan/ Þvi hans myskunsemd er eilijflega.

21 Og * gaf þeirra land til arfs/ Þvi hans myskunseme er eilijflega.
* Josv. 12/ 2. etc.

22 Sinum þienara Jsrael til arfs/ Þvi hans myskunsemd er eilijflega.

23 Þvi * hann minntest a oss/ þegar vier vorum underþrycktir/ Þvi hans myskunsemd er eilijflega. * 2. Mos. 3. 7/ 8.

24 Og leysti oss fra vorum fiandmonnum/ Þvi hans myskunsemd er eilijflega.

25 Honum/ sem giefur ollu hollde fædu/ Þvi hans myskunsemd er eilijflega.

26 Þacked Himnanna Gude/ Þvi hans myskunsemd er eilijflega.

## CXXXVII. Psalmur.

### Judanna Saungur i Babylon.

Hia Babylons fliootum/ þar sætum vier/ (og) grietum þar med/ nær vier minntunst a Zion.

2 Uppa vijdernn/ sem þar er midt i/ heingdum vier vorar hørpur.

3 Þvi þeir heimtu þar af oss/ sem hielldu oss faungudum/ (ad vier skylldum syngia) eirn saung/ og vera glader i vorre kvein an/ (seigiande: Synged fyrer oss (nockud) af Zions saung.

4 Hvornenn skylldum vier syngia Drottens saung i einu framande lande?

5 Gleyme eg þier * Jerusalem/ þa gleyme sier mijn hægre hønd. * Jer. 51/ 50.

6 Mijn * tunga lode vid minn goom/ ef eg ecke minnest a þig/ ef eg ecke læt Jerusalem vera yfer mijna mestu glede.
* Ezech. 3/ 2.

7 Drottenn minnstu a Edoms børn/ a Jerusalems dag/ þau/ sem seigia: giøred bert/ giøred bert/ allt til grundvallarens i henne.

8 Babels doottir/ * (þu sem munt verda) foreidd/ sæll er sa/ sem þier * * betalar þinn betalning/ sem þu betaladir oss med. * Es. 13/ 19.
** Jer. 50/ 29. C. 51/ 24.

9 Sæll er sa/ sem * tekur z lemur þijn ungu (børn) vid klett. * Es. 13/ 16. Openber. 2/ 23.

## CXXXVIII. Psalmur.

### Þacklæte fyrer Messiæ Riik. Davids.

Eg * vil þacka þier af mijnu giorvollu hiarta/ Eg vil syngia þier (lof) fyrer gudunum.
* Ps. 9/ 2.

2 Eg vil tilbidia giegnt þvi heilaga mustere/ og þacka þijnu nafne fyrer þijna myskunsemd og fyrer þinn sannleika/

Þvi

Þvi þu hefur giørt þitt nafn vegsam
legt yfer alla hlute med þÿnu orde.
3 Þann dag/ eg kallade a (þig/) þa bæn
heyrder þu mig / Þu styrkter mig med
krapte i minne sal.
4 Drottenn/ * aller konung^r a Jørdunne
skulu þacka þier/ nær þeir hafa heyrt
þÿns munns ord. * Ps. 68. 32/33.
5 Og þeir skulu syngia umm Drottens
vegu/ þvi Drottens dÿrd er stoor.
6 Þvi * Drottenn er hær/ og lijtur til
eins lÿtelmotlegs/ og er hær/ (enn) þeck
er þo þad / sem er langt fra.
* Ps. 113/ 5. etc.
7 Nær eg * geing midt i angistenne /
muntu hallda mier vid lÿfed/ þu munt
utrietta þÿna hønd yfer minna fiand-
manna reide/ og frelsa mig med þinne hæg
re hende. * Luc. 7/ 11.
8 Drottenn mun giøra ending (þar a)
fyrer mÿna skulld/ Drottenn/ * þÿn mysk
unsemd er eilÿflega/ Yfergief ecke þinna
handa verk. * Ps. 52/ 3. Luc. 1/ 50.

CXXXIX. Psalmur.

Umm Guds Forsioon.

1. Til saungmeistarans/ Davids psalmur
Drottenn/ * þu ransakader mig/ og
þeckter mig. * v. 23.
2 Hvort helldur eg sit edur
uppstend / þa veitstu þad / *
Þu skillder mÿna þanka aleingdar.
* Jer. 17/ 10.
3 Þu umkrÿnger minn gang og mÿna
legu/ Þu þeckter (grant) alla mÿna vegu.
4 Þvi þar er ecke eitt ord a minne tun-
gu/ sia/ Drottenn/ þu veitst þ alltsamann.
5 Bak og fyrer hefur þu myndad mig/
og * setter þÿna hønd yfer mig.
* 2. Mos. 23/ 22.
9 (Soddann) ad skynia / er mier forund-
runarlegt/ er ofhætt/ eg kann ecke na þvi.
7 Hvort * skal eg fara fra þÿnum Anda? og hvort skal eg flÿa fra þÿnu aug
lite? * Spek. 1/ 7.
8 Fare * eg upp til Himensens / þa ertu
þar/ og giøre eg sæng i Helvijte/ sia/ þa
ertu (þar.) * Amos 9/ 2.
9 Villde eg taka morgunrodans væn-
ge/ villde eg vera hia þvi ÿsta hafe/
10 (So) munde þo þÿn hønd fara mig
þar/ og þÿn hægre hønd hallda mier.
11 Og villda eg segia: myrkred ma þo
hylia mig / (so er) þo nootten eitt lioos
kringum mig.
12 * Myrkred er og ecke myrkt hia þier/
og nootten ma lÿsa sem dagurenn / sem
myrkred er/ so er lioosed. * Jak. 1/ 17.
13 Þvi þu/ þu aatter mÿn nÿru/ þu huld
er mig i uisiar moodur lÿfe.
14 Eg vil þacka þier / af þvi * eg i
hrædelegann (maata) er undarlegur (ord-
enn/) undarleg eru þÿn verk / og mÿn saal
þecker þad vel. * Job. 10/8. Ps. 119/73.
15 Minn lÿkame var ecke hulenn fyrer
þier/ þegar eg var giørdur i leyne/ (þeg-
ar eg vard kostulega) samannsettur nidre
i Jørdunne.
16 Þÿn augu saau mig / (þegar eg var
enn nu) otilbuenn/ og (þesser hluter) voru all
er skrifader i þÿna book/ a þeim døgum/
sem þeir urdu myndader/ ja/ (þegar þar
var) ecke eirn af þeim.
17 Þar fyrer / o Gud/ hvad kostulegar
eru * þÿnar hugsaner fyrer mier / hvad eru
þeirra summur storar. * Ps. 92/ 6.
18 Skyllde eg telia þær/ þa yrdu * þær
fleire enn sandur / Uppvaknade eg/ so er eg
enn nu hia þier. * 2. Kong. 4/ 29.
19 Gud / ad þu villder i hel sla eirn o-
gudlegann / og þier bloodgiriuga foolk/ vÿk
ed fra mier.
20 Þeir/ sem tala lastsamlega umm þig/
Þÿner fiandmenn tooku (þitt nafn) hæ-
feingelega.
21 Drottenn/ skyllde * eg ecke hata þa /
sem hata þig? og hafa viddbiood a þeim /
sem setia sig upp i moote þier? * Ps. 101/3
22 Eg hata þa med einu fullkomnu hat
te/ þeir urdu mÿner ovÿner.
23 * Rannsaka mig Gud/ og þecktu mitt
hiarta/ proofa mig/ og þecktu mÿna þan-
ka. * v. 1.
24 Og sia/ hvort þar er eirn sorgfullur
vegur i mier/ og * leid mig a eirn eilÿfann
veg. * Ps. 25 / 4. etc.

CXL. Psalmur.

Umm Frelse fra Fiandmønnunum.

* Til saungmeistarans/ Davids psalmur.

Drottiñ/ * frelsa mig fra eirnre vondre maneskiu/ og vernda mig fra einum rangsnunum manne.
* Ps. 43/ 1.

3 Peir/ sem þeinkia vondt i hiarta/ villdu daglega heyia strijd.

4 Peir * hvessa þeirra tungu/ sem eirn hoggormur/ Þar er nodru eitur under þeirra vorum/ Sela. * Ps. 5/ 10. Ps. 55/ 22.

5 Drottiñ/ vardveit mig fra eins ogudlegs hondum/ vardveit mig fra einum rangsnunum manne/ Fra honum/ sem þeynker ad hrinda mijnum gaungum.

6 Þeir drambsomu folldu eina snoru fyrer mig/ Og þondu eitt net med streing vid eirn stig/ þeir settu gylldrur fyrer mig/ Sela.

7 Eg sagde til Drottens: * þu ert miñ Gud/ Drottiñ/ merk mina bæna raust.
* Ps. 22/ 11.

8 Drottiñ/ Drottiñ/ mijns hiälprædes styrkur/ þu skyldar mijnu hofde * a strijds deige. * Ps. 78/ 9.

9 Drottiñ/ gief mig ecke i þess ogudlega villd/ Styrk ecke hans stræksskap/ Þeir þyrdu ad upphefia sig (þar af/) Sela.

10 Þeirra hofud/ sem umkringia mig/ (ja) þeirra vara mæda hylie þa (sialfa).

11 Þar skylldu glædur koma yfer þa/ Hañ skyllde nidur slæ þa i elldeñ/ i (diupar) grafer/ ad þeir skylldu ecke uppstanda (aptur.)

12 Eirn mælugur madur mun ecke stad festast a Jordune/ Eirn vondan rangsnueñ mañ/ hañ mun mañ ellta/ þar til hañ er olldunges burt rekeñ.

13 Þui eg veit/ ad Drottiñ * mun framfylgia þess vesæla mæleþne/ og hiña fatæku riette. * Ps. 9/ 19.

14 Ja þeir riettlatu munu þacka þijnu nafne/ þeir froomu munu bua fyrer þijne augsyn.

## CXLI. Psalmur.

### Bæn um Drottens Leidarvijser.

Davids psalmur.

Drottiñ / eg hroopa til þijn * kom snarlega til mijn / heyr mijna raust nær eg kalla a þig
* Ps. 40/ 14.

2 Lat mijna bæn verda stadfastlega / sem eitt reykelses offur fyrer þiñe augsyn/ * Miña handa upphafning/ sem eitt kvolld offur. * 2. Mos. 9/ 29.

3 Drottiñ/ * set eina vara-tekt fyrer miñ muñ/ haf gæt a miña vara dyrum.
* Ps. 39. 2.

4 * Hneig ecke mitt hiarta til nockurs ills/ til ad fremia ogudlegt athæfe med moñum/ (sem eru) illvirkiar/ ad eg skule ecke eta af þeirra sælgiæte.
* Ps. 119. 36/ 112.

5 Eirn * riettferdugur slæe mig/ (þad skal vera mier) eirn velgiørningur / og straffe mig/ þad skal vera mier eitt hofuds-oleum / þad skal ecke brioota mitt hofud/ þui eg skal eñ nu bidia i þeirra olucku. * Ordsk. 10/ 20. c. 12/ 1.

6 Þeirra doomarar eru nidur fellder hia einum klett/ og þeir hafa heyrt mijn ord/ ad þeir voru lystuger.

7 Vor bein eru sundur dreifd i helvijtes muña / so sem nær eirn hoggur og klijfur (trie) a Jorduñe.

8 Þui mijn augu * lijta til þijn/ Drottiñ/ Drottiñ/ eg reidde mig uppa þig / gior ei nakta mijna sal. * Ps. 123/ 2.

9 Vardveit mig * fra snoruñe/ sem þeir logdu fyrer mig / og fra illvirkiaña gylldrum. * Ps. 140/ 6.

10 Lat * þa ogudlegu falla/ (hvorn) i sitt net (eñ) * eg (mun blijfa) samt/ þar til eg geing fram um. * Ps. 7/ 16. Ps. 9/ 16.

## CXLII. Psalmur.

1 Davids bæn til undervijsunar/ þegar hañ var * i hellernum. * 1. Sam. 24/ 4.

Eg vil hroopa til Drottens med miñe raust / eg vil grætbæna Drottiñ med miñe raust.

3 Eg vil uthella mijnu mæle fyrer hans augsyn/ giefa mijna neyd til vitundar fyrer hans augsyn.

4 Þa miñ ande var angrædur i mier/ þa

þa þeckter þu miñ veg / Þeir føldu ei-
na snøru fyrer mig a stignum / sem eg
skyllde ganga a.

5 Eg giætte ad a hægre sijdu/og sa/
ad þar var eingeñ/ sem þeckte mig/ at.
hvarfed var burtu fra mier / Þar var
eingeñ hyrdande um mijna sælu.

6 Drottiñ / eg hroopade til þijn / eg
sagde : * þu ert mitt athvarf/mijn hlut
deild a þeirra lifendu lande. * Ps. 91/2.

7 Gief giætur ad mijnu kveine/ þvi eg
er miøg vlægadur/ * frelsa mig fra þe
im sem offsækia mig/þvi þeir eru mier
offsterker. * Ps. 7/2.

8 * Før mijna sæl af fængelsenu/ad
þacka þijnu nafne/þeir riettlætu mu
nu safnast i kring um mig / nær þu
giører vel vid mig. * Ps. 143/11.

## CXLIII. Psalmur.
### Bæn um Guds Frelse.
Davids psalmur

DRottiñ/ * heyr mijna bæn/ gief
giætur ad mijnum bænum/fyr
er þijns sañleiks skulld/ Bæn-
heyr mig fyrer þijns riettlæt-
es skulld. * Ps. 5/2. Ps. 17/1. Ps. 27/7.

2 Og * gack ecke i doom vid þiñ þien-
ara/ þvi ** eingeñ/sem lifer/kañ vera
riettlætur fyrer þier. * Ps. 119/124.
** Job. 9/ 23. etc.

3 Þvi fiandmadureñ offsookte mijna
sæl/hñ hratt mijnu lijfe til Jardar/hñ
* lagde mig nidur i myrkred / eins sem
þa daudu i verølldeñe. * Harm. 3/ 6.

4 Þar fyrer er miñ ande angradur i
mier / mitt hiarta er fordiarfad i mij-
nu lijfe.

5 Eg miñest a þa gømlu daga/ Eg
grundade ad øllum þijnum giørning/
Eg villde tala um þiña handa verk.
* Ps. 77/6.

6 Eg utbreidde mijnar hendur til þijn/
* mijna sæl (þyrster) epter þier / sem
eitt þurt land / Sela. * Ps. 42/3.
Ps. 63/2.

7 Drottiñ/ * bænheyr mig snarlega/
miñ ande forgeingur/Hyl ecke þitt and
lit fyrer mier/þvi eg munde verda þeim
lijkur/ þar fara nidur i grøfena.
* Ps. 28/ 1.

8 Lát mig árla heyra þijna mijskun-
semd/þvi eg hefe vonad a þig/kuñgiør
mier * þijna vegu / sem eg skule ganga
a/ þvi eg upplypte miñe sæl til þijn.
* Ps. 86/11. Ps. 139/44.

9 Drottiñ/ frelsa mig fra mijnum
fiandmøñu/hia þier hefe eg huled mig.

10 Kieñ mier/ad giøra þijna þocknan/
þvi þu ert miñ Gud/Þiñ Ande er good
ur/læt hñ fœra mig i þad riettta land.

11 Drottiñ/halltu mier vid lijfed fyrer
þijns nafns skulld/Frelsa mijna sæl af
neydeñe fyrer þijns riettlætes skulld.

12 Og afmá mijna fiandmeñ fyrer þiñ
ar mijskunar saker / og fordiarfa alla/
sem hryggia mijna sæl / þvi eg er þiñ
þienare.

## CXLIV. Psalmur.
### Þacklæte fyrer Sigurviñing.
Davids (psalmur.)

LOfadur vere Drottiñ mitt bia-
rg/hañ * sm lærer mijnar hend
ur til striijdsens / mijna fijngur
til bardagans. * 2 Sam. 22/35

2 Mijn mijskunseme og * mitt slot/mijn
(hæleit) verndan/og miñ frelsare fyrir
mig/Miñ skiølldur/og a hvørn eg hefe
vonad / hañ sem þvijngar mitt foolk
under mig. * Ps. 18/ 3.

3 Drottiñ/ * hvad er ein mañeskia/ad
þu villder þeckia hana ? eirnrar mañ-
eskiu barn/ ad þu villder virda þad?
* Ps. 8/ 5.

4 Ein mañeskia er lijk hiegooman-
um/Hañs dagar eru sm * eirn skugge/
þar burt fer. * Job. 14/ 2. etc.

5 Drottiñ/hneig þijna Himna/og far
ofañ/taktu a fiøllunum/ad þau riuke.

6 Lát leiptra vodñ/ og sundurtvistra
þm/utskioot þijnñ geysiñ/og skielf þa.

7 Utriett þijnar hendur af þvi háa /
leys mig/og frelsa mig af stoorum vøt
num / af eins framanda barna hende.

8 Hvørra muñur * talar lijge/ og hvør-
ra hægre hond er ein følsk hægre hø-
nd. * Ps. 36/ 4.

9 Gud/

9 Gud/ eg vil syngia þier * eitn nyañ saung/ Eg vil leika fyrer þier a psalt-araň med tiu(strengiū). * Ps. 33. 2/3 Ps. 92/ 4.

10 Þu sem * giefur konungunum sig-ur/ sem leyster David þiñ þienara fra einu vondu sverde * Ordsk. 21/ 31.

11 Leys mig/ og frelsa mig af þess fram anda barna hende/ hvorra muñur talar lyge/ og hvorra hægre hond er ein følsk hægre hond.

12 Ad vorer syner kyñu uppvaxa sem plantaner i þeirra ungdoome / Vorar dætur sem hyrningar (steinar) uthogg-ner epter musteres lykingu. * Job. 21/11

13 Ad vor herberge verde full/ sem kyñu giefa nægt ut/ einslags epter hina ad-ra/ Ad vorer sauder kuñe fæda þusund/ já fæda tyu þusunder a vorum gotum.

14 Ad vorer uxar kyñu vera feiter/ (Ad þar verde) ecke æhlaup / ei helldur ut-færsla / ei helldur klogun a vorū gotū.

15 Farsællt er þad foolk/ hvoriu þad so geingur/ (Eñ) sællt er þad foolk/ * hvørs Gud er Drotteñ. * Ps. 33/12.

## CXLV. Psalmur.

### Um Guds Vijsdoom og Giæsku. Davids lofgiørd.

D miñ Gud/ þu konungur/ eg vil upphefia þig/ Og lofa * þitt nafn æfenlega og alltyd. * Ps. 69/ 31.

2 Daglega vil eg lofa þig / og pryssa þitt nafn æfenlega og alltyd.

3 Drotteñ er stoor og miøg vydfrægur/ Og hañs magt er orañsakanleg.

4 Ein kynslood skal fortelia þeirre añ-are þyn verk / Og þær skulu kuñgiøra þitt vellde.

5 Þiñar volldugu dyrdar vegsemd / Og eg vil tala uñ þyna undarlega hlute.

6 Og þeir skulu tala uñ þiña hræde-legu hluta krapt / Og eg vil frañtelia þyna magt.

7 Þeir skulu (yferfliootanlega) uthella þiñar stooru giæsku miñingu / Og pryssa þitt riettlæte.

8 Drotteñ er * nædugur og myskunsam-ur / þoleñmoodur og af stoorre my-skun-semd. * 2. Mos. 34/ 6. etc.

9 Drotteñ er goodur vid þa alla / Og hañs mykla myskunseme er yfer øllum hañs verkum.

10 Drotteñ / øll þyn verk skulu þacka þier/ og þyner heilager lofa þig.

11 Þeir munu seigia af þyns rykes dyrd/ og tala uñ þitt vellde.

12 Ad kuñgiøra hañs vellde/ fyrer mañ eskiuñar børnum/ og hañs * rykes veg-samlega dyrd. * v. 5.

13 Þitt ryke er alldeiles eitt eilyft ryke / og þitt herradæme er æ og alltyd.

14 Drotteñ vidhelldur øllum þeim/ sem falla/ og * upplyfter øllum þeim nidur-slegnu. * Ps. 146/ 8.

15 Allra * augu vona a þig/ og * * þu giefur þeim þeirra fædu a sinum tyma. * Ps. 104/ 27. * * Ps. 136/ 25.

16 Þu upplætur þyna hond/ og sedur allt þad/ sem lifer/ (epter þiñe) vel þocknan.

17 Drotteñ er riettlætur i øllum synum vegū/ og myskunsamur i øllū synū verkū.

18 Drotteñ er nalægur hia øllum þeim/ sem kalla a hañ/ hia øllum/ sem kalla a hañ i sañleika.

19 Hañ * mun giøra þad/ sem þocknast þeim / sem hañ ottast / Og hañ heyrer þeirra kall/ og frelsar þa. * Ps. 37/ 4. Ordsk. 10/ 24.

20 Drotteñ vardveiter alla þa/ sem elska hañ/ eñ afmaer alla þa o-gudlegu.

21 Miñ muñur skal mæla Drotteñs lof/ Og allt holld lofe hañs heilaga nafn æfenlega og alltyd.

## CXLVI. Psalmur.

### Traust a Gude alleina. Halleluja.

Myn sæl/ lofa Drotteñ:

2 Eg * vil lofa Drotteñ/ so leinge eg life / Eg vil syngia mynum Gude (lof/) meðañ eg er til. * Ps. 104/ 33.

3 Reided ydur ecke uppa hofdingiana/ uppa eirnrar mañeskiu barn/ * sem kañ ecke frelsa. * Ps. 118. 8/9. Jer. 17/5.

4 Hañs * ande utfer/ hañ verdur ad siñe

Jord

Jørd aptur / A þeim sama deige forgeingur hans aſetningur.
* 1. Mos. 3/ 19. pred. 12/ 7.

5 Sæll er sa / * hvørs hialp Jakobs Gud er / Hvørs von er til Drottens hans Guds. * Ps. 40/5. Ps. 84/12.

6 Sem * giørde Himen og Jørd/ hafed og allt þad/ sem þar er i/ Hann/ sem hellдur lofaner æfenlega.
* P. G. 14/ 15. ect.

7 Sem setur þeim riett / er liþda ofrijke/ Sem giefur þeim hungrudu braud: Drottenn leyser þa bundnu.

8 Drottenn * giefur þeim blindu sijn: ** Drottenn upprietter þa nidurslegnu: Drottenn elskar þa riettferdugu.
* Luc. 18/ 35. ** Ps. 145/ 14.

9 Drottenn verndar þa framande/ hann vidhelldur fødurlausum og eckium/ Enn umbreiter þeirra ogudlegu veige.

10 Drottenn mun drottna æfenlega / Þinn Gud/ o Zion/ æ z alltijd/ halleluja.

## CXLVII. Psalmur.

Packlæte fyrer Guds Velgiørninga.

Lofed * Drottenn/ þvi þad er gott/ ad syngia vorum Gude (lof/) þvi hann er ununarlegur/ (Godd ann) lofgiørd er prijdeleg.
* Ps. 92/ 2. Ps. 134. 1. 2.

2 Drottenn bigger Jerusalem/ hann safnar þeim utreknu af Israel.

3 Hann læknar þa/ sem hafa * eitt sund urknosad hiarta / og bindur umm þa i þeirra veikendum. * Es. 61/ 1.

4 Hann * tekur tølu a stiørnunum/ hann nefner þær allar a nafn. * Es. 40/ 26.

5 Vor * Drottenn er stoor / og hefur stoorann krapt/ Þar er eingenn tala a hans vijsdoome. * Ps. 153/ 5. Ps. 145/ 3.

6 Drottenn * upprietter þa hogværu/ ogudlega læckar hann allt til Jardar.
* Ps. 146/ 8.

7 Syngед * (mootz hvør ødrum) fyrer Drottne med packlæte/ Lofed vorn Gud med hørpum. * Ps. 34/ 1. etc.

8 Hann * er sa/ sem þekur Himenenn med skyum/ sa/ sem skickar regn a Jørdena/ Sa/ sem lætur gras vaxa a fiøllunum.
* P. G. 14/ 17.

9 Sa/ * sem giefur dijrunum þeirra fædu/ Þeim ungu hrøfnum/ sem hro pa (til hans.) * Job. 39/ 4.

10 Hann hefur ecke lyst til hestsens styrkleika / Hann hefur ecke þocknan a mannsens beinum

11 Drottenn hefur þocknan a þeim/ sem hann ottast/ sem vona til hans mijskunar.

12 O Jerusalem/ prijsa Drottenn/ o Zion/ * lofa þinn Gud. * Ps. 146/ 10.

13 Þvi hann giører þinna porta steingur fastar/ hann blessar þijn børn midt þar i.

14 Hann setur frid i þijnum landamerkium / hann sedur þig med þvi besta hveite.

15 Hann sender sijna rædu a Jørdena/ hans ord hleipur fliootlega.

16 Hann giefur snioo/ sem ull/ hann dreifer hrijm froste sem øsku.

17 Hann utkastar sijnu isz/ sem (mulnu) bitum / Hvør kann standast fyrer hans froste?

18 Hann sender sitt ord/ z smellter þau/ Hann lætur sinn vind blaasa/ og vøtnenn flioota (framm.)

19 Hann * vijsar Jakob sijn ord/ Israel sijnar skickaner og sijn riettinde.
* 5. Mos. 29/ 29.

20 Hann * giørde ecke so vid nockurt foolk / og þeir kunnu ecke skynia þesse riettinde/ halleluja. * 5. Mos. 4/ 7.

## CXLVIII. Psalmur.

Allar Skiepnur lofe Drottenn.

Halleluja.

Lofed Drottenn * af Himnenum/ Lofed hann i þeim hæu (stodum.)
* Ps. 69/ 35.

2 Lofed hann * aller hans einglar/ lofed hann allur hans herskare.
* Luc. 2/ 13

3 Lofed hann sool og tungl / lofed hann allar lioosar stiørnur.

4 Lofed hann Himnanna Himnar / og þier vøtn/ sem erud yfer Himnunum.

5 Þau skulu lofa Drottens nafn/ Þvi þegar hann/ * hann baud þad/ urdu þau skøpud. * Ps. 33/ 9. Ps. 115/ 3.

6 Og hann helldur þeim alltijd / (iafn)

æfenlega/ Hañ gaf þeim eina skickan / og hun mun ecke forganga.

7 Lofed Drottenn af Jordeñe / þier drekar og øll undirdiupeñ.

8 * Elldur og hagl / snioor og ude / þu stormvidre/ sem framkvæmer hañs ord. * Ordsk. 39. 35/ 36/ 37.

9 Þier fioll og allar hæder/ avaxtar-søm trie og aller cedrus vider.

10 Villudyr * z øll dyr/ormar og fliugande fuglar. * Ps. 150/ 6.

11 Þier konungar a Jørduñe/ og allar þioodder / Høfdingiar og doomarar a Jørduñe.

12 Unger (sveinar) * og joomfrur og-so/ þier gamler med þeim ungu /

* Jer. 31/ 13.

13 Skulud lofa Drottens nafn/ Þvi hañs nafn alleina er upphafed / hañs vegsemd er yfer Jørduñe og Himneñu.

14 Og hañ hefur upphafed eitt horn fyrer sitt foolk / eiñ lofstyr fyrer alla hañs heilaga/fyrer Israels børn/(sm eru) eitt foolk/ sem er hønum nalægt/ halleluja.

## CXLIX. Psalmur.

Þacklæte fyrer Evangelium.

Halleluja.

Synged Drottne eitn nyañ saung/Hañs lof (skal vera) i þeirra heiløgu samkundu.

2 Israel gledie sig i hønum / * sem hñ giørde: Zions børn vere glød yfer þeirra konunge. * Ps. 100/ 3.

3 Þeir skulu lofa hañs nafn i dantze/ þeir skulu leika fyrer hønum med bumbum og hørpum.

4 Þvi * Drottenn hefur þocknan a synu foolke / Hañ prydder þa hoogværu med hiælpræde. * Ps. 147/ 11. Ordsk. 11/ 20.

5 Þeir heiløgu skulu gledia sig med dyrd/ Þeir skulu syngia (prys) i þeirra hvylu.

6 Þeir skulu upphefia Gud i þeirra halse/ og þar skal vera eitt miøg beitt sverd i þeirra hende.

7 Ad giøra hefnd a heidingiunum/ (og) straff a þioodunum.

8 Ad binda þeirra konunga med fiøtrum/ z þrra fryborna med jarn-vidiu.

9 Ad giøra þeim eitn skrifadañ riett/ Þesse dyrd skal heyra øllum hañs heiløgum til / halleluja.

## CL. Psalmur.

Allt lifande lofe Drottenn.

Halleluja.

Lofed Gud i hañs helgedoome / lofed hañ i hañs magtar utþande (festingu.)

2 Lofed hañ fyrer hañs mykla volldugleika / lofed hañ * epter hañs stooru magt. * Ps. 145/ 6.

3 Lofed hañ med basunu hlioom / * lofed hañ med psølturum og hørpum. * Ps. 98/ 5.

4 Lofed hañ med bumbum og dantze / lofed hañ med streingium og pypum.

5 Lofed hañ med klyngiande cimbalis/ Lofed hañ med fagnadar-cimbalis.

6 Allt þad/ * sm hefur ønd/ lofe Drottenn / halleluja.

* Openb. 5/ 13.

ENDER a Psalma Bookeñe.

# Ords-Kvida Bookeñ.

## I. Capitule.

Vitskuñar Feyngur.

Salomons/ * Davids sonar/ Israels konungs ords kvider. * 1. Kong. 2/12.

2 Til ad kieña vysdom og menkan/ ad skilia skyn søm ord.

3 Ad medtaka undervysunareñ ar menkan/ riettvysse og doom/ og * froomleika. * Ps. 25/ 21.

4 Ad giefa þeim einfølldu vitsmune / þeim unga þeckingu og hyggende.

5 Hvør sem er vitur/ heyre til/ og betre sig i lærdoomenum / og hvør sem er forstandugur/ fære good raad/

6 Ad ſkilia ordsKvid og utþyding/ hiña vyſſu ord/ og þeirra myrkvar rædur.

7 * Drottens otte er upphaf til vitſkunar/ Þeir heimſku foragta vyſdom og menkan. * Pſ. 111/ 10. etc.

8 Miñ * ſon/ hlyd þyns fodurs menkan/ og yfergief ecke þiñar moodur løgmaal. * c. 6/ 20.

9 Þvi þau eru eirn nadar prijde a þynu høfde/ og kedier um̃ þiñ hals.

10 Miñ ſon / nær ſyndararner locka þig/ * þa kom ecke. * c. 23/ 17.

11 Ef þeir ſegia : gack med oſſ/ vier vilium liggia i leyne epter bloode / fela oſſ/ i mote einum ſaklauſum aan ſakar.

12 Vier vilium ſvelgia þa lifande/ ſem helvijte/ ja alldunges/ ſem þa/ þar ofañfara i grøfena.

13 Vier vilium fiña allra handa frijdt goots/ (og) fylla vor hus med herfang.

14 Þu ſkallt hlutaſt um̃ med oſſ / vier vilium aller hafa eirn pung.

15 Miñ ſon / gack ecke a þeim veige med þm̃/ vara þiñ foot vid þeirra ſtig.

16 Þvi * þeirra fætur hlaupa til þeſſ illa / og þeir flyta ſier til ad uthelia bloode. * Rom. 3/ 15. etc.

17 Sañarlega / þad er forgiefens/ ad leggia net fyrer alls ſlags fugla augu.

18 Og þeſſer liggia i leyne epter þeirra (eigeñ) bloode/ þr fela ſig i giegn þeirra (eigeñ) ſaal.

19 So geingur þad til vid hvørn þañ/ ſem ſtundar epter agyrne / hun mun høndla ſiña (eigeñ) herra ſaal.

20 Spekeñ hroopar þar ute/ hun lætur ſig heyra a gøtunum.

21 Hun * hroopar fyrer/ a medal þeirra/ ſem buldra i portañ a dyrum / hun talar ſijn ord i ſtadnum. * c. 8/ 1.

22 Hvad leinge vilied þier fauviſer elſka fauitſkuna? og ſpottarar hafa ſier gaman af ſpotte? og gicker hata ſkynſemena?

23 Snued ydur til miñar ſtraffunar / ſia/ eg vil (yferfliootanlega) ut hella ydur mijnu anda / kuñgiøra ydur mijn ord.

24 Af þvi * eg hroopade/ og þier villdud ecke/ utbreidde mijna hønd/ og eingeñ agtade þad/ * Eſ. 65/ 12. c. 66/ 4. Ier. 7/ 13.

25 Og þier hafed læted allt mitt raad fara/ z villdud ecke hlyda miñe ſtraffun:

26 Þa vil eg / eg og * hlæia i ydar olucku/ ſpottaſt ad/ nær þad kiemur/ ſm̃ þier otteſt: * 5. Moſ. 28/ 63.

27 Nær * þad kiemur/ ſem eirn ſtormur / þad ſem þier otteſt fyrer / og ydar olucka fellur uppa / ſem eirn hvirfelvindur/ nær angiſt og neyd kiemur yfer ydur. * c. 10/ 24.

28 Þa munu þeir akalla mig/ * eñ eg ſkal ecke ſvara / þeir munu arla leita mijn / eñ ecke fiña mig. * Eſ. 59/ 2.

29 Af þvi ad þeir høtudu ſkynſemena/ og utvǫldu ecke Drottens otta/

30 Þeir ſiñtu ecke mijnu raade/ forøgtudu alla mijna ſtraffun.

31 So ſkulu þeir eta af þeirra vegar avexte/ og verda metter af þeirra raade.

32 Þvi þeirra fauvijſu frafall ſkal ſlaa þa i hel / og giekiaña lucka ſkal fordiarfa þa.

33 Eñ hvør * mier hlyder/ ſkal bua/ ohult / og ecke ottaſt fyrer oluckuñe. * Eſ. 1/ 19.

## II. Capitule.

Vijſdoomſins ſkal leita hia Gude.

Miñ ſon/ vilier þu medtaka mijnar rædur / og geyma mijn bod hia þier/

2 Ad læta þitt eyra giefa gaum ad vijſdoomenum/ (ſo þu) hneiger þitt hiarta til forſtands.

3 Ja/ ef * þu kallar epter forſtande/ lætur þig heyra um̃ forſtand/ * Iak. 1/ 5.

4 Ef þu leitar epter þvi / ſem epter ſylfre/ og grenſlaſt epter þvi/ ſem epter fieſiood.

5 Þa muntu ſkynia Drottens otta/ og fiña Guds þeckingu.

6 Þvi * Drotteñ giefur vijſdoom / af hañs muñe er þecking og forſtand. * Syr. 1. 1.

7 Hañ geymer þad rietta fyrer þa froomu/ hañ er eirn ſkiølldur fyrer þa/ſem ganga froomlega/

8 Ad vardveita rieffarens ſtigu/og hñ mun geyma ſiña heilagra veg.

9 Þa munktu ſkynia riettvyſe og dom/ og raadvendne/ (ia) allañ goodañ veg.

10 Nær vyſdoomureñ geingur þier til hiarta / og þyn ſaal hefur lyſt til forſtands.

11 Þa munu hyggendeñ vardveita þig/ (ia)forſtanded geyma þig/

12 Ad frelſa þig fra einum vondum veige/ fra einum mañe / ſem talar rængſnuna (hlute.)

13 Fra þeim / ſem yfergiefa þær riettu brauter/ ad ganga a myrkurſens vegum.

14 Þeir ſem gledia ſig ad giora illa / kætia ſig i ſynum vondum ſoikum.

15 Hvorra ſtiger eru bogner/og þirra veig er ranger.

16 Ad * þu frelſeſt fra einne framande konu/ fra einne okiendre/ſem ** gioret ſyn ord blyd. * c. 6/ 24 ** c. 5/ 3.

17 Hiñe/ ſem yfergiefur ſyns ungdoms herra / og ſem hefur gleymt ſyns Guds ſattmaala.

18 Þui heñar hus hneigeſt til daudans/ og heñar gaungur til ørendra.

19 Aller þeir/ ſem ganga til heñar/ munu ecke koma aptur / og ecke hitta a lyfſens ſtigu.

20 Uppa þad þu kuñer ad ganga a goodra veige/ z vardveita þirra riettlaatu ſtigu.

21 Þui * þeir raadvændu ſkulu bua i landenu/ z þeir (gagnſ)froomu verda apgangs þar i. * Pſ.37.9/11/29. Matth.5/5.

22 Eñ * oguðleger munu uppræteſt af landenu/ og forrædararner verda afmaad er þar af. * Job. 18/ 17.

III. Capitule.

Amiñing til Guds Otta.

Miñ ſon / gleym ecke mynu løgmaale/helldur ſaal þitt hiarta * vardveita myn bod/ * Pſ.119/11

2 Þui eitt langt lyf/ z (i mørg) aar ad lyfa/ og lucku/munu þau veita þier ryfuglega.

3 Ad myſkunſeme og trufeſte ecke yfergiefe þig/ Bind þau um þiñ hals/ſkrifa þau a þyns hiarta toblu.

4 Og þiñ (ſo)nnd og gooda underviſſan fyrer Gude og mañeſkiunum.

5 * Vona a Drotteñ i þynu gioruollu hiarta / og reid þig ecke uppa þitt forſtand. * Pſ. 118. 8/ 9.

6 Þecktu hañ i øllum þynum vegum / Og hñ/hñ mun giøra þyna ſtigu retta.

7 * Laat þier ecke þykia ad vera vys / (helldur) ottaſtu Drotteñ / og vyk fra þui vonda. * Eſ. 5/ 21. etc.

8 Þad mun verda þynum nafla heilnæmt/ og endurlyfga þyn bein.

9 * Heidradu Drotteñ af þynu gotze / og af alldrar þiñar inntektar fyrſta (ævexte.) * Luc. 14/ 13.

10 So ſkulu þynar hlødur verda fullar med vist / og þynar preſſur rifna af vyn-muſteñe.

11 * Miñ ſon/burt kaſta ecke Drottens typtan/ Og haf ei leida a hañs ſtraffe. * Ebr. 12/ 5.

12 Þui * Drotteñ ſtraffar þañ/ ſem hñ elſkar/Og hefur þocknan (a hønum/)ſim eirn fader a einu ſyne. * Openb. 3/19. etc.

13 Sæl er ſu mañeſkia * ſem þiñur ſpeke/Og ſu mañeſkia/ſem framber viſku. * Job. 28/ 28.

14 Þui þad er * betra ad kaupſlaga med henne/ eñ ad kaupſlaga med ſylfre / Og heñar inntekt (er betre) eñ (uppgrafed) gull. * c. 8. 10/ 19.

15 Hun er koſtulegre * eñ perlur/ og allt þad þu kañt æſkia / þad kañ ecke lykiaſt vid hana. * c. 8/ 11.

16 J heñar hægre hende * er eitt langt lyf/ J heñar vinſtre hende er rykdoomur og vegſemd. * c. 8/ 35.

17 Heñar veiger eru fryder veiger / og aller heñar ſtyger eru fridur.

18 Hun er lyfſens trie fyrer þa/ ſem na henne/ og ſæll er hvor af þeim / ſem hallda henne.

19 Drotteñ * grundvallade Jordena med vyſdoome / ſtadfeſte Hymnana med viſku. * Pſ. 33/ 6.

20 Fyrer hañs vyſdoom eru underdiupeñ

ad,

adgreind / og skyen mattu driupa med dogg.

21 Miñ son/lat þä ecke vijkia fra þijnu augum/ vardveit þad rietta z hyggendeñ.

22 Og þau skulu vera þinar salar lijf/ og nad fyrer þiñ hals.

23 So muntu ganga ohult a þijnum veige / ad * þiñ footur mun ecke steyta sig a. * Ps. 37/ 24.

24 Legger * þu þig/ þa muntu ecke ottast / Þu munt liggia / og þiñ svefn mun vera sætur. * Ps. 3/ 6.

35 Þu * munt ecke ottast fyrer hastarlegre skielfingu / et helldur fyrer hiña ogudlegu eydeleggìng/ nær hun kiemur.
* Ps. 112/ 7.

26 Þui Drottenn mun vera þitt * athvarf/ og hañ mun vardveita þiñ foot / ad hañ ecke fangest. * c. 10/ 29.

27 Afseig ecke ad giora þeim gott/sem þad ber ad hafa/ ef þijn hond hefur efne til ad giora þad.

28 Seig ecke til þijns naunga : gack burt og kom aptur / og a morgun vil eg giefa þier/ Med þvi þu (þo) hefur þad.

29 Upphugsa ecke vont i giegn þijnum vin / þvi hañ bijr hia þier uppa tru.

30 Þratta ecke vid eina mañeskiu fyrer utan sok/ef hñ hefur ecke giort þier illt.

31 Vertu ecke kieppeñ moote einum illgiornum mañe / og utvel aungvañ af hañs vegum.

32 Þvi eirn frafnueñ er Drottne ein viderstygd/Eñ * hañs heimugleg (rad) eru hia þeim froomu. * Ps. 25/ 14.

33 Drottens * bolvan er i þeirra ogudlegu huse. Eñ hañ mun blessa riettlatra bustad. * 3. Mos. 26/ 14. etc.

34 Sieu þeir spottarar/ þa mun hañ / hañ spotta þa/Eñ þeim hoogværu mun hañ giefa nad.

35 Þeir vijsu munu erfa heidur / Eñ (hvad) darum (er vidokiande) mun (hver af þeim) hreppa skomena.

## IV. Capitule.

Tækefære til ad syndga hlijtur Madur ad fordast.

Syner / Heyred fodursens uppfradingu / og merked/ad þeckia forstanded.

2 Þvi eg hefe giefed ydur eirn goodañ lærdoom / yfergiefed ecke mitt logmal.

3 Þvi eg var mijns fodurs son/aumingi og einaste fyrer minne moodur.

4 Og hañ kiende mier/og sagde til mijn : lat þitt hiarta taka vid mijnu orde/ Halt tu mijn bod/ so muntu lifa.

5 Kauptu spekena / kauptu viskuna/ (Og) * gleymdu ecke / og vijk ecke fra mijns munns rædum. * c. 3/ 1.

6 Yfergief hana ecke / so mun hun vardveita þig/ elska hana/so mun hun vernda þig.

7 Spekeñar * hellsta (er þad/) kauptu spekena/ og kauptu viskuna/ med ollu þvi þu kant fa. * Spek. 6/ 18.

8 Vird hana hatt/ so mun hun upphefia þig / Ef þu fadmar hana / * mun hun setia þig til heidurs.
* 1. Sam. 2/ 30.

9 Hun mun setia nadar prijde a þitt hofud / Vernda þig med eirnre værnre koronu.

10 Heyr / miñ son / og medtak mijnar rædur / so munu * þijns lijfs ár verda morg. * c. 3/ 2. 2. Mos. 20/ 12.

11 Eg * undervijsa þier a spekeñar vegge/ Eg * * leide þig a þeim riettu stigum. * Ps. 32/8. ** Ps. 27/11.

12 Ad nær þu geingur / þa skule þiñ gangur ecke verda þraungur. Og nær þu hleypur / skuler þu ecke steita þig.

13 Hondla menkanena/ lat hana eck sleppa/geim hana/þvi hun er þitt lijf.

14 Kom ecke a hiña ogudlegu stig / og gack ecke a þeirra vondu veige.

15 Lat hañ fara/ gack ecke a honum/ Vijk fra honum/ og gacktu fram hia.

16 Þvi þeir sofa ecke/fyrr eñ þeir hafa giort illt/og þeirra svefn burttekst/ nema þeir hafe fært eirn i skada.

17 Þvi þeir eta ogudlegleikans braud/ og drecka illgyrneñar vijn.

18 Eñ þeirra riettlatu stigur er sem

eitt skijnande liods/ þar framgeingur og lyser allt til hadeiges.

19 Þeirra ogudlegu vegur er sem myrk red / þeir vita ecke/ hvar yfer þeir mune falla.

20 Miñ son/ gief gaum ad mijnū ordū/ hneig þitt eyra til miña maalsgreina

21 Laat þær ecke fara fra þijnum aug um/vardveit þær midt i þijnu hiarta.

22 Þvi þær eru þrra lof/sm̄ þær fiña/ og þrra giorvalls holids læknisdomur.

23 Geym þitt hiarta framar øllu þvi þar geymest/ þvi lijfed utgeingur af þvi

24 Snu fra þier muñsens vanart/og laat varaña rangsleitne vera langt fra þier.

25 Laat þijn augu lijta riett æfram/ ꝫ þijnar augnabrijr riett fram undañ þier

26 Yfervegadu þijns foots gaungu / og aller þijner veiger munu stadfestast.

27 Vijk ecke til hægre edur vinstre han dar / snu þijnum fæte fra þvi vonda.

## V. Capitule.

### Aminning til Skijrlijfes.

Miñ son/ * gief gaum ad miñe speke/** Hneig þitt eyra til mijns lærdooms. * c. 4/ 20. ** ps. 45/ 11.

2 Ad vardveita hyggende/ Og ad þijn ar varer kuñe geyma vitskuna.

3 Þvi su framande /heñar varer nu nu driupa(sem hunangs-)kaka/og heñ ar muñur er * minkare eñ oleum.

* ps. 55/ 22.

4 Eñ þad sijdasta af heñe er beyskt/sm̄ malurteñ/ hvast/ sem eitt beitt sverd.

5 Heñar fætur gango * nidur til dauds ans/ heñar gaungur liggia til helvijtes

* C. 2/ 18.

6 Ad þu ecke skuler yfervega lijfsens stig/ þa eru heñar gaungur ostødugar/ so þu kant ecke þeckia þær.

7 So hlijded mier nu/ þier børn/ Og vijk ed ecke fra mijns muñs rædum.

8 Laat þiñ veg vera langt fra heñe / Og kom ecke nalægt til heñar hus dyra

9 Ad þu ecke/ (mæ skie/) skuler giefa framande þiñ heidur / og einum grim um þijn ær.

10 Ad þeir framande skule ecke / (mæ skie/) mettast af þijnu gotze / og þitt erfide ecke sie i eins framanda huse.

11 Og þu skuler sijdañ kveina/nær þitt holld og þiñ lijkame er fortært:

12 Og seigia: (æ/) þvi hafade eg agañ? og mitt hiarta forsmaade typtanena?

13 Og eg hlijdde ecke a miña lærefedra raust / ei helldur hneigde mitt eyra til þeirra/ sem kiendu mier?

14 Eg er strax (komeñ) til allrar o lucku/ midt i samkunduñe og søfnudenū

15 Dreck vatn af þijnum grefte / og reñande (vatn) midt af þijnum bruñe.

16 Laat þijnar uppsprettur reña ut / (hier og þar / og) vatns straumana a gøtunum:

17 Laat hañ heyra þier til / þier all eina/ og ecke þeim framande med þier.

18 Þijn uppsprettа skal vera blessud / og * gled þig med þijns ungdooms hust ru. * Pred. 9/ 9.

19 (Hun sie þier) ein elskuleg hind / og eitt indællt raadijr / laat heñar brioost alltijd giora þig lystugañ/ forlysta þig jafnañ i heñar kiærleika.

20 Miñ son/hvar fyrer villtu forlysta þig med eirnre framande / og fadma eirnrar framande barm:

21 Þvi * eins mañs veiger eru fyrer Drottens augum / Og hañ yfervegar allar hañs gaungur. * Job. 34/ 21. Jer. 10/ 23.

22 Þess ogudlega misgiørningar munu høndla hañ / og hañ mun halldast med siñar syndar snørum.

23 Hañ / hañ skal deya / af þvi hañ villde ecke laata sig aga / og fara villt/ fyrer hañs mykla daaruskapar skulld.

## VI. Capitule.

### Um Froomleika og Kostgiæfne / etc.

Miñ son / * siert þu borgunar madur fyrer þiñ naunga/ hafer þu sett þijna hond ut til hi ns framanda: * c. 11 / 15. C. 17/ 18.

2 Þa ertu fla̋ktur med þijns muñs ræd um/

um / og fangeñ i þyns muñs ordum.
3 (So)gior nu þetta/ miñ son/ og frya þig / þvi þu ert komeñ i þyns naunga hønd/ Gack / fall til foota/og styrk þiñ naunga.
4 Lat þyn augu ecke sofa / edur þynar augnabryr sofa.
5 Frya þig/sem eitt rádyr/af (jagtmañ sens)hende/ Og * sem eirn fugl/af fugla faungarans hende. * Ps. 124/ 7.
6 Þu late/gack til maursens/Sia hañs vegu/ og vertu vys.
7 (Eñ þo ad)hañ hafe aungvañ hofd ingia foorta edur herra/
8 Tilreider hañ(þo)syna fædu a sumreñu/safnar siñe fædu a haustenu.
9 Þu late/hvad leinge villtu liggia? nær villtu standa upp af þynum svefne?
10(Þu/sm̃ seiger:)eg(ma eñ nu)* lyted sofa / lyted dotta / lyted leggia hendurnar til samans ad liggia. * c. 20/ 13. C. 24/ 33.
11 So mun þiñ armoodur koma / sem eirn vegfarande/og þyn fatækt sem eiñ vopnadur madur.
12 Ein onyt mañeskia / eirn skadlegur madur geingur med eirn vanartugañ muñ.
13 Bender * med synum augum/teiknar med synum footum / vysar med synum fyngrum. * C. 10/ 10.
14 Þar er illgyrne i hañs hiarta/hañ upphugar alltyd illt / kiemur þrætu af stad.
15 Þar fyrer mun hañs olucka hastarlega koma/hañ mun snarlega sundurbrotna/ad þar mun eingeñ lækning vera.
16 Þessa sex hlute hatar Drottiñ / og þeir sio eru honum ein vidurstygd:
17 * Drambsom augu/ Ein folsk tunga / Og hendur / sem uthella hins saklausa bloode: * C. 21/ 4.
18 Eitt hiarta / sem upphugar ranglata þanka / Fætur / sem flyta sier ad hlaupa til þess vonda/
19 Eitt fals-vitne / sem talar lyge / og hañ / sem kiemur þrætum af stad i millum brædra.
20 Miñ * son/ halltu þyns fodurs bod/ og yfergief ecke þiñar moodur logmaal. * C. 1/ 8.
21 Bind þau jafnañ um̃ þitt hiarta/ fest þau þiett um̃ þiñ hals.
22 Nær þu geingur/mun þad leidseigia þier / nær þu leggur þig / mun þad vardveita þig / og þad mun tala til þyn / nær þu uppvaknar.
23 Þvi * bodorded er ein lyckt/og logmaal ed eitt lioos/ og mentanareñar strofsun er lyffsens vegur. * Ps. 119/ 105.
24 Ad * vardveita þig fra eirnre vondre kviñu/ fra * * eirnrar framande tungu blydlæte. * c. 7/ 5. * * c. 2/ 16.
25 Gyrnstu * ecke heñar frydleika i þynu hiarta/og lat hana ecke svykia þig med heñar augna bragm.
* 2. Sam. 11, 2/4.
26 Þvi fyrer eirnrar hoor-konu saker (kiemur þar ad vid eirn um̃ syder/ ) til eins stickes brauds/ og eins mañs husfru mun veida eina edla sal.
27 Mun nockur kuña ad taka elld i siñ barm/ so ad hañs klæde skylldu ecke breña?
28 Mun nockur ganga a gloodum / so ad hañs fætur skylldu ecke svidna?
29 So(geingur þad)honum/sm̃ geingur til syns naunga husfrur / Eingeñ verdur ostraffadur/sm̃ hrærer vid heñe.
30 Madur smanar ecke eirn þioof/ef hañ stelur ad metta syna sal / med þvi hañ er hungradur/
31 Og nær hañ verdur fundeñ/ * skal hañ giefa siofallt aptur / Hañ skal giefa alls syns hus goots
* 2. Mos. 22. 1/ 4.
32 Eñ sa / sem dryer hoor med eirnre kviñu/ er eirn daare/ Sa/sem vill fordiarfa syna sal/hañ/hañ ma giora þad.
33 Hañ mun fiña plaagu og skom̃/ og hañs hadung mun ecke afmast.
34 Þvi mañsens reide er ein vandlæking/og hañ mun ecke þyrma a hefndareñar deige.
35 Hañ mun ecke taka nockra forlykun(þar fyrer/) Og ecke vera til frids/ þo þu jafnvel villder giefa mikeñ skeink

## VII. Capitule.

### Eirnrar Hooru Utmalan.

Miñ

Min ſon / geym mÿ ar rædur / z geym mün bodord hia þier.
2 Halltu mÿn bod / ſo muntu lifa / og mitt logmaal ſem þiña augna ſtein.
3 * Bind þau uñ þÿna fÿngur / ſkrifa þau a þÿns hiarta toblu.
* C. 6 / 21.
4 Seig til ſpekeñar: * Þu ert mÿn ſyſter / og þu ſkallt kalla vitſkuna (þÿna) vinkonu. * Spek. 8 / 2.
5 Ad * hun vardveite þig fra eirnre framande kviñu / fra eirnre okuñugre / ſem giører ſÿn ord blÿd. * c. 2 / 16. C. 6 / 24.
6 Þvi eg leit ut af mÿns hus vindauga i giegnum mitt grinda verk.
7 Og eg ſaa a medal þeirra faavÿſu / eg vard var a medal barnaña / vid eirn ungañ daarlegañ (yngling /)
8 Sem gieck a gøtuñe / hia heñar horne / og gieck a veigenum hia heñar huſe /
9 J rockrenu / uñ kvollded a veigenum / þegar nootteñ var myrk og dim.
10 Og ſiaa / ein kviña mætte honum i hooru-ſkarte / og lyſtug i giede.
11 Hun var galeñ og ohlÿdeñ / heñar fæt ur kuñu ecke vera i heñar huſe.
12 Stundum er hun ute / ſtundum a gøtunum / og leyneſt hia øllum hornum.
13 Og hun greip til hañs / og kyſte hañ / hun forherdte ſitt andlit / z ſagde til hñs:
14 Eg heƒe * þackar offurs foorner (ad giøra /) J dag heƒe eg betalad mÿn heit.
* 3. Moſ. 3 / 3. etc.
15 Þar fyrer gieck eg ut ad mæta þier / ad leita i tÿma þÿns andlites / og heƒe funded þig.
16 Eg heƒe prÿdt mÿna ſæng med tiølldum / med miſlitū klædū aƒ Ægyptalande.
17 Eg heƒe yƒerſtokt mÿna ſæng med myrru / ſandel og einnamon.
18 Kom / laatum ockur ſænga ſamañ allt til morguns / laatum ockur forlyſta ockur i kiærleika.
19 Þvi madureñ er ecke heima hia ſier / hañ er fareñ * laangañ veg burt.
* Luc. 19 / 12.
20 Hañ took peninga-ſeckeñ med ſier / hañ mun koma heim til ſÿn / a þeim ákvedna deige.
21 Hun yƒertalade hañ med ſÿnum mørgu ſætu ordum / lockade hañ med ſÿnum blÿdu vørum.
22 Hañ ƒilgde ſnarlega heñe eƒter / eins ſem eiñ uxe kiemur til ſlaatrunar (beckſens /) og eins ſem vidiañ (kiemur) til ad reƒſa einum daara /
23 Þar til ein pÿla ſundrar hñs liƒur / eins ſem eirn fugl / ſem flÿter ſier til eiñrar ſnøru / z veit ecke ad þad gyllder hñs lÿƒ.
24 So heyred mier nu þier børn / og gieƒed gaum ad mÿns muñs rædum.
25 Laat þitt hiarta ecke vÿkia til heñar vega / laat þig ecke villa a heñar ſtigu.
26 Þvi hun heƒur fellt marga ſærda / og ſterker eru aller i hel ſlegner aƒ heñe.
27 Heñar hus eru veiger til helvÿtes ſem fara nidur til daudans (yñſtu) herbergia.

VIII. Capitule.

## Meſſias er Spekeñ.

Hun * ecke ſpekeñ hroopa / og vil ſkañ laata ſig heyra?
* C. 1 / 21.
2 Oƒañ a þeim hææu (ſtødum /) hia * veigenum / (a þeim ſtødum) hia ſtigunum ſtendur hun. * Pſ. 7. 8 / 12.
3 Vid porteñ framañvert i ſtadnum / þar ſem mañ iñgeingur ad dyrunum / mun hun uthroopa þad.
4 Til ydar / * þier meñ / vil eg hroopa / og mÿn rauſt (ſkal koma) til mañeſkiuñar barna. * Pſ. 49 / 3.
5 Þier faavÿſer / merked ſpekena / og þier daarar taked ydur til hiarta /
6 Heyred / þvi eg vil tala hoƒdinglegt / og opna mÿnar varer til froomleikaña.
7 Þvi miñ muñur ſkal tala ſañleika / og ogudlegleike (ſkal vera) * ein vidurſtygd fyrer mÿnar varer. * Pſ. 45 / 8.
8 Allar mÿns muñs rædur eru riettar / * þar er eckert rangt edur falſkt i þeim.
* Eſ. 53 / 9.
9 Þær eru allar riettar ƒyrer þañ vituga / og fromar ƒyrer þa / ſem ƒiña vitſku.
10 * Medtaked miñ aga / og ecke ſylƒur / og ſkynſeme fram̄ yƒer utvaled gull.
* C. 3 / 14. C. 16 / 16.

11 Þvi speke er * betre eñ perlur/ og aller þeir hluter/ madur heffur lyst til/ kuña ecke jafnast vid hana. * c. 3/ 15.

12 Eg speke/ eg by hia vitskuñe/ og þiñ uppa skynsamar huxaner.

13 Drottens * otte er ad hata vont/ drambseme og skærelate/ og eirn vondañ veg/ og eg hata þañ vanartuga muñ. * C. 16/ 6.

14 Rææd og þad retta heyrer mier til/ eg er vitskañ/ mier heyrer magteñ til.

15 Fyrer mig skulu konungarner drottna/ og rææd herrarner setta riettvysena.

16 Fyrer mig skulu hofdingiarner hafa hofdingia doomeñ/ og þeir ypparlegu/ (jæ) aller doomarar a Jordueñe.

17 Eg * vil elska þa/ mig elska/ og þeir mig leita ærla/ skulu fiña mig. * Joh. 14/ 21.

18 Rykdoomur og dyrd er hia mier/ varañlegt goots og riettlæte.

19 Miñ avoxtur * er betre/ eñ (uppgrafed) gull/ og helldur eñ (klært) gull/ Og myn tilekt/ helldur eñ utvaled sylfur. * C. 3/ 14.

20 Eg vil leida (foolk) a riettlætesens stig/ (jæ) mitt a riettarens stigum.

21 Ad læta þa/ sem elska mig/ erfa þad stadfasta/ og eg vil filla þeirra fiærsioodu.

22 Drotteñ ætte * mig i syns vegar upphafe/ jafnvel þa/ fyrr eñ hañ giorde nockud. * Sprk. 9/ 9.

23 Eg er iñsett fra eilyfd/ fra fyrsta/ fra Jardareñar upphafe.

24 Eg er fædd/ þegar underdiupeñ voru ecke/ þa uppsprettur voru ecke/ (edur) þeir stader/ er hafa myked vatn/

25 Fyrr eñ fiolleñ voru grundvollud/ fyrr eñ hædernar voru/ er eg fædd.

26 Hañ hafde ecke eñ þa giordt Jordena/ eda gotur/ eda þad ypparsta i Jardrykesens myklu dupte.

27 Þegar hañ tilreidde Himnana/ þa var eg þar/ Þegar hañ afcirklade * upp yfer underdiupenu. * Job. 26/ 10.

28 Þegar hũ feste skyeñ ofañ til/ þegar hañ feste underdiupsens uppsprettur:

29 Þegar hañ * sette hafenu syna mæl ingu/ og ad votneñ skylldu ecke ganga yfer hañs befalning/ þegar hañ lagde Jardareñar grundvelle. * Job. 38. 10/ 11 Ps. 104/ 9.

30 Þa var eg hia honũ/ sem sæ/ þar uppfoostrast/ og var (hañs) mykel lyst hvorn dag/ Sem liek alltyd fyrer hm:

31 Sem liek a hañs Jardar kringlu/ og * myn stoor lyst var med mañeskiuñar bornum. * 5. Mos. 33/ 3.

32 Og nu/ born/ heyred mier/ Þvi sæler eru þeir/ sem hallda myna vegu.

33 Heyred menteñ/ og verded vyser/ og læted hana ecke fara.

34 Sæl er su mañeskia/ sem hlyder mier/ ad vaka daglega fyrer mynum dyrum/ ad vakta uppa miña dyra stoolpa.

35 Þvi hvor mig fiñur/ * hañ fiñur lyfed/ og mun odlast velþocknan af Drottne. * c. 3/ 16.

36 Eñ hvor hellst þar syndgar i mooте mier/ skadar syna sæl/ Aller sem mig hata/ elska daudañ.

## IX. Capitule.

### Messiæ Rææd.

Spekeñ bygde sitt hus/ hioo syna sio stoolpa.

2 Hun slætrade synu slætur fie/ blandade sitt vyn/ og bioo sitt bord.

3 Hun utsende synar stulkur/ hun hroopade a þeim yfer hængande hæu(stodum) i borgeñe.

4 Hvor sem er fæviis/ hafe sig hingad/ jæ/ hun sagde til eins dæra.

5 Komed/ eted af mynu braude/ og drecked af vyneñu/ sem eg hefe æskeinkt.

6 Yfergiefed þa fævysu/ so munud þier lifa/ og ganged a skynsemeñar veige.

7 Hvor sem straffar eirn spottara/ hlytur ad taka vanvirdu uppa sig/ og hvor sem straffar hiñ ogudlega/ (hlytur ad taka vid) hañs skom.

8 Straffa ecke eirn spottara/ ad hañ skule ecke (mæ skie/) hata þig/ Straffa eirn vitrañ/ og hañ mun elska þig.

9 Kieñ þu einum vysum/ og hañ mun (þvi) vysare verda/ undervysa einum riett ferdugum/

verdugū/ og hañ mun betrast i lærdomenū.

10 * Drottens otte er visskunar upphaf/ og skynsemeñ er þeirra heilogu forstand. * Ps. 111/10.

11 Þvi * þijner dagar skulu verda marger fyrer mig/ og (þijns) lijfs aar skulu verda þier fleire. * c. 3. 2/ 16.

12 Siertu vijs/þa ertu þier vijs/og sierdu eirn spottare/þa skalltu bera þad fyrer þig alleina.

13 Ein dærleg kvinna er * villt/(jaa) heimskañ(skvalf/)og veit ecker. * c. 7/ 11.

14 Og hun situr vid sijns hus-dyr a einum stoole uppe i stadnum/

15 Ad hroopa til þeirra/sem ganga þar fram um/sem ganga riett a þeirra vegum/(seigiande:)

16 Hvør sem er fævijs/ hafe sig hijngad. Og til þess dærlega seiger hun:

17 Þau * stolnu votn eru sæt/ og þau leyndu braud eru lystug. * c. 20/ 17.

18 Eñ hañ veit ecke/ad þar eru srendeer/heñar giester eru i þvi diupa helvijte.

## X. Capitule.

### Gudhrædslañ.

Eirn * vitur sonur mun gledia eirn fodur/ eñ eirn ** dærlegur sonur er siñar moodur angist. * C. 15/ 20. etc. ** C. 17/ 25.

2 Orietferdugt * fie mun ecke gagna/ eñ riettlæted frelsar fra daudanum. * C. 11/ 4. Ezech. 7/ 19.

3 Drotteñ lætur ecke eins riettferdugs saal hungra/eñ hañ mun burthrinda hiña ogudlegu okre.

4 Ein * følsk hønd giører fætækañ/eñ þess ydna hønd giører rijkañ. * C. 12. 24/27.

5 Hañ sem safnar * um sumared/ er higgeñ/ (eñ)hañ/ sem sefur um kornskieruna/verdur til skamar. * c. 6/ 8.

6 Blessaneñ er yfer þess riettferduga høfde/eñ ranglæted mun hylia þeirra ogudlegu muñ.

7 Eins riettferdugs miñing er til blessunar/ eñ * þeirra ogudlegu nafn mun rotna. * Ps. 9/ 6. Ps. 34/ 17.

8 Hañ/ * sem er vijs af hiarta/medtekur boderdeñ/ eñ hañ verdur kollkastadur/ sem hefur dærlegar varer. * Ps. 141/5.

9 Hañ/ * sem geingur froomlega/mun ganga ohullt/eñ hañ/sem snijr sijnū vegū/ mun þeckiast. * Ps. 24. 3/4.

10 Hañ/ * sem bender med auganu/mun byrta mædu/ og hañ/sem hefur dærlegar varer/ mun kollkastast. * c. 6/ 13.

11 Eins * riettferdugs muñur er lijfsens uppspretta/Eñ hreckvijseñ mun hylia hiñ ogudlegu muñ. * Ps. 27/ 30.

12 Hatur uppvekur þrætur/ Eñ * kiærleikureñ byrger yfer allar yfertrodslur. * 1. Pet. 4/ 8.

13 A eins forstandugs vorum fiñst vijsdoomureñ/ Eñ a dærans hrygg skal vera hrijsed.

14 Þeir vitru munu geyma visskuna/ Eñ eins dæra muñur/ er hart nærre fordiorfuneñe.

15 Eins audugs goots er hañs fasta borg/Eñ hiña fætæku armoodur er(þeirra) fordiorfun.

16 Þad sem eirn riettferdugur giører/ er til lijfsens/ eñ * ogudlegra iñtekt er til syndar. * Luc. 15/ 19.

17 Ad hallda agañ/ er vegur til * lijfsens/ Eñ hañ/sem * * yfergiefur hirtingena/leider i villuna. * c. 14/ 27. ** C. 13. 1/ 18.

18 Sa sem leyner hatre/ hefur falskar varer/ og hañ/sem utbreider vanrigte/ er eñ dære.

19 Hvar mørg ord eru/ bregdst ecke yfertrodslañ/ Eñ hañ/sem helldur sijnum vorum/ er higgeñ.

20 Eins riettferdugs tunga er utvaled silfur/ (Eñ) hiña ogudlegu hiarta er einskes vert.

21 Eins riettferdugs varer munu fæda marga/ Eñ dærarner munu deyia i dæraskapnum.

22 Drottens blessan/ hun giører rijkañ/ og giører * ecke meire mædu med sier. * Ps. 127/ 2.

23 Þad er fyrer einum dæra/sem skiemtan/nær hañ giører eirn løst/ Eñ vijsdoomureñ er eins mañs forstand.

24 Þad sem eirn ogudlegur ottast fyrer/ þad mun koma yfer hañ/ Eñ hvad

þeir

þr riettferdugu girnast/ mun (Gud) giefa.

25 Eins sem eirn hvirfel-vindur fer yfer/ (so er) og * ogudlegur ecke (meir)/ Enn eirn riettferdugur er eitt eilijfur grundvollur. * c. 14/ 32.

26 Eins sem ediked er fyrer tennurnar/ og sem reykurenn fyrer augun/ So er hinn late fyrer þa / sem hann senda.

27 * Drottens otte mun leingia dagana/ Enn þeira ogudlegu aar munu styttast. * C. 14/ 27. C. 3/ 2. Ps. 128/ 4.

28 Þeirra riettferdugu væntan er glede/ Enn þeirra ogudlegu von mun forganga.

29 Drottens vegur er hins frooma styrkleike/ enn fordiorfunenn hefter til obootamønum.

30 Eirn riettferdugur mun * ecke skeika eilijflega / Enn þeir ogudlegu munu ecke bijgga i landenu. * Ps. 112/ 6.

31 Eins * riettferdugs munnur upphefur vijsdoomenn / Enn ein illgiorn tunga skal burt skierast. * Ps. 37/ 30

32 Eins riettferdugs varer munu þeckia hvad þægelegt er / Enn þeirra ogudlegu munnur skadsama (hlute.)

## XI. Capitule.

### Riettvijse i Hondlan og Breitne.

Folsk * vog er Drottne ein vidurstygd/ Enn ein full vigt er hans velþocknan. * c. 16/ 11. c. 20. 10/ 23.

2 (Nær) dramblate kiemur/ kiemur og forsmaan/ Enn vijsdoomurenn er hia þeim audmiuku.

3 Þeirra raadvandu froomleike mun leida þa/ Enn * yfertrodslu-mannanna vondska mun eydeleggia þa. * Ps. 52/ 7.

4 Audurenn mun ecke hialpa a reidennar deige / Enn riettvijsenn mun frelsa fra daudanum.

5 Eins frooms riettvijse mun giora hans veg riettann / Enn eirn ogudlegur mun falla fyrer sitt ogudlegt athæfe.

6 Hinna froomu riettvijse mun frelsa þa/ Enn yfertrodslumennerner munu fangast i illskunne.

7 Nær ein ogudleg manneskia deyr / mun (hans) von tapast / og þeirra sterku * traust er fortapad. * c. 10/ 28.

8 Enn riettferdugur verdur frelsadur af neydenne/ og eirn ogudlegur mun koma i hans stad.

9 Eirn hræsnare fordiarfar sinn naunga med munnenum/ Enn þeir riettlaatu munu frelsast fyrer forstand.

10 Ein borg mun gledia sig/ nær þ geing ur þeim riettvijsu vel/ og nær þeir ogudlegu fyrerfarast/ (þa verdur þar) fognudur.

11 Fyrer þeirra raadvondu blessan mun eirn stadur upphefiast/ Enn fyrer hina ogudlegu munn / mun hann nidurbriotast.

12 Eirn dare forakter sinn naunga/ Enn eirn vitur madur mun þegia.

13 Hvar/ (sem) * eirn baktalare fer fraamm/ operberar þad leynelega/ enn sa/ sem hefur eitt trufast hiarta / leyner þvi. * C. 20/ 19.

14 Hvar eingenn framsijne er/ (þar) mun foolked falla/ Hvar * marger raadgiafar eru/ (þar) geingur þad vel til. * c. 15/ 22. Syr. 6/ 25.

15 Nær eirn borgar fyrer einn framande/ þa fær hann vijst skada/ Enn sa/ sem hatar þad/ (sem lofa (fyrer adra/) er ohultur.

16 Ein misudleg kona mun ødlast vegsemd/ og þeir sterku ødlast rijkdoom.

17 Eirn miskunsamur madur giorer sijnu lijfe til gooda/ Enn eirn omiskunsamur hrygger sitt hold.

18 Nær eirn ogudlegur * giorer (neckud/) þa er þad) eitt falskt ervide/ Enn hann/ sem sær * * riettvijsenne/ fær vissuleg laun. * Ps. 37/20. * * Ordsk. 22/8.

19 So er riettvijsenn * til lijfsens/ eins sem sa/ þarer epter illu/ (fer) til sijns dauda. * c. 22/ 8.

20 Þeir rangsnunu i hiarta/ eru * ein vidurstygd fyrer Drottne/ Enn þeir/ sem hallda sig froomlega/ eru hans velþocknan. * c. 12/ 22. Ps. 5/ 7.

21 (Take madur jafnvel) hende i hønd/ so verdur eirn ogudlegur ecke saklaus / Enn þeirra riettvijsu sade skal undann komast.

22 (Sem) eitt skart af gulle i eins svijns nøsum/ er ein frijd kona/ sem vijkur fra skynsemenne.

23 Þeirra * riettvijsu gyrnder er þo good/ enn * * þeirra ogudlegu von (verdur til) ſtygdar. * c. 10. 24/ 28.
** Iob. 8. 13/ 14.
24 Þar er ſa/ * ſem byter ut (hier og þar/) og (hann) eikſt enn meira/ og þar er ſa/ ſem hætter/ framar enn riett er/ þo til armoods. * Pſ. 112/ 9.
25 Ein ſæl/ * ſem bleſſar/ mun verda feit/ og ſa/ ſem vokvar/ mun og verda (ſem) eitt regn. * 2. Cor. 9/ 6.
26 Hvor ſem germer korned / hønum bølvar foolked/ Enn bleſſanenn (kiemur) a hanns høfud/ ſem þad ſelur.
27 Hvør þar leitar ærla epter goodu/ leitar epter velþocknan/ Enn hvør þar leitar epter illu/ * hønum mun þad til falla. * Pſ. 7/ 17.
28 Hvor ſem ſig reider uppa ſinn rijkdoom/ mun falla/ Enn þeir riettferdugu munu grænka/ ſem eitt laufblad.
29 Sa/ ſem angrar ſitt hus/ mun fa ſtorm til arfs / og eirn dare mun vera hins vijſa þienare.
30 Eins riettferdugs ævøxtur er * lijfſens trie/ og ſa/ ſem nær ſaalunum/ er vijs. * c. 3/ 18. c. 15/ 4.
31 Sia/ * einum riettvijſum mun borg aſt a Iordunne/ Hvad myklu meira einum ogudlegum og einum ſyndara?
* 1. Pet. 4/ 18.

## XII. Capitule.

### Ageñ er goodur i øllum Stiettum.

Hvor ſem elſkar agann/ elſkar forſtand/ Enn hvør ſem hatar hyrtingena / er heimſkur.
2 Eirn * goodur/ mun ødlaſt velþocknan af Drottne/ Enn eirn mann/ ſem hefur illt i ſinne/ mun hann fordæma.
* v. G. 23/ 11.
3 Ein manneſkia mun ecke ſtadfeſtaſt i ogudlegleikanum/ Enn þeirra riettferdugu root mun ecke ſkeika.
4 Ein ydenn * kvinna er hennar husboonda korona / Enn nær hun vanvirder (hann/ þa er hun) ſem rotnan i hanns beinum.
* c. 31/ 10.
5 Hvad * þeir riettvijſu þeinkia / er riett / (Enn) hvad þeir ogudlegu rada underførult/ er ſvik. * 1. Kong. 12/ 6. etc.
6 Þad * er þeirra ogudlegu breitne/ ad liggia i leyne epter bloode/ Enn * * þeirra raddvondu munnur mun frelſa þa.
* c. 1/ 1 ** 1. Moſ. 37 22.
7 (Nær hann) kollkaſtar þeim ogudlegu/ þa ſkulu þeir ecke vera (framar/) Enn hinna riettferdugu hus ſkal ſtanda.
8 Eirn madur ſkal lofaſt epter ſinn ar vitſku (hattalage/) Enn hann/ ſem er fra ſnuenn af hiarta/ mun verda til ſkamar.
9 Hann/ ſem lætur ſig forſmaa / og tekur vara a ſier (ſialfum/) er betre enn ſa/ ſem er ſtolltur/ og vantar braud.
10 Sa * riettvijſe hefur umſorgun fyr er ſinnar beſtiu lijfe/ Enn hinna ogudlegu myſkun er (ſem) þeſſ grimma.
* 2. Moſ 23/ 5.
11 Sa/ ſem yrker ſinn akur/ mun mettaſt med braude / Enn hann/ ſem filger epter þeim orvitu/ er eirn dare.
12 Þeir * ogudlegu gyrnaſt þeirra von du net / enn þeirra riettvijſu ord munu giefa avøxt. * c. 2/ 14. c. 5/ 21.
13 I varanna yfertrodſlu er ein vond ſnara / Enn einn riettferdugur mun ſleppa fra angiſtenne.
14 Sierhvør ſkal mettaſt vel af ſijns munns avexte/ og (Gud) * mun betala eirnre manneſkiu/ hvad hennar hendur hafa forþienad. * Pſ. 62/ 13.
Matth. 16/ 27.
15 Eins * dara vegur er riettur fyrer hanns augum/ Enn hann/ ſem hlijder rade/ er vijs. * c. 18/ 2.
16 Eins dara reide mun þeckiaſt ſama dag/ Enn hann/ ſem dylur forſmaan/ er ſlægvitur.
17 Hann / ſem vill ſeigia ſannleikann / mun kunngiøra riettvijſena/ Enn * eitt falſkt vitne ſvik. * c. 6/ 19.
18 Þar er ſa / * ſem utleys eins ſem ſtijng med einu ſverde/ Enn þeirra vijſu tunga er læknis doomur. * c. 13/ 7.
19 Sannleikans vør mun blijfa ſtadføſt alltijd/ Enn ein følſk tunga er ecke nema eitt augnablik.
20 Þar eru ſvik i þeirra hiarta / ſem veika

verka vont / Eñ hia þeim/ sem rada til
fridar / er glede.
21 Þañ riettferduga skal eckert rang-
læte skie/ Eñ * þeir ogudlegu eru fuller
af illsku. * Ps. 32/ 10. Ps. 34/ 22.
22 Falskar * varer eru Drottne ein vidur
stygd/ Eñ þeir sem trulega hondla/ þock
nast honum. * C. 6/ 17. C. 11/ 20. Ps. 5/ 7.
23 Þad er eirn hreckvijs madur sem dyl
ur forstanded/ Eñ * dáraña hiarta mun
uthroopa dáruskapeñ. * C. 13/ 16.
24 Hiña * ydnu hond mun stioorna/ Eñ
eiñ svikfamur mun verda skatt skylldur.
* C. 10/ 4.
25 Sorgeñ i eins mañs hiarta * mun
beigia þad / Eñ eitt gott ord mun gledia
þad. * C. 15/ 13.
26 Eirn riettvijs hefur meir eñ hañs
naunge/ Eñ þeirra ogudlegu vegur mun
tæla þa.
27 Eirn svikafullur skal ecke steikia sij-
na brad/ Eñ þess ydna kostulegt(gootz)
er eirnar mañeskiu rijkdoomur.
28 A riettvijseñar stig er lijfed/ og(heñ-
ar) stijgs vegur er ecke daudeñ.

## XIII. Capitule.

### Framveiges um Barna Agañ.

Eirn * vitur sonur (hlyder) fodur-
sens aga/ Eñ eiñ spottare hlyd-
er ecke refsinguñe. * C. 10/ 8.
2 Sierhvor mun eta þad goo-
da af(sijns) muñs avexte/ Eñ yfirtrod-
slu mañaña sal (mun eta) ofriedeñ.
3 Hvor sem vardveiter siñ muñ/ geymer
sijna sal/(Eñ) sa/ sem upplætur sijnar
varer/ mun umturnast.
4 Þess lata sal gyrnest(og fær þad þo)
ecke / Eñ þeirra ydnu sal mun fitna.
5 Eirn * riettvijs hatar lijgeñar ord /
Eñ eirn ogudlegur gioerer sig fulañ og
svivirder. * Ps. 119/ 163.
6 * Riettvijseñ mun bevara þañ / sem
breiter fromlega/ Eñ ogudlegleikeñ mun
kollkasta syndeñe. * C. 10/ 30.
7 Þar er sa til/ sem helldur sig rijkañ/
og hefur eckert/ og sa/ sem helldur sig fa-
tækañ/ og hefur myked goots.
8 Med sijnum rijkdoome kañ madur ley-
sa sitt lijf / Eñ eirn fatækur heyrer
ecke hootan.
9 Þeirra riettvijsu lioos mun giora gle-
de / eñ * þeirra ogudlegu lykt mun ut-
slokna. * C. 24/ 20.
10 Med drambsæte reiser madur ecke
nema þrætu/ Eñ hia þeim/ sem radþæ-
ra sig/ er vijsdoomur.
11 Gootzed af hiegoomanum/ * mun eyd-
ast / Eñ hvor sem safnar med hendeñe/
mun auka þad. * C. 28. 19/ 20.
12 Von/ sem(leinge) undañdregst/ veiker
hiartad / Eñ nær þad kiemur/ sem mad-
ur gyrnest/ þa er þad lijfsens trie.
13 Hvor sem forakttar orded/ mun for-
diarfa sig(sialfañ/) Eñ hvor sem ott-
ast bodorded/ mun fa laun(þar fyrer.)
14 Þess vijsa lærdoomur er lijfsens upp
spretta/ til ad vijkia fra daudans snorum.
15 Ein good skynseme mun giefa vin-
semd / Eñ yfertrodslu mañaña vegur
er hardur.
16 Hvor / sem er hyggeñ / mun giora
(sijn verk) med skynseme / Eñ eirn dá-
re mun utbreida dáruskap.
17 Eñ ogudlegur sendebode mun fa-
lla i olucku / Eñ eiñ trufastur sende-
bode er læknisdoomur.
18 Hvor sem yfergiefur hyrtingena /
hefur armood og skom/ Eñ sa/ * sem
geymer hyrtingena/ mun heidrast.
* C. 10/ 8.
19 Nær þad kiemur/ sem madur gyrn-
est/ þa verdur þad hiartanu kiært/ Eñ
ad vijkia fra vondu / er dárunum ein
vidurstygd.
20 Hañ / sem umgeingst med vijsum /
mun verda vijs / Eñ hañ/ sem er dár-
aña stallbrooder/ mun fa oluckuna.
21 Oluckañ mun fylgia syndurunum /
Eñ hañ mun betala þeim riettferd-
ugu med goodu.
22 Eirn goodur mun giora/ ad barna
borneñ fae arf / Eñ * eins syndara
goots er geymt handa þeim riettvijsa.
* Iob. 27. 16/ 17.
23 Þar er mykel fædsla i þeirra fa-
tæku akurreinum/ eñ þar er sa til/ sem

